# FORNALDAR SÖGUR NORDRLANDA

EPTIR

## GÖMLUM HANDRITUM

UTGEFNAR

AF

## C. C. RAFN, P. D.,

Prófessor, Riddara af Danabrógi og Leiðarstjörnunni, Sekretèra hins konúngliga norræna fornfræða-fèlags, Medlimi konúngl. nefndarinnar til forngripa varðveizlu, hins skandínaviska lærdómslista-fèlags, hins íslenzka bókmenta-fèlags, hins kgl. norska vísinda-fèlags í þrándheimi, hinnar kgl. svensku vitterhets-, sagnafræða- og fornfræða-akademíu, hins kgl. skandínaviska sögufræða-fèlags í Stokkhólmi, hins kgl. þýzka fèlags í Konúngsbergi, hins kgl. böhmiska vísinda-fèlags í Prag, hinnar kgl. niðrlenzku vísinda-stiptunnar í Amsterdam, jarðarfræðafèlagsins í París, hinnar kolúmbisku vísinda-stiptunnar í Washíngton, hins amerikanska heimsspekinnar-fèlags í Phíladelphíu, hinna kgl. vísinda-akademía í Dýflini, Rouen, Bordeaux, Toulon og Aix, ásamt fornfræða- og bókmenta-fèlaganna í Stettín, Berlín, Brüssel, Lundúnum, París, Caen o. fl.

---

þRIDJA BINDI.

---

KAUPMANNAHÖFN, 1830.



# Formáli.

Sögur þær, er bindi þetta inniheldr, eru að frásögninni ærið óáreiðanligar, en allar eru þær 5 eða 6 hundruð ára gamlar, eru og líka at miklu leiti til á gömlum og góðum skinnbókum, og eru því þess vel verðar, að útgefnar verði í frumriti, bæði málsins vegna, og eigi síðr til merkis um forfeðranna hugmyndir og hugarfar í fornöldinni. Hinn lærði og nafnfrægi franski fræðimaðr *Depping*, sem hèr er helzt þekktr af riti því, er hann samið hefir um víkíngskap Norðmanna, hefir nýliga metið ena dönsku útleggíng tveggja fyrstu binda sögusafns þessa í enu stóra franska tímariti *Revue encyclopédique*, Jan. 1830, og farið þarum, meðal annars, svofeldum orðum: „Sèrhvað það, er um margar aldir hefir verið aðalskemtan einhvörrar þjóðar, verðskuldar jafnan allra heimspekínga aðgætni, þó eigi væri annars vegna, enn at kynna sèr af því geð þjóðarinnar í fornöld." Viðrauki sá, er sögur þessar beinlínis innihalda við ena norrænu sögufræði, er að vísu lítilfjörligr, og má þó í því skyni helzt nefna frásögnina um Starkað, er stendr í Gautreks sögu, er að öllu leiti ber það sjálf með sèr, að í henni er sönn lýsing Norðrlanda þjóða háttalags í forneskju. Aungvu að síðr gefa þó allar sögur þessar mörg og merkilig atriði hverjum djúpsærum sagnaritara í hendr, og má hann, ef við þær styðst, skapa sèr ljósa ímynd um mentun, geð, hugmyndir og átrúnað manna í þann tíma; hefir hann þá fyrst numið þann fróðleik, er

hann þarf til þess at geta sagt rètt frá sjálfum atburðunum.

Nú skal geta enna gömlu útgáfna af sögum þeim, er útgánga í bindi þessu, og þá handrita þeirra, er hagnýtt hafa verið við þessa útgáfu þeirra. Handrit þau, sem eigi verðr viðgetið hvaðan sèu, eru úr Handritasafni Arna Magnussonar á sívala turni hèr í Kaupmannahöfn.

1-2. SAGA GAUTREKS KONUNGS OG SAGA AF HROLFI KONUNGI GAUTREKSSYNI, bls. 1-190. Sögur þessar eru áðr útgefnar af *Ol. Verelius* með svenskri útleggíngu og látínskum skíríngargreinum undir titli: *Göthrici & Rolfi, Vestrogothiæ regum, historia, lingua antiqua Gothica conscripta. Upsaliæ* 1664. 8blf. Vikarsbálkr er prentaðr í *Björners Norðiska Kämpadater* aptan við Friðþjófs sögu.

Við útgáfu þessa hafa eptirfylgjandi bækr hagnýttar verið.

1. Til grundvallar er lagt pappírshandritið Nr. 590b, c, í 4blf. (*A*), sem inniheldr bezta meðferð sögunnar, og sem að öllu er samhljóða elzta skinnbókarbroti hennar, er til er. Handrit þetta hefir báðar sögurnar í samfellu, og er fjölorðara enn hin handritin, hefir líka fleiri vísur.

I Nr. 567 i 4blf. eru 2 skinnbókarblöð, meðal annara, af Hrólfs sögu; byrjar eð fyrra (*Aa*) í niðrlagi 14 kap., og er að öllu samhljóða *A*, og eins að rèttrituninni, t. d. hall (höll), jumfru, varit, kvamu, sva; en hið síðara (*Ab*) inniheldr nokkurn hluta 32 og 33 kap.; brot þetta er mjög gamalt, og án efa ritað í byrjun 14du aldar; það er æði máð, að nokkru leiti af því, að það hefir brúkað verið, að því sem sýnist, fyrir munstr að knippla á; er því ekki

öllu meir enn önnur síða þess læsilig; en svo mikið má sjá, að þetta ágæta skinnbókarbrot er að öllu samhljóða handritinu, sem sagan er hèr prentuð eptir; þess má enn geta, at *Arni Magnússon* á lausu blaði kallar fyrri söguna **Þátt af Gjafa-Ref ok Dalafíflum**.

2. Pappírshandritið Nr. 194a í arkarf. (*B*), er líka inniheldr báðar sögurnar; í það vanta nokkurjar vísur, og líkist það mjög næstfylgjandi bók.

3. *Vereliusar* útgáfa (*V*), sem hefir báðar sögurnar í samfellu; í hana vanta líka nokkurjar vísur.

4. Nr. 152 í arkarf. (*C*); er skinnbók, skrifuð í tveim dálkum, líkliga í 15du aldar lok. Í þessari skinnbók eru sögurnar sín í hvoru lagi, og stendr Hrólfs saga framar, og þó aðrar sögur þar í milli og Gautreks sögu, er skinnbókin hefir seinast; er aptarsta blaðsíðan æði máð, en þó læsilig. Frábrugðið í rèttritun bókarinnar er það helzt, að *th* víða stendr fyrir ð eðr *t*, t. d. **þath**. Samhljóða *C* eru pappírshandritin: Nr. 203b í arkarf., sem inniheldr báðar sögurnar, líka Nr. 358 í 4blf., Nr. 65 og Nr. 194b í arkarf., er eigi hafa nema Gautreks sögu, og enn Nr. 570b í 4blf., ómerkiligt skinnbókarbrot, er inniheldr seinustu 8 kapítula Hrólfs sögu.

5. Nr. 567 í 4blf. (*D*), er skinnbókarbrot eigi stærra enn 2 samföst blöð, og eitt blað úr sögunni miðt á meðal hinna, að líkindum skrifað á 14du öld; það byrjar í 1sta kap., sleppr þarnæst í upphafi 3ðja kap., sem er ólæsiligr, og tekr þá aptr til í niðrlagi Hrólfs sögu í 30sta kap., og nær framí 32an kap. Brot þetta er ærið frábrugðið *A*, í fyrra hlutanum, og þó enn meira hinum handritum, og á það við aðra meðferð sögunnar, mjög ólíka þeirri prentuðu og styttri, er pappírshandritin Nr. 194c, 164h og 203a í arkarf.

innihalda. Við þá meðferð hennar á líka skinnbókarbrotið Nr. 357 í 4blf. (*F*), er byrjar á Hrólfs sögu, og nær fram í miðjan 29da kap., vantar þó eitt blað í fyrra hluta 25ta kap.; skinnbókarbrot þetta er með fljótaskrift ritað, og er bæði rángt og illa skrifað, og því lítilsvert, t. d. stendr í upphafi þess „gjæfu röksöm at ráða" fyrir: Gjafa-Refs Reinssyni.

3. SAGAN AF HERRAUDI OK BOSA, bls. 191-234. Saga þessi er einnin útgefin af *Olafi Verelius* með svenskri útleggíngu og útskírandi orðaregistri á látínu, ásamt öðru yfir norræn nöfn, og nefnist: *Herrauds och Bosa Saga med en ny uttolkning jämpte gambla Götskan. Upsaliæ* 1666. 8blf. Þær við þessa útgáfu hagnýttu bækr eru:

1. Til grundvallar er lögð skinnbókin Nr. 577 í 4blf. (*A*), af útliti at ráða frá 15du öld; er ýmisligt fábreytiligt í rèttritun, t. d. leit fyrir lèt, havnum f. honum, þavrði (þ. e. þörði) f. þorði, tock (þ. e. took) f. tók, tacka (taaka) f. taka, Hárex f. Háreks, mands f. manns, kyrti f. kyrkti, barðdagi f. bardagi, bauðu f. báðu, hálfth, allth, villth, oppth, egh, f. hálft, allt, vilt, opt, ek, fylldi f. fylgði, mykill, myog f. mikil, mjök, no f. nú, laukreykja f. lokrekkja, haofi f. hófi (kap. 8, bls. 210). Eptir skinnbók þessari er pappírshandritið Nr. 361b í 4blf. (*Aa*) skrifað; hefir Arni Magnússon getið þess í athugasemd á blaði: *ex membrana quam habeo;* er sú afskrift með settletri, og greiniliga og vel skrifuð.

2. Skinnbókin Nr. 343 í 4blf. (*B*) inniheldr eigi nema 2 lítil brot sögunnar, það fyrra tekr yfir nokkuð af 1sta kap., en eð síðara frá því í 13da kap. og framí síðara hluta 16da kap.; en bók þessari er áðr lýst í formála 2 Bindis.

3. Skinnbókin Nr. 510 í 4blf. (*C*), er þaraðauki inniheldr aðrar sögur; hún mun vera rituð á miðri 15du öld; er henni áðr lýst við Friðþjófs sögu í 2 Bindi. Við söguna í bók þessari er pappírshandritið Nr. 361a að mestu samhljóða.

4. Pappírshandritið Nr. 340 í 4blf. (*D*), sem er skrifað eptir *B*, er þá hefir verið heil, er afskriftin var tekin. Henni er áðr lýst við Ketils sögu hængs og Gríms sögu Loðinkinna í 2 Bindi.

5. *Verelíusar* útgáfa (*V*).

Þess má geta, að úr sögunni er hèr sleppt, eins og hjá *Verelius*, á 3 stöðum greinum, er heldr þóktu klámfeingnar til að prentast, þó öll handritin hafa þær, og er þess viðgetið í athugasemdunum. Nokkuð *frábrugðin* meðferð sögunnar enni nú útgefnu er til í pappírshandr. Nr. 576(4), 586 og 591f í 4blf.; er hún bæði með öðrum orðum öll og líka stundum annars efnis.

4. GAUNGU-HRÓLFS SAGA, bls. 235-364. Saga þessi hefir eigi áðr útgefin verið; en nú eru handrit þessi hagnýtt við útgáfuna.

1. Til grundvallar er lögð stór skinnbók Nr. 152 í arkarf. (*A*), er líka inniheldr margar aðrar sögur, og þaráníeðal Hrólfs sögu og Gautreks sögu, sem áðr er getið. Bókin er eigi allvel skrifuð, og má þess hèr geta, er helzt þykir fábreytiligt í rèttritun sögu þessarar, að h ø g r skrifast fyrir h a u g r. Eptir *A* er pappírshandr. Nr. 338 í 4blf. skrifað.

2. Skinnbókin Nr. 2845 í 4blf. í því eldra Konúngl. handritasafni í Konúngsins stóru bókahirzlu (*B*), sem lýst er í 1sta Bindi við Norna-Gests þátt. I bókinni eru 2 brot sögunnar, og byrjar eð fyrra framan á sögunni, og nær frami 17 kap., en það síðara kemr við í 35 kap., og nær frami fyrra hluta 37 kap.

3 Skinnbókin Nr. 589f. í 4blf. (*C*) mun skrifuð á ofanverðri 15du öld, er líka má ráða af því að á seinasta blaðinu stendr 1487; hún er með líkri hendi og réttritun sem *B* af þorsteins sögu Víkíngssonar í 2 Bindi; eru og á henni Egils saga og Asmundar, Hálfdánar Brönufóstra og Sturlaugs starfsama sögur.

4. Pappírshandritið Nr. 592e í 4blf. (*D*) sleppir greinum úr sögunni; við það eiga pappírshandr. Nr. 169c í arkarf., sem nokkuð vantar í, Nr. 552d í 4blf., er eigi inniheldr nema fyrsta hluta sögunnar, og Nr. 587c í 4blf., sem inniheldr nýrra ágrip sögunnar; eru öll þessi handrit lítils verð.

5. SAGAN AF EIGLI EINHENDA OK ASMUNDI BERSERKJABANA, bls. 365-407. Saga þessi er áðr útgefin af *Petri Salan*, og nefnist *Fostbrödernas Eigils och Asmunds Saga af gamla Göthiskan uttolkad och med Anmerkningar förklarad af Petter Salan. Upsala* 1693 í 4blf.; en þjóðskáldið *Oehlenschläger* hefir í sorgarspilinu *Fostbrödrene* mjög skáldliga útmalað loforð Asmundar, að láta grafa sig með fóstbróður sínum, og fyrirburði þá er paráeptir urðu.

þessar bækr hafa nú hagnýttar verið við útgáfuna:

1. Til grundvallar er lögð skinnbókin Nr. 343 í 4blf. (*A*), og er pappírshandritið Nr. 340 í 4blf. skrifað eptir henni, en báðum þeim er lýst í 2 Bindi við Sögu Ketils hængs. þeim eru að mestu leiti samhljóða pappírshandritin Nr. 168, líka 169a með hendi Síra *Jóns Erlendssonar*, og 169c, sem nokkuð vantar í, og þá 203 í arkarf., og enn 582 í 4blf.

2. Skinnbókin Nr. 577 í 4blf. (*B*), er inniheldr nokkuð brot sögunnar, og áðr er getið við Herrauðs og Bósa sögu.

3. Skinnbókin Nr. 589e í 4blf. (*C*); hennar er og getið við Herrauðs og Bósa sögu, en pappírshandritin Nr. 526 og 592h í 4blf. eru henni að mestu leiti samhljóða.

4. *Salans* útgáfa (*S*); þess má um hana geta, að böndin á orðunum, sem verið munu hafa í handritinu, er hún var prentuð eptir, hafa optast verið rángt lesin, og hefir þaraf leidt margar prentvillur.

6. SÖRLA SAGA STERKA, bls. 408-452. Sagan er áðr prentuð með svenskri og látínskri útleggíngu í *Björners Nordiska Kämpadater*.

Við þessa útgáfu sögunnar eru eptirfylgjandi bækr hagnýttar (*A*):

1. Til grundvallar er lagt pappírshandritið Nr. 82b í 4blf. í Handrita-Viðbætirnum (*Additamentis*) í háskólans bókasafni.

2. *Björners* útgáfa (*B*); er hún miklu fjölorðari víða hvar, og að nokkru leiti frábrugðin, þó er óvíða önnur meiníng í frásögninni eða viðraukar við hana, og þat, sem hún hefir umfram *A*, er því lítilsvert.

3. Pappírshandritið Nr. 560d í 4blf. (*C*) er öllu samhljóða *A*.

4. Pappírshandritið Nr. 168 í arkarf. (*D*) er eigi mjög frábrugðið *A*, ferr það miðt í milli *A* og *B*, og er pappírshandritið Nr. 171 í arkarf. því helzt samhljóða, en sleppir þó greinum á milli, og er nokkuð frábrugðit, er það með fljótaskrift og lítils metanda.

7. SAGA AF HJALMTER OG ÖLVER, bls. 453-518. Saga þessi er áðr útgefin með svenskri útleggíngu, og nefnist *Hjalmters och Ölvers Saga, handlande om trenne Konungar i Mannahem eller Sverige, Inge, Hjamter och Inge, samt Ölver Jarl och om theras uthresor til Grekeland och Arabien vid pass i the första hundrade åhren efter Christi Födelse, af gamla*

*nordiska Språket å nyo på Svensko uthtolkad af Johan Frederich Peringskjöld. Stockholm* 1720, 4blf.

þessar bækr hafa nú við útgáfuna hagnýttar verið:

1. Til grundvallar er lagt pappírshandritið Nr. 30 (3) í 4blf. í enu konúngl. handritasafni í Stokkhólmi (*A*).

2. Pappírshandrítið Nr. 63 í arkarf. í téðu handritasafni (*B*), og hefir Hra. Yfirkennari Þorgeir Gudmundsson góðfúsliga samanborið handrit þessi fyrir útgefarann, er hann 1827 ferðaðist til Stokkhólms.

3. Pappírshandritið Nr. 109 í 8blf. (*C*) með hálfsettri hendi og harla ólæsiligt.

4. *Peringskjölds* útgáfa (*P*), er þvínær samhljóða hinum handritunum.

8. SAGA AF HALFDANI EYSTEINSSYNI, bls. 519-558 Sagan er áðr útgefin með svenskri og látínskri útleggíngu í *Björners Nordiska Kämpadater*. Nú eru þessi handrit hagnýtt við útgáfu sögunnar.

1. Til grundvallar er lögð skinnbókin Nr. 343 í 4blf. (*A*), sem lýst er í 2 Bindi við sögu Ketils hængs, og eru pappírshandritin Nr. 342 og 591c í 4blf. og þá Nr. 109 í 8blf. henni að mestu leiti samhljóða.

2. Skinnbókarbrotið Nr. 586 í 4blf. (*C*), er byrjar framan á sögunni, og nær framí 7da kap.; það er með sömu hendi og á við *B*-brotið sem um er getið við Asmundar sögu kappabana í 2ru Bindinu.

3. Pappírshandritið Nr. 340 í 4blf. (*D*) samhljóða *A*, og áðr lýst þar sem frá henni er sagt.

4. *Björners* útgáfa (*B*), er inniheldr frábrugðna meðferð sögunnar, og að því sem virðist, þeirri prentuðu ýngri; er hún bæði öðruvísi orðuð, og segir stundum frá öðrum atburðum enn *A*, og er þó mestr

munr þeirra í upphafi sögunnar, en þeim 2 síðustu kap. í *A* sleppir *B* með öllu. Þessari meðferð sögunnar eru pappírshandritin Nr. 171b í arkarf. og 583 í 4blf. samhljóða, og þá líka Nr. 82b í 4blf. meðal handritanna í Viðbætir Handritasafnsins.

9. HALFDANAR SAGA BRÖNUFOSTRA, bls 559-591. Sagan er áðr prentuð með svenskri og látínskri útleggíngu í *Björners Nordiska Kämpadater*.

Nú eru þessar bækr hagnýttar við útgáfuna:

1. Til grundvallar er lögð skinnbókin Nr. 152 í arkarf. (*A*), sem áðr er lýst við Gautreks og Hrólfs og Gaungu-Hrólfs sögur; eptir henni er pappírshandritið Nr. 295 í 4blf. skrifað; en pappírshandritið Nr. 297 í 4blf. þeim samhljóða.

2. Skinnbókin Nr. 571a í 4blf. (*D*); er hún allvel skrifuð og að ágizkun frá 15du öld; henni eru að mestu leiti samhljóða pappírshandritin Nr. 294, 297b, 591e og 568, öll í 4blf., og eru þau öll lítilfjörlig og með fljótaskriftarhendi, er það síðasttalda hálfmáit og því vart læsiligt.

3. Skinnbókin Nr. 589e í 4blf. (C), er inniheldr mikinn hluta sögunnar; hún er fremr samhljóða *A* enn *D*, og er þó eigi allmikið frábrugðin enni síðari; henni er hèr að framan lýst. Samhljóða *C* er pappírshandritið Nr. 296 í 4blf., einnig að miklu leiti Nr. 164h í arkarf.

4 *Björners* útgáfa (*B*) er lakligri enn hin handritin, og ferr þó nærr *D* enn *A* eða C að orðatiltæki; en bæði í *B* og *D* vantar einstakar málsgreinir, sem *A* hefir, og þá líka 14 kap.

10. SAGAN AF STURLAUGI STARFSAMA, bls. 592-647. Sagan er áðr útgefin, og nefnist Sagan af Sturlaugi hinum starfsama *eller Sturlög then arbetsames Historia*, *fordom på gammal Göthi-*

*ska skrifven och nu på Svenska uttålkad aff Gudmund Olofz Son. Upsala* 1694, 4blf.

Nú eru þessar bækr hagnýttar við útgáfuna:

1. Til grundvallar er lagt pappírshandritið Nr. 173 í arkarf. (*A*) með hendi *Asgeirs Jónssonar*, skrifara Þormóðar Torfasonar (Torfæi); samhljóða því eru pappírshandritin Nr. 172 í arkarf. með sömu hendi, líka Nr. 202e í arkarf. og 337 í 4blf. Sumstaðar virðist orðfærið afbakað og úr lagi fært í *A*, og eru þá orð til leiðréttingar tekin úr *B*.

2. Skinnbókin Nr. 335 í 4blf. (*B*); hún er bezt handritanna, sem brúkuð hafa verið við útgáfu sögunnar, og af réttritun og útliti að ráða frá byrjun 15du aldar, en er víða svo gjörmáð, að með öngvu móti mátti lesa hana alla, varð hún því eigi til grundvallar lögð.

3. Skinnbókin Nr. 589f í 4blf. (*C*), er líka inniheldr nokkrar af áðrtöldum sögum; í hana vantar nokkuð af sögunni, að öðru leiti er hún samhljóða *B*; pappírshandritið Nr. 336 í 4blf. er skrifað eptir henni.

4. Utgáfa *Guðmundar Olafssonar* (*G*) ferr meðalveg millum *A* og *B*; þaraðauki eru meðal sögubrota í Nr. 567 í 4blf. 3 opnur úr skinnbók í 12blf. af sögunni, en hvorki vel skrifaðar né gamlar og því einskis verðar.

**11.** SAGAN AF ILLUGA GRIDARFOSTRA, bls. 648-660. Saga þessi er áðr útgefin, og nefnist þar: Sagan af Illuga Grýðarfóstra *eller Illuge Grydarfostres Historia. Fordom på gammal Göthiska skrifven, och nu på Svenska uttålkad af Gudmund Olofsson. Upsala* 1695. 4blf.

Við þessa útgáfu eru eptirfylgjandi bækr hagnýttar.

1. Til grundvallar er lögð skinnbókin Nr. 123

í 8blf. (*A*), af útliti hennar að ráða skrifuð á ofanverðri 15du öld; hún er meðallagi vel skrifuð, og réttritun hennar þareptir. Samhljóða henni er pappírshandritið Nr. 591g í 4blf.

2. Pappírshandritið Nr. 203 í arkarf. (*B*) með hendi Síra *Jóns Erlendssonar*; við það ber pappírshandritunum Nr. 298, 363, 582 og 592a í 4blf., sem þó er æði afbakað, öllum saman, líka Nr. 193d í arkarf.

3. *Guðmundar Olafssonar* útgáfa (*G*), er helzt ber saman við *B*.

12. SAGA AF EIREKI VIDFÖRLA, bls. 661–674; hún hefir aldregi áðr verið útgefin.

Við útgáfu þessarar sögu eru eptirfylgjandi handrit hagnýtt:

1. Til grundvallar er lögð skinnbókin Nr. 657c í 4blf. (*A*); er það allgóð skinnbók og vel rituð, og trauðliga seinna enn á ofanverðri 14du öld; á henni er Saga Guðmundar biskups og fleiri sögur; réttritun í henni er lítt frábrugðin, t. d. Erecker, sackt, acker, spackligr, tock f. Ereckr, sagt, akr, spakligr, tók; dryke f. drykk; rjockjur f. rekkjur; rovksemd f. röksemd; hvogormum f. höggormum; suöri, sneyru f. snéri, snéru; hjöröt f héruð; gyorði f. gjörði; eygjum f. eyjum; Girkir f. Grikkir; erbiði f. erfiði; hegat f. híngat, ek kennig, að ek gjörag o. s. fr. Henni er að mestu samhljóða pappírshandritið Nr. 179 í arkarf. með hendi Síra *Jóns Erlendssonar*.

2. Flateyjarbók á Konúngsins stóra bókasafni (*F*); saga þessi er þar á 11–14 dálki, og er nokkuð fjölorðari þar enn í *A*. Af henni eru pappírshand-

ritin Nr. 193b í arkarf. og Nr. 346 í 4blf., er innihelldr 3 afskriftir af sögunni, sprottin.

3. Skinnbókin Nr. 2845 í 4blf. í enu eldra handritasafni í Konúngsins stóru bókahirzlu (*M*); henni er áðr lýst við Norna-Gests sögu í 1sta Bindi; saga þessi er þar mjög samhljóða meðferð hennar í *A*.

Eins og heitið var í 1sta Bindinu fylgir nú aptan við bindi þetta Registr yfir mannanöfn og staða, og enn eitt yfir hluti þá, er helzt mega gefa þeim, er slíks girnist, hugmynd um fornöld og háttu hennar, en öll eiga þau að gjöra lesendum brúkun söguflokksins hægari.

Kaupmannahöfn þann 28 Janúarií 1830.

---

# SAGA

# GAUTREKS KONÚNGS,

ER SUMIR KALLA

# GJAFA-REFS SÖGU.

# Saga Gautreks konúngs, er sumir kalla Gjafa-Refs sögu[1].

Her hefjum vèr eina kátliga[2] frásögn af einum konúngi, þeim er Gauti hèt; hann var vitr maðr ok velstiltr, mildr ok máldjarfr. Hann rèð fyrir Vestra-Gautlandi, þat liggr milli Noregs ok Svíþjóðar fyrir austan Kjölu alla, ok skilr Gautelfr milli Upplanda ok Gautlands. Þar eru stórar merkr ok íllt yfirferðar, þá er þelalaust er. Þessi konúngr, er fyrr nefndum vèr, fór optliga með hauka sína ok hunda á mörkina, því hann var hinn mesti veiðimaðr, ok þótti honum þat en mesta skemtan. Í þann tíma var víða bygt, þar sem miklir skógar voru umhverfis, þvíat margir menn ruddu mörkina, þar sem fjarlæg var almannabygð, ok gjörðu sèr þar alhýsi, sumir þeir sem flýð höfðu af almanna veg fyrir nokkur sín ránglig tiltæki; sumir flýðu fyrir ljóðæsku, eða nokkur æfin-

1) *þannig sjálfsögð yfirskrift*; Saga af Hrólfi Gautrekssyni, *höfuðyfirskrift fyrir báðum sögunum í A*; frá Gauta konúngi enum milda, *með nýari hendi C*; af Gautreki ok Hrólfi, *V*; *í endanum* Gjafa-Refs Saga, *öll*. 2) dáfalliga, *B*, *v. í C*.

týri[1], ok þóttust þá síðr spottaðir eðr hæddir verða, ef þeir værifjærri annarra manna athlátri, ok lifðu svâ út allan sinn aldr, at þeir fundu aungva aðra menn, enn þá sem hjá þeim voru. Þeir höfðu ok margir leitat sèr staðar lángt frá almanna veg, ok komu því aungvir menn þá heim at sækja, utan þat varð stundum, at viltust á mörkum, at menn hrötuðu[2] þá til þeirra heimkinna, þótt menn vildu þar gjarna aldrei komit hafa. Þessi konúngr Gauti, er fyrr nefnðum vèr, var farinn við sinni hirð, at veiða dýr á mörkinni með sínum enum beztum veiðihundum. Konúngrinn gat at líta einn fagran hjört, ok þetta sama dýr vildi hann gjarna veiða, ok slær lausum sínum veiðihundum, ok eltir þetta sama dýr með svâ miklu kappi, meðan dagrinn vannst til nætr. Hann var nú einn sinna manna, ok var kominn svâ lángt á mörkina, at hann vissi, at mátti eigi komast til sinna manna sakir náttmyrkrs ok lángrar leiðar, er hann hafði farit allan daginn; þat ok með, at hann hafði skotit þetta dýr með spjóti sínu, ok stóð þat fast í sárinu, en konúngr vildi þat með aungu móti láta, ef hann mætti ná, ok þótti skömm, ef hann næði eigi vâpni sínu. Hèr hafði hann álagt svâ mikit kapp, at hann hafði af sèr kastat öllum klæðum nema línklæðum; berfættr var hann, ok hafði aungva skúa, ok hafði víða rifit hans leggi ok iljar bæði grjót

[1]) óvizku, *B*; óvinátttur, *V*. [2]) hörfuðu, *V*.

ok skógrinn. Ekki náir hann dýrinu, tekr nú at myrkva af nótt, svå at aldrei veit hann, hvört hann stefnir, nemr nú stað ok hlýðir til, ef hann heyrði til nokkurs, ok litla stund hefir hann stað numit, áðr hann heyrir hundsgá, ok þángat gengr hann, sem heyrir hundinn geya, þvíat honum þótti þar helzt manna von. Þvínæst sèr konúngr húsabæ lítinn; þat sá hann, at maðr stóð úti, ok hèlt á viðaröxi. Þegar hann sèr, at konúngr stefnir til bæjar, hleypr hann at, ok drepr hundinn, ok mælti: eigi skaltu optar vísa gestum á garð vorn, þvíat þat sè ek gjörla, at sjá maðr er svå mikill vexti, at hann mun uppeta alla eign bónda, ef hann kemr hèr innan veggja, skal þat ok aldrei verða, ef ek má ráða. Konúngr heyrði orð hans, ok brosti at, hugsar hann þat með sèr, at hann var lítt viðbúinn úti at liggja, en þóttu eigi vísar viðtökur, ef hann biði þess, er honum væri innboðit, gengr djarfliga at dyrunum. Hinn ferr fyrir dyrnar, ok vill hann eigi inn láta. Konúngr lætr hann kenna aflsmunar, ok gengr or dyrum, þann er fyrir stóð. Konúngr gekk til stofu; þar voru fyrir fjórir karlar ok fjórar konur; ekki var þar heilsat Gauta konúngi; þó sezt hann niðr. Sá tók til orða, er honum sýndist búandligastr, ok mælti: hví lèztu þenna mann hèr inn koma? Þrællinn svaraði, sá er í dyrunum hafði staðit: þessi maðr var svå sterkr, at ek hafða ekki afl við honum. Ok hvat gjörðir þú, þá er hundrinn gó? Þrællinn svaraði: ek drap hundinn, þvíat ek vildi

eigi, at hann vísaði fleirum slíkum gaurum at garði, sem mèr lízt þessi maðr vera. Bóndi mælti: diggr þræll ertu, ok má eigi þèr um kenna, þó þessir ófimligleikir hafi orðit, ok er vandlaunat þèr þín umsjá, ok vil ek á morgin gefa þèr verðkaup, ok skaltu þá með mèr fara. Hús voru þar vel búin, ok menn vænir ok hæfiliga miklir. Þat fann konúngr, at þeir óttuðust hann. Bóndi lèt setja borð, ok var matr á borinn; ok er konúngr sèr, at honum mun ekki boðinn matr, stígr hann undir borð hjá bónda, tekr til matar ok snæðir djarfliga; ok er bóndi sèr þetta, hættir hann at matast, ok dregr hattinn fyrir augu sèr. Hvorugir tala hèr við aðra; ok er konúngr var mettr, lyptir bóndi upp hetti sínum, ok bað bera disk af borði, þvíat nú mun eigi mat at varðveita. Síðan fór fólk at sofa. Konúngr lagðist ok til svefns, ok er hann hafði litla hríð legit, þá kom kona til hans, ok mælti: mun eigi ráðligt, at þú þiggir beina at mèr. Konúngr svarar: þetta horfir vænliga, er þú vilt tala við mik, þvíat hèr eru dauflig hýbýli. Eigi þarftu þat at undra, þvíat vèr höfum aldrei gest átt á æfi vorri, ok þess get ek, at þú sèr bónda engi aufúsu[1] gestr. Konúngr mælti: vel mætti ek launa bónda fyrir allan þann kostnað, er hann hefir fyrir mèr haft, þá er ek kem til míns heimilis. Hún svaraði: til meira [get

[1]) ófúsu, *C*; aufúsa, *V*.

ek mun um[1] draga, enn vèr fáim sæmd af þèr í móti þessu tilfelli. Konúngr mælti: ek bið, at þú gjörir mèr kunnigt, hvörsu fólk yðvart heitir. Hún svaraði: faðir minn heitir Skafnörtúngr[2], því hefir hann þat nafn, at hann er svâ glöggr um kost sinn, at hann má eigi sjá, at þverri hvorki matr nè annat, þat er hann á: móðir mín heitir Tötra; því hefir hún þat nafn, at hún vill aldrei önnur klæði hafa, enn þat sem áðr er slitit ok at spjörum orðit, ok þikir henni þat mikil hagspeki. Konúngr spurði: hvat heita bræðr þínir? Hún svaraði: einn heitir Fjölmóði[3], annar heitir Imsigull[4], þriði Gillíngr. Konúngr mælti: hvat heitir þú eða systr þínar. Hún svarar: ek heiti Snotra, hef ek því þat nafn, at ek þótta vísust allra vor; systr mínar heita Hjötra ok Fjötra. Hèr er sá hamar við bæ vorn, er heitir Gillíngshamar, ok þar í hjá er stapi sá, er vèr köllum Ætternisstapa; hann er svâ hár, ok þat flug [fyrir ofan[5] at þat kvikindi hefir ekki líf, er þar gengr fyrir niðr; því heitir þat Ætternisstapi, at þarmeð fækkum vèr vort ætterni, þegar oss þikir stór kynsl við bera, ok deyja þar allir vorir foreldrar fyrir utan alla sótt, ok fara þá til Óðins, ok þurfu vèr af aungu voru forellri

[1]) getu mun, *C.* [2]) *þannig leiðrètt eptir því sem A hefir framvegis* Skafnaurtúngr, *hèr* Skafnautúngr; Skafnaurrúngr, *C*; Skaþmartúngr, *V hèr og framvegis*; Skafnartúngr, *hin.* [3]) Fjölmóðr. *hin allstaðar.* [4]) Ymsigill, *allstaðar, V.* [5]) ofan fyrir, *C.*

þýngsl at hafa nè þrjósku, þvíat þessi sældarstaðr hefir öllum verit jafnfrjáls vorum ættmönnum, ok þurfum eigi at lifa við fjártjón eða fæðsluleysi, nè engi önnur kynsl eðr býsn, þótt hèr beri til handa; nú skaltu þat vita, at föður mínum þikja þetta vera hin mestu undr, er þú hefir komit til húsa vorra, væri þat mikil býsn, þótt ótiginn maðr hefði hèr mat etit[1], en þetta eru með öllu undr, at konúngr, kallinn ok klæðalaus, hafi komit til húsa vorra, þvíat til þessa munu engi dæmi finnast; ok því ætlar faðir minn ok móðir á morgin at skipta arfi með oss syskinum, en þau vilja síðan, ok þrællinn með þeim, gánga fyrir Ætternisstapa, ok fara svâ til Valhallar; vill faðir minn eigi tæpiligar launa þrælnum þann góðvilja, at hann ætlaði reka þik or dyrum, enn nú njóti hann sælu með honum, þikist hann ok víst vita, at Óðinn mun eigi gánga í mót þrælnum, nema hann sè í hans föruneyti. Konúngr mælti: sè ek at þú munt vera hèr málfrómust[2], ok skaltu hafa mína hollustu, þikjumst ek sjá at þú munt mær vera, ok skaltu sofa í hjá mèr í nótt. Hún bað konúng því ráða. Um morguninn sem konúngr vaknar, mælti hann: þik kveð ek at þessu Skafnörtúngr[3], ek gekk til yðvars bæjar berfættr, því vil ek nú skúa af þèr

---

[1]) *hèr byrjar D, en með öðru orðatiltæki.* [2]) málfimust, *C, V.*
[3]) Skapnartúngr, C.

þiggja. Hann svarar aungu, ok fær honum skúa, ok dró úr þvengina. Þá kvað konúngr:

Skúa två
er mèr Skafnörtúngr[1] gaf[2]
þvengum er hann þar[3] nam,
[ills[4] manns kveð ek
aldrei verða[5]
grandalausar gjafir.

Síðan bjóst konúngr í braut, ok leiddi Snotra hann á götu. Konúngr mælti: bjóða vil ek þèr með mèr at fara, þvíat mèr er grunr á, at nokkut gjörist at okkrum fundi, ok ef þú ferr með sveinbarn, þá láttu Gautrek heita, ok drag svå af nafni mínu, ok rekstri þeim, er ek hefi haft til hýbýla yðvarra. Hún svarar: víss von þiki mèr á því, at þú getir þessu nær, en ekki má ek með þèr fara at sinni, þvíat í dag skal skipta með oss arfi syskinum eptir feðr vorn ok móður, þvíat þau ætla at gánga fyrir Ætternisstapa. [Konúngr bað hana vel lifa, ok bað hana koma á sinn fund, svå sem henni þætti tími til. Ferr konúngr, þar til er hann kemr til sinna manna, ok sezt nú um kyrt[6].

---

[1]) Skafnartúngr, *C*; Skafnartúnga, *D*. [2]) nískr á, *b. v. V*. [3]) þá, *C*, *V*. [4]) at ills, *C*. [5]) sjaldan verða vånds manns, *D*. [6]) Konúngr dregr þá gullhríng af hendi sèr, ok gefr henni, ok biðr hana þann bera til jarteigna, ef henni sýndist hans at vitja; ok eptir þat ferr hún heim aptr, *D*.

2. Nú er frá því at segja, þá er Snotra kom heim, sat faðir hennar[1] yfir fè sínu, ok mælti: með oss hafa orðit býsn mikil, er konúngr sjá hefir komit til vorra hýbýla, ok etit upp fyrir oss mikla eigu, ok þat sem oss henti sízt at láta; má ek eigi sjá at vèr megum halda öllu voru hyski fyrir takfæðar sakir, ok því hef ek samanborit alla mína eigu, ok ætla ek at skipta arfi með yðr sonum mínum, en ek ætla mèr ok konu minni ok præli til Valhallar; má ek eigi þrælnum betr launa sinn trúleika, enn hann fari með mèr: Gillíngr[2] skal hafa uxa minn hinn góða, ok þau Snotra, systir hans; Fjölmóði skal hafa gullhellur mínar, ok þau Hjötra, systir hans; Imsigull skal hafa korn allt ok akra, ok þau Fjötra, systir hans: en þess bið ek yðr, börn mín, at eigi fjölgið þèr lið yðvart, svâ at fyrir þat megi þèr eigi halda arfi mínum. Ok er Skafnörtúngr hafði talat slíkt, er hann vildi, eðr honum líkaði, fóru þau öll saman uppá Gillíngshamar, ok leiddu börnin föður sinn ok móður ofan fyrir Ætternisstapa, ok fóru þau glöð ok kát til Óðins. Nú er þau syskin voru í búi, þikist þau þurfa at hagræða fyrir sèr; þau taka sèr spítur, ok spíta vaðmál at sèr, svâ at ekki þeirra kemr við annat bert, þótti þeim þá trúast um unnit, at eigi mundi fólk þeirra fjölgast. Snotra fann þat með sjálfri sèr, at hún fór með

[1]) Gillíngr, *b. v. D.* [2]) Skafnartúngr, *allstaðar D.*

barni, þokaði hún þá spítunni í vaðmálinu, svâ at ná mátti hendi til. Hún lèt sem hún svæfi. En er Gillíngr vaknaði, eða raumskaði af svefni, varp hann hendinni frá sèr, ok kom við kinn hennar; ok er hann vaknaði, mælti hann: hèr hefir ófimliga tiltekizt, er ek skal hafa grand gjört þèr, mèr sýnist sem þú sèr miklu digrari, enn verit hefir. Hún svaraði: leyn þú þessu, sem þú mátt. (Hann svarar:) þau endemi mun ek eigi gjöra, þvíat þetta má með aungu móti leynast, síðan er fólk okkar fjölgast. Litlu síðar fæddi Snotra eitt fagurt sveinbarn, ok gaf nafn, ok kallaði Gautrek. Gillíngr mælti: stór býsn berr nú við, ok má eigi leyna, ok skal ek fara, at segja bræðrum mínum. Þeir mæltu: allt ráð vort vill nú fyrirfarast fyrir býsnum þessum, sem við berr, ok er þetta mikit lagabrot. Gillíngr kvað:

[Heimsliga ek veik
hendi til[1],
er ek kom við
kinn konu;
lítil líf [kveða
höfð til[2] líða sona[3],
af því var hann[4]
Gautrekr gjörr[5].

[1]) Hendi minni ek glætdaheimskliga þá, *D.* [2]) til, *v. í C.* [3]) sonar, *C.* [4]) *fyrir þat frá* [ *hefir D:* þèr kveða lýðir vera, en af þvi var þó. [5]) getinn, *C.*

Þeir kveða hann ekki mega um kunna, er hann yðraðist, ok vildi aldrei at þetta hefði orðit. Hann kveðst gjarnan vilja gánga fyrir Ætternisstapa, ok kvað talin smærri býsn. Þeir báðu hann bíða, hvat við bæri fleira. Fjölmóði sat at fè um daga, ok bar með sèr gullhellur sínar, hvört sem hann fór, ok einn dag sofnaði hann, ok vaknar við þat, at sníglar tveir svartir höfðu skriðit á gullhellu hans. Honum þótti dala eptir, þar sem döknat hafði gullit, ok sýndist honum mikit þorrit hafa. Hann mælir: mikit er at verða fyrir þessu fjártjóni, ok ef svâ berr optar til, þá mun eigi gott at fara snauðr til Óðins, ok mun ek gánga fyrir Ætternisstapa, ok verða eigi optar fyrir þessi fjárauðn, þvíat aldrei hefir orðit [jafn kolsvart[1] um mitt efni, síðan faðir minn miðlaði mèr fè. Hann segir bræðrum sínum þessi býsn, er við hafði borit, ok bað þá skipta arfi. Hann kvað þá:

Stuttir sníglar
átu steina fyrir mèr,
nú vill oss hvervetna háa[2];
snauðr mun ek snópa,
þvíat sníglar hafa
gull mitt allt grafit.

Síðan fór hann ok hans kona á Gillíngshamar, ok gengu síðan fyrir Ætternisstapa. Þat

1) svâ mikit, C. 2) hata, C.

var einn dag, at Imsigull gekk um akra sína, sá hann þar fyrir sèr þann fugl, er Spör heitir, er á vöxt er sem titlíng honum leizt hann nú; horfa skaðvænliga, gekk með akrinum, ok sá at fuglinn hafði tekit or axinu eitt kornit. Þá kvað hann:

Þat var spèll
ok[1] spör um vann
á akri Imsigulls
axi var skátt;
or[2] var korn numit,
[þat mun æ Tötru ætt um trega[3].

Síðan fór hann ok hans kona, ok gengu þau glöð fyrir Ætternisstapa, ok vildu eigi fá optar slíkan skaða. Gautrekr var þá úti, er hann sá uxann góða; hann var 7[4] vetra, honum varð þat fyrir, at hann lagði uxann með spjóti til bana; ok er Gillíngr sá þetta, þá kvað hann:

Úngr sveinn
drap uxa fyrir mèr,
(þetta) eru bannvæn býsn;
mun ek aldri eiga[5]
jafn góðligan
grip, þó ek gamall verði.

Hann mælti: nú er eigi viðsæmanda, fór hann síðan á Gillíngshamar, ok gekk þaðan fyrir Ætt-

[1]) er, *D*, *V*. [2]) ok, *C*. [3]) þ. m. ei Tötru of t., *D*; því slikt mun ætt vor t., *V*. [4]) 12, *D*. [5]) *þannig V*; síðan, *b. v. A og hin.*

ernisstapa. Nú voru þau tvö eptir, Snotra ok Gautrekr, son hennar. Hún býr sik, ok bæði þau, til brautferðar, fara nú þángat til, er þau finna Gauta konúng; tekr hann vel við syni sínum; fæðist hann þar upp með hirð föður síns, ok var bráðgjörr á allan þroska, ok líða nú svâ fram nokkurir vetr, þar til er Gautrekr var mjök fullkominn at þroska; þá bar svâ til at Gauti konúngr tók sótt, ok kallaði til sín vini sína. Konúngr mælti: þèr hafið verið mèr hlýðnir ok eptirlátir í öllu, en nú þiki mèr mikil von, at þessi sótt, er ek hefi, skilì vora vingan, vil ek ríki þetta, er ek hefi átt, gefa Gautreki, syni mínum, ok þarmeð konúngs nafn. Þeim líkaði þetta vel, ok eptir andlát Gauta konúngs var Gautrekr til konúngs tekinn yfir Gautland, ok er hans víða getit í fornum sögum. En nú víkr þessi sögu nokkra stund norðr í Noreg, ok segir frá þeim fylkiskonúngum, er þar voru í þann tíma, ok frá þeirra afkvæmi; þá síðan víkr þessi sögu aptr til Gautlands til Gautreks konúngs ok sona hans; svâ hit sama gengr þessi saga um Svíaríki ok víða annarstaðar.

3. Húnþjófr[1] hèt konúngr, er ráðit hefir fyrir Hörðalandi[2], hann var son Friðþjófs ens frækna ok Íngibjargar ennar fögru; hann átti 3 sonu; Herþjófr hèt sonr hans, er síðan var konúngr á Hörðalandi, annar hèt Geirþjófr

[1]) Friðþjófr, *C;* Hundþjófr, *B, V.* [2]) Hörðaríki, *C.*

Upplendínga konúngr, þriði var Friðþjófr Þelamerkr konúngr. Þessir voru allir ríkir konúngar ok hermenn miklir, en þó var Herþjófr konúngr fyrir þeim at viti ok ráðagjörð; hann var laungum í hernaði, ok varð hann af því frægr mjök. Í þenna tíma var sá konúngr á Ögðum, er Haraldr hèt, ok var ríkr konúngr; hann var kallaðr Haraldr enn[1] Egðski; Vikar hèt son hans, hann var þá úngr ok efniligr. Stórvirkr hèt maðr, hann var son Starkaðar Áludrengs. Starkaðr var hundvís jötun, [hann hafði 8 hendr[2]. Hann tók úr Álfheimum Álfhildi, dóttur Álfs konúngs. Álfr konúngr hèt þá á Þór, at Álfhildr skyldi aptr koma. Þá drap Þór Starkað, en flutti Álfhildi heim til föður síns, ok var hún þá með barni. Hún fæddi son þann, er Stórvirkr hèt, er áðr er nefndr, hann var fríðr maðr sýnum, ok þó svartr á hár, meiri ok sterkari enn aðrir menn; hann var víkíngr mikill, hann kom til hirðar Haralds konúngs á Ögðum, ok gjörðist hans landvarnarmaðr. Haraldr konúngr gaf honum ey, þá er Þruma heitir, [á Ögðum[3], ok þar bjó Stórvirkr. Hann var laungum í hernaði, en stundum var hann með Haraldi konúngi. Stórvirkr nam á braut Ani[4], dóttur Freka jarls[5] af Hálogalandi, ok fór síðan heim til bús síns í Þrumu. Þau áttu son, er Starkaðr hèt. Syn-

[1]) digri ok enn, *C.* [2] *v. í C, V.* [3]) *v. í C.* [4]) Önnu, *B, V.* [5]) konúngs, *C.*

ir Freka [jarls Fjöri ok Fýri[1], mágar Stórverks[2], komu á bæ hans um nótt á óvart með her, ok brendu bæinn ok Stórverk inni ok Ani, systur sína, ok alla menn þá er þar voru, þvíat þeir þorðu eigi dyr upp at lúka, ok hræddust, at Stórvirkr mundi út komast. Þeir sigldu síðan á braut um nóttina, ok norðr með landi, ok annan dag eptir, er áleið, gjörði at þeim storm, ok sigldu þeir í boða fyrir Staði, ok týndist þar öll skipshöfn þeirra. Starkaðr, sonr Stórvirks, var þá úngr, er faðir hans lèzt, ok fèkk Haraldr konúngr honum þá fóstr með hirð sinni. Svâ segir Starkaðr frá:

Þá var ek úngr,
er inni brann
frekna[3] fjöld[4]!
með feðr þjóð,
[nær vâgi[5] fyrir
Þrumu innan[6],
her hrauðtuðr[7]
Haralds ens Egðska,
ok mennbrota
mágar[8] veltu
Fjöri ok Fyri,
freka arftegar,

---

[1]) Fjörvi ok Fyrvi, *B*, *V*. [2]) *frá* [ *v. í C*. [3]) flokkna, *B*, *C*. [4]) ferð, *C*. [5]) *giskað*, nerúngi, *A*. [6]) menn anni, *C*. [7]) tapaðist, *C*. [8]) *í stað þess frá* [: minning fyrir Þrumu manna hendr hersis Haralds Ögðska ok meinbrota margir, *B*.

Unnar bræðr
eiðu minnar[1].

4. Herþjófr Hörðalands konúngr fór með her at Haraldi konúngi um nótt á óvart, ok drap hann í trygðum, en tók í gislíng Vikar, son hans. Herþjófr konúngr lagði undir sik ríki þat allt, er átt hafði Haraldr konúngr, ok tók margra ríkra manna sonu með valdi ok í gislíng, en tók skatta af öllu ríki. Grani hèt einn ríkr maðr í liði Herþjófs konúngs; hann var kallaðr Hrosshársgrani. Hann bjó í ey þeirri á Hörðalandi, er Fenhríng hèt, at þeim bæ, er á Aski heitir. Hann tók at herfángi Störkuð Stórvirksson, ok flutti hann í Fenhríng. Þá var Störkuðr þrèvetr. Hann var 9 vetr í Fenhríng með Hrosshársgrana. Svâ segir Starkaðr:

Þá er Herþjófr
Harald umvelti
sèr ójafnan
sveik í trygðum,
Egða drottinn
öndu[2] rænti,
en hans sonum
haftbönd[3] snèri.
Þrèvetran[4] mik
þaðan af flutti

[1]) arfar Unnar bróðir eiðu runnar, *B*; *frá* nær vâgi *v.* í *V.*
[2]) auðnu, *C.* [3]) helstund, *B*; höfuðland, *V.* [4]) þrèveturn, *A.*

Hrossharsgrani
til Hörðalands;
nam ek á Aski[1],
upp at vaxa,
[sákat niðja[2]
á níu vetrum[3].

Herþjófr konúngr var hermaðr mikill, ok var laungum í hernaði, ok var þá mjök herskátt í ríki hans. Hann lèt hlaða vita á fjöllum, ok setti menn til at gæta ok skjóta upp vitum, ef ófriðr kæmi. Vikar gætti vitanna á Fenhríng við þriðja mann, ok skyldi þaðan vita fyrst upp kinda, ef her væri sènn, en síðan hvorn at öðrum. En er Vikar hafði skamma stund vitans gætt, gekk hann einn morgin á [ask út[4], ok fann þar Starkað, fóstbróður sinn, Stórvirksson; hann var furðuliga mikill; hann var hýmaldi[5] ok kolbítr, ok lá í fleti við eld; þá var hann 12 vetra gamall. Vikar reisti hann upp or fletinu, ok fèkk honum vâpn ok klæði, ok mælti[6] vöxt hans, þvíat honum þótti hann undarliga mikit vaxit hafa, [síðan hann kom á Ask[7]. Fengu þeir Vikar sèr skip, ok fóru í braut þaðan. Svâ segir Starkaðr:

Afl gat ek ærit,
uxu tjálgur,
lángir leggir
ok ljót höfuð,

[1]) skipi, *C.* [2]) Stórverks niðr, *B, V.* [3]) sumrum, *B, C, V.*
[4]) veg, *C.* [5]) hrímaldi, *V.* [6]) undraðist, *B, V.* [7]) *v. í C.*

en hýmaldi
af hagli[1] sat,
fáast[2] forvitni
í fleti niðri.
Unz Vikar kom
frá vita innan,
gisl Herþjófs
gekk inn í sal;
hann kendi mik,
hann kvaddi mik
upp at standa
ok andsvara.
Hann mælti mik
mundum ok spönnum
alla arma
til úlfliða,
vaxit hári
á höku niðri[3].

Hèr segir Starkaðr frá því, at hann hafði þá skegg, er hann var 12 vetra. Síðan reis Starkaðr upp, ok fèkk Vikar honum vâpn ok klæði, ok fóru síðan til skips. Eptir þetta safnaði Vikar liði, ok urðu þeir saman 12. Þeir voru allir kappar ok hólmgaungumenn; svâ segir Starkaðr:

Þá[4] safnaði
Sörkvi ok Gretti

[1]) *eðr* hagsi, *A*, *B*. [2]) *v. í hin.* [3]) *vísurnar v. í B*, *V*, [4]) er, *b. v. C.*

[Haralds arfþegi[1]
Hildigrími,
Erp ok Úlfi,
Áni[2] ok Skúmu[3],
[Hróa ok Hrotta[4],
Herbrands syni.
Styr ok Steinþóri
frá Staði[5] norðan,
þar var hinn gamli
Gunnólfr blesi,
þá voru vèr
þrettán saman,
fær varliga
fríðri drengi.

Síðan fór Vikar með lið sitt á fund Herþjófs konúngs. En er hann spurði ófrið þeirra, þá lèt hann lið sitt tilbúast. Herþjófr konúngr átti mikinn húsabæ, [ok var þar gott vígi, svâ at þat var náliga kastali eða borg[6]; þar var fyrir 70 vígra manna, ok ótalið allr verkalýðr ok þjónustumenn. En þegar er víkíngar komu at, gjörðu þeir svâ harða atgaungu, at þeir hristu grindur ok hurðir, [ok hjuggu á gættin[7], svâ at frágengu lokur ok slagbrandar, er innan voru fyrir hliðunum, en konúngsmenn hrukku frá, ok náðu víkíngar inngaungu, tókst þar þá bardagi mikill; svâ segir Starkaðr:

[1]) Harald ok Hörfþegi, *C*; Harald ok Arfþegi, *V*. [2]) Aur, *V*. [3]) Skúmi, *B*, *V*; Skútu, *C*. [4]) ok Hróa-Hrotta, *C*; Hrók ok Hrotta, *B*, *V*. [5]) Stöðum, *C*. [6]) gott einvígi, *C*. [7]) *v. í C*.

Svâ komu vèr
til konúngs garða,
hristum grindur
hjuggum gætti;
brutum borglokur[1],
brugðum sverðum,
þar er sjötigi
seggir stóðu.
[Kostum góðir
fyrir konúngi[2],
þó var umaukit
öllum þrælum,
verkalýð ok
vatndrógum[3].

Herþjófr konúngr varðist lengi með liði sínu, þvíat hann hafði marga frækna menn, en með því at Vikar hafði valit lið með sèr ok agæta kappa, þá varð rírt fyrir þeim lið Herþjófs konúngs. Vikar var jafnan framast sinna manna; svâ segir Starkaðr:

Var Vikari
vant at fylgja,
þvíat fremstr [ok fyrstr[4]
í flokki stóð,
hjuggum hjálma
með höfuð gnýpum[5]
brynjur sníddum
ok brutum hjálma[6].

[1]) lokur, *C.* [2]) *v. í C.* [3]) *vís. v. í B, V.* [4]) hann, *C.*
[5]) sneiddum, *C.* [6]) skjöldu, *C*; *vís. v. í B, V.*

Starkaðr sótti hart fram með Vikari á hendr Herþjófi konúngi, ok þeir veittu honum bana. [Allir kappar Vikars sóttu hart fram[1], fèllu þar margir menn, en sumir voru særðir, svå segir Starkaðr:

Var Vikari
vegs um auðit[2]
en Herþjófi
herfur[3] goldnar,
særðum seggi,
en suma drápum,
stóðkað ek fjarri,
þá er fèll konúngr[4].

Þar fèkk Vikar sigr, en Herþjófr konúngr fèll, svå sem áðr er sagt, ok 30 manna með honum, en margir sárir til ólífis, en engir fèllu af Vikars mönnum. Eptir þat tók Vikar skip þau öll, er Herþjófr konúngr hafði átt, ok allt lið þat er hann fèkk; fór síðan austr með landi með allt lið, þat er honum vildi fylgja. Hann kom á Agðir; komu til hans þeir, er verit höfðu vinir föður hans, varð hann þá brátt fjölmennr, var hann þá til konúngs tekinn yfir Agðir allar ok Jaðar, ok hann lagði undir sik Hörðaland ok Harðángr, ok allt ríki þat, er Herþjófr konúngr hafði átt. Vikar konúngr gjörðist brátt ríkr, ok hinn mesti hermaðr. Hann var hvört sumar í hernaði. Vikar konúngr fór með her sinn

1) *v. í C.* 2) at bið, *C.* 3) *þannig ágizkað*; herför, *C*; heiptir, *C.* 4) *vís. v. í B, V.*

í Víkaustr, ok gekk á land austan fjarðar, ok herjaði upp á Gautland, ok vann þar mikit hervirki. En er hann kom uppí Veni[1], þá kom þar í mót honum konúngr sá, er Sisar hèt; hann var austan or Kænugarði; hann var kappi mikill, ok hafði lið mikit. Þeir Vikar konúngr ok Sisar áttu þar bardaga harðan, ok gekk Sisar hart fram, ok drap mart manna af liði Vikars konúngs. Þar var Starkaðr þá með Vikari konúngi; hann gekk fram í mót Sisar, ok áttust þeir lengi við vâpnaskipti, ok þurfti hvorgi öðrum at fría stórra höggva. Sisar hjó af Starkaði skjöld hans, ok veitti honum tvö sár í höfði mikil með sverði, ok í sundr viðbeinit, Starkaðr fèkk ok sár fyrir ofan mjöðmina á síðunni. [Svâ segir Starkaðr:

Vart þú eigi
með Vikari
austr í Veni
árðag snemma,
þá er sóttu vèr
Sisar á velli,
þat var þrekvirki
þókz megnara,
Mik lèt sverði hann
sárum höggvinn[2]
skarpeggjuðu
skjöld í gegnum,
hjálm af höfði,

[1]) Væni, *B*, *V*. [2]) *ágizkað*; hogg h', *A*.

en haus skorat
ok kinnkjálka
klofinn í jaxla;
en hit vinstra
viðbein látit[1].

Starkaðr fèkk ok holsár á annarri síðunni af atgeiri þeim, er Sisar vo með. Svâ segir Starkaðr:

Ok á síðu
sverði beitti
mèr öflugr
fyrir mjöðm ofan,
en í aðra
atgeir lagði
köldum broddi,
svâ at á kafi yddi[2],
þau sèr þú[3] merki
á mèr gróin[4].

Starkaðr hjó Sisar með sverði, ok sneið svâ um þvera síðu honum, ok veitti honum mikit sár á fæti fyrir neðan knè, ok at lyktum hjó hann á[5] honum annan fótinn í ökla, ok þá fèll Sisar konúngr. Svâ segir Starkaðr:

Sneidda ek honum
síðu aðra
[brutt með[6] brandi
um búk þveran,
svâ ek af heiptum
hjörfi beittak,

[1]) frá [ v. í hin. [2]) stóð, C. [3]) v. í C. [4]) vís. v. í B, V. [5]) af, C, B, V. [6]) bitrum, C.

at alls megins
áðr kostaðik[1]:

Í bardaga þeim varð mannfall mikit, ok fèkk Vikar konúngr sigr, [en Kænir lögðu á flótta, þeir er eptir lifðu[2]. Eptir sigr þenna fór Vikar konúngr heim í ríki sitt.

5. Vikar konúngr spyrr, at Geirþjófr konúngr hafði liðsafnað mikinn á Upplöndum, ok ætlaði með þann her at Vikari konúngi, ok hefna Herþjófs konúngs, bróður síns. Þá bauð Vikar konúngr út almenníngi af ríki sínu, fór með þat lið til Upplanda á mót Geirþjófi konúngi. Þeir áttu mikla orrostu, ok börðust 17[3] daga samfast; ok þá fèll Geirþjófr konúngr, en Vikar konúngr hafði sigr. Þá vann Vikar konúngr undir sik Upplönd ok Þelamörk, því at Friðþjófr Þelamerkr konúngr var eigi heima [í ríki sínu. Þess getr Starkaðr, at sú var hin þriðja orrosta Vikars konúngs, er hann hafði unnit á Upplöndum:

Lèt þreksamr
þriðja sinni
Hildar leik
háðan verða,
áðr Upplönd
unnin yrði,
ok Geirþjófr um
gefin helju.

Síðan setti Vikar menn yfir þat ríki, er hann

[1]) vís. v. í B, V. [2]) v. í C. [3]) 7, C.

hafði unnit á Upplöndum[1], en hann fór heim á Agðir, ok gjörðist bæði ríkr ok fjölmennr. Hann fèkk sèr konu, ok átti við henni 2 sonu, hèt Haraldr hinn ellri, en hinn ýngri hèt Neri. Hann var manna vitrastr, ok varð þat allt at ráði, er hann lagði til, en svå var hann sínkr, at hann mátti aungan hlut svå gefa, at honum væri eigi þegar eptirsjár at. [Svå segir Starkaðr:

Átti sèr
erfivörðu
tírsamr tvo
tiggi alna,
hèt hans son
Haraldr enn ellri,
setti hann þann
at Þelamörku.
Var sínkgjarn
sagðr af gulli,
Neri jarl,
nýtr í ráðum,
Vikars sonr
vanr í sóknum,
sá rèð einn
Upplendíngum[2].

Neri jarl var hermaðr mikill, [en svå sínkr, at til hans hefir jafnat verit öllum þeim, er sínkastir hafa verit ok sízt hafa öðrum veitt[3]. En er Friðþjófr frètti fall bræðra sinna, fór hann til

[1]) *í stað þess frá* [: þat var hin þriðja orrosta, [er Vikar hafði unnit, *hin.* [2]) *frá* [ *v. í hin.* [3]) *v. í C.*

Upplanda, ok tók þat ríki undir sik, er Vikar hafði fyrr unnit. Þá sendi hann Vikari orð, at hann skyldi skatt gjalda af súnu ríki, eða þola her hans. [Svâ segir Starkaðr:

Rèð Friðþjófr
fyrst at senda
heiptar boð
hoskum jöfri,
hvort Vikar konúngr
vildi gjalda
hilmi skatt,
eða her þola[1].

Er þessi orðsendíng kom Vikari, þá stefndi hann þíng, ok átti tal við ráðuneyti sitt, at svara þessu vandmæli. Þeir báru saman rað sín, ok rèðu lengi um. [Svâ segir Starkaðr:

Rèðum um lengi,
urðum við ekki dælir,
þat kaus her,
at konúngr skyldi
ríkr með her
rómu knýa[2].

[Þau ráð voru send Friðþjófi konúngi, at Vikar konúngr skyldi verja land sitt[3]. Fór þá Friðþjófr konúngr með her sinn, ok ætlaði at herja á Vikar konúng. Ólafr hinn skygni hèt konúngr í Svíþjóð, [þar sem heitir Nærríki[4]. Hann var ríkr ok hermaðr mikill, ok bauð út almenn-

[1]) *frá [ v. í hin.* [2]) *frá [ v. í hin.* [3]) *v. í C.* [4]) þ. s. h. Merríki, *C*; hann varnar ríki, *B*, *V*.

íng af sínu ríki, ok fór til liðveizlu við Vikar konúng. Þeir höfðu mikit lið, ok fara með her þann í móti Friðþjófi konúngi, ok svínfylktu liði sínu [til bardaga. Svâ segir Starkaðr:

Rèð Ólafr
austr hinn skygni,
sældar gramr
fyrir Svíaríki;
hann bauð út
almenníngi,
mikill var hans
helmíngr talinn[1].

Þar tókst harðr bardagi, ok gengu menn Vikars konúngs vel fram, þvíat þar voru margir kappar í liði með þeim. Þar var hinn fyrsti kappi Starkaðr Stórvirksson, Úlfr ok Erpr, ok margir aðrir góðir drengir ok miklir kappar. Vikar konúngr gekk hart fram. Starkaðr var brynjulaus, ok gekk í gegnum fylkíngar, ok hjó tveim höndum, [sem hann segir:

Gengum fram
í glam vâpna,
konúngs menn,
kappa gnægðir,
þar var Úlfr
ok Erpr litinn,
hjó ek brynjulaus
báðum höndum[2].

1) *frá* [ *v. í hin.* 2) *frá* [ *v. í hin.*

Ok er Vikar konúngr sótti hart fram með kappa sína á hendr Friðþjófi konúngi, þá hèlt við los á fylkíng hans. Þá beiddi hann friðar Vikar konúng. [Svâ segir Starkaðr:

Rèð Friðþjófr
friðar at biðja,
þvíat Vikar
vægði ekki,
ok Starkaðr
Stórveks son
almátt fram
allan lagði[1].

Þar var enn mesti bardagi ok hinn snarpasti, ok fèll mikill hluti liðs Friðþjófs konúngs, en er hann beiddi friðar, stöðvaði Vikar konúngr her sinn, gekk þá Friðþjófr konúngr til sætta við Vikar konúng. Skyldi þá Ólafr konúngr semja sáttmál milli þeirra, ok var sú sætt, at Friðþjófr konúngr gaf upp ríki sitt allt á Upplöndum ok Þelamörk, en hann fór or landi. Setti Vikar konúngr yfir þessi ríki sonu sína, gaf hann Haraldi konúngs nafn yfir Þelamörk, en Nera jarls nafn ok ríki á Upplöndum. Hann vingaðist við Gautrek konúng á Gautlandi, ok þat segir í sumum bókum, at Neri hèldi nokkut ríki af Gautreki konúngi, þann hluta Gautlands er honum var nálægstr, ok væri hann ok jarl Gautreks konúngs, ok í ráðum með honum, þegar þess þyrfti við. Eptir þetta fór Vikar heim í ríki sitt, ok varð frægr mjök

[1]) *í stað þess frá* [: en hann vægði ekki, *C*; *v. í B, V.*

af sigri þeim, ok skildu þeir Ólafr konúngr með vináttu, ok hèldu þat jafnan síðan; fór hann heim austr í Svíaríki.

6. Rennir[1] hèt maðr, ok var bóndi einn ríkr, hann hafði atsetr í ey þeirri, er síðan[2] er Rennisey[3] kölluð. Sú ey liggr fyrir Noregi norðr undan Jaðri. Hann hafði verit víkíngr mikill, áðr hann settist í búnað. Konu átti hann sèr, ok einn son barna; sá hèt Refr. Þá er hann var úngr, lagðist hann í eldaskála, ok beit hrís ok börk af trjám; hann var furðuliga mikill vexti; ekki færði hann saur af sèr, ok til einkis rètti hann sínar hendr, svâ at öðrum væri til gagns. Faðir hans var fjárorkumaðr mikill, ok líkaði honum illa óþrifnaðr sonar síns. [Refr varð frægr mjök at öngum snotrleik nè frama, heldr at því at hann gjörði sik athlægi annarra sinna hraustra frænda[4], ok þótti föður hans hann ólíkligr til nokkurs frama, sem öðrum úngum mönnum var þá títt. Rennir bóndi átti einn þann grip, er hann hafði meiri mætr á enn öðrum sínum fjárhlutum; þat var einn uxi; hann var bæði mikill ok skrautligr fyrir horna sakir; ristin voru horn á honum ok rent gulli í stiklana, ok svâ af silfri, var festr meðal horna (á) uxanum, ok þar á þrír gullhríngar. Þessi uxi bar lángt af öðrum uxum, þeim sem í landinu voru, sakir vaxtar ok alls kostar umbúðar; var Rennir bóndi svâ vandlátr

1) Reinir, *B*; Reinr, *C*, *V*. 2) Síða, *B*, *V*. 3) *v. í B*, *V*; Reimsey, *C*. 4) *v. í hin.*

um hann, at hann skyldi aldrei geymslulaus vera. Rennir var jafnan í bardögum með Vikari konúngi, ok var þeim vingott.

7. Vikar konúngr gjörðist hermaðr mikill, ok hafði marga kappa með sèr, þá er ágætir voru, en Starkaðr var mest metinn af öllum þeim, ok kærastr konúngi, þar hann var öndugismaðr hans ok ráðgjafi ok landvarnarmaðr. Hann þá margar gjafir af konúngi; Vikar konúngr gaf honum gullhríng þann, er stóð þrjár merkr, en Starkaðr gaf honum eyna Þrum[1], þá er Haraldr konúngr hafði gefit [Stórverki, föður hans[2]. Hann var 12 sumur með Vikari konúngi, [sem hann segir:

Mèr gaf Vikar
valamálm,
hríng enn rauða,
er ek á hendi ber;
mèr þrímerkíng,
en ek Þrumu honum,
fylgða ek fylki
fimtán sumur[3].

Vikar konúngr sigldi af Ögðum norðr á Hörðaland, ok hafði lið mikit. [Hann lá í hólmum nokkurum lengi, ok fèkk andviðri mikit[4]. Þeir feldu spán[5] til byrjar, ok fèll svâ at Óðinn vildi þiggja mann at hlutfalli at hánga or herinum. Þá var skipt liðinu til hlutfalla, ok kom

[1]) þrumu, *hin.* [2]) honum, *C.* [3]) *frá* [ *v. í hin.* [4]) *v. í C.* [5]) spáir, *B*; spá, *V.*

upp hlutr Vikars konúngs. Við þat urðu allir hljóðir, ok var ætlat um daginn eptir, at ráðsmenn skyldu eiga stefnu um þetta vandmæli. Um nóttina nær miðri nótt vakti Hrosshársgrani Starkað, fóstra sinn, ok bað hann fara með sèr. Þeir taka bát einn lítinn, ok rèru til eyjar einnrar innfrá hólminum. Þeir gengu upp til skógar, ok fundu þar rjóðr eitt í skóginum; í rjóðrinu var fjölmenni mikit, ok var þar þíng sett. Þar sátu 11 menn á stólum, en hinn tólfti var auðr. Þeir gengu fram á þíngit, ok settist Hrosshársgrani á stólinn hinn tólfta. Þeir heilsuðu allir Óðni. Hann mælti, at dómendr skyldi þá dæma örlug Starkaðs. Þá tók Þór til orða, ok mælti: Álfhildr, móðir föður Starkaðs, kaus föður at syni sínum hundvísan jötun, heldr enn Ásaþór, ok skapa[1] ek þat Starkaði, at hann skal hvorki eiga son nè dóttur, ok enda svâ ætt sína. Óðinn svaraði: þat skapa ek honum, at hann skal lifa mannsaldra þrjá. Þór mælti: hann skal vinna níðíngsverk á hvörjum mannsaldri. Óðinn svaraði: þat skapa ek honum, at hann skal eiga en beztu vâpn ok vâðir. Þór mælti: þat skapa ek honum, at hann skal hvorki eiga land nè láð. Óðinn mælti: ek gef honum þat, at hann skal eiga of lausafjár. Þór mælti: þat legg ek á hann, at hann skal aldrei þikjast nóg eiga. Óðinn svaraði: ek gef honum sigr, ok snild at

[1]) skapaði, C.

hvörju vígi. Þór svaraði: þat legg ek á hann, at hann fái í hvörju vígi meiðslasár. Óðinn mælti: ek gef honum skáldskap, at hann skal eigi seinna yrkja enn mæla. Þór mælti: hann skal ekki muna eptir, þat er hann yrkir. Óðinn mælti: þat skapa ek honum, at hann skal þikja hæðstr[1] enum göfgustum mönnum ok hinum beztum. Þór mælti: leiðr skal hann alþýðu allri. Þá dæmdu dómendr allt þetta á hendr Starkaði, er þeir höfðu ummælt, ok sleit svâ þínginu. Fóru þeir Hrosshársgrani ok Starkaðr til báts síns. Þá mælti Hrosshársgrani til Starkaðs: vel muntu nú launa mèr, fóstri! liðsemd, þá er ek veitta þèr. Vel, segir Starkaðr. Þá skaltu nú senda mèr Víkar konúng, en ek mun ráðin til leggja. Starkaðr játar þessu. Þá fèkk Hrosshársgrani geir í hönd honum, ok segir at þat mundi sýnast reirsproti. Þá fóru þeir út til liðsins, ok var þá komit at degi. Um morguninn eptir gengu ráðgjafar konúngs á stefnu til umráða, kom þat ásamt með þeim, at þeir skyldu gjöra nokkura minníng blótsins, ok segir Starkaðr upp ráðagjörðina. Þar stóð fura ein hjá þeim, ok stofn einn hár nær furunni; neðarliga af furunni stóð einn kvistr mjór, ok tók í limit upp. Þá bjuggu þjónustusveinar mat manna, ok var kálfr einn [skorinn ok krufðr[2]. Starkaðr lèt taka

[1]) beztr, *C*; helztr, *B*, *V*. [2]) krufinn, *C*.

kálfsþarmana; síðan steig Starkaðr upp á stofninn, ok sveigði ofan þann enn mjófa kvistinn, ok knýtti þar um kálfsþörmunum. Þá mælti Starkaðr til konúngs: nú er þèr búinn hèr gálgi, konúngr! ok mun sýnast eigi allmannhættr. Nú gaktu híngat, ok mun ek leggja snöru á háls þèr. Konúngr mælti: sè þess umbúð ekki meir hættlig, enn mèr sýnist, þá vænti ek, at mik skaði þetta ekki, en ef öðruvís er, þá mun auðna ráða, hvat atgjörist. Síðan steig hann upp á stofninn, ok lagði Starkaðr virgilinn[1] um háls honum, ok steig síðan ofan af stofninum. Þá stakk Starkaðr sprotanum á konúngi, ok mælti: nú gef ek þik Óðni. Þá lèt Starkaðr lausan furukvistinn. Reirsprotinn varð at geir, ok stoð í gegnum konúnginn. Stofninn fèll undan fótum honum, en kálfsþarmarnir urðu at viðu[2] sterkri, en kvistrinn reis upp, ok hóf upp konúnginn við limar, ok dó hann þar. Nú heita þar síðan Vikarshólmar. Af þessu verki varð Starkaðr mjök óþokkaðr af alþýðu, ok af þessu verki varð hann fyrst landflótti af Hörðalandi. Eptir þat strauk hann á braut or Noregi, ok austr í Svíaveldi, ok var þar lengi með Uppsala konúngum Eireki ok Álreki[3], sonum Agna Skjálfarbónda[4], ok var í herförum með þeim. Ok er Álrekr spurði Starkað, hvat hann kunni tíðinda at segja

[1]) vingulinn, *V.* [2]) viðju, *B.* [3]) Alfreki, *B, V allstaðar.*
[4]) Skjafarbónda, *C, V*; Skafarbónda, *B.*

frá frændum sínum eða sjálfum sèr, [þá orti Starkaðr kvæði þat, er heitir Vikarsbálkr; þar segir svâ frá drápi Vikars konúngs[1]:

Fylgða ek fylki,
þeim er framast vissak,
þá unda ek bezt
æfi minni;
áðr fór verr[2],
en því flögð ollu,
hinnsta sinni
til Hörðalands.
Þess eyrindis,
at mèr Þór[3] um skóp
níðíngs nafn
nauð margskonar;
hlaut ek óhróðigr
íllt at vinna.
Skilda ek Vikar
[í viði háfum[4]
Geirþjófsbana
goðum um[5] signa;
lagða ek geiri
gram til hjarta,
þat er mèr harmast
handaverka.
Þaðan vappaði ek
viltar brautir[6],

[1]) Starkaðr segir svâ, *C.* [2]) *þannig C*; or, *A.* [3]) *þannig. C*; þar, *A.* [4]) ná við höfum, *C.* [5]) *v. í C.* [6]) götur, *C.*

Hörðum leiðr
með huga illan;
hrínga[1] vanr
ok hróðr kveða
drottinnlaus
dapr alls hugar.
Nú sótta ek
til Svíþjóðar,
Ynglínga sjót[2]
til Uppsala;
hèr láta mik,
sem ek lengi mun,
þöglan þul
þjóðans synir[3].

Þat má finna á Starkaði, at honum þikir þetta [eitthvört verk sitt verst ok óskapligast[4] orðit hafa, er hann drap Vikar konúng, [ok ekki höfum vèr frásagnir heyrðar, at hann hafi ílendr orðit í Noregi síðan[5]. En er Starkaðr var at Uppsölum, þá voru þar 12 berserkir málamenn, ok voru mjök ágjarnir ok spottsamir við hann, ok voru óðastir at því bræðr tveir, Úlfr ok Otryggr. Starkaðr var þögull, en berserkir kölluðu hann endrborinn jötun ok níðíng, [svâ sem hèr segir:

Hèr settu mik
sveina milli,
heldr hæðinn

[1]) hríngs, *C.* [2]) sjö, *C.* [3]) *vísurnar v. í B, L.* [4]) óskapligt, *C.* [5]) *v. í C.*

ok hvítbránn,
skelkja skatnar,
ok skóp draga
ofs óframir
at jöfurs greppi.
Sjá þikjast þeir
á sjálfum mèr
jötun kuml,
átta handa,
er Hlóriði
fyrir hamar norðan
Hergrímsbana
höndum rændi.
Hlæja rekkar,
er mik sjá,
ljótan skolt,
lánga trjónu;
hángar[1] tjálgur,
hár úlfgrátt,
hrjúfan háls,
húð jótraða[2].

En er Eirekr konúngr ok Álrekr settust heima, þá fór Starkaðr í hernað með skip þat, er Álrekr[3] konúngr hafði gefit honum, ok hafði skipat með Norðmönnum ok þeim Svíunum[4]; fór hann víða um lönd, ok framdi orrostur ok einvígi, ok hafði jafnan sigr, ok er hann ekki lengr við þessa sögu. Álrekr[5] konúngr varð

[1]) *heldrenn* haugar, *A.* [2]) *frá* [ *v. í B, C, V.* [3]) Eirekr, *hin.* [4]) Dönum, *hin.* [5]) Aðalrekr, *C.*

skammlífr, en þat varð með þeim atburð, at Eirekr konúngr, bróðir hans, sló hann í hel með beizli, er þeir höfðu riðit, at temja hesta sína. Eptir þat rèð einn Eirekr konúngr Svíþjóðu lengi síðan, sem enn mun síðar sagt í þessi[1] sögu [af samskiptum þeirra[2] Hrólfs konúngs Gautrekssonar.

8. Nú ferr tveim fram sögunum; skal nú segja fyrst frá því, er áðr var [frá horfit, at Gautrekr konúngr stýrir Gautlandi, ok gerðist mikill höfðíngi, ok hinn mesti bardagamaðr. Þat þótti [konúnginum vanta mjök á sína ríkisstjórn[3], at hann var maðr ókvændr, ok vildi leita sèr ráðs. Haraldr er konúngr nefndr, hann rèð fyrir Vinlandi[4]. Hann var vitr maðr, ok ekki mikill bardagamaðr; hann átti sèr drottníng, ok eina dóttur væna ok vel siðuga, er Álfhildr hèt. Gautrekr konúngr býr ferð sína til Vinnlands, ok biðr dóttur Haralds konúngs. Því máli var vel svarat, ok svâ margt, sem þeir töluðu hèr um, varð sá endir á, at Gautrekr konúngr skal fá meyna; flytr hann hana heim í Gautland, ok drekkr til hennar brúðlaup; ok er þau höfðu eigi[5] lengi ásamt verit, fæðir Álfhildr dóttur eina fríða; þeirri var nafn gefit, ok heitir hún Helga. Hún var snemma bráðgjör; hún vóx upp með föður sínum, ok þótti hún hinn

1) *v. í C.* 2) *v. í C.* 3) honum þat at, *C.* 4) *þannig öll í líkliga rèttara* Vinnlandi ɔ: Vindlandi. 5) *v. í C.*

bezti kostr þar í Gautlandi. Gautrekr konúngr hafði margt manna með sèr, þeirra er mikilhæfir voru. Hrosskell hèt maðr, hann var vinr Gautreks; hann var mikill víkíngr; þá hann einn tíma heimboð með Gautreki konúngi, ok at skilnaði gaf Gautrekr konúngr honum sæmiligar gjafir; hann gaf Hrosskeli stóðhross góð, hest grán ok með 4 merhross; þau voru öll silkibleik, ok hin vænustu. Hrosskell þakkaði konúngi gjafirnar, ok skildu þeir með mikilli vináttu. Gautrekr konúngr stýrir nú ríki sínu um mörg ár, ok sitr nú um kyrt, þar til at drottníng kennir sóttar, ok eigi lyktar fyrr hennar sótt, enn drottníng er dauð útborin. Gautreki konúngi þótti þetta hinn mesti harmr; konúngr lætr verpa haug eptir drottníngu; honum fèkk þetta svâ mikils, at hann gáði eigi ríkisstjórnar. Hann sat á haugi hvörn dag, ok beitti þaðan hauki sínum, ok gjörði [sèr þaraf skemtan ok dægrastyttíng[1].

9. Nú er frá því at segja, at Neri jarl hafði *ríkisstjórn* á Upplöndum, sem fyrr var sagt, ok er hann frètti dráp Vikars konúngs, feðr síns, hefr hann stefnu við Harald konúng, bróður sinn; ok er þeir finnast, tala þeir um arfskipti sín í milli; kemr þat ásamt með þeim, [með því at Haraldr var ellri þeirra bræðra[2], at hann[3] skal taka ríki þau öll und-

[1]) *b. v. B, V*; *gleymt í A.* [2]) *v. í C.* [3]) Haraldr, *C.*

ir sik, er Vikar konúngr hafði fyrirráðit, ok vera þar konúngr yfir, en Neri jarl skal hafa Upplönd, sem áðr, ok Þelamörk, [þat ríki sem áðr hafði stýrt Haraldr konúngr, bróðir hans[1], ok skildust þeir bræðr með góðu samþykki. Neri jarl var svâ vitr, at eigi fèkkst hans maki, varð þat allt at ráði, er hann lagði til um, hvat sem [þeir áttu at vera[2]. Aldrei vildi hann gjafir þiggja, þvíat hann var svâ sínkr, at hann tímdi öngvu at launa. Þess er nú getit við, er áðr var frásagt, at Rennir bóndi gekk einn dag um eldaskála; hann rataði um leggi Refs, sonar síns, ok mælti til hans: mikil skömm er at slíkum syni, er þú vill þik til eins ills hafa, nú skaltu verða á brottu, ok koma eigi optar mèr fyrir augu eðr í augsýn, meðan þú ferr þessi fólsku fram. Refr svaraði: meðr því attu rekr mik frá þèr, þá mun þat makligra, at fari sá gripr með mèr, er þú átt beztan, ok þèr þikir mest at láta. Rennir mælti: engi gripr er sá í minni eigu, at ek vildi eigi til þess gefa, at ek sæi þik aldrei, þvíat þú ert athlægi ættar þinnar. Eptir þat skildu þeir tal sitt; ok eigi miklu síðar einn veðrdag góðan stendr Refr upp, ok býst í braut; hann tekr ok uxann góða, ok leiðir til strandar. Hann hryndi fram einu skipi, ok ætlar á land. Ekki hirðir hann, þótt uxinn vökni nokkut. Síðan sezt hann við árar, en bindr uxann

[1]) er þeir höfðu áðr stýrt, *C*. [2]) eiga var, *B*.

við skipit, ok rær svâ til lands. Hann var í stuttum feldi, ok í ökulbrókum, ok er hann kemr á land, leiðir hann uxann eptir sèr; ferr fyrst austr eptir Jaðri, ok svâ sem leið liggr til Upplanda. Eigi lèttir hann fyrr sinni ferð, enn hann kemr til bæjar þess, er Neri jarl átti fyrir at ráða. Hirðmenn jarls sögðu honum, at þar var kominn Refr Rennisfífl[1], ok leiðir eptir sèr uxann góða. Jarl bað þá ekki gabba hann. Ok er Refr kom at hallar dyrum þeim, sem jarl var vanr at sitja í, bað hann dyravörðu kalla jarl til tals við sik. Þeir svöruðu: eigi lætr þú dvöl á fólskunni, ok er jarl eigi því vanr at hlaupa til tals við þorpara. Refr mælti: komi þèr orðum mínum, en hann ráði svörum sínum! Síðan gengu þeir til móts við jarl, ok sögðu, at Refr hinn heimski beiddi hann út koma. Jarl mælti: segi þèr at ek mun hitta Ref, eigi veit, [hvörju heilli hvörgi kemr[2]; gekk jarl út, ok kvaddi Refr hann vel. Jarl mælti: því ertu hèr kominn? Refr svaraði: faðir minn hefir mik á brott rekit, en hèr er einn uxi, er ek á, ok hann vil ek þèr gefa. Jarl svaraði: hefir þú eigi spurt, at ek þigg aungvar gjafir, því at ek vil aungum manni launa. Refr svaraði: spurt hefi ek sínku þína, at engi þarf til fjár í móti ætla, þótt þèr sè gefit, en þó vil ek at þú þiggir þenna grip, ok má vera at þú gjörir mèr gagn í orðum þínum, hverr sem

[1]) Rennis son, C. [2]) hverja heill hverr hefir, C.

peninga [laun verða[1]. Jarl mælti: þiggja mun ek uxann við þessi þín ummæli, ok gakk þú inn, ok ver hèr fyrst í nótt! Refr lèt þá lausan uxann, ok gekk inn. Jarl bað fá honum klæði, svâ at skammlaust væri. Síðan þó Refr sèr, ok var hann hinn drengiligasti maðr. Hann sat þar um hríð. Öll hall jarls var búin með skjöldum, svâ at hverr tók[2] annan, þar sem þeir voru uppfestir. Jarl tók einn skjöld, sá var allr lagðr með gull; þann gaf hann Ref. Ok er jarl gekk til dagdrykkju, horfði hann í hliðit, þar sem skjöldrinn hafði hángit; hann kvað þá vísu:

Skein enn skrautligi raunar,
skjöldr hèkk áðr[3] á tjöldum,
oss verðr opt af þessu
ángr mest, er ek lít þángat;
skarð erat skapligt orðit,
skjótt mun ek snauðr af auði,
ef braut með gjöf Gautar
grandlaust bera randir.

Jarl lèt snúa hásæti sínu, svâ fèkk honum mikils, at skjöldrinn var á brautu. Ok er Refr fann þetta, gekk hann fyrir jarl, ok hafði skjöldinn í hendi sèr, ok mælti: herra! segir hann, ver kátr, þvíat hèr er skjöldr sá, er þèr gáfuð mèr, hann vil ek nú yðr gefa, þvíat hann kemr mèr at aungu haldi, þar sem ek hef ekki fleira vâpna. Jarl mælti: gefðu allra drengja heilastr,

1) *þannig hin*; lána verðr, *A.* 2) nam við, *C.* 3) allr, *B.*

því at þat er mikil prýði höll minni, at hafa hann aptr í þann stað, sem hann hèkk áðr, en hèr er einn gripr, er ek vil gefa þèr, ok má vera at þèr verði at gagni, er þú ferr mínum ráðum fram. Jarl fèkk honum í hendr eitt heinbrýni; ok mun þèr þikja þessi gjöf ekki fèmikil. Refr mælti: eigi veit ek, at hvörju haldi mèr kemr þetta. Jarl mælti: svâ er þó mál með vexti, at ek vil aungvan mann sitjanda fæða, svâ at eigi starfi nokkut; nú vil ek senda þik til Gautreks konúngs, ok sel þú honum í hendr heinarbrýni þetta. Refr mælti: ekki em ek vanr at fara á milli tíginna manna, ok eigi veit ek, hvat konúngi skal þetta brýni. Jarl mælti: ekki þyrfti at geta vitsmuna minna, ef ek sæi eigi lengra fram enn þú, en engi frama raun mun þèr í þessu vera, at hitta konúnginn, því at þú skalt ekki við hann mæla, mèr er sagt at konúngr sè opt á haugi drottníngar, ok beitir þaðan hauki sínum, ok optliga, er álíðr daginn, þá lezt haukrinn. Þá lætr konúngr sveifa höndina hjá stólnum, ef hann finnr nokkut at kasta til hans. Nú ef svâ ferr, at konúngr fær ekkert at kasta til hauksins; þá stik þú brýninu í hönd honum, en tak við, ef hann rèttir nokkut þèr í hönd, ok far þá aptr til mín! Síðan fór Refr at tilvísun jarls, ok kom þar at, er konúngr sat á hauginum, ok fór þat svâ, sem Neri gat til, at konúngr fleigði öllu til hauksins því, at hann fèkk til. Refr settist hjá stól-

inum at baki konúngi. Síðan sèr hann, hvar komit var. Konúngr rèttir höndina á bak sèr aptr. Refr stíngr brýninu í hönd honum, en konúngr kastar þegar á bak haukinum, ok flýgr hann upp snart, er heininn kom við hann. Konúngi þóttu vel sigrast hafa, ok vildi eigi, at sá misti síns, er honum hafði gjört greiða, ok rètti á bak sèr gullbaug, ok sá eigi til hans meðan. Refr tók við, ok fór til fundar við jarl. Hann spurði, hvörsu farizt hafði. Refr svarar, ok sýndi honum bauginn. Jarl mælti: þetta er góðr gripr, ok er eigi seta nýtri, enn afla slíks. Þar var Refr um vetrinn; en er voraði, þá mælti jarl: hvat skaltu nú athafast? Refr mælti: nú mun eigi hægt um, ek má nú selja bauginn til lausafjár. Jarl mælti: til mun ek enn hlutast með þèr; konúngr heitir Ella, hann ræðr fyrir Englandi, honum skaltu gefa bauginn, mun þèr þat eigi færra fè verða, en kom til mín at hausti, mat ok ráð mun ek eigi við þik spara, þótt engi verði önnur uxalaunin. Refr mælti: eigi vilda ek at þú gætir þess. Síðan fór hann til Englands, ok gekk fyrir Ellu konúng, ok kvaddi hann sæmiliga, var Refr þá vel búinn bæði at vopnum ok klæðum. Konúngr spurði, hvörr þessi maðr var. Hann svaraði: ek heiti Refr, ok vilda ek, at þèr þæguð af mèr gullhríng þenna, ok lagði á borðit fyrir konúnginn. Konúngr leit á, ok mælti: þetta er mikit gersemi, eða hvörr gaf þèr? Refr svaraði:

Gautrekr konúngr gaf mèr bauginn. Konúngr mælti: hvat gafstu honum? Refr svaraði: eitt lítit heinarbrýni. Konúngr mælti: mikit er um örleik Gautreks konúngs, er hann gefr gull við grjóti. Þiggja vil ek hrínginn, sagði konúngr, ok býð ek þèr hèr at vera. Refr mælti: hafið þökk, herra! fyrir boðyðvart, en aptr ætla ek mèr til Nera jarls, fóstra míns. Konúngr mælti: dveljast verðr þú hèr um stund. Konúngr lèt búa eitt skip, ok einn dag bað hann Ref gánga með sèr. Konúngr mælti: hèr er eitt skip, er ek vil gefa þèr með öllum þeim farmi, er þèr má bezt henta, ok mönnum svâ mörgum sem þú þarft; vil ek eigi, at þú sèrt lengr annarra farþegi, at fara hvört er þèr líkar, ok er þetta þó lítit hjá því, sem Gautrekr konúngr launaði þèr heinarbrýnit. Refr mælti: þetta er allstórmannliga launat. Síðan bjó Refr sik til skips með nógum efnum, ok þakkaði konúngi með mörgum fögrum orðum. Konúngr mælti: hèr eru rakkar tveir, er ek vil gefa þèr. Þeir voru harðla litlir ok fagrir, ok enga hafði Refr slíka sèð; viðjar voru á þeim af gulli, ok spent gullhríng um háls hvorum þeirra, ok 7 smáhríngar á festinni milli þeirra. Eigi þóttust menn sèð hafa slíkar gersimar í þeirri tegund. Síðan fór Refr í braut, ok kom í ríki Nera jarls. Hann gekk í mót honum, ok bað hann vel kominn: ok far til mín með alla menn þína! Refr mælti: ek hefi nú nógan

kaupeyri fyrir oss af leggja. Jarl mælti: þat er vel, en ekki skal þat kaupeyrir þinn skerða, en af voru borði skaltu mat eta, þó eru eigi mikil uxalaunin. Refr mælti: þat eina þiki mèr at, er þú getr þess[1]. Nú er Refr með jarli um vetrinn, ok verðr allvinsæll, ok voru með honum margir sporgaungumenn. Ok er voraðist, mælti jarl við Ref: hvat skaltu nú athafast. Refr mælti: mun nú eigi hægt, þvíat fè skortir nú eigi, at ráðast í víkíng eðr kaupferðir. Jarl mælti: svâ er þat, en til mun ek hlutast enn með þèr; nú skaltu fara suðr til Danmerkr á fund Hrólfs konúngs kraka, ok færa honum rakkana, því þeir eru ekki ótíginna manna eign, ok mun eigi færra fè verða, ef hann vill þiggja. Refr mælti: þú skalt ráða, en eigi er mèr nú fèfátt.

10. Nú býst Refr, ok siglir til Danmerkr. Hann finnr Hrólf konúng, ok gengr fyrir hann, ok fagnar honum. Konúngr spyrr hann, hverr hann væri. Hann kveðst Refr heita. Konúngr svaraði: ertu kallaðr Gjafa-Refr? Hann svaraði: þegit hef ek gjafir at mönnum, ok þó enn gefit stundum. Refr mælti: rakka þessa enu litlu vil ek, herra! gefa yðr með búnaði sínum. Konúngr mælti, ok leit til: slíkt eru stórar gersimar, eða hvörr gaf þèr. Refr svaraði: Ella konúngr. Rólfr konúngr mælti: hvat gaftu honum? Refr svaraði: gullbaug; eða hvörr gaf

[1]) hans, C.

þèr hann? Refr svaraði: Gautrekr konúngr. Eða hvat gaftu honum? Refr svaraði: heinarbrýni. Rólfr konúngr mælti: mikit er um örleik Gautreks konúngs, er hann gefr gull við grjóti, en þiggja mun ek rakkana, ok ver með oss! Refr svaraði: aptr skal ek at hausti til Nera jarls, fóstra míns. Rólfr konúngr svaraði: svâ má vel vera. Var hann nú með konúngi um hríð. Nú býr Refr skip sitt at hausti. Þá mælti konúngr: laun hefi ek hugat þèr, skip skaltu af mèr þiggja, svâ sem af Englakonúngi, skal þat vera með hinum bezta farmi ok mönnum. Refr mælti: hafið mikla þökk fyrir stórmannliga gjöf! ok bjóst síðan. Rólfr konúngr mælti: hèr eru gripir tveir, Refr! er þú skalt af mèr þiggja, þat er hjálmr ok brynja. Refr tekr við gripunum. Þeir voru báðir af rauðu gulli gjörvir, ok skiljast þeir Rólfr konúngr með miklli blíðu, ok ferr Refr nú til móts við Nera jarl, ok stýrði hann þá tveimr skipum. Jarl tók vel við honum, ok sagði at enn hafði heldr vaxit fèit; ok skulu þèr allir til mín í vetr, ok eru þó lítil laun fyrir uxann, en eigi hæfir mèr at spara orð mín til gagns þèr. Refr svaraði: þíns tilstillis nýt ek at öllu þessu; ok var Refr þar um vetrinn í góðu yfirlæti, ok gjörðist frægr maðr.

11. Enn um vorit spurði jarl Ref: hvat skal nú í sumar athafast? Refr svaraði: herra! þèr skuluð fyrir sjá, en eigi er mèr nú fèfátt.

Jarl mælti: ek ætla þat satt nú; er ein ferðin sú, er ek vil á þik leggja. Konúngr heitir Ólafr, ok liggr í hernaði, hann hefir 80[1] skipa, hann liggr úti vetr ok varmt sumar á sjó. Hann er hinn frægasti herkonúngr, honum skaltu færa hjálminn ok brynjuna, ok ef hann þiggr, þá væntir mik at hann biði þik kjósa laun fyrir, en þú skalt kjósa at ráða fyrir liði hans hálfan mánuð, ok halda þángat sem þèr líkar; en maðr er sá með konúngi, er Refnefr[2] heitir, hann er hit mesta illmenni, hann er rággjafi konúngs, en þat sè ek trautt, hvört þar má meira gæfa þín eða tröllskapr hans, en þar mun þó verða til at hætta, hvorn veg verðr. Síðan skaltu halda híngat öllu liðinu, ok má þá verða, at ek fái launat þèr uxann góða. Refr mælti: til opt þiki mèr þú hans geta. Síðan skildu þeir, fór Refr nú at leita Ólafs konúngs, ok fann hann, þar sem hann lá með skipaflota sínum, ok leggr þegar at konúngs skipinu, gengr uppá skipit, ok kvaddi konúnginn. Ólafr konúngr spurði, hvörr hann væri. Refr segir til sín. Konúngr mælti: ertu kallaðr Gjafa-Refr? Hann svaraði: gefit hafa mèr stundum göfgir menn, ok ek hef jafnan gefit nokkut í mót; en hèr eru tveir gripir, er ek vil þèr gefa, þat er hjálmr ok brynja, þvíat yðr munu þessir gripir fullvel hæfa. Konúngr mælti: hvörr gaf þèr gersimar þessar, er ek hef eigi sèð slíkar, ok at

[1]) 30, *C.* [2]) *þannig, B, C*; Refr, *hèr A*; Refnir, *allstaðar, V.*

síðr sèð' at ek hef aungva spurn af haft, ok hef ek þó farit víða um lönd. Refr svaraði: Hrólfr konúngr kraki gaf mèr þessa gripi. Konúngr mælti: en hvat gaftu honum? Refr mælti: rakka tvo með gullviðjum, er Ella Englakonúngr gaf mèr. En hvat gaftu Ella konúngi? segir Ólafr konúngr. Gullbaug einn, er Gautrekr konúngr gaf mèr, ok launaði mèr fyrir eitt heinarbrýni. Ólafr konúngr mælti: mikit er um örleik slíkra konúnga, ok berr Gautrekr konúngr þó yfir þeirra örleik allra, eða hvort skal ek þiggja þessa gripi, Refnefr! eðr eigi? Hann svaraði: eigi þiki mèr ráð at þú þiggir, ef þú hefir eigi vit til at launa, ok í því þrífr hann gripina, ok steypir fyrir borð með sèr at skut. Refr þikist illa leikinn, ef hann missir gripanna, ok ferr eptir honum, ok er harðr þeirra atgángr, ok lýkr svâ at Refr náir brynjunni, en Refnefr hjálminn, ok leggst til botns, ok tryllist á honum á grunnum niðri, en Refr kemr upp mjök máttfarinn; þá var þetta [kveðit:

Ráð þiki mèr
Refnefs vera
nökkvi verri
nè merkendi,
varpat sínu
á sæ fè
Gautreks konúngs, er gaf
gullhríng Refi[1].

[1]) mikil umræða á skipinu um viðrskipti þeirra Refs ok

Ólafr konúngr mælti: þú ert hinn ágætasti maðr. Refr mælti þá: nú vilda ek at þú þægir þenna grip, sem nú er eptir. Ólafr konúngr mælti: ek vil vísu þiggja, ok kunna nú eigi minni þökk annars, en áðr beggja, ok var þat missýni, er ek þá eigi báða í fyrstu, er þat nú eigi at undrast, þarsem ek hlýdda svâ ills manns ráði, ok kjós þèr laun fyrir! Refr svaraði: ek vil ráða fyrir skipum þínum[1] í einn hálfan mánuð, ok halda þángat sem ek vil. Konúngr mælti: kynligt kjör er þetta, en þó skulu skip til reiðu. Síðan hèldu þeir til Gautlands til móts við Nera jarl. Þeir kvomu þar síð dags. Refr gjörir Nera jarli menn á laun, at hann vill hitta (hann). Hann ferr til fundar við Ref, ok segir hann honum allt um sínar ferðir. Nú er þar komit, fóstri! segir jarl, at nú er í ráði, hvörr giptumaðr þú verðr, þvíat nú vilda ek koma þèr í mægðir við Gautrek konúng, at þú fengir dóttur hans. Refr bað hann einn forsjá at hafa. Jarl mælti: nú skaltu, næst er við finnumst, bregðast eigi ókunnigr við, hvat sem ek mæli, ok andstefna, eptir því sem ek bý í hendr þèr. Síðan reið jarl í braut, ok lètti eigi sinni ferð, fyrr enn kom á fund Gautreks konúngs; jarl kom þar um miðnætti, ok segir honum, at her óvígr er kominn í ríki hans:

---

Refnefs, *B, V*; brögðótt ráð at þikki mèr Refnefr vera nokkru verri enn merkindi upp at sínu sæfè, Gautrekr er gaf gullhríng Refi, *afbakað*, *C*.

[1]) ok liði, *b. v. C.*

ætla þessir menn at taka þik af lífi, ok taka undir sik ríkit. Konúngr spyrr, hvörr er höfðíngi fyrir herinum? Jarl svaraði: sá, er oss mundi þikja eigi líkligr til, at at aungu mundi vilja hafa mín ráð, þat er Refr, fóstri minn. Konúngr mælti: þú munt, jarl! enn miklu við hann ráða, eða mun eigi ráðligra at samna her móti. Jarl mælti: ef þèr komið aungum sættum á við þá, þá þiki mèr mikil von, at þeir gjöri hèr mikin hervirki, áðr þú kemr liði at þèr, vil ek heldr fara með boðum sæmiligum, ok vita, ef sætt tækist með yðr, þvíat mèr þikir mitt ríki fyrst á forgörðum, er þeir eru þar nær komnir. Konúngr svaraði: lengi höfum vèr þínum ráðum hlýtt. En þat vil ek, sagði jarl, at þú, konúngr! heyrir uppá viðtal vort. Konúngr bað hann því ráða. Síðan fóru þeir við nokkura menn, þar til er þeir nálguðust skipin, sá konúngr at þeir höfðu fjölda hermanna, ok þótti torfelt í mót at standa. Jarl mælti, ok kallaði af landi at skipamönnum: hvort er fóstri minn formaðr hers þessa? Svå er víst, segir hann. Eigi ætlaði ek, fostri! at þú mundir herja á ríki mitt, eða svå hit sama á ríki Gautreks konúngs, skal nokkut til undanlausnar, at friðr mætti verða, vil ek því allt til vinna, at þín sæmd væri þá meiri enn áðr, ok þikjumst ek vita, at konúngr mun svå vilja fyrir sitt efni, vilda ek at þú þægir af konúngi sæmdir,

ok lètir þú í náðum hans ríki, en ek veit, at mikilþægr muntu at vera, er þat eigi undarligt, þvíat ríkr jarl var móðurfaðir þinn, en faðir þinn öruggr kappi. Refr svaraði: þiggja skal ek góð boð, ef mèr eru boðin. Veit ek, segir jarl, at eigi mun þik með litlu mega tryggja, sè ek hvar hugr þinn mun áhorfa um þetta mál, þú munt vilja hafa jarlsríki, þat er ek hefi haldit af Gautreki konúngi, þarmeð muntu vilja, at konúngr gefi þèr dóttur sína. Refr svaraði: sjándi ferr þú, jarl! eptir um þetta, ok þessu mun ek játa, ef konúngr vill þetta samþykkja. Jarl mælir til konúngs: svâ sýnist mèr, sem þat sè ráðligra at taka þessa sætt, enn vèr hættim út lífi voru undir þessa heljarmenn, ok sè eigi ólíkligt, at þeir vinni fyrst ríki þetta, ok taki þá dóttur þína at herfángi, er þat ok hit sæmiligasta at gipta dóttur þína jarlbornum manni, en ek mun leggja til með Ref ráð mín, ok sè hann forstjóri fyrir ríki þínu, ok fari fram vill yðar um þetta mál. Gautrekr konúngr svaraði: jafnan hefir oss, jarl! vel dugat þín ráð, ok vil ek þína forsjá á hafa; lízt mèr ok ofrefli mikit, at eiga við her þenna. Jarl mælti: þannveg mun ek nú helzt setja ráðin, at láta Ref styrkja ríki þitt, ok hefja hann til ráðs. Síðan fór þetta fram með eiðum, ok skildi jarl fyrir allri sætt þeirra, ok fór Gautrekr konúngr heim. Refr mælti þá: nú hefir þú, Ólafr konúngr! veitt mèr mikit lið, skaltu nú fara leiðar þinn-

ar, hvort er þèr líkar. Ólafr konúngr svaraði: vitrir menn hafa hèr hlut at átt, sem þèr eruð. Síðan sigldi Ólafr konúngr á braut. Ok er flotinn var á brottu, þá mælti Gautrekr konúngr: hèr hefi ek átt við slæga menn um, en ekki mun ek nú rjúfa eiða mína. Þá mælti jarl til Refs: nú eru þínir menn einir eptir, ok máttu sjá, at hvörju liði ek hef þèr komit, ok er ráð þetta þèr hentiligt, má vera at þèr sè launaðr uxinn, þó hefi ek ófrarnar launat þèr, þvíat þú gafst mèr alla eigu þína, en ek á stóreignir. Eptir þetta lèt Gautrekr konúngr búa til veizlu, ok gekk nú Refr at eiga Helgu, dóttur Gautreks konúngs; þarmeð gaf Gautrekr konúngr honum jarls nafn, ok þótti hinn frægasti at öllum vaskleik, var ok ætt hans af tignum mönnum, en faðir hans enn mesti víkíngr ok kappi. Refr stýrði þessu jarls ríki, ok varð ekki gamall maðr. Jarl varð bráðdauðr, ok segir ekki í þessari sögu frá honum lengr. Lèt Gautrekr konúngr drekka erfi eptir hann, tók konúngr þá heldr at þýngjast fyrir aldrs sakir; var hann maðr ágætr at örleik sínum ok framgöngu, en eigi er þat sagt, at hann væri djúpvitr, en þó var hann vinsæll ok stórgjöfull ok enn hæverskligsti at sjá, ok lýkr hèr Gjafa-Refs sögu[1].

[1]) *þannig öll.*

# S A G A

AF

# HRÓLFI KONÚNGI GAUTREKSSYNI.

## Saga af Hrólfi konúngi Gautrekssyni.

ÞAR[1] hefjum vèr þessa sögu, er Gautrekr konúngr, son Gauta konúngs, rèð fyrir Gautlandi; hann var ágætr konúngr fyrir margra hluta sakir, vinsæll ok stórgjöfull, svå at hans mildi er jafnan viðbrugðit, þá er fornkonúnga er getit. Hann átti eina dóttur barna, ok gipti hann hana Gjafa-Ref Rennissyni[2] með ráði Nera[3] jarls. Í þann tíma hafði andazt drottníng Gautreks konúngs. Hann var þá hniginn á hinn efra aldr, ok var þó enn hraustasti. Konúngr sat jafnan á haugi drottníngar, þvíat honum þótti mikit fráfall hennar. Þá fór ríki hans mjök stjórnarlaust, meðan konúng ángraði mest fráfall drottníngar. Eptir þat beiddust vinir konúngs, at hann mundi kvænast, kvåðust helzt vilja hans afkvæmi til ríkisstjórnar yfir sèr, lètu þat líkligt, ef hann fengi sæmiligt ráð, at þat mundi þeim öllum til sæmdar ok lánggæðligra náða. Gautrekr konúngr tók

[1]) *Þ byrjar þannig í framhaldi fyrri sögunnar:* Gautrekr konúngr var mjök ágætr. [2]) Reinssyni, *C.* [3]) Neris, *C.*

þessu vel, ok kvað þá jafnan sýna ok sýnt hafa mikinn góðvilja við sik bæði í ráðum ok hraustligri fylgð; ok litlu síðar býr Gautrekr konúngr heiman ferð sína með 80 manna vel búna at vâpnum ok klæðum ok hinu fríðasta liði; vildi hann þessa ferð mjök vanda, eptir því sem virðíng hans sómdi. Þórir[1] er nefndr hersir einn ríkr í Noregi; hann hafði atsetu í Sogni; hann var virðíngamaðr mikill, ágætr, ok hit mesta mikilmenni. Hann var kvângaðr maðr; hann átti eina dóttur barna, er Íngibjörg hèt, hún var bæði vitr ok væn, ok þótti vera hinn bezti kostr, höfðu margir ríkir menn hennar beðit, ok hafði hún öllum afvísat, þvíat henni þótti sèr hvörgi fullkosta. Nú berr svâ til, at þar kemr Gautrekr konúngr með þessu sínu liði; var við honum þar tekit harðla vel; gekk Þórir í mót honum, ok bauð honum með sínu föruneyti svâ lánga dvöl, sem honum vel líkaði. Gautrekr konúngr þiggr þar veizlu fagra með enum beztu föngum ok viðtektum. Þar var kominn konúngsson einn utan orlöndum; sá hèt Ólafr; hann hafði við sèr hundrat manna. Þessi konúngsson hafði beðit Íngibjargar Þórisdóttur, en hún hafði því máli vel svarat, var þessi maðr úngr ok vænligr. Ok er Gautrekr spyrr þetta, gefr hann at því aungan gaum. Þá er hann hefir þar litla hríð dvalizt, kallar hann Þóri á tal við sik. Konúngr mælti: ek vil yðr

[1]) Þórðr, *allstaðar C.*

kunnigt gjöra mitt eyrindi; mèr er svâ flutt, at þú eigir, Þórir! dóttur væna ok vitra, er Íngibjörg heitir, ok þat hefir ek með mèr staðfest, at ek vil biðja hennar mèr til eiginkonu, ok staðfesta svâ við yðr vensl með vináttu. Þórir mælti: glöggva frètt hef ek af því, at þú ert mikilsháttar höfðíngi, ok því vil ek þínum eyrindum vel svara, þiki mèr líkligt, at mín dóttir sè vel gipt, þótt hún kæmi í yðra forsjá, en svâ er mál með grenni, at hèr er kominn einn konúngsson úngr ok vænligr, sá er Ólafr heitir; hann hefir áðr vakit bónorð við dóttur mína, ok við höfum þar nokkurar stefnur at átt, nú mun ek þessum vanda víkja af mèr, ok láta hana sjálfa kjósa sèr mann til handa, [hefir hún þess beðit mik áðr[1]. Báðum konúngum líkuðu vel þessi andsvör. Litlu síðar gengu þeir allir saman með vinum sínum til skemmu Íngibjargar, ok er hún sá föður sinn með þessum tveimr höfðíngjum þar kominn, heilsaði hún þeim öllum með blíðu, ok bað þá at sitja. Þórir tók þá til orða: svâ er mál með vexti, dóttir! at hèr eru komnir með mèr á þinn fund þessir tveir konúngar, sem mátt þú líta; er ok eitt eyrindi beggja þeirra, at báðir vilja biðja þín. Nú með því at hèr mun sannast hit fornkveðna, at eigi má gjöra tvo mága at einni dóttur, þá vil ek nú at þú kjósir þèr hlut til handa, hvorn þeirra at þú vilt eiga, bið ek at þú veitir þeim skír

[1]) *v. í C.*

andsvör, ok þann órskurð, at þèr sè heyriligr, ok oss megi öllum vel gegna. Íngibjörg svaraði: svâ lízt mèr, sem þetta sè meira vandamál, enn þat sè mín eða annarrar þeirrar konu, er eigi er meir reynd at viti enn ek, at skipa þessu máli með skinsemd, eða víst sè, at ek kynni þetta kjósa fyrir mína hönd, svâ sem mèr henti, þvíat mèr þiki mikil líkindi til standa, at hvorttveggi þessi konúngr sè mikilsháttar, ok mèr miklu meiri enn fullboðinn, í hvors þeirra umsjá er ek kem, en með tilteknum dæmum má ek helzt þetta enda: svâ má ek helzt tiljafna þessum konúngum tveim, sem standi tveir apaldar í einum garði, ok er annar úngr ok alllíkligr til, at þar á vaxi mörg stór epli ok sæt[1], þann tíma er hann hefir fullan aldr síns tíma, ok merkir sá Ólaf konúng: þar í hjá er annar apaldr, sá er stendr með margkvísluðum limum á sèr, berandi alskonar epli; sjá apaldr merkir stjórn ok ríki Gautreks konúngs, er lengi hefir stjórnat sinn ríki með örleik ok sóma, ok stendr hans ráð allt í fullum tíma, er oss hans hreysti ok örleikr í hvörn stað kunnari; ok þóat svâ beri til, at hans ríkisstjórn þrjóti fyrr af sökum náttúru aldrs, þá má þó vera, at hann geti þá hrausta sonu, ok er þá gott við þá at una, þótt konúngs missi við. Nú þótt Ólafr sè maðr ýngri, ok sè líkligr til höfðíngja, þá er íllt vísu von at kaupa, ok

[1]) sáð, C.

vef ek eigi lengr þetta mál at sinni, ok kýs ek mèr til yndis ok samlaga Gautrek konúng, þótt ek vissa þat fyrr, at hann lifði fá ár, en Ólafr yrði gamall sem steinabrú, þvíat þat er mitt hugboð, at hann verði aldri slíkr höfðíngi, en allra helzt, ef hann lifir litla hríð. Viðr þessi orð meyarinnar verðr Gautrekr konúngr harðla glaðr, ok sprettr upp þegar svâ sem einn úngr maðr, tekr í hönd meyunni, ok festir hana, Ólafi konúngi hjá veranda. Af þessu varð Ólafr konúngr harðla reiðr, ok kveðst þessa hefna skyldu á Gautreki konúngi sjálfum ok hans liði. Gautrekr konúngr kvað [eigi þann líkan til böl at bera, er eigi mætti[1] bregða[2], ok skildust þeir við svâ búit; fór Ólafr konúngr á braut með sínu liði, ok var hinn reiðasti.

2. Nú er Gautrekr konúngr hefir dvalizt þá stund, er honum vel líkaði, býst hann til heimferðar með Íngibjörgu, konarefni sitt, þvíat hann vildi heima í Gautlandi drekka brúðlaup sitt. Þórir leysti dóttur sína út með mikilli rausn, lèt fylgja henni út [mikit gull ok silfr[3]. Snýr Gautrekr konúngr heim á leið með sínu föruneyti, ok er þeir koma fram hjá skógi nokkrum um dag, kemr þar Ólafr konúngr í móti honum með sínum mönnum; tekst þar með þeim en harðasta orrosta. Ok er þeir höfðu barizt um hríð, mælti Ólafr konúngr: viltu[4], Gautrekr kon-

[1]) þann böl bera, er hamíngjan, *C*. [2]) hataði, *C*; draga, *V*.
[3]) *v í A*; *b. v. C*. [4]) veiztu, *C*; vit þú, *V*.

úngr! at ek gjöri þèr kost á, at hjálpa lífi þínu, ok gef þú upp meyna í mitt vald, ok öll þau gæði, er henni fylgðu heiman, ok skaltu þá fara í friði, hvört er þú vill, þvíat eigi hæfir svâ gömlum karli, at vâlka svâ væna mey, máttu nú með þessu einu þiggja þik frá dauða. Sem Gautrekr konúngr heyrði orð hans, mælti hann: þótt ek hafa lið færra enn þú, þá skaltu finna, at þessi hinn gamli er óragr, áðr kveld komi; var Gautrekr konúngr þá svâ ákafr, at hann gekk optliga í gegnum fylkíng Ólafs, ok lètti aldrei fyrr, enn Ólafr var fallinn, ok allt lið hans; en Gautrekr konúngr fèkk sigr, ok hafði fengit lítinn mannskaða. Síðan lèttir hann eigi fyrr ferð sinni, enn hann kemr heim í Gautland, ok hafði mjök aukizt hans frami í þessari ferð; ok er hann hafði litla hríð heima verit, lætr hann stofna veizlu mikla, býðr til öllu stórmenni í landinu, ok drekkr hann enn hit sterkasta festaröl til Íngibjargar, ok at því afliðnu velr hann sæmiligar gjafir öllum ríkismönnum, þeim sem hann höfðu heimsótt, ok óx mjök í þessu hans frami; takast svâ með þeim góðar ástir, ok sitja nú um kyrt at ríki sínu. Ok eigi miklu síðar getr Gautrekr barn við konu sinni; þat var sveinbarn, ok var færðr konúngi. Hann lætr þann svein ausa vatni ok gefa nafn, ok skal hann Ketill heita; hann óx þar upp með hirðinni. Þrimr vetrum síðar fæddi Íngibjörg annan svein, hann var mikill ok vænligr, er sá

nefndr Rólfr. Voru þessir sveinar tígugliga uppfæddir, sem konúngssonum hæfði; en á sinn hátt var hvorr þeirra bræðra. Ketill var manna minnstr ok enn skjótligasti, háfaðamaðr, framgjarn ok hvatvíss ok fullr áræðis ok enn áleitnasti; hann var kallaðr Ketill kregð, þvíat hann var svâ lítill. Rólfr var manna mestr ok sterkastr, fríðr sýnum; hann var fámálugr, fastorðr ok óframgjarn, ok þótt í móti honum væri gjört eðr mælt, lèt hann fyrst, sem hann vissi eigi, en nokkru síðar, þá er aðra varði sízt, hefndi hann grimmliga sinna mótgjörða, ok þótt nokkrir þeir lutir væri fyrir honum talaðir, er honum varðaði, gaf hann eigi gaum at fyrst í stað, en stundu síðar eða nokkrum vetrum, svâ sem hann hafði huxat útveg á því máli, þá bar hann þat upp, hvort sem honum var þat með eða mót, varð þat þá fram at gánga, sem hann vildi vera láta. Hann var vinsæll af alþýðu, unnu menn honum ok mikit. Líðr nú svâ fram, þar til at Ketill var 10 vetra, en Rólfr 7 vetra.

3. Í þann tíma reð sá konúngr Danmörk, er Hríngr hèt; hann var ríkr konúngr ok vinsæll. Hann átti sèr drottníngu væna ok vitra. Þau áttu einn son, er Íngjaldr hèt; hann var úngr ok hinn efniligasti. Með þeim Hríngi konúngi var mikil vinátta ok Gautreki konúngi með veizlum ok fègjöfum ok margri konúngligri tign, er hvorr veitti öðrum, meðan þeirra

vinátta stóð; höfðu þeir jafnan verit báðir saman í hernaði, meðan þeir voru ýngri, ok skildu aldrei sína vináttu, meðan þeir fundust jafnliga, en nú tók heldr at greinast[1] af meðalgöngu vondra manna, þeirra er róg kveiktu í millum þeirra; kom þá svâ, at hvârttveggi bjóst at stríða, hvorr við annan. Þat var einn tíma at Hríngr konúngr í Danmörk kom at máli við drottníngu sína: þat er sem þú veizt, at mèr er svâ flutt, at Gautrekr konúngr ætli at stríða á ríki vort, en þess er ek eigi víss orðinn, hvat hann gefi oss at sök. Nú ætla ek hitt ráðligra, at verða fyrr at bragði, því at þat er mælt, at sá hafi annan undir, er áræðr; veit ek ok eigi, hvört hann er sannr þeirra vèlræða, sem mèr er af honum flutt. Drottníng mælti: óvitrliga talar þú: þar sem þú veizt áðr, at þið hafið verit hinir beztu vinir, at þú trúir svâ rógi vondra manna, at þú vilt halda stríð við Gautrek konúng, ok er þetta all ókonúngligt bragð at vilja fyrirkoma sínum fóstbróður, ok þótt því sè at skipta, láttu hann heldr níðast á þèr, enn þú gjörir honum nokkra meingjörð, svâ at þú missir fyrir þat konúngs vináttu; gjör svâ vel, herra! at eigi finnist í þínu brjósti sú greymenska, at þèr villð svâ niðrfella ok undir fótum troða svâ marga góða hluti, sem hvorr ykkar hefir við annan gjört; haldið, herra! við Gautrek konúng með prýði ok drengskap upp-

[1]) grynnast, C.

teknum góðvilja með ást ok fullkomnum friði; ok týn eigi, fyrir vondra manna orðróm, svâ góðs manns vináttu, hefir hann fengit svâ vitra konu ok góðfúsa, at allan ykkarn fèlagskap mun hún samandraga, ok í lag færa þat sem áfátt er. Gautrekr konúngr á ok svâ þroskaliga sonu, at þeir munu þess skjótt hefna, ef feðr þeirra er nokkut misboðit; herra! haf heldr þat ráð, er ek kenni yðr, farið sjálfir á einu skipi með hinu vitrasta yðru ráðuneyti á fund Gautreks konúngs; bjóð heim til fóstrs með þèr Rólfi, syni hans, má þèr at honum verða æfinligr styrkr ok þínu ríki, ef þeir vilja þekkjast, ok öllum oss útífrá til veraldligrar sæmdar. Sem drottníng lauk sinni ræðu, þótti konúngi hún hafa vel talat ok vitrliga, ok kveðst eigi skyldu ónýta hennar ráðagjörð; lætr nú búa ferð sína svâ sem drottníng gaf ráð til. Síðan ferr hann sem hann verðr búinn, ok kemr við Gautland með heilum sínum varnaði. Ok er Gautrekr konúngr frèttir kvomu hans, kallar hann Íngibjörgu drottníngu á tal við sik, ok mælti: mèr er svâ flutt, at kominn sè í ríki vort með einu skipi Ríngr konúngr af Danmörk; nú meðr því at þèr vitið áðr, hvorr fjandskapr oss hefir verit fluttr af honum til vor, þá skal ek nú þat allt gjalda honum, áðr við skiljum; er hann nú ok svâ fállinn í greipar mèr, at ek má þetta vel

gjöra fyrir utan alla mannhættu. Sem drottníng heyrði orð hans, mælti hún til konúngsins á þessa leið: lítil vizka fylgir þessu yðru orðaframkasti, ef þú vill gjöra Ríngi konúngi nokkut til ángrs, þarsem kalla má, at hann sè kominn á yðvarn fund, svâ sem væntandi sèr sæmdar af yðr ok góðvilja, sem þið hafið áðr saman bundit með ykkr; mátt þú á þat líta, at Ríngr konúngr væri eigi hèr kominn með svâ litlu liði, utan hann tryði þèr jafnvel sem fyrr, ok mun hann vera loginn á því, er þèr er í móti; nú er þat mín tillaga: sendið menn á fund hans, ok bjóð honum hèr at drekka við öllu sínu föruneyti fagra veizlu, gjör þik við hann glaðan ok kátan; ok svâ sem hann er kominn í hall þína við sínum mönnum, leita eptir með athugasamligri vizku, ef þú finnr hann í nokkru sakaðan þeirra hluta, sem varðar, ok ef nokkur grein finnst ykkar í milli, leggið þat allt niðr með enna beztu manna ráði, ok haldið síðan ykkar fóstbræðralag fyrir utan alla grein, meðan þið lifið báðir. Sem konúngr heyrði tillög drottníngar, lèt hann orka til prýðiligrar veizlu, bíðr þángat fyrst at upphafi Ríngi konúngi við öllu sínu föruneyti, ok þarmeð kallar hann til þessarar veizlu marga aðra ríka menn ok vitra, þá er konúngr vildi ráð af þiggja. Sem konúngar sátu, ok glaðir voru í hallinni, inntust þeir til, hvorr spilt hefði

þeirra vinfengi, ok sem þeir viðkendust, at þeirra í milli fannst engi óþyktargrein með sönnu, ok þeir báðir fundu, at þetta var róg ok illr orðadráttr vondra manna, endrnýuðu þeir af upphafi sína vináttu með því upphafi, at Ríngr konúngr býðr Rólfi Gautrekssyni til fóstrs, ok svá sem Gautrekr konúngr þiggr þetta með blíðu, býst Ríngr konúngr til heimferðar, ok Rólfr með honum, útleystr með virðuligum gjöfum, ok þótti nú báðum konúngum vel hafa tiltekizt; skildu nú konúngar með kærleik ok blíðu, ok hèldu allan tíma, meðan þeir lifðu. Fór Rólfr til Danmerkr meðRíngi konúngi; veitti konúngr honum hit ágætasta fóstr; konúngr fèkk honum þann meistara, er beztr var á Norðrlöndum, ok kendi honum allar íþróttir[1], þær er vaskir menn ok hraustir girntust at nema í þann tíma. Með þeim Rólfi ok Íngjaldi tókst hin mesta vinátta, ok gjörðust þeir fóstbræðr; vaxa þeir nú upp í Danmörk, ok gjörist Rólfr enn mesti afburðarmaðr umfram aðra menn, bæði á afl ok vöxt. Ketill óx upp í Gautlandi með feðr sínum, ok var manna minnstr vexti ok hinn kviklátasti; þó var hann ekki mjök við lyndi Gautreks konúngs sakir háfaða ok kappgirni.

4. Sá konúngr rèð fyrir Svíþjóð, er Ei-

[1]) ok riddaraskap, *b. v. B, V.*

rekr hèt; hann átti sèr eina drottníngu vitra ok velsiðuga; þau höfðu átt eina dóttur barna, sú er Þornbjörg hèt; hún var hvörri konu vænni ok vitrari, þeirra er menn vissu; hún fæddist upp heima með feðr sínum ok móður; svâ hafa menn sagt af mey þessari, at hún var hvörri konu kænni, þeirri er menn höfðu spurn af, um allt þat er til kvennmanns handa kom, þarmeð vandi hún sik burtreið, ok skilmast með skjöld ok sverð; hún kunni þessa list jafnframt þeim riddurum, er kunnu vel ok kurteisliga at bera vopn sín. Eireki konúngi líkaði eigi vel, er hún hafði þessa framferð sem karlar, ok bað hana hafa skemmusetu sem aðrar konúngadætr. Hún svaraði: nú með því, segir hún, at þú hefir eigi meir enn eins manns líf til ríkisstjórnar, ok ek er nú þitt einberni, ok á ek allan arf eptir þik, má vera at ek þurfi þetta ríki at verja fyrir konúngum eða konúngssonum, ef ek missi þín við, er eigi ólíkligt at mèr þiki íllt at vera þeirra nauðkvân, ef svâ berr til, ok því vil ek kunna nokkurn hátt á riddaraskap, þiki mèr þá líkara, at ek fái haldit ríki þessu með styrk ok trausti góðrar fylgðar; ok því bið ek þik, faðir! at þú fáir mèr nokkut af ríki þínu til forráða, meðan þú ert á lífi, ok reyna ok svâ stjórn ok umsjá þeirra manna, sem í mitt vald eru fengnir; er þat enn í þessu máli, ef nokkrir menn biðja mín, sem ek vil ekki játa, þá er

líkara at ríki yðvart sè í náðum af þeirra ofsa, ef ek held andsvör í móti þeim. Konúngr hugsar nú orð meyarinnar, finnr þat at hún var ráðgjörn ok stórlát, þótti honum eigi ólíkligt, at hann ok ríki hans fengi ónáðir af hennar ofsa ok kappgirnd, tekr þat ráðs, at hann fær henni til forráða þriðjúng af ríki sínu; þarmeð eflir hann henni atsetu, sem á Ullarakri heitir, þarmeð fær hann henni til fylgðar harða menn ok hrausta, þá sem henni voru hlýðnir ok eptirlátir at gjöra vilja hennar. Sem hún hafði þetta alltsaman þegit af feðr sínum, ferr hún á Ullarakr. Síðan stefnir hún þíng fjölment, ok lætr taka sik til konúngs yfir þriðjúng Svíaveldis, sem Eirekr konúngr hafði játat henni til forráða; þarmeð lætr hún gefa sèr nafn Þorbergs; skyldi ok engi maðr svâ djarfr, at hana kallaði mey eða konu, en hvörr, er þat gjörði, skyldi þola harða refsíng. Síðan gjörir Þorbergr konúngr bæði riddara ok hirðmenn, ok gefr þeim mála á einn hátt ok Eirekr konúngr á Uppsölum, faðir hans. Stendr nú Svíaveldi með þessi skipan nokkura vetr.

5. Nú er þar til máls at taka, at Gautrekr konúngr á Gautlandi tekr sótt. Hann kallar drottníngu sína til máls við sik, ok þarmeð aðra ríkismenn, ok segir þeim: svâ er mál með vexti, at ek hefi nokkura þýngð tekit; nú með því at ek em hniginn mjök á aldr, þá er líkligt, at ek taka eigi fleiri sóttir, vil ek öllum mönn-

um þakka með fögrum orðum fylgð ok fèlagskap, er þèr hafið mèr veitt, en þat er, sem þèr vitið, at ek á tvo sonu til arfs eptir mik, er annar hèr með oss, en annar er í Danmörk með Ríngi konúngi; er þat hèr landslög[1], at enn ellri konúngsson taki ríki ok konúngdóm eptir feðr sinn; nú vil ek eigi brjóta lög á Katli, syni mínum, með einræði mínu eða á yðr landsmönnum, en þó vil ek biðja yðr alla saman, at sá taki ríki eptir mik, sem mèr þikir betr tilfallinn. Þeir kváðust gjarna vilja athlýta hans forsjá, sögðu sèr þat hafa jafnan vel dugat, ok kváðust eigi vilja brjóta hans ráð en síðustu, þar sem þeir hefðu haft hvert áðr, ok hafi þeim stórliga vel dugat. Konúngr segir þá, at hann vill at Hrólfr taki konúngdóm, lèzt þess vænta at hann mundi verða ágætr maðr ok góðr forstjóri sínum mönnum. Konúngr bað, at Ketill lèti sèr þat vel líka. Ketill kvaðst eigi ágjarn til ríkis, ok þótti allvel komit, þótt Rólfr tæki. Eptir þat þökkuðu þeir ágætan frið ok góðar náðir, er þeir höfðu lengi af hans herrasamligri stjórn ok konúngligu tilstilli. Eptir þetta skipar konúngr því, sem honum þikir varða; ferr þá síðan hvörr til síns heimilis, en þeir sátu yfir konúngi, sem til þess voru fengnir. Líða nú eigi lángar stundir, áðr þessi sótt hefir konúng í helju. Þetta þótti drottníngu mikill skaði, ok þar með allri landsbygðinni; var hann mjök harmdauði

[1]) lög, C.

allri landsbygðinni, því at engi konúngr hafði verit ástsælli sakir örleiks ok umhyggju Eptir þat var hann heygðr eptir fornum sið. Sem eigi liðu þaðan lángar stundir, býr drottníng ferð sína með vegligu föruneyti, lèttir eigi fyrr þessari ferð, enn hún kemr í Danmörk á fund Ríngs konúngs, berr upp fyrir konúng þann harm ok skaða, sem hún hafði beðit í fráfalli Gautreks konúngs. Hún segir honum alla þá tilskipun, sem Gautrekr konúngr gjörði, áðr hann fór at deyja. Sem konúngr hafði heyrt þessi tíðindi, fannst honum mikit um fráfall síns fóstbróðurs, Gautreks konúngs, biðr hann at Íngibjörg drottníng dvelist með honum svâ lángan tíma, sem henni vel líkar. Drottníng svaraði: til annars höfum vèr vora ferð gjört, enn dveljast í yðru ríki, en ef þèr vilið nokkut gjöra vorn sóma, þá bið ek, herra! at þèr farið í Gautland at voru boði með Rólfi, fóstra þínum, ok gjörist hann þar konúngr með þinni umsjá, svâ sem Gautrekr konúngr gjörði ráð fyrir, ok þarmeð vil ek at þú drekkir erfi eptir Gautrek konúng eptir fornum siðvana. Konúngr lèzt gjöra mundu, sem hún beiddi; ok eigi miklu síðar lyptir konúngr sinni ferð við fríðu föruneyti, lèttir eigi fyrr, enn hann kemr í Gautland, ok Íngibjörg drottníng með honum, ok Rólfr, son hennar; stendr þar fyrirbúin veizla virðulig, skipuð af mörgum ríkismönnum í landinu. Var nú drukkit erfi Gautreks kon-

úngs; ok at þessari veizlu er stefnt þíng fjölment. A því þíngi er Rólfr til konúngs tekinn með ráði Ríngs konúngs ok samþykki allrar alþýðu í öllu Gautlandi. At þessu öllu fylltu ok framkomnu, ferr Ríngr konúngr heim til Danmerkr, útleystr með sæmiligum gjöfum. En Rólfr tekr til ríkisstjórnar, semr lög ok landsrètt eptir sínum vilja, gjörðist hann þegar vinsæll af sínum mönnum; hann var stjórnsamr ok stórgjöfull svâ sem faðir hans. Þá var hann 12 vetra, er hann tók ríkisstjórn eða höfðíngskap með konúngdómi. Ketill, bróðir hans, var með honum, en Íngjaldr, fóstbróðir konúngs, var í hernaði á sumrum, en hafði jafnan vetrsetu í Gautlandi með Rólfi konúngi. Líðr nú svâ fram, þar til er Rólfr var 15 vetra.

6. Svâ er sagt, at þat var einn tíma, at þeir bræðr talast við, spurði Rólfr konúngr, hve líkliga Katli þótti á horfa um ríkisstjórn eða höfðíngskap. Ketill lèt vel fyrir flestra hluta sakir. Rólfr konúngr svaraði: ok því at þú hefir grein í þessu máli, þá ertu skyldr at segja mèr, hvörs þèr þikir áfátt, þat mèr er sjálfrádt. Ketill svarar: vel má ek finna þann hlut, er mèr þikir vanta yðra heill[1], þú ert maðr ókvændr, ok mundir þú þikja miklu gildari konúngr, ef þú fengir þèr kvânfáng við þitt hæfi. Konúngr mælti: hvar skal ek þess orka? Ketill svaraði: þá mundi yðar sæmd vaxa, ef þèr

[1]) vegna, C.

bæðið þeirrar konúngsdóttur, er bæði er hyggin ok forsjál, en mèr þikir vís von, hvar sem þú vill atvíkja, at þèr mun eigi frávísat. Konúngr svarar: ekki býr mèr þat í skapi svâ búit, er land þetta lítit, ok mun öngum þikja slægr til vors ríkis, eða hvar horfir þú helzt á um þetta mál, frændi! Ketill svaraði: þat hef ek frètt, at Eirekr konúngr í Svíþjóð á sèr dóttur væna ok vitra, þá er þornbjörg heitir, hefi ek svâ frètt, at eigi muni fást slíkr kostr híngat á Norðrlönd fyrir allra hluta sakir, þeirra er kvennmann má prýða, en hún hefir suma hluti til jafns við hrausta riddara; þat er burtreið ok at skilmast við skildi ok sverði, þat hefir hún umfram allar konur, þær ek hefi spurn af. Eirekr konúngr, faðir hennar, er ágætr fyrir ríkdóms sakir ok margra hluta annarra, þeirra er frægan konúng má prýða. Hrólfr konúngr svaraði: ekki berum vèr (áræði) til slíkra hluta; er slíkt meir talat af ákefð enn forsjá, sem þik hendir stundum, frændi! er þat íllt, at ætla sèr á dul, er vonarlaust er, at hann fái risit með, lízt mèr svâ, þótt ek fara at biðja dóttur Eireks konúngs á Svíþjóð, sem þú vildir, þá þikjumst ek vita, at mèr mundi synjat konunnar, ok eigi ólíkligt, at ek fengi nokkur orð hæðilig, ok yrði ek at þola þat allt, með því ek hefði engi föng á at hefna sakir ríkis konúngsins, ok munda ek við svâ búit þessu una all-

illa. Ketill kvað ekki svâ fara mundu: skortir oss ekki her af Danmörk ok Gautlandi at herja á Eirek konúng, ef hann synjar þèr mægðar. Rólfr konúngr mælti: ekki þarf slíkar glósur fyrir mèr at gjöra, þvíat ek þikjumst sjá, hvörsu þetta mundi fara, þótt freistat væri. Þetta fór enn sem annat eptir skaplyndi Rólfs konúngs, at hann gaf at þessu aungan gaum, ok lèt líða hjá sèr sem margt annat, þat sem honum var tjáð, ok eigi vissi atnær, hvat honum bjó í skapi; tók hann þá til þess jafnan síðan, er öðrum var or minni liðit. Líðr svâ fram nú um hríð, at þeir fóstbræðr sátu ýmist í Danmörk eða Gautlandi, en herjuðu jafnan á sumrum, ok fengu of fjár, ok voru hinir hraustustu bardagamenn, svâ at ekki stóð við þeim, urðu þeir harðla víðfrægir af sínum fremdarverkum, kunnu allir náliga þeirra nafn. Svâ er sagt frá Rólfi konúngi, at hann var allra manna mestr ok sterkastr, hann var svâ þúngr at aungum hesti mátti hann ríða allan dag út, svâ at eigi kafnaði, eðr sprýngi undir honum, ok varð jafnan at skipta við hann. Rólfr konúngr var manna vænstr ok kurteis ok at öllu velskapaðr, hærðr manna bezt, breiðleitr ok mikilleitr, eygðr manna bezt, ok fögur augun ok snör, miðmjór ok herðimikill ok manna bezt á sik kominn, ok at öllu enn hæverskasti, hvörjum manni betr vígr ok at öllum íþróttum búinn umfram hvorn annan, þann er honum var samtíða á

Norðrlöndum; manna var hann vinsælastr. Rólfr konúngr var vitr maðr ok í öllu forsjáll, skinugr ok glöggþekkinn, gjörðist hann brátt víðfrægr af sínum höfðíngskap bæði nær ok fjærri. Þat var eitt vor, er Ketill spurði, hvat Rólfr konúngr ætlaði at athafast um sumarit. Hann svaraði: mun eigi ráðligt at fara til Svíþjóðar, ok leita mægða við Eirek konúng, svâ sem þú talaðir fyrr. Ketill mælti: undarligt er yðvart lyndi, þèr látið fyrst hjá yðr líða, þat er talat er, ok gefit aungan gaum at þá í stað, þó yðr sè þat í hug, þá minnist þèr á þat síðan, ok látið þá sem nýmælt sè, þá er margir vetr líða; er mèr samt í hug sem þá, ok er ekki at fresta. Konúngr mælti: hefir þú nokkut frètt af þessari mey? Ketill svarar: með öllu ekki annat, enn þat sem ek hefi þèr áðr afsagt. Konúngr mælti: frètt hefi ek at hún er bæði vitr ok væn, ok svâ er mèr flutt, at svâ sè hún stór ok stolt, at hún vill, at engi maðr kvennkenni hana, ok hún sè tekin til konúngs yfir þriðjúng Svíþjóðar, ok hennar atseta sè á Ullarakri, ok haldi þar hirð sem aðrir konúngar; heyrt hef ek þat ok sagt, at hennar hafi beðit nokkrir konúngar, ok hafi suma látit drepa, suma hafi hún látit klækja[1] á einhvörn hátt, suma blinda, gelda, handhöggva, eðr fóthöggva, en valit öll orð hæðilig með svívirðu; ok vill hún svâ afvenja, at þess-

[1]) hneykja, *C*; merkja, *V*.

ara mála sè leitat; sè ek ok at þessi ferð mun hefjast mjök tveim stofnum, því ef vèr fáum þetta ráð fengit, mun oss í aukast frami í ferð þessari, hitt elligar, at vèr munum fá af þessari ferð skömm ok sneipu ok æfinligt athlægi. Ketill mælti: litlir eruð þèr margir brjósti, þótt þèr sèið gildir samanreknir, ok er yðr þat mikil athlægi, at treystast varla at flytja við einn kvennmann eyrindi, vænti ek ok þess, því meira dramb sem hún hefir á sik dregit, at því vesalligar falli hennar ofstæki, þegar sá tími er kominn, er þar verðr endir á. Rólfr konúngr mælti: nú með því at þú frír hugar um ferð þessa, þá vil ek senda þik til Danmerkr eptir Íngjaldi, fóstbróður mínum, vil ek at hann fari þessa ferð með mèr. Síðan hættu þeir tali sínu; býr Ketill ferð sína til Danmerkr. Íngjaldr bregðr við skjótt, ok ferr á fund Rólfs konúngs. Konúngr fagnar honum vel, ok segir honum sína fyrirætlan. Íngjaldr tekr vel, lèzt vænta með konúngs hamíngju, at góðan enda mundi eiga þeirra eyrindi um þat er lyki, þótt nokkut seinkaðist Rólfr konúngr segir Katli, bróður sínum, at hann skal vera heima ok gæta ríkis. Ketill mælti: þèr munuð ráða, herra! en undra ek at þèr kallið mik þat ómannan, at ek sè eigi hæfr í yðru föruneyti. Konúngr mælti: eigi skaltu svâ virða, bróðir! því at þá skaltu fara þessa ferð, ef vèr þurfum við nokk-

urra harðræða, en vèr munum þessara mála leita fyrst með hógværi ok góðu þoli, ef þess er kostr. Var Ketill eptir enn nauðugasti, ok kvað þeim fyrir þat illa farast mundu. Lyptir Rólfr konúngr ferð sinni, ríðr heiman við 60 manna; var þetta lið mjök valit bæði at mannvirðíng ok skartsamligum búnaði klæða ok vopna; ríða síðan sem leið liggr, lètta eigi fyrri sinni ferð, enn þeir kvomu til Uppsala.

7. Nú er þar til at taka, sem Eirekr konúngr er; hann átti sèr drottníngu vitra ok væna; hún hendi mikit tal af draumum; hún hèt Íngigerðr. Þat var eina nótt, er drottníng vaknaði í sæng sinni; hún talar við Eirek konúng, ok mælti: ek mun hafa illa látit í svefni. Svâ er, segir konúngr, eða hvat dreymdi þik? Hún svaraði: úti var ek stödd, ok þóttumst ek lítast um, en því brá við, at sá um alla Svíþjóð, ok miklu víðara; ek sá upp til Gautlands, ok svâ gjörla at ek sá þaðan renna vargaflokk mikinn, ok híngat þótti mèr þeir stefna á Svíþjóð, en fyrir vörgunum fór hit óarga dýr; þat var harðla mikit; þar fór eptir hvítabjörn, þat var rauðkinnr; bæði þóttu mèr dýrin slèttfjölluð ok kyrlig, ok láta ógrimmliga, en þat þótti mèr með ólíkendum, hvörsu skjótt híngat bar dýrin, eða hvörsu gjörla ek þóttumst þau sjá, ok eigi þótti mèr færra saman enn 60; ek þóttumst vita, at þau mundu híngat ætla til Uppsala;

ek þóttist kalla á þik, ok segja þèr til, ok í því vaknaða ek. Konúngr mælti: frú! segir hann, fyrir hvörju ætlar þú slíkt vera? Hún svaraði: þarsem sá varga, þat eru manna fylgjur, en þarsem hit óarga dýr fór fyrir, þat er konúngs fylgja, ok mun hann vera formaðr hinna; rann í hjá honum einn hvítabjörn, þar mun þessum konúngi fylgja nokkur kappi eðr konúngsson, þvíat björninn er sterkr, ok merkir hann sterka fylgð, ok þiki mèr mikil vân, at yðr sæki heim nokkur ágætr konúngr; var þetta dýr miklu meira ok sterkara, enn ek hafi spurn af, at svâ mætti verða. Konúngr mælti: hvaðan ætlar þú þenna konúng at koma, eða hvörsu skaðvænliga þiki þèr þetta vera munu voru ríki. Drottníng mælti: skylda ek nokkut um ætla, þá vænti ek, at þessi konúngr fari með aungri stríðu í þetta sinn, þvíat þessi dýr voru hýr, en ef ek skyldi geta til, þá er þat mín ætlan, at þetta hit mikla dýr muni vera fylgja Rólfs konúngs Gautrekssonar af Gautlandi, með því at þaðan runnu þessi dýr at, en hvítabjörninn get ek vera fylgja Íngjalds, fóstbróður hans. Konúngr mælti: hvat mun kappinn Rólfr vilja híngat á vorn fund? Drottníng mælti: or slíku öllu verðr gátu at gjöra svâ búit, en með því dýrin voru hýr í viðbragði, get ek at þeir fari með friði ok góðum hug til vor, þætti mèr líkast, at Rólfr konúngr mundi

hafa þat eyrindi, sem margir hafa áðr haft, at biðja Þornbjargar, dóttur yðvarrar, er hún nú frægust kvenna híngat í Norðrlönd. Konúngr mælti: ekki kann ek Hrólfi at ætla þessa dul eða öðrum þeim konúngi, er svâ litlu ríki stýrir, þarsem áðr hafa beðit hennar þeir konúngar, er haft hafa undir sik aðra skattkonúnga, ok far ekki, frú! með slíka draumóra! Drottníng mælti: eigi tekr til þess nema þurfi, hvat ek ætla um þetta. Konúngr mælti: hvörsu skal ek gánga í móti Rólfi konúngi, ef hann kemr hèr, eða taka hans máli, ef hann ferr þessara eyrinda? Hún svaraði: vel skulu þèr taka Rólfi konúngi, ef hann sækir yðr heim, ok sýna honum ena mestu blíðu, því hann er hinn mesti afreksmaðr um marga luti, ok eigi víst at yðar dóttir fái frægra mann, enn sem mèr er hann sagðr. Ok eptir þetta skilja þau sitt tal at sinni; líða nú nokkrir dagar.

8. Nú er sagt Eireki konúngi, at kominn sè í staðinn Rólfr konúngr Gautreksson með 60 manna. Konúngr fèkk menn til at bjóða honum til veizlu í höll sína. Sem Rólfi konúngi komu þessi orð, ferr hann á konúngs fund, ok var honum tekit vel ok sæmiliga, en með öngri blíðu eðr ölværð, var honum skipat í öndvegi á enn óæðra bekk; komu þeir síð dags. Voru þá tekin borð ok vist, ok drykkr inn borinn; ok er þeir höfðu drukkit um hríð, voru margir vel kátir. Rólfr konúngr var heldr

hljóðr ok fátalaðr. Eirekr konúngr orti orða á hann, ok spurði tíðinda af Gautlandi eða annarstaðar, þarsem hann hafði frèttir. Rólfr konúngr sagði með öllu tíðindalaust af Gautlandi. Eirekr konúngr mælti: en hvör eru eyrindi yðar híngat til vor Svíanna, er þèr ríðið um hávetr með margmenni? Rólfr konúngr svaraði: vèr höfum verit sjálfráðir ferða vorra hèr til, hvörsu sem þat berr til hèðan af, hvort sem vèr höfum farit á skipum eðr hestum; en þar sem þèr spyrìð at eyrindi voru, þá höfðu vèr ætlat at bera þau fram í meira tómi; en nú þar sem þú frèttir at, þá ætla ek at vèr þurfum þeim eigi at fresta, þvíat satt er þat mælt, er aptans bíðr ófróm sök; er þat eyrindi mitt híngat, at ek mæli til mægða við þik, en til samfara við Þornbjörgu, dóttur þína, vildu vèr nú skjótt heyra skír andsvör voru máli. Eirekr konúngr svaraði: kann ek glensyrðum yðrum Gautanna, at þèr talið margt kátligt, þá er þèr drekkið, ok má þat eigi allt marka, man ek vera nærgætr yðr Gautunum, ok yðru eyrindi. Mèr er sagt, at þar sè hallæri mikit með yðr Gautum, berr þat mjök til, at Gautland er óvítt[1] ok lítit aftektum, en mannfjöldi mikill. Þèr fæðið jafnan mikinn her á yðrum kostnaði, ok eruð örlátir ok góðir af yðru, meðan til er; nú þikjumst ek vita, at þèr mun þikja mjök atskorpna; ok munu þèr því hafa heiman farit,

[1]) ónýtt, C.

at yðr mun þikja íllt at þola sult ok harðrètti; þat er ok mikil vorkun, at slíkum mönnum sem þèr eruð, þiki þat vera mikil vandræði, at vera við þat, ef þú mátt eigi halda þroska þínum. Var þetta ráð miklu vitrligra, at leita sèr hjálpar þángat, sem líkast þótti, heldr enn velta af út í vesöld, vil ek þetta vel fyrir þèr virða, þótt þú væntir þèr hèr nokkurrar hjálpar af oss, vil ek þat skjótt gjöra augljóst fyrir þèr, hvörn beina þèr fáið í voru ríki. Vèr viljum lofa yðr mánaðar yfirför um vort ríki, ef þèr vilìð með þökkum taka þessa dvöl, ok ef annar konúngr veitir yðr slíkar hjálpir, þá er mikil von, at þú komir þessu fólki ósoltnu heim, sem með þèr ferr, en far ekki með þann hègóma, at þèr biðið kvenna, hvorki minnar dóttur nè annarra, þvíat þat mun yðr at skjali einu verða, meðan þèr eruð svâ af yðr komnir af skort ok hallæri, en þá er þessi tími er úti, mun enn nokkut fyrirbrenna, er þèr komið heim, ok beri þèr fyrir þetta engan hugarekka svâ búit.

9. Rólfr konúngr hlýddi vel orðum konúngsins; ok er konúngr lauk sínu máli, mælti Rólfr: herra! eigi er þat satt, at oss skorti mat í voru landi, eða þurfum annarra ölmusa, vorum mönnum til hjálpar, en þóat þetta þrot sækti oss, þá mundum vèr fyrr aðra heimsækja enn yðr, lízt þetta gjört til vor þarfleysu kalls;

ok fundu menn, at Rólfr konúngr reiddist harðla mjök, þó hann hefði fá orð um; ok skildu konúngar í þat sinn, ok fóru menn at sofa. Var þeim Rólfi konúngi fylgt til einnar skemmu at sofa. Eirekr konúngr gekk ok til sængr sinnar, var drottníng þar fyrir, ok tóku þau tal með sèr. Hún spurði: er Rólfr konúngr kominn á yðvarn fund? Svâ er at vísu, segir konúngr. Hún spurði: hvörsu lízt þèr á Rólf konúng? Eirekr konúngr segir: skjótt er þat at segja, öngvan mann hef ek sèð meira ok sterkligra, ok at öllu vænna ok kurteisara, þat er ek má líta af hans viðbragði, nè at öllu betr skapaðan. Drottníng mælti: svâ hefir mèr flutt verit, eða hefir þú nokkut við hann talat, eða reynt hans vizku. Konúngr segir henni allt þeirra viðrtal, hvörsu farit hafði með þeim: ok þat hygg ek, segir hann, at hann sè lángt umfram flesta menn, bæði at viti ok flestum íþróttum ok þolinmæði. Drottníng mælti: þá hefir nú illa tiltekizt, er þú skalt svâ illa leitat hafa slíks höfðíngja, sem Rólfr konúngr er, ok fyrir þetta munu þèr eiga, ok yðvart ríki, von af honum stórra ónáða ok lángra, því at þat er mín ætlan, þótt yðr þiki hann hafa lítit ríki, at meira vinni hans frami ok hreysti með konúngligu náttúru-bragði, enn liðsfjöldi nokkurs konúngs híngat á Norðrlönd; því at mèr er svâ flutt, at hann sè lángt umfram aðra konúnga. Konúngr mælti: bæði er, at hann er mikit afbragð annarra

manna, enda finnst þèr mikit um konúng þenna, eða hvat er nú til ráðs? Drottníng mælti: skjót er mín tillaga, herra! ek vil at þèr vægið fyrir Rólfi konúngi í orðum, þvíat með sönnu segi ek þèr þat, at þèr mun verða þúngt at etja við hann þrái eðr kappi, þvíat hann hefir styrk af Danakonúngi, þvíat hann ræðr öllu með Ríngi konúngi, fóstra sínum. Konúngr svaraði: vera má, at oss hafi missýnzt um þetta mál, eða hvörsu skal ek nú svâ tala eða gjöra, at honum líki vel? Drottníng mælti: þat legg ek til ráðs, at á morgin, er þeir koma í sæti, ok þèr hafið drukkit um hríð, þá skaltu kasta gleðiorðum á Rólf konúng, ok spyrja at hans framaverkum, er hann hefir unnit; en ek get, at hann muni vera fár, ok mun eigi úr minni liðit yðvart tal. Síðan skaltu spyrja at eyrindum hans, ok láta svâ örvænliga, sem hann hafi aldrei getit sinna eyrinda fyrir þèr; en ef hann víkr á, eða talar þar til nokkrum orðum, þá seg þú at þú munir eigi, at þið hafið nokkut viðtalazt nema vel ok vingjarnliga, en ef þat hefir nokkut verit, seg at þat viltu gjarna ómælt hafa, ok ef hann víkr nokkut á bónorðit, þá vilda ek, at þú svaraðir vel til, ok vísir eigi frá, ef hann fengi jáyrði af henni til þessara mála; gjörið yðr blíða ok auðvelda í þessu máli, vænti ek at þá fari vel ykkar í milli, þiki mèr þó eigi ráðit, hvörsu auðveldliga gánga

meyjarmálin, þótt þèr leggið samþykki til. Ok eptir þetta sofa þau af um nóttina. Ok um morguninn, er menn komu undir drykkjuborð, var Eirekr konúngr allkátr, ok orti mjök á um gleði við menn Rólfs konúngs. Sem Rólfr konúngr heyrði þetta, hlýddi hann til, ok var heldr fátalaðr, ok er Eirekr konúngr fann þetta, mælti hann: svâ er mál með vexti, at þú, Rólfr! ert kominn í vora höll eptir mínu boði, ok þvíat mèr finnst svâ, at þèr hafið eigi alvöru gleði, svâ sem dýrra höfðíngja er háttr til at veizlum, viljum vèr gjarna, at þèr gjörið oss kunnigt, hvat veldr yðvarri ógleði, svâ at vèr megum fullgjöra alla yðra gleði með eptirlæti, svâ at yðar konúnglig tign hèldi sinni virðíng með eptirlæti þeirra luta, sem vèr megum yðra sæmd auka; þar í mót vildum vèr þiggja af yðr með gleði frásögn þeirra fremdarverka, sem dagliga segjast af yðar snildarverkum ok bardögum; er oss þar áðr allmikit afsagt. Rólfr konúngr mælti: þat mun enn, sem annat, þat sem til mín kemr, at yðr Svíum mun þikja lítit umvert. Eirekr konúngr mælti: mikit hefir oss verit sagt af vænleik þínum ok atgjörfi, ok virðist oss svâ, at þar megi eigi ofsögum frá segja um allan þinn vænleik, kurteisi ok hæversku, eða hvörsu gamall maðr ertu, Rólfr? Ek em nú 18 vetra gamall. Konúngr svaraði: afbragðs maðr ertu, eða hvört ætli þèr ríða, eða hvat hafi þèr at eyrindum,

er þèr hafið sótt á vorn fund? Rólf undraði mjök, er konúngr spurði þessa, ok hugði at konúngr mundi vilja endrnýa sín atyrði; hann mælti: eyrindi vort var kunnigt gjört, ok ætla ek eigi or minni fallit oss Gautunum, hvör andsvör vèr fengum af yðr þar í mót. Konúngr mælti: eigi man ek, at þèr hafið nokkur eyrindi við oss flutt, byrjar þat eigi vorri konúngligri tign at mæla (nema á góðan hátt) við jafn virðuligan höfðíngja sem þú ert, ok ef vèr höfum þat nokkut talat, at yðr mislíki, þá mun þat satt, sem mælt er, at öl er annar maðr; viljum vèr þat allt með skinsemi aptrtaka, ok láta sem ómælt sè, ok þegar ek geymi at mínum orðum, þá vil ek vel svara yðru máli; munu ok þau ein efni á vera. Rólfr konúngr sá, at nú var skipat lyndi Eireks konúngs, ok hefir nú bónorð í annat sinn, flytr nú bæði vel ok skörugliga, ok er hann hætti sínum flutníng, mælti Eirekr konúngr: þessu máli viljum vèr vel svara, þvíat þat er mikil von, at oss bjóðist eigi fremri konúngr til mægðar, enn þú ert, en þèr munuð spurn af hafa, at dóttir vor er eigi með oss, ok vèr höfum gefit henni þriðjúng ríkis vors, ok ræðr hún því svâ sem konúngr; hún er rík ok stórráð, ok hefir hirð um sik svâ sem konúngar; margir konúngar hafa hennar beðit ok konúnga synir; hefir hún öllum frá vísat með hæðiligum orðum, suma hefir hún látit meiða. Nú með því at mèr er hennar þessi

framferð ekki at skapi, því at hún gjörir af sèr mikit ofbeldi, því at engi maðr skal hana þora at kalla öðruvísi enn með konúngs nafni, utan hann þoli af henni nokkut harðrètti; nú ef þú vill sækja þessa konu þèr til handa, hvort sem þat er heldr með ráðum eða harðfengi, þá viljum vèr til þess orðlof gefa af vorri álfu, en þar í mót viljum vèr af yðr þiggja ró ok náðir vorum mönnum ok öllu voru ríki, þóttu þurfir með bardaga þessa at freista, viljum vèr ok henni aungan styrk veita yðr í móti ok sitja svá kyrrir hjá öllum ykkrum samskiptum. Rólfr konúngr kvaðst eigi framar beiðast af konúngs hendi, [ok bundu þetta fastmælum[1] sín í millum, drukku nú glaðir ok kátir; veitti Eirekr konúngr hit skörugligasta. Ok at liðnum þremr dögum býst Rólfr konúngr í braut, ok skildust konúngar með blíðri vináttu, lèttir hann eigi fyrr sinni ferð, enn hann kemr á Ullarakr með sitt föruneyti, þarsem Þornbjörg rèð fyrir. Þeir komu þar snemma dags, var þeim sagt, at konúngr sitr yfir borðum með allri hirð sinni. Konúngr valdi með sèr 12 af sínum mönnum, þá er fræknastir voru, ok bað þá gánga inn í höllina með sèr með brugðnum sverðum: enn annat lið vort standi úti með búna hesta vora! Ok enn mælti Rólfr konúngr við menn sína, þá er inn skyldu gánga: vèr skulum svá at hátta, at ek skal gánga fyrstr, ok

[1]) hættu nú tali, C.

við Íngjaldr, þá hvorr at öðrum, ok ef svâ berr til, at vor verði freistat með nokkurri áleitni, þá verið yðr sem bezt, ok gángi sá fyrstr út, er síðast gekk inn, förum sem djarfligast! Eptir þetta gánga þeir í hallina; ok svâ sem (þeir) voru inn komnir, sátu allir menn undir borðum á báða bekki, ok var hallin alskipuð. Engi maðr heilsaði á þá, ok allir urðu hljóðir við þeirra kvomu. Rólfr konúngr gekk innar fyrir hásætit, sá hann at þar sat harðla voldugr maðr með konúngs skrúða ágætum; þessi maðr var fagur ok fríðr. Allir menn, þeir sem inni sátu, undruðust vöxt ok vænleik Rólfs konúngs, en engi maðr kastaði orðum á þá. Rólfr konúngr tók hjálminn af höfði sèr, ok hneigði konúnginum, en stakk blóðreflinum í borðit, ok mælti: sitið heilir, herra! ok í náðum allt yðvart ríki! Sem konúngr heyrði orð hans, ansaði hann aungu orði, ok eigi leit hann af út. Sem Rólfr konúngr sá mikit ofstæki konúngsins, tók hann til orða: ek er svâ kominn, herra! á yðvarn fund eptir ráði ok samþykki Eireks konúngs, föður þíns, at leita yðr sóma, en mèr framgángs, til þess at binda við yðr unaðsamligt eptirlæti, þat sem hvorr okkar má öðrum veita eptir boði náttúrunnar, fyrir utan allt ángr eðr ónáðir. Konúngr leit við honum, ok mælti: þèr munuð vera hèr til vor komnir svâ sem eitt fól, á hvörn hátt sem þèr eruð kallaðir, þar sem þèr eruð landvanir, þikkjumst ek gjörla

skilja, at þat unaðsamligt eptirlæti, er þèr krefìð af oss, er matr ok drykkr, ok þat viljum vèr við aungan mann spara, þann er þessa er þurfandi, ok af oss vill (þiggja); megi þèr vel þessa yðra beiðslu fram hafa við þann, er vèr höfum þat starf fengit, en gefið oss náðir af slíku kallsi, þvíat engis manns bryti eða þjónustumaðr ætla ek at vera, hvorki þinn nè annarra, ok haf þik skjótt í þann stað, ok þínir sveitúngar, er þú mátt slökkva húngr þinn ok þorsta, en lát oss sitja í náðum af yðar kalsi, ok alla vora vildarmenn. Rólfr konúngr mælti: eigi er þat satt, at vèr krefjum af yðr í þetta sinn matar nè drykkjar, þvíat þat höfum vèr áðr í nóg, en með því at vèr vitum, at þú ert heldr dóttir Svía konúngs enn son, þá viljum vèr nú ok með ákveðnum orðum flytja vort eyrindi með stöddu samþykki föður yðvars, ok biðja þín mèr til kvanar, til styrktar ok stjórnar voru ríki, til upphalds ok eflíngar öllu voru afkvæmi, því sem af okkr lifnar. Sem konúngr Þorbergr heyrði þessi orð Rólfs konúngs, var hann svâ óðr ok æfr, at hann vissi trautt, hvat hann skyldi athafast; hann bað alla sína menn vopnast þar í hallinni, ok taka ok binda þetta fól: er oss leitar svâ mikillar háðúngar, er svâ hyggst at ófrægja sjálfa oss ok skemma, þvíat eigi munu dæmi til finnast, at jafn háðulig orð hafi töluð verit við nokkurn konúng eða kempu, þá er sín vâpn kann bera; skal svâ

launa ok afvenja smákonúnga at hæða oss eða gabba, svâ heldr konúnginn föður vorn. þessi konúngr hafði alvæpni yfir sèr, ok allir hans menn. Síðan grípr hann fyrstr til vopna, ok svâ hvorr at öðrum, er nú brak mikit ok óp í hallinni, er hvorr eggjar annan. Sem Rólfr konúngr sá þessa styrjöld, setti hann hjálm á höfuð sèr, ok bað sína menn útgánga, gekk sá nú fyrstr út, sem síðast gekk inn, en hirðin öll, svâ sem viðkomst, sótti at Rólfi konúngi með ákafa. Rólfr konúngr hopaði utar eptir hallinni, ok hafði skjöldinn fyrir sèr, en hann hjó með sverðinu, sem hann við komst. Svâ er sagt, at hann drap 12 menn á höllinni, ok er þeir komu út, sá hann at engi efni voru til viðtöku sakir liðsfjölda, var þat ráð þeirra, at ríða undan at sinni; skorti þá eigi óp ok eggjan, er staðarmenn geystust eptir þeim, hvorr fram at öðrum. Rólfr konúngr bað sína menn undan ríða, ok skilr með þeim fyrst at sinni, því at staðarmenn höfðu eigi hesta í hjá sèr til eptirreiðar; urðu menn Rólfs konúngs flestir fegnir, er í braut komust; er nú ekki sagt af þeirra ferð, fyrr enn þeir komu heim í Gautland, ok undu illa sinni ferð.

10. Svâ er sagt, at eptir þessa eltíng Svía snúa þeir til hallar sinnar, lætr konúngr ræsta höll sína ok bera á braut þá, er fallit höfðu; spyrjast nú þessi tíðindi víða, ok þótti þessi ferð hin hæðiligasta. Sem konúngr var kominn í

sæti við hirð sína í annat sinn, spurði Svíakonúngr, hvört þeir kendi nokkut þenna mann, er þá hefði svå gabbat. Þeir svöruðu, ok sögðu at hann hèt Rólfr, ok var konúngr á Gautlandi: er hann auðkendr, sögðu þeir, sakir vaxtar ok vænleiks. Konúngr mælti: skjótt kendum vèr hann at frásögn manna, ok er slíkt afburðarmaðr, ok mun vera vitr maðr ok þolinn, ok sýndist maðrinn staðfastligr, ok munda ek ætla at væri óbráðreiðr ok þrár á þat, sem hann færi fram, ok svå skulu vèr viðbúast, sem þessi maðr muni vitja optar á vorn fund Svíanna, skulum vèr leita at smiðum, ok láta virki gjöra um allan stað vorn[1] harðla styrkt ok rammgjört, ok búa síðan með þeirri vèlfimi, at eigi megi sækja, hvorki með eldi nè járni, þvíat ek hygg at þessi konúngr hyggi á hendr[2] oss. Sem þetta var allt gjört eptir konúngs vilja ok forsögn, lætr Þorbergr konúngr þar í búa með vígvèlum bæði valslaungur ok skoteld; er þetta vígi svå örugt gjört, at flestum þótti ólíkindi at vinna mætti, ef vaskir menn væri í virkinu, þikist konúngr nú hafa um örugt at sitja, bíðr nú kátr ok glaðr við sína menn þess er at höndum kemr; má nú engi á hans fund komast utan hans orðlof.

11. Þar er nú til at taka, er Rólfr konúngr kom heim í Gautland, ok eigi eyrindum feginn. Ketill, bróðir hans, gengr í mót honum,

1) járni, *b. v. C.* 2) við, *ofaukið í A*; hefndum við, *B, C, V.*

ok spyrr, hvörsu farizt hafi. Rólfr segir honum öll þeirra viðskipti. Ketill mælti: slíkt er mikil skömm, at þola einum kvennmanni, at vera eltr sem mer í stóði eða hundr[1] á stöðli, veit ek víst, ef ek hefði þar verit, at eigi mundi þessi ferð hafa orðit jafnhæðilig, ok fyrri skyldu vèr þar hafa fallit allir, hvorr um þveran annan, enn at láta eltast sem ragar geitr fyrir vargi; ok mun yðr í hug at láta þessa eigi lengi óhefnt, ok munu þèr nú þegar safna liði öllu, því er yðr þikir nokkur fylgð at vera. Rólfr konúngr svarar: ekki hirðum vèr um ákafa þinn ok álitaleysi; mundi vor ferð at öllu verri, ef vèr hefðum farit at rasi[2] þínu ok ákafa, en víst skaltu þat vita, at ek ætla liði at safna, en ekki því heldr ætla ek til Svíþjóðar sumarlángt. Ketill mælti: þetta er orðit allilla, at Svíar hafa elt or yðr hug allan, svâ at þèr þorið eigi at hefna yðar. Konúngr kvaðst ekki hirða um fors hans eðr atköst, kvaðst sínum ráðum mundu framfara. Var konúngr um þetta fátalaðr sem margt annat, hvort sem honum þótti vel eðr illa. Líðr nú vetrinn, ok um vorit býst konúngr or landi, ok er hann er búinn, heldr hann í hernað um sumarit, ok hafði 5 skip, ok öll stór ok vel skipuð; voru þeir báðir með honum, Ketill ok Íngjaldr. Þeir herjuðu víða um Vestrlönd, Hjaltland, Suðreyjar ok Orkn-

[1]) naut, *C.* [2]) ráði, *B, C.*

eyjar ok Skotland. Þeim varð þar gott til fjár, ok er áleið sumarit, ætluðu þeir heim at fara; ok eitt kvöld lögðu þeir undir ey eina, ok tjölduðu þar yfir skipum sínum. Ok er þeir höfðu umbúizt, gekk Rólfr konúngr við nokkra menn um þvera eyna. Þeir sá öðrumegin undir eyjunni, at skip lágu 9 saman; þeir sá at þat var víkíngaskip. Konúngr gekk aptr til skipa sinna. Hann bað Ketil, bróður sinn, skjóta báti, ok forvitnast, hvörr formaðr væri þeirra skipa. Hann gjörði svå, rèri til skipanna, ok spurði, hvörr formaðr þeirra væri. Maðr stóð upp í lyptíngu á einu skipi, mikill ok vænligr; hann tók til orða: ef þú spyrr at formanni skipa þessa, þa heitir hann Ásmundr, ok er son Ólafs konúngs af Skotlandi, eðr af hvörjum eruð þèr sendir? Ketill svarar: mik sendi á yðvarn fund Rólfr konúngr Gautreksson, at segja yðr at hann mun hèr koma á morgin, ok vill hafa fè yðvart ok skip, ok brytja yðr vörgum, nema þèr gefið í hans vald allt þat, er þèr hafið meðferðar. Ásmundr svarar: vitum vèr at Rólfr konúngr Gautreksson er ágætr at mörgum frama, þeim sem hann hefir í hernaði unnit, en nú, þarsem ek er konúngsson, ok hefi ek nógan liðsfjölda, þá segið svå Rólfi konúngi, at vèr munum eigi uppgefast at óreyndu, skulum vèr ok hafa 5 skip í móti yðrum 5 skipum, ok vinna þetta með aungum

tröllskap. Eptir þetta ferr Ketill aptr, ok segir þetta Rólfi konúngi, sem háttat var, kvað þetta vera enn vænasta mann ok enn bezta dreng. Um morguninn bjuggust við hvorirtveggju, lèt Ásmundr leggja hjá 4 sín skip; tóku þeir síðan at berjast, var þessi bardagi bæði harðr ok lángr ok ákafr, gekk Ásmundr fram af mikilli hreysti, ok eigi þóttist Rólfr hafa átt við hraustari menn; fèll margt af hvorumtveggjum; sá Rólfr konúngr at ekki mundi í tveim höndum mega hafa, ok ræðr þá til uppgaungu, ok hans menn, á skip Ásmundar; varð þá mannfall mikit; hèt Ásmundr fast á sína menn, ok gekk fram af mikilli hreysti. Þá kom Rólfr konúngr mót honum, fèll nú margt af hvorumtveggjum, ok þó fleira af Ásmundi. Nú eiga þeir höggum at skipta, ok gengr hvorttveggi at með öllu afli. Rólfr biðr aungan mann skakka þeirra í millum. Ásmundr varð sár mjök í þeirra viðskiptum, ok er Rólfr konúngr sèr hann eigi at síðr berjast með fræknu hjarta, mælti Rólfr: þat vil ek at við talimst við, ok hvílumst. Ásmundr bað hann ráða. Rólfr talaði þá: ek hefi verit nokkur sumur í hernaði, ok fann ek aungan þinn jafníngja at hreysti; nú með því at lið þitt er margt sárt ok fallit, þá eru nu 2 kostir af minni hendi: at þú skipa í annat sinn af ósárum mönnum skip þín, ef þú vill lengr berjast, reynum þá til þrautar með oss: hinn

er annar kostr, at vèr setim grið með oss, ok vil ek þá bjóða þèr á fóstbræðralag, ok gjörum svâ trausta vora vináttu! Ásmundr svarar, ok kveðst þat vilja, ef þèr leggið eigi ámælisorð á bak mèr eða liði mínu. Rólfr kvaðst eigi hafa fundit hraustari menn fyrir. Eptir þat bað Rólfr konúngr þá hætta at berjast, var þá brugðit upp friðskildi, leggja þá hvorirtveggju undir eyna, ok bundu sár sín, var þá hroðin 2 skip af Ásmundi, en eitt af Rólfi. Eptir þat sver hvorr öðrum trúnað, ok aldrei at skilja nema með samþykki beggja þeirra. Eptir þat skiptir Ásmundr liði því, sem eptir er, skipar eitt skip harðla vel at mönnum ok vâpnum, en annat lið sitt sendir hann til Skotlands. Af honum höfðu fallit 2 skipshafnir, en ein af Rólfi; [en þat lið[1], er Ásmundi þótti bezt fylgð í, ok harðfengast, hefir hann með sèr á einu skipi, ok fylgir nú Rólfi konúngi heim í Gautland, virðist Ásmundr hinn vaskasti maðr ok hinn fræknasti, ok gekk næst Rólfi konúngi um allar íþróttir, ok vantaði hann þó mikit. Sitja þeir allir samt þann vetr í Gautlandi í góðum friði ok mikilli gleði. Jafnan minnti Ásmundr Rólf konúng á, nær hann mundi vitja meyjar málanna í Svíþjóð, ok var mjök eggjandi þessar ferðar. Konúngr var jafnan fátalaðr um ferð þessa, en hann hafði raun af Katli, bróður sínum, er hann eggjaði á með

[1]) *þannig V*; með því liði, *A*, *C*.

kappi; ok er voraði býst Rólfr konúngr or landi, ok hafði 7 skip, ok öll vel búin, ok hit ágætasta lið. Þá gjörir Rólfr konúngr bert fyrir liði sínu, at hann ætlaði þá til Svíþjóðar, bað konúngr þá Ketil frænda sinn eigi eptir vera, ok fóru þeir allir fóstbræðr í ferð þessa; halda síðan til Svíþjóðar með öllu þessu liði.

12. Ok þá enu sömu nótt, er[1] þeir komu við Svíþjóð, dreymdi Íngigerði drottníngu, ok segir hun Eireki konúngi drauminn: ek þóttumst enn úti standa, ok var mèr enn víðsýnt; ek sá til sjófar, at hèr voru komin skip eigi allfá við land, en af skipunum runnu margir vargar, en fyrir vörgunum fór et óarga dýr, þar með fóru hvítabirnir 2 harðla miklir ok vænligir; fóru þessi dýr öll jafnframt, en öðrumegin fram hjá óargadýrinu hljóp fram göltr einn, hann var ekki svâ mikill, sem hann var vígligr, svâ at slíkan hef ek öngvan sèð, hann rótaði hvörri hæð, ok lèt sem hann mundi umsnúa, ok fram horfði hvört hár á honum; hann lèt sem hann mundi á allt hlaupa, ok bíta þat er í nánd var. Nú þikjumst ek vita, at þar sem hit óarga dýr er, at þat er fylgja Rólfs konúngs, svâ sem ek sá hana fyrr, en þó var hún nú miklu ófrýnligri enn fyrr, ok öll dýrin miklu grimligri, ok runnu þegar á land upp, ok á leið til Uppsala. Eirekr konúngr mælti: en hvat ætlar þú, hvörs fylgja sá enn illiligi

1) áðr, C.

göltr mun vera, er þú sátt, þvíat sú fylgja var ekki næstum í þeirra ferð, ok eigi var þá meir enn eitt bjarndýr. Drottníng mælti: sagt heyri ek at Hrólfr konúngr eigi bróður, er Ketill heitir, manna minnstr ok skjótligastr, fullr ákefðar ok ofbeldis, ok sè hinn hvatasti til allrar framgöngu; þat er mín ætlan, at þessi göltr sè hans fylgja, þvíat hann var ekki næstum með Rólfi konúngi, bróður sínum. En þar sem 2 voru hvítabirnir, get ek Rólfr konúngr hafi fengit sèr nokkurn ágætan mann til fylgðar, konúng eða konúngsson, ok gjörið nú svâ vel, herra! haldið öllu samtali við Rólf konúng, mun hann nú ætla at vitja meyjarmálanna, mundi margr fyrr hafa hefnt slíkrar sneypu, sem honum var gjör, eptir því sem vèr heyrðum, þá er hann fór á Ullarakr, ok svâ mikit sem yðr varðaði at gjöra hans vilja næstum, þá mun yðr nú varða miklu meira, þvíat hann er nú allilla beygðr, ef hann náir eigi þessum ráðahag, sem hann hefir tilstofnat. Konúngr kvaðst svâ gera mundu. Nú var sagt konúngi, at Rólfr konúngr var við land kominn. Eirekr konúngr býðr honum með hundraði liðs til veizlu virðuligrar, ok þetta þiggr Rólfr konúngr. Eirekr Svíakonúngr gengr í mót honum með mikilli gleði með alla hirð sína; sitja þeir þar í enum mesta prís nokkurar nætr, skorti þá eigi at Eirekr konúngr veitti þeim með enum mesta góðvilja. Ok einn dag, er þeir sátu við

drikk, spurði Eirekr konúngr, hvört Rólfr konúngr ætlaði at vitja meyarmálanna. Hann lèzt enn á þat mundu hætta, hvörsu sem tiltækist. Konúngr mælti: nú mun svâ fara, sem ek sagða þèr fyrr, at við þetta mál muntu þurfa, ef þú skalt nokkru áleiðis koma, bæði ráð ok harðfengi, er oss sagt at konúngr hafi mikinn viðbúnað, hefir hún látit gjöra et sterkasta virki með enum (mesta) hagleik ok margskonar vèlfimi, ætlum vèr þat eigi auðvelt at vinna. Nú vil ek efna þat allt, sem ek hefi yðr heitit, ok unna yðr, Rólfr konúngr! þessa ráðs með því ríki, sem vèr höfum henni í vald gefit, þar til er vèr látum af landstjórn, en síðan skulu þèr taka allt þetta ríki eptir vorn dag, ef þèr fáið hana unnit. Hrólfr konúngr þakkaði Eireki konúngi herrasamlig ummæli, kvaðst eigi beiðast framar af hans hendi.

13. Litlu síðar búast þeir í braut, ok lètta eigi ferð sinni, fyrr enn þeir koma á Ullarakr. Fyrir allri þeirra ferð hafði gengit hin vissasta njósn, ok hafði Svíakonúngr látit sterkliga byrgja aptr virkit, svâ at þar mátti með aungu móti innkomast. Ok er Hrólfr konúngr kom við sínu liði, skorti eigi þys ok vopnabrak í bænum, sá þeir þar mikinn viðbúnað. Hrólfr konúngr bað sína menn setja herbúðir sínar, bað þá svâ umbúast, at þeir mundu þar lánga dvöl eiga. Hrólfr konúngr mælti þá við

Ketil, bróður sinn, bað hann nú vinna virkit með áhlaupum ok orðaskrumi. Ketill kvaðst ætla at gánga at eigi ótæpligar enn einhvörr hans manna. Þeir sofa af um nóttina, ok um morguninn beiðir Hrólfr konúngr, ok segir at hann vill tala við konúng þeirra Svíanna, ok biðr hann gánga út á virkisvegginn, svå at hvorr þeirra megi vel heyra annars orð. Þetta er sagt konúngi; hann gengr út á virkit með allri sinni hirð. Sem Hrólfr konúngr leit konúng þeirra, þá mælti hann: ek bið yðr, herra! tilhlýða, ok at geyma þeim orðum, sem vèr viljum við yðr tala; þèr megið muna næstum, er vèr komum á yðvarn fund, hvörra eyrinda vèr fórum, eða hvörja smán ok svívirðu þèr gjörðuð til vor, en ef vèr fáum nú eigi betri andsvör enn fyrr, þá skal ek brenna stað þenna, en drepa hvört mannsbarn, er í honum er, eða elligar skal ek deyja hèr at öðrum kosti. Sem konúngr hafði heyrt þessi hans orð, mælti hann: fyrr muntu verða geitahirðir á Gautlandi, enn þú hafir nokkut yfirboð þessa staðar, eða nokkurs þess, er (oss) varðar; far heim með öllu fólki þínu, ok verð því feginn, at þú komist klakklaust á braut. Síðan barði konúngr á skjöld sinn, ok kveðst ekki orð vilja heyra, þat sem Hrólfr konúngr talaði, ok svå gjörðu allir hans menn. Ok er Hrólfr konúngr sèr, at aungum flutníngi kemr á við konúnginn, biðr hann sína menn vopnast ok sækja at með karlmensku.

þeir gjörðu, sem konúngr bauð, ok hrukku skjótt frá, ok fengu ekki atgjört. þeir fóru þess aungvan veg at, at eigi kæmi ráð ráði í móti. þeir báru eld at, ok þá hljóp vatn or þeim stokkum, er settir voru í virkisveggina. þeir ætluðu at vinna með vopnum ok grafa, en hinir heltu á þá brennanda biki ok vellanda vatni; þarmeð voru færðir á þá stórir steinar, svá at allt lamdist, því at eigi skorti mannfjölda í virkinu, fèllu þar nokkrir menn, en fjöldi meiddist, gengu þeir frá bæði móðir ok sárir. Gjörðist illr kur í þeim Gautum, ok þótti þeim íllt við at eiga; en Svíar gengu út á virkit, spottuðu þá, ok hlógu at þeim, ok fríðu þeim hugar. þeir báru út pell ok silki ok marga dýrgripi, ok tjáðu fyrir þeim, ok báðu þá eptir sækja. Hrólfr konúngr spurði Ketil, bróður sinn, hvörsu honum þótti at fara. Katli kvaðst heldr þikja erfvitt veita: þiki mèr konúngr Svíanna heldr heitu míga. Konúngr kvað vera mega, at fleira þyrfti við enn orðaskrap eittsaman, sitja þeir þar eigi skemr enn hálfan mánuð. þá talar Ásmundr til Hrólfs: vèr höfum sótt lengi[1] stað þenna, ok höfum hvörn dag haft mikla mæðu, ok er eigi at nær voru eyrindi, höfum vèr látit marga menn, en sumir eru særðir. Nú viljum vèr, herra! at þèr leggið til nokkur ráð, þau er dugi, ella vilja yðrir menn frá hverfa, því at vèr höfum gabb ok athlátr fyrir

[1]) um, *ofaukið*, *A.*

vora mæðu. Hrólfr konúngr svaraði: eigi sjá vèr ráð til þess, at víst sè, at þessi staðr verðr unninn, en þó skulu vèr freista at fara til skógar ok binda oss stórar byrðar, ok gjöra þar af stóra flaka ok hafa þar undir stórviðu. Síðan skulu vèr bera þessa flaka svâ hátt, at þar megi menn vel standa undir, ok styðja þá stafi, er undir standa, skal þar til velja allt hit sterkasta fólk vort. Síðan skulu sumir hafa graftól, ok grafa svâ rauf á vegginum, ok vita ef vèr komimst við þat í virkit. Þetta sýndist öllum ráð; ok er þeir höfðu þessa umbúð veitta, báru þeir þetta undir virkit, var þetta svâ sterkt, at hvorki sakaði þá, er undir voru, grjót nè bik, svâ at á skamri stundu höfðu þeir hlið á virkisvegginum. Ok er Þorbergr konúngr skildi þessa vèl, hljóp hann í niðrgáng virkisins, ok allir hans menn, ok svâ braut í skóg. En Hrólfr konúngr með allt sitt lið sækir inn í virkit, ok er þeir koma þar, þá eru menn allir í brottu. Þetta þótti þeim undr mikit, er þeir komu í ekki þat herbergi, at þeir fyndi þar nokkurn mann, en matr ok drykkr stóð þar búinn í hvörju herbergi, klæði ok dýrgripir voru þar allir til reiðu. Ketill mælti: konúngr þessi hefir verit hjartaragr, er hann hefir hlaupit hèr frá svâ mikilli sælu dýrra gripa, ok þarmeð búit sínum óvinum vist ok drykk, eru vèr mjök fallnir í fullsælu eptir vort erfiði, skulu vèr hèr fyrst drekka ok snæða, en síðan skal

skipta voru herfángi. Sem Hrólfr konúngr heyrði orð hans, mælti hann: nú geintu yfir þat agn, sem þèr var ætlat, at þú skyldir meir gaum gefa at þinni magafylli, enn at handtaka konúnginn. Nú skal hèr engi maðr at þessu dveljast, svâ at fyrir þat komist konúngrinn undan, heldr skulu vèr ransaka þennan stað, ef vèr finnum nokkut þat jarðhús, at á braut megi komast. Þeir gjöra svâ sem konúngr bauð; þeir finna þar niðrgángí virkit; ok gengr Hrólfr konúngr þar fyrstr inn, ok þá hvorr at öðrum, gánga þar til er þeir koma at uppgöngu, ok voru þeir þá komnir í skóg. Þar fyrir var Svíakonúngr með alla hirð sína, slær þar í bardaga, gengr Hrólfr konúngr vel fram ok drengiliga, ok allir þeir fóstbræðr. Svíakonúngr berst djarfliga, ok allir hans menn, því at þetta fólk var valit at harðfengi, er honum fylgði, hafði hann ok miklu fleira lið; en þá þegar er þeir stóðu jafnt at vígi, þá gengu þeir fostbræðr hart fram, ok feldu marga menn. Svíakonúngr eggjaði sína menn með miklum ákafa, ok kvað aldrei fylgð at þeim, ef þeir ræki eigi smákonúnga af sèr, barðist Þorbergr konúngr af svâ hvössum hug, ok feldi margan mann með sínum köppum, en þó hallast mjök bardaginn á þá Svíana. Hrólfr konúngr talar þá við Ketil, bróður sinn: þat vil ek, at þú ráðist í mót konúngi þeirra Svíanna, ok takir hann, ef þú mátt, en ber eigi vâpn á hann, því at þat er hin mesta klæki, at

særa kvennmann með vopnum. Ketill kvaðst svâ gjöra mundu, ef hann mætti. Þar næst brast flótti í liði þeirra Svíanna. Ketill var þá svâ nær kominn konúngi þeirri, at hann sletti flötu sverði um lendar konúngi, ok greip hann, ok mælti: frú! segir hann, sva lokkum vèr af yðr lendakláðann, ok kalla ek þetta klámhögg. Konúngr mælti: þetta högg skal þèr eigi til frægðar verða, ok slær Ketil með öxi undir eyrat svâ hart, at fótunum kastar fram yfir höfuðit, ok mælti: svâ slám vèr jafnan hunda vora, ef oss þikir [ákaft geigja[1]. Ketill spratt skjótt á fætr, ok bjóst at hefna sín, ok í því kemr at Hrólfr konúngr, ok greip konúnginn, ok mælti: herra! legg vopn þín, þèr eruð nú á voru valdi, vil ek gefa þèr grið ok öllum þínum mönnum, ef þèr villð játa forráði föður þíns. Svíakonúngr mælti: mikil von er nú þess, Hrólfr konúngr! at þú þikist hafa vald á oss ok öllum vorum mönnum, en þat mun yðr verða til lítils metnaðar, þótt þú þraungvir oss til þess, er vèr viljum eigi lostugir játa. Hrólfr konúngr mælti: við, herra! erum nú svâ samankomnir, at ek vil yðr í öllu sæmdar leita, ok bið ek orskurð okkar máls í umdæmi föður þíns, ok mun þat mælt, ef hann skipar okkar í milli, at þèr haldið fullum veg yðrum með sóma. Svíakonúngr mælti: þú munt vera vitr maðr ok þolinn, þvíat sá mundi margr, ef þeim hluta ætti, hryggja at

1) áfátt við þá, C.

þraungva oss til þeirra hluta, sem þú vildir at gengi fram, fyrir þessa vora tiltekju. En nú þarsem vèr erum komnir, ok vorir menn, á yðvart vald, þá munu vèr þessu játa ok leysa oss svâ fyrst at sinni or þessu fángelsi; viljum vèr nú, Hrólfr konúngr! svâ gera sem kurteisir menn eru vanir, ef þeir verða sigraðir ok yfirkomnir, at vèr viljum bjóða yðr við öllu yðru liði til náða ok veizlu vegligrar, ok launa svâ yðr, er þèr gefið grið vorum mönnum. En vèr viljum nú í stað ríða til Uppsala við öllum vorum vildarmönnum, þeim sem eptir lifa, ok hitta konúnginn Eirek, föður vorn, til heilla umráða, þvíat þat er vor sómi at halda hans forsjá. Bundu konúngar þetta sín í millum með sterkum trúnaði. Eptir þetta snýr Hrólfr konúngr aptr í staðinn, ok svâ sem hann var þar kominn, þiggr hann þar þriggja nátta veizlu, en Svíakonúngr ríðr til Uppsala með öllu sínu föruneyti, ok svâ sem hann var þar kominn, gekk hann fyrir Eirek konúng, föður sinn, lagði skjöldinn niðr fyrir fætr sèr, tók hjálminn af höfði sèr, hneigði konúnginum, ok kvaddi hann, ok mælti: minn kæri faðir! ek em orðin farflótta[1] ríkis þess, er þèr gáfuð í mitt vald, ok sökum þess at ek varð yfirstigin af sterkum bardagamönnum, þá bið ek, at þèr gjörið þat ráð fyrir mína hönd, sem yðr er nú mest at skapi. Konúngr mælti: gjarna viljum vèr at þú hættir styrjöld

[1]) féflettr, C.

þessi, ok viljum vèr, attu takir upp kvennligar atferðir, ok farir í skemmu til móður þinnar. Síðan viljum vèr gipta þik Hrólfi konúngi Gautrekssyni, þvíat vèr vitum enga hans jafníngja híngat á Norðrlönd. Konúngs dóttir mælti: eigi viljum vèr bæði gjöra, at vera komin á yðvarn fund til umráða, enda vilja þá eigi[1] hlýta yðvarri forsjá. Eptir þat gekk hún til skemmu, en gaf í vald Eireki konúngi vâpn þau, er hún hafði borit; settist hún til sauma með móður sinni, ok var hún hvörri mey fegri ok fríðari ok kurteisari, svâ at engi fannst jafn fríð í Norðrhálfu heimsins; hún var vitr ok vinsæl, málsnjöll ok spakráðug ok ríklynd.

14. Eptir þetta sendir Eirekr konúngr menn á fund Rólfs konúngs, ok lætr bjóða[2] honum til veizlu með liði sínu; bregðr hann við skjótt, ok ferr til Uppsala. Ok er Eirekr konúngr spyrr þángatkvomu Rólfs konúngs, gengr hann í mót honum með alla hirð sína, ok leiðir hann í hásæti hjá sèr í hall[3] sinni, skipar þar útífrá hans fóstbræðrum, drekka nú glaðir ok kátir. Síðan inna þeir til, hvat í þeirra einkamál hafði komit, ok samdi þeim þat allt hit bezta. Eptir þetta lætr Eirekr konúngr kalla dóttur sína inní hallina. Sem henni komu orð föður síns, býst hún með enu mesta skarti, gengr inní hallina með móður sinni ok mörgum öðr-

[1]) *hèr byrjar skinnbókarbrotið Aa.* [2]) bjó, *Aa*; bjóða, *B, C, V*; búa, *A.* [3]) *þannig A, Aa.*

um kurteisum konum. Sem Eirekr konúngr sá dóttur sína innkoma, stóð hann upp í mót henni, ok leiddi hana til sætis sèr til annarrar handar með drottníngu [ok öllum þeim konum, er í þeirra flokki voru[1]. Nú svâ sem konúngar höfðu drukkit um stund, vekr Hrólfr konúngr bónorðit, svâ at júngfrúin[2] heyrði, ok þarf þat eigi með orðum at lengja, at Rólfr konúngr fastnar júmfrúna; var þá aukin veizlan, ok boðit til múg manna víða um Svíaveldi; varð þessi veizla ágæt, ok stóð hálfan mánuð; ok at lokinni veizlu gefr Eirekr konúngr öllum ríkismönnum ágætar gjafir með glöðum góðvilja, ok ferr þá hverr til síns heimilis [með blíðu samþykki Eireks konúngs[3]. Hrólfr konúngr sitr eptir í Svíþjóð með húsfreyju[4] sína, ok takast með þeim góðar ástir. Hrólfr konúngr sendir Ketil, bróður sinn, heim til ríkisstjórnar í Gautland. Íngjaldr ferr til Danmerkr til feðr síns. Rólfr konúngr tekr þat ríki til forráða, er konúngsdóttir hafði fyrirráðit; sitja nú allir saman með náðum, hvörr í þeim stað, sem kominn var.

15. Um vorit eptir koma sendimenn af Danmörk til Rólfs konúngs, ok sögðu Ríng konúng dauðan, ok þat með at Íngjaldr bað Rólf konúng koma á sinn fund, ok drekka erfi eptir Ríng konúng, fóstra sinn. Ok þegar Rólfr

[1]) *v. í C.* [2]) júmfrúin, *Aa.* [3]) *v. í C.* [4]) drottníngu, *B, C*; húsfrú, *V.*

spyrr þessi tíðindi, býst hann til þessar ferðar, ok Ásmundr, fóstbróðir hans, með honum. Ok er þeir voru búnir, halda þeir til Danmerkr. Þeir höfðu 2[1] skip vel búin at mönnum ok vopnum. Ketill kom til móts við þá, ok hafði eitt skip ok velskipat, koma við Sjóland síð dags, ok leggja undir ey eina ok tjalda yfir skipum sínum. Hrólfr konúngr gekk upp á eyna við nokkrum mönnum; þeir sjá skip liggja undir eynni öðrumegin, 5 skip saman; þat voru lángskip 4, ok dreki hit fimta skip, bæði mikill ok fagur, ok eigi þóttist konúngr sèð hafa vænna skip; svörtum tjöldum var tjaldat yfir þessum skipum. Konúngr mælti: hvörr mun stýra dreka þessum enum dýra, ok eigi hef ek sèð þat skip, er ek vildi heldr eiga enn þetta. Ásmundr svaraði: víst er þetta afburðar skip fyrir allra hluta sakir, ok væri slíkt helzt konúngs gersemi; en þann einn ætla ek stýra drekanum, at þèr munuð fult verða til at vinna, áðr þèr náið; þikja man þeim svâ góðr sem á. Konúngr mælti: veiztu, hvörr drekann á? Ásmundr svaraði: hann heitir Grímar, ok er Grímólfsson, hann er hinn mesti víkíngr, hann liggr á herskipum bæði vetr ok sumar, hann er mikill ok illiligr, en hann er þó verri reyndar; hann bíta eigi járn ok engan þeirra 12, er honum fylgja, þeir eta allir hrátt, ok drekka blóð; er þat sannkallat, at

[1]) fimm, *B*, *V*.

þeir sè heldr tröll enn menn. Eitt sumar fundumst við við Suðreyjar; hafða ek 10 skip, ok öll vel skipuð, en þeir höfðu 5 skip. Vèr börðumst einn dag, ok skipti skjótt um með oss; fèll þar allt lið mitt, en ek hljóp á kaf, ok komst ek svâ undan; hefi ek eigi farit verri för enn þá. Konúngr mælti: sýnist yðr nokkur efni (á)¹, at berjast við þá með þat lið, sem vèr höfum? Ásmundr bað konúng fyrir sjá: munu vèr treysta á yðra hamíngju, ef duga skal. Ketill eggjaði mjök atlögu, kvað þar mundu gott at reyna sik, ok afla fjár ok frægðar. Þá mælti Rólfr konúngr: með því at þeir eru illir ok ágjarnir, en hafa þann grip, er ek vilda gjarna eiga, þá munu vèr búast um, ok bera grjót á skip vor. Nú var svâ gjört, sem konúngr bauð, ok bjuggust við eptir faungum. Konúngr lèt gánga uppá eyna, ok höggva kylfur stórar. Eptir þat herklæddust þeir; síðan róa þeir at þeim hljóðliga. Svâ er sagt, at skip Grímars láu öll jafnfram, ok láu lángskipin nær eyjunni, en drekinn utar, ok var hlið mikit í milli skipanna ok eyjarinnar, ok leggja fyrst at lángskipunum, ok vita, ef þau yrði unnin, áðr þeir kæmi við drekanum; þætti mèr þá unnit, ef þeir ætti eigi lángskipin til annarrar handar, [þá er þeir legði at drekanum¹. Konúngr bað þá vera sem ákafasta, meðan þeir væri sízt við búnir, [ok vita², at

¹) *v. í C.* ²) *v. í B, C.*

sem skjótast skipti um með þeim[1]; bað þá ekki æpa ok fara sem hljóðast. Þeir gjörðu, sem konúngr mælti; þá var á þoka, ok myrkvi mikill, finna þeir eigi fyrr, er á lángskipunum voru, en tjöldin voru tekin af þeim, en sjálfir þeir barðir bæði með grjóti ok vopnum. Þeir spruttu á fætr allir, ok taka í mót með mikilli hreysti, þvíat þeir láu allir með vopnum sínum; en þó fengu þeir mikinn mannskaða, áðr þeir gæti vel skipat liði sínu til varnar, ok er þeir höfðu litla stund barizt, rèðu þeir Rólfr konúngr til uppgöngu; varð þar mannfall svâ mikit, at á lítilli stundu ruddu þeir þat skip, sem þeir voru á komnir; fèllu sumir, en sumir hljópu á kaf, ok druknuðu, ruddu þeir svâ 3 skip, at hvört mannsbarn var drepit. Við þetta vaknar Grímar, ok bað sína menn at leggja, þá sem á drekanum voru. Þar var óp mikit, ok kall, er hvorr eggjaði annan. Þá mælti Rólfr konúngr til Ketils, bróður síns: nú skaltu leggja at því lángskipi, er eptir er, en við Ásmundr[2] skulum leggja at drekanum. Ketill lèzt svâ gjöra mundu. Nú leggr á sitt borð drekanum hvorr, Hrólfr konúngr ok Ásmundr. Þeir höfðu fengit lítit manntjón, ok höfðu því lið fleira, þá stóð Grímar upp á drekanum (ok sagði): hvörir leggja hèr at svâ vaskliga? Konúngr svaraði: ef þèr er á því forvitni, þá heiti ek Rólfr, ok

[1]) *frá* [ *v. í V.* [2]) *hèr sleppr skinnbókarbrotið Aa.*

em Gautreksson, annar heitir Ásmundr, ok er konúngs son af Skotlandi. Grímar mælti: þann mann höfum vèr sèð, ok skildum vèr svâ næstum, at honum mætti vera lítil eptirsjá[1] at vorum fundi, þá er vèr eltum hann sáran á kaf, en drápum af honum hvört mannsbarn, eða mun hann nú ekki til þess muna? Ásmundr mælti: hitt skaltu finna, áðr kveld kemr, at mèr er þat eigi or minni liðit. Þá tók Grímar til orða: þín heit[2] munu vèr svâ lítt óttast, en vitum vèr at Rólfr konúngr er ágætr at hreysti sinni, ok því viljum vèr gjöra honum þann kost, sem öngum öðrum, þvíat þat er skaði, ef slíkr maðr er drepinn, bið ek attu, Rólfr konúngr! gángir uppá eyna við alla þína menn, vopnaða ok vel klædda; en penínga þá, sem þèr hafið, vil ek taka fyrir menn þá, er þèr hafið fyrir mèr drepit, ok er þat þó allt of lítit; hef ek þó öngvum manni gjört jafngóðan kost, síðan ek kom í hernað. Sem Rólfr konúngr heyrði orð hans, mælti hann: þetta mun víst vera vel boðit, en með því at oss er þat eigi sýnt, at vèr sèim á þína miskun komnir, at þú eigir nokkurra kosta boð heldr við oss, enn vèr við þik, þá viljum vèr með öngvu móti missa fjár vors. Grímar mælti: sè ek at þú munt eigi vera jafnvitr maðr, sem vèr hugðum, er þú vill eigi vægjá lífi þínu, þvíat sönnu segi ek þèr ena síðustu

[1]) aptrsjá, C. [2]) hól, C.

þína lífðaga, ef þú ætlar við mik at þreyta, hafða ek hitt ætlat, at þú skyldir lifat hafa til lengri nytja, með því at mèr ertu sagðr hraustr ok vinsæll, hafða ek ætlat at sýna á þèr því meira drengskap enn öðrum, þótti mèr aukast í því frami, at ek miskunaði yðr utan allra verðleika. Rólfr konúngr mælti: aungva þökk hafi þèr af oss fyrir þetta, ok búið yðr skjótt, þvíat vèr viljum á þat hætta, hvorir eiga öðrum kosti at bjóða, áðr kveld komi, höfum vèr ok nokkurt svig unnit á yðrum mönnum, ok er yðr þess mál at hefna. Grímar mælti: nú kaus þú þann kost, er þú skalt aldrei fagna síðan, ok þèr mun vera makligr. Ok eptir þetta tekst þar bardagi harðr ok ákafr; voru þeir Grímar bæði sterkir ok harðfengir, ok svá ákafir at konúngs menn máttu ekki annat enn hlífa sèr, þeim var ok óhægt til atsóknar at vega upp á drekann, þvíat hann var svá hár sem kastali, en menn sterkir ok kænir til varnar, ok áttu at höggva niðr fyrir sik; en öngvan þeirra 12 beit járn, sem Ásmundr hafði sagt, fèllu þá menn Rólfs konúngs bæði móðir ok sárir. Svá er sagt, at Ketill Gautreksson lagði at lángskipinu, því er eptir var. Sá hèt Forni, er stýrði skipinu, ok var enn hraustasti maðr, lagði þar hvorr djarfliga til móts við annan, ok varð þeirra fundr harðr, sýndi Ketill þar harða atsókn, ok rèð til uppgöngu við sínu liði. Þar var orrosta áköf; skiptust þeir Ketill högg-

um við, ok fèll Forni fyrir Katli. Síðan drápu þeir hvört mannsbarn á skipinu, fèkk Ketill þar góðan orðstýr af sínum mönnum. Eptir þetta lögðu þeir at drekanum, ok fundust þeir bræðr, spurði Ketill, hvörsu gengi. Rólfr konúngr lèt lítt yfir, ok sagði at eigi mundi svâ búit hlýða, kvað þetta vera fjandr mikla við at eiga. Hann bað Ketil róa at eyjunni, ok flytja út at þeim stórtrè, því þar skorti eigi stóra mörk. Ketill gjörði svâ, ok var í öllu hinn skjótasti; ok er þeir komu aptr, lèt konúngr fella viðu á borðin drekanum svâ stóra ok þúnga at hann hallaðist við. Síðan rèðu þeir Rólfr konúngr til uppgaungu, fèllu þá menn á drekanum bæði fyrir grjóti ok vâpnum, hallaðist þá bardaginn á Grímar, ok hans förunauta. Rólfr konúngr snèri aptr eptir skipinu, ok hafði kylfu eina stóra, ok barði á tvær hendr. Þeir Ásmundr ok Ketill fylgðu honum, fèll þá hvorr um þveran annan. Konúngr hafði mannfleira; fèll þá lið Grímars, svâ at þeir 12 stóðu uppi, Grímar ok kappar hans; var þá gengit at með kappi, ok barðir með kylfum, fèllu þá margir; ok er Grímar sá at þeir mundu sigraðir verða, stökk hann fyrir borð ok á kaf. Ásmundr var nær staddr, ok hljóp þegar eptir honum, ok leggst inn eptir honum at eyjunni, ok er þetta sèr Hrólfr konúngr, leggst hann þegat til lands, ok vill duga Ásmundi, svâ at þeir eigist eigi tveir við. Ok er Ásmundr kemr at

landi, var Grímar á land kominn, ok er hann sèr Ásmund, þrífr hann upp stein, ok sendir honum. Ásmundr skýtr sèr þá í kaf, ok er hann kemr upp, ætlar Grímar at senda honum annan, ok í því var hann sleginn með kylfu, svâ at þegar fèll hann. Þar var kominn Rólfr konúngr, ok lèt skamt höggva í millum; lèt Grímar þar líf sitt. Þá lögðu þeir út til drekans, ok hafði Ketill unnit þar allt til handa þeim; tóku þeir þá ok ruddu drekann, en köstuðu á kaf þeim sem fallit höfðu. Eptir þat fóru þeir til eyjarinnar, ok bundu sár sín, voru þeir bæði móðir ok sárir, en fjöldi fallinn. Þar voru þeir nokkrar nætr. Konúngr var lítt sár, en þeir Ásmundr ok Ketill voru mjök sárir. Eptir þetta bjuggust þeir á braut, tóku þeir drekann Grímarsnaut, ok gátu valla skipat fyrir mannfæð, en lètu eptir öll önnur skipin; kómu nú við Danmörk. Ok er Íngjaldr frèttir kvomu Rólfs konúngs, bíðr hann þeim til veizlu þeirrar, er hann hafði stofnað, erfi eptir föður sinn, drukku þeir nú allir samt með miklum veg erfi Ríngs konúngs, var þar ekki jafnmargt hjalat sem um dráp þeirra Grímars, þvíat öllum þótti þat hit mesta hreystiverk. Ok er þessu er lokit, lætr Hrólfr konúngr stefna þíng fjölment; á því þíngi er tekinn Íngjaldr til konúngs eptir feðr sinn yfir Danmörk alla. Sitr hann nú, ok semr ríki sitt á þá lund, sem Rólfr konúngr gaf

ráð til. Eptir þat býst nú í braut Rólfr konúngr af Danmörk með stórgjöfum sæmdr af Íngjaldi konúngi, ferr hann nú leiðar sinnar, þartil er hann kemr til Svíþjóðar með öllu heilu ok höldnu, [en Íngjaldr konúngr sitr um kyrt at ríki sínu í Danmörk, ok skildust með hinni mestu blíðu[1]; fór Ketill til Gautlands, ok sitr þar um kyrt. Rólfr konúngr sitr löngum at Uppsölum, ok var þar vinátta góð með venslum. Rólfr konúngr lagði mikinn kost til at búa drekann Grímarsnaut, ok lèt allan steina fyrir ofan sjá með ýmsum litum [bæði gulum, rauðum, grænum ok blám, svörtum[2] ok samblöndnum; gulli lætr hann búa dreka höfuð, ennispánu[3] ok alla svíra ok víða renna gulli í súðina, þar sem bæta þótti; var hann hvörju skipi skrautligri, þótti hann svá bera af hvörju skipi, sem Rólfr konúngr af öðrum konúngum, þeim sem voru í Norðrlöndum, gjörðist hann þá harðla víðfrægr af sinni stjórn ok vizku, sóttu margir ríkir menn á hans fund, ok gjörðust honum handgengnir, ok veittu honum dyggiliga fylgð. Höfum vèr þat heyrt, at í þann tíma hafi eigi nokkurt skip verit skipat frægrum köppum enn drekinn Grímarsnautr, þótt vèr kunnum þá eigi at nefna eða frá at segja. Sitr Rólfr konúngr nú í Svíþjóð með mikilli gleði ok prís þau missiri;

[1]) v. í C. [2]) v. í C. [3]) en í spónu, C; ennispöng, F.

unni Þornbjörg drottníng Rólfi konúngi stórmikit, fann konúngr at hún var hvörri konu vitrari ok meiri skörúngr fyrir allra hluta sakir. Ásmundr var með konúngi vel haldinn, ok reyndist at öllu hraustr ok hinn vaskasti, virði konúngr ok hann mest sinna manna. Rólfr konúngr hafði þriðjúng Svíþjóðar til forráða. Hann hafði jafnan á sumrum útgerð fyrir landinu, ok leitaði sèr frægðar ok frama. Ok hit næsta sumar eptir bardaga þeirra Grímars hafði Rólfr konúngr verit í hernaði; hann hafði víða herjat um Vestrlönd, ok orðit gott til fjár ok frægðar. Um haustit heldr konúngr til Svíþjóðar, ok sitr þann vetr í kyrðum.

16. Þá rèð konúngr fyrir Garðaríki, er Hálfdán hèt; hann var vitr konúngr ok vinsæll. Hann á dóttur eina fríða, þá er Áluf[1] hèt. Hálfdán konúngr unni mikit dóttur sinni; þótti hún enn bezti kostr í öllu Garðaríki, ok þótt víðara væri um leitat. Þórir hèt maðr, hann var öndugishöldr Hálfdánar konúngs; hann var bæði mikill ok sterkr; hann var kallaðr járnskjöldr; hann hafði lengi verit þar landvarnarmaðr. Með Hálfdáni konúngi voru 12 berserkir; þeir voru illir ok ódælir, aungvan þeirra beit járn; tveir eru nefndir af þeim, hèt annar Hrosskell[2], en annar Hesthöfði, þeir voru bræðr; svâ er frá þeim sagt, at þeir óðu

[1]) Oluf, *B, C, V.* [2]) Hrossþjófr, *B, C, V.*

elda[1] [ok gengu sjálfráðir á vápn[2], þá er berserksgángr kom á þá. Þeir drápu bæði menn ok fè, ok allt þat er fyrir varð, ok eigi vildi undan þeim láta, ok eyrðu öngvu, meðan sá óhugr var á þeim; en þá þetta rann af þeim, voru þeir svâ máttlitlir, at þeir höfðu eigi allnær hálfan styrk sinn, ok var sem þeir væri þá svâ veikir, sem þeir menn er í sóttum hefði legit, hèlzt þat um dægr eða því nær. Hálfdán konúngr hafði mikit traust á þeirra framgöngu, svâ at öngvir konúngar treystu við hann at stríða. Konúngr unni mikit dóttur sinni, ok þótt konúngar bæði hennar, þá stukku allir undan við gis ok gabb, er berserkir gjörðu at þeim, þóttust allir hólpnir, er or þessu kallsi komust. Við þetta gjörðist konúngsdóttir kostvönd, ok vildi öngvum játa, þótt hennar bæði; sitja nú um kyrt, því öllum leiddist hennar andsvör.

17. Þat var einn tíma, at Þornbjörg drottníng talar við Rólf konúng: hvat ætli þèr í sumar at starfa. Konúngr svarar: í hernað ætla ek. Hún spurði: hafi þèr nokkut spurt af ferðum Ketils, bróður þíns; hann kveðst þaðan hafa öngva frètt: eða kanntu oss af því at segja? Hún svaraði: þat hef ek frètt, at Ketill fór austr í Garðaríki, at biðja dóttur Hálfdánar konúngs sèr til handa. Svâ hafa mèr frèttir gengit, at hann hafi þángat haldit 2

[1]) jörð til hrjá, B, V. [2]) sjálfráðir, B, V.

skipum, ok hann hafi gengit við tólfta mann inní hall konúngs. Þat hef ek heyrt, at hann bar upp eyrindi sín vel ok skörugliga, ok flutti sitt mál með mörgum snjöllum orðum, en hann fèkk þau andsvör af konúngi ok júmfrúnni, at honum þótti sèr leitat lítils metnaðar, en berserkir hljópu upp með ópi ok [miklum gný[1], ok ráku þá út úr hallinni, ok eltu þá til skipa með grenjun ok fáheyrðum látum; þeir voru bæði barðir ok særðir, ok þóttust fótum eiga fjör at launa, er þeir komust undan; slíkt höfum vèr þar af spurt. Nú er oss svâ flutt at Ketill uni öngvu betr fyrir sína hönd eða sinni ferð, enn hann undi við yðra ferð, þá er fóruð fyrsta sinn til vor, ok hefir hans ferð orðit miklu hæðiligri, mun hann brátt koma á yðvarn fund ok biðja yðr (til) þessar ferðar, at reka sinnar svívirðíngar. Rólfr konúngr svarar: ekki er hægt at koma ráðum við slíka menn, við ákafa hans ok framgirni, er nú vel at hann gjaldi einræðis sjálfs síns, þar sem hann vildi ekki með vorri forsjá fara. Hún bað hann eigi slíkt tala, ok kvað þetta vera nauðsynja ferð, at veita bróður sínum fullting; ok skilja þau tal sitt at svâ mæltu. Litlu síðar kemr Ketill á fund Rólfs konúngs, ok segir honum greiniliga frá allri þeirri sneipu, er hann hafði fengit í Garðaríki. Rólfr konúngr kvað slíks von vera, at svâ hefði far-

1) skroll, *C.*

it, því at þú ætlar at vinna allt með ákafa þínum. Ketill bað Rólf konúng nú til ferðar með sèr: því at ek þikjumst hafa oflítinn styrk til at rètta þá svívirðu, er til mín var gjör. Var Ketill í allillum hug. Konúngr kvað honum eigi mundu koma fyrir allt áhlaup hans ok orðaskrap: sýnist mèr eigi líkligt til hefnda við slíka menn, sem vèr eigum um, því at hèr mun bæði viðþurfa fjölmenni ok harðræði. Nú skaltu fyrst fara heim í ríki þitt, ok afla þèr skipa ok manna, sentu ok orð Íngjaldi konúngi í Danmörk, at hann gjöri slíkt hit sama, ok komið hèr báðir at sumri, ok sjám þá, hvat oss þikir tiltækiligast; ok eptir þetta ferr Ketill heim í ríki sitt, hafa nú allir ætlan ok tilbúnað um þessa ferð.

18. Nú er frá því sagt, þá er sumraði, ok vetrinn var liðinn, at þeir Ketill ok Íngjaldr koma með 40 skipa vel búin at mönnum ok vopnum til Svíþjóðar. Rólfr konúngr hafði búa látit 30 skipa ok dreka sinn umfram; voru þessi öll skip búin með miklum herskap ok velbúnu liði; biðu svâ byrjar. Rólfr konúngr spurði drottníngu, hvörsu henni segði hugr um þeirra ferð, hvörsu takast mundi. Hún kvaðst vænta, at vel mundi takast, en kvaðst þó svâ dreymt hafa, at þeir mundi koma eitthvört sinn í þessari ferð í krappan stað, svâ at þeir mundu reyndir verða. Ok er byr kom á, tóku þeir þegar, ok settu upp segl sín, svâ

hvörr sem búinn var, ok var heldr veðrlítit í fyrstu. Rólfr konúngr varð síðast búinn, gekk drekinn lítit, því hann þurfti mikinn byr; sigldu svâ sem leið liggr til Garðaríkis. En er þeir höfðu siglt um stund, tók veðrit at hvessa, gekk drekinn þá skjótt eptir skipunum, gjörði þá veðr mikit. Konúngr bað þá tengja saman skipin, ok vita ef þeir gæti svâ haldizt. Ok er þeir ætluðu svâ at gjöra, laust á ofviðri svâ miklu, at þegar urðu skipin sundrskila, varð þá at hlaða seglum ok rètta. Eptir þat kom á steinóðr útnyrðíngr, mátti þá eigi lengr rètta, ok sigldu þá við eitt rif, gjörðist þá svâ veðr mikit, at reiði þeirra slitnaði, svâ at bæði gekk í sundr höfuðbendur ok aktaumar, ok gekk mjök sjór á þá, svâ at fáir væntu sèr lífs, þeir sem þar voru; ok er þessi stormr var sem ákafastr, sleit frá drekann Rólfs konúngs, ok rak at eyju einni, en með því at þar var höfn góð, en skip örugt, ok liðsmenn kænir, komust þeir með heilu ok höldnu at landi. Þat var síð um kvöld, ok fèll þá veðr, ok gjörði harðla blítt. Hrólfr konúngr lèzt vilja gánga á eyna, ok vita ef hann sæi nokkut til nýlundu. Ásmundr fór með honum, ok 10 menn aðrir, en hann bað annat lið sitt bíða við skip, ok bað þá bíða til nóns [annan dag[1], ef hann gjörði þeim vissu öngva áðr. Eptir þat gengu þeir upp á eyna; þat var mikit land ok skóg-

[1]) aptans, *C.*

ótt; ok er þeir höfðu gengit um stund, fundu þeir skála einn á eyjunni, hann var bæði mikill ok rammgjörr, ok eigi þóttust þeir sèð hafa jafnhátt hús; hurð var (hníginn) aptr; konúngr bað þá upplúka; þeir hljópu á hurðina ýmsir, ok gekk öngvum upp. Konúngr mælti þá: sá mun hafa afl í klóm, er þessari hurðu er vanr at lúka, ok skal ek freista, hvört uppgengr. Konúngr gekk þá til, ok hratt upp með annarri hendi. Þeir gengu síðan inn, ok lituðust um, ok fundu eld, ok brugðu skíði í, ok báru innan um skálann, sá þeir at þar skorti eigi allskins varníng. Sæng var þar búin harðla vel; hún var stórliga mikil. Konúngr lagðist niðr í sængina; sá hann þat, þó annar legðist til fóta honum jafnlángr, þá var sængin þó sýnu lengri, þóttust þeir vita at þar mundi eigi smámaðr fyrirráða. Þar var ein súla fyrir framan sængina upp undir ásinn; þar hèkk á sverð eitt harðla mikit, ok var hátt upp komit, svâ konúngr gat hvörgi nánd tekit til. Þá mælti Rólfr konúngr: hvört skal nokkut hèr vera í nótt, ok bíða hússbóndans, þess er hèr á fyrir at ráða, ok hætta til, hvörsu hann er heima at hitta, eða vilì þèr fara til skips, ok hætta ekki til fundar við hann. Þeir báðu hann fyrir sjá, en kváðust ófúsir at bíða. Konúngr mælti: á því em ek meir, at bíða bónda, en þat má vera at honum þiki vèr helzt fjölmennir, ok styggist hann við gesta-

fjölda, skal nú skipta liði, skulu 4 menn fara til skips, en við Ásmundr ok aðrir fjórir skulu eptir vera; þèr skuluð segja, hvat oss dvelr, ok ef vèr komum eigi til skips fyrir dagmál, þá fari þèr ferðar yðvarrar, mun vor þá ekki at bíða; þvíat þat er mín ætlan, at oss tjái ekki fjölmenni við þenna mann, þvíat jafnt mun hann fyrirkoma mörgum sem fám, ef hann er jafngildr sem ek ætla, er mönnum þá nokkuru ljósara, ef þèr komizt á braut, ok segið þat, er þèr sjáið, hvat orðit er af Rólfi Gautrekssyni ok hans fèlögum; þiki mèr vera mega, at þessi skálabúi hafi nokkru umráðit vora híngatkvomu, ok vili hann at vorn fund beri saman, [skal nú ok hèr bíða náttlángt[1]. Eptir þat fóru þeir sem konúngr ákvaddi, ok fórst þeim vel til skips, ok sögðu þat, er þeir vissu til konúngs. Allir þeir voru mjök hræddir, hve honum mundi atfara.

19. Nú er at segja frá þeim Rólfi konúngi, at þeir eru í skála um kveldit. Konúngr mælti: fýst væri mèr á, at fá þetta hit stóra sverð, er uppi hángir. Hvat er þar til ráðs? segir Ásmundr. Konúngr mælti: þú skalt fara uppá herðar mèr, ok vita ef þú gætir þá ofan tekit sverðit, ef þú stendr á öxlum mèr. Asmundr mælti: þat hygg ek, at þetta sverð sè svá þúngt at ek geti eigi valdit. Konúngr mælti: styð þú þik við súluna annarri hendi, en lètt annarri neðan

[1]) v. í C.

undir sverðit, ok þegar er þú finnr, at þat er laust uppi, láttu þat sjálft hlaupa niðr með súlunni, [mun ek þá viðtaka. Ásmundr gjörir sem konúngr bauð, ok ferr nú á axlir honum, ok tekr neðan undir sverðit, en konúngr í mót. Líðr nú kveldit[1]; heyra þeir út dunur miklar, ok þvínæst kom þar inn maðr, undruðu þeir þá lítt, þótt skálinn væri (hár eða stórkostligr, þvíat þetta var enn hræðiligasti risi, svâ at öngvan höfðu þeir sèð fyrri svâ) stóran[2], ekki var hann svâ ljótr, at þat væri fádæmi þess er hann var (stórskorinn í andliti[3]. Vel var hann búinn at klæðum; hann hafði einn grábjörn á baki sèr ok einn boga í hendi harðla stóran. Ákafliga var hann móðr, ok þat ætluðu þeir, at hann mundi lángt hafa atgengit. Hann gengr at eldinum öðrumegin, ok kastar niðr birninum. Rólfr konúngr heilsaði honum, en hann lèt sem hann heyrði eigi. Síðan sundrar hann björninn skjótt ok fimliga, festir síðan ketil

---

[1]) ... at skála....sama, ef hann sèr eigi sverðit Risanaut, *b. v. meiningarlaust A; því eitthvað mun þar vanta; hin hafa ekkert tilsvarandi.* [2]) stórskorinn, *C*; stórkostligan, *B*, *V*. [3]) *frá* [ *hefir A þannig á lausum blöðum, ok hefir líkliga eigi meira orðið lesið af því í skinnbókinni; en það, sem er innan strikanna, er tekið úr B, V, sem þar fara um sömu orðum, en í stað þess frá* [ *hafa B, V þannig:* mun ek þá svâ tilsjá, at hvorugum okkar verði mein at. Ok sem þeir voru (þetta) at ráðslaga um slíkt ok annat (þvílíkt), heyrðu þeir brak með fyrna brestum, svâ at allt skalf, sem á hjóli lèki, því þat var svà til at heyra, sem óguarligar dunur, ok eptir þat gekk þar inn maðr o. s. fr. *C hefir því nær sömu orð sem textinn, en sleppir þó nokkru.*

upp, ok sýðr. Eptir þat tekr hann borð, breiðir á dúk, ok berr fram vist ok drykk; öllu þótti þeim hann því vel skipa. Eptir þat tekr hann til matar, etr ok drekkr heldr djarfliga. Ok eptir þat hann er mettr, varðveitir hann allt þat er afgekk. Svâ er sagt, at hann býr borð í annat sinn miklu kurteisligar, setr fram handlaugar með hreinu handklæði. Eptir þat tekr hann til orða: ekki mun ek yðr þikja boðrífr hèr til, en þat er nú ráð, Rólfr konúngr! at gánga til matar við menn þína; em ek eigi svâ vesallátr, at mèr þiki fyrir at gefa nokkrum mönnum mat um nætrsakir, þótt ótignari menn sè enn þèr; eruð þèr mjök ágætir af mörgum snildarverkum, er þèr hafið unnit umfram aðra konúnga. Konúngr mælti: þetta er vel boðit ok mikilmannliga, sem líkligt er, at þèr sèið mikillrar náttúru, bæði um þetta ok annat, en mat ok drykk höfðu vèr í nóg, áðr vèr gengim frá skipi, ok þurfu vèr nú eigi þess at sinni, eða hvört er nafn þitt? Hann svaraði: ek heiti Grímnir, ok em ek Grímólfsson, ok bróðir Grímars þess, er þú drapt. Þú tókt þar marga gripi, þá er ek þikjumst eiga. Nú er þat satt, at þú ert engis góðs frá mèr verðr, ok ekki gott skaltu af mèr hafa, ok þótt þú værir hèr með öllu liði þínu, skyldir þú aldrei burtkomast, en því bauð ek þèr til matar, at ek ætlaði, at þú skildir lítinn geig þar af fá; en þann hinn mikla storm, sem þèr fenguð, hann gjörði ek

at þèr ok Ásmundi, ok þeim sem á drekanum voru, unst at drekann sleit frá; þótti mèr lítils vert um hin önnur skipin, ok eru þeir komnir þángat, sem þeir vildu; þvíat ek gaf þeim hægan byr, en þú ert nú hèr kominn með liði þínu heilu ok höldnu, sem með þèr er á drekanum, ok skaltu aldregi burtkomast, því hann er hit bezta skipa[1] í yðvarri ferð, skal ek ok svâ greipiliga hefna bróður míns, þótt ek hafi eigi til öxi eða sverð, þvíat þat er yðr allt ofgott, at falla fyrir vopnum mínum, ok skal ek gefa ykkr Ásmundi grið náttlángt ok hugsa ykkr þá pínu, at sem mest reyni þrek ykkar; en þegar er ek vissa at skilit var með þèr ok liði þínu, gaf ek þeim hægan byr, ok eru þeir komnir þar sem þeir vildu, þvíat ek hirti ekki at hafa ónáð af fjölmenni þínu[2]. Risinn hafði skotit í eldinn járnteini, ok var klofinn annan enda, svâ sem þat væri tveir fleinar; þat færi var geigvænligt.

---

[1]) *tekið úr B, V; í A er þetta enn á lausu blaði með eyðum þannig:* .... liðr lítil ... nokkurs vert um þína nöt .... öllu liði þínu heilu ok höldnu .... skildir þú aldrei í braut komast; þik skal ek ok eigi leyna, at veðr þat hit mikla gjörða ek at þèr ok at þeim, er á drekann .... veðrinn, er þèr voruð fráskila með drekann; lèt ek ok því eigi brjóta hann, at ek ætla mèr hann; er hann ok: *á öðru lausu blaði í A:* vissi at þú mundir ei frama til hafa at neita. *C hefir þannig:* vissi at þú mundir eigi frama til hafa, ok þótt þú værir hèr með öllu liði þínu, skildir þú aldrei burtkomast; þik skal ek eigi því leyna, at veðr þat hit mikla gjörða ek at þèr ok þeim er á drekanum voru, ok lètti þegar veðrinu, er þèr voruð, fráskila með drekann; lèt ek ok því eigi brjóta hann, at ek ætla mèr hann; ok er hann bezt skip. [2]) *hèr endar lausa blaðit í A.*

Ekki vissa ek, sagði Rólfr konúngr, at ek hefði þèr svâ nær höggvit, ok er þat satt, sem mælt er, at yfirbætr liggja til alls, ok svâ mun um þetta, ok muntu vilja taka bætr eptir bróður þinu? Risinn mælti: hræddr ertu nú, lítill karl! ok er þat at vonum, þvíat nú skal ek sýna þèr lítinn þann leik, er ek gjöri við smápilta, er hèr koma. Síðan brá hann upp járnteininum, ok rak fleinana í gegnum tvo konúngsmenn, ok kastaði þeim dauðum innar um eldinn. Eptir þat rak hann í gegnum aðra tvo, ok kastaði þeim dauðum til hinna. Síðan skók hann svâ teininn, at þeim sýndist 4 oddarnir á fleininum. Hann mælti þá: eigi þarftu, konúngr! at vera svâ hræddr, allt skaltu hafa lengri pínu ok meiri, þá er morgin kemr. Rólfr konúngr mælti: frest eru ills bezt, ok þiki mèr skemtiligt at sjá gamanleika þína, slíka ok aðra. Þá mælti risinn: þar liggja dýraskinn í sætinu, því megi þið kasta undir ykkr, þar sem þið liggið í nátt, þvíat ek em svefnstyggr, ok þiki mèr íllt at heyra gnyð ykkarn yfir mèr. Rólfr konúngr mælti: við munum hèr umbúast við eldinn, ok kasta ok svâ skinnunum undir okkr, þvíat við munum skjótt sofna. Risinn mælti: allt eru þið þá óhræddari, enn mik varir, ef þið sofið. Síðan rak hann hurðina í klofa, ok mælti: nú veit ek víst, at þið komizt eigi á braut or skála vorum. Rólfr konúngr mælti: ekki munu við til þess leita, þikjumst við nú

hafa fengit svâ góðan húsbónda, at okkr tjár ekki at gjöra öðruvísa, enn hann biðr. Til þess megi þið ætla, segir risinn, at sá mun ykkr beztr, at gjöra mèr öngvar ónáðir, ok liggja sem kyrrastir. Þeir kváðust svâ gjöra mundu. Leggjast nú hvorirtveggju til svefns. Risinn var orðinn móðr, ok sofnaði hann skjótt. Þá mælti Rólfr konúngr: hvörsu þikist þú kominn, fóstbróðir Ásmundr? Sjaldan verri enn svâ, þiki mèr þetta tröll-íllt við at eiga, ok ekki hægt til úrráða. Konúngr mælti: aldrei mun sjá óvinr okkr fyrirkoma, ok mun nokkut annat fyrirliggja. Konúngr tók þá skíð eitt, ok skeldi á þilit hjá sèr. Risinn vaknaði við, ok bað þá liggja kyrra: ella slæ ek ykkr í hel með hnefa mínum. Eptir þat sofnaði hann. Hrólfr konúngr skeldi þá enn skíðunni. Risinn snèrist þá á aðra hlið, ok vaknaði ekki, ok talaði þá ekki um, ok sofnaði fast. Konúngr skeldi hit þriðja sinn miklu skjallast, ok vaknaði þá risinn ekki við. Rólfr konúngr mælti þá: nú skal fara at með ráði, vilda ek fyrst geta náð sverðinu, ok þætti mèr líkligt, at þat mundi bíta risann; nú skulu við svâ at fara sem í kvöld! Þeir gjöra svâ, ok getr Rólfr konúngr náð sverðinu. Hann mælti: nú þiki mèr þegar líkara okkar efni, ok skal nú með ráði atfara; þú skalt reka í eldinn járnflein risans, ok gjöra glóanda, ok vilda ek at þú færir þessa 2 fleina í

augu risans, í því er ek legg sverðinu á honum; ok ef svâ berr til, forðum okkr sem skjótast innar um sængina! Rólfr konúngr bregðr nú sverðinu. Konúngr þrífr upp kefli eitt, ok gengr at sænginni djarfliga, ok flettir af honum klæðum, ok sýndist harðla tröllsligr. Konúngr leggr sverðinu svâ fast, at þegar gengr í gegnum hann undir höndina vinstri, ok jafnskjótt færði Ásmundr járnteininn í augu honum. Eptir þat skunduðu þeir innar um sængina. Hrólfr konúngr kastaði keflinu utar til dyranna, ok kom í skíðahlaðann, ok skall hátt við. Risinn hljóp upp skjótt ok hart ok utar til dyranna, ok fálmaði höndunum, ok ætlaði at grípa þá ok kreista með öngri vægð, en með greipiligum sárum ok miklu umfángi fellr hann út á hurðina, svâ at hún brotnaði í smá mola. Þeir gengu þá at, ok börðu risan með stórtrjám, þar til er hann var dauðr, ok var honum þó heldr mikit til fjörs. Eptir þat færðu þeir hann út or skálanum, ok urðu þeir at lima hann í sundr, áðr þeir komu honum út. Þá var mjök morgnat, ok bjuggust þeir á braut; ok er þeir voru skamt komnir, sá þeir lið sitt koma í móti sèr með miklu vâpnabraki, ok urðu þeir fegnir, er þeir sá konúng heilan; höfðu þeir ætlat til móts við risann, ok hefna herra síns, ef þess þyrfti við, ok þótti þeim eigi betra at lifa eptir konúng sinn. Síðan

báru þeir mikinn fjárhlut or skálanum ok marga ágæta gripi. Konúngr hafði sverðit Risanaut; þat var svâ mikit, at þat var öngum manni vopnhæft nema Rólfi konúngi, ok var honum þó þúngt.

20. Eptir þetta þrekvirki hèldu þeir á brott, ok fengu byr góðan, komu við Garðaríki nær konúngs atsetu. Þat var snemma morgins. Þar fyrir kendu þeir sína menn, urðu þar fagnafundir, voru þeir Ketill ok nýkomnir, spurðu þeir þá at um ferðir Rólfs konúngs, en hann segir svâ, sem gengit hafði. Þeim þótti honum hafa gæfusamliga tekizt, ok þó mikilmannliga, lofuðu nú allir hans ferð ok frama. Ketill spurði Rólf konúng, bróður sinn, hvört þeir skyldu eigi þegar fara sem hermannligast, ok veita konúngi atgöngu. Konúngr kvaðst eigi þat vilja, mun ek senda menn á konúngs fund, ok segja honum mína kvomu, ok hvört vort eyrindi er; vil ek, Ásmundr! at þú farir þessa ferð; seg svâ Hálfdáni konúngi, ef hann vill eigi unna Katli, bróður mínum, mægða við sik, at hann mun ó'riði mæta eiga af oss, viljum vèr bíða konúngs hálfan mánuð, ok safni hann liði at sèr ok búist við bardaga, ætlum vèr þó at vinna þessa mey Katli til handa. Ferr Ásmundr nú við nokkra menn, kemr þann tíma til hallarinnar, er konúngr sat yfir drykkjuborðum með hirð sína, var þar gleði mikil. Ásmundr gekk í höllina at óviljuðum dyravörðum;

hann gekk fyrir konúnginn, ok bar fram eyrindi sín vel ok sköruliga, eptir því sem Rólfr konúngr ætlaði[1]. Hálfdán konúngr svarar: spurt höfum vèr at Rólfr konúngr Gautreksson er ágætr maðr, en með því at vèr höfum áðr synjat Katli þessa ráðahags, sýnist oss eigi at játa, þótt þèr sèið nú komnir með meira styrk, enn þá var Ketill; munu vèr þenna kost kjósa, at ráða til bardaga, með því at Rólfr konúngr hefir þar vel um talat, at vèr megim safna oss liði. Þá mælti Þórir járnskjöldr, öndugismaðr konúngs: þat er mitt ráð, herra! at þèr stríðit eigi við Rólf konúng, þvíat þat mun yðr verða allt um megn; er dóttir yðar fullsæmiliga gipt, þó Ketill fái hennar, er hann (hinn) hraustasti maðr ok hugfullr, munu þèr þá fá trausta höfuðbendu, þar Rólfr konúngr er, því aungan vitum vèr frægra í Norðrlöndum á allan hvatleik, vit ok hreysti, ok með vísu segi ek yðr satt, at týni þèr virðíng yðvarri, ef þèr berizt við hann, ok með því þèr villð eigi hlýða mínu ráði, þá skulu þèr aunga von eiga minnar fylgðar, ok mun ek eigi bera minn skjöld í móti Rólfi konúngi. Þá hljópu upp berserkir konúngs, 12 saman; var Hrossþjófr fyrir þeim; hann mælti til Þóris: þetta er bæði mælt illmannliga, ok þó ragmannliga, at veita eigi konúngi lið eptir megni, ok þora eigi at berjast í móti einum lítilsháttar konúngi, ok óverðr

[1]) skipaði, C.

ertu at hafa sæmdir af vorum herra fyrir slík orð, ok þótt konúngr vor hefði eigi fleiri menn enn oss 12 berserki, þá skyldi hann þessa eigi at síðr til heljar færa með öllu liði sínu, ok aldrei hèðan mannsbarn komast; ætla ek mèr at mægjast við Hálfdán konúng, en brytja Rólf konúng hröfnum ok erni, en þèr sendimenn verðið skjótt á brottu, ef þèr villð ómeiddir vera ok óbarðir. Segið svâ konúngi yðrum, at fyrr skal hann von eiga at oss snarprar orrostu, enn Hálfdán konúngr gipti dóttur sína þeim manni, er vèr vitum mest vesaldar kregð, ok heimskastr er í öllu, ef þreyta skal, ok er þat undarligt, er hann þorði optar þessa mála at leita, þar sem hann var eltr ok barðr sem hundr hjá stíu. Ásmundr svaraði: þat sè ek á þèr, Hrossþjófr! at þú mælir feigum munni, ok þèr allir fèlagar, þvíat eigi óttast Rólfr konúngr yðr, þótt þèr væruð menn, en nú hálfu síðr, er þèr skrektið sem ragar skógargeitur, munu þèr illa ills bíða, ok eggið konúng yðvarn ens mesta óráðs. Snèri Ásmundr út úr hallinni, en berserkir æptu ok grenjuðu á þá. Konúngr bað þá þegja, ok gjöra ekki sukk eða gnauð af sèr, kvað kallmannligt at flytja eyrindi konúngs síns. Ásmundr kom aptr á konúngs fund, ok segir, hvörsu farit hafði, segir þá við bardaga búast eiga. Hálfdán konúngr lèt liði safna, kom þar saman mikill her á fám dögum, bjuggust nú

hvorirtveggju eptir; ok þann sama dag, er þeir skyldu berjast, flutti Hálfdán konúngr her sinn í mót Rólfi konúngi. Berserkirnir voru fremstir, ok fara nokkut fráskila öðrum mönnum, þvíat þeir vildu [einir kenna sik láta af[1] öðrum hermönnum sakir ofbeldis ok mikils máttar. Þá mælti Rólfr konúngr, ok bað þá Íngjald ok Ásmund ok Ketil fylkja í mót Hálfdáni konúngi, en hann lèzt vilja finna einn berserkina; þeir köllaðu þat óráðligt; konúngr kvaðst ráða vilja, ok gengr einn á móti þeim; ok er þeir fundust, spurði konúngr, hvörir þeir væri, er svâ lètu stórliga: ok gángið fram or fylkíng konúngsins? Hrossþjófr sagði til nafns síns. (Hrólfr mælti): veit ek gjörla ætt þína; Hrosskell, faðir þinn, var mikill vin Gautreks konúngs, föður míns, ok skiptust þeir gjöfum við; en þar sem þú býðst at stríða í móti mèr, þá vil ek segja þèr eina litla frásögn, ok gjöra þèr kunniga ætt þína; þat var á einum tíma, sem opt bar at, at faðir þinn kom við Gautland; faðir minn tók honum vel, ok bauð honum til veizlu, ok þat þá hann, ok var honum veitt hit kappsamligasta, sat hann þar mjök lengi. Faðir minn átti þá gripi, er ágætir voru, þat voru stóðhross, hestr mikill ok vænligr, apalgrár at lit, ok með 4 merhryssi, ok at skilnaði gaf Gautrekr konúngr föður þínum marga dýrgripi, er ágætir voru, ok þessi stóðhross gaf hann

[1]) láta einkenna sik frá, C.

honum. Föður þínum fannst mikit um gripina ok gjafirnar, ok þó mest um hrossin, ok þakkaði þessa gjöf Gautreki konúngi með mörgum fögrum orðum; skildu þeir, ok fór faðir þinn á braut með hrossin ok heim, hann varðveitti þau virkuliga[1], ok gekk til hvörn dag; ok eigi liðu lángar stundir, áðr þat fundu menn, at föður þínum þótti hestrinn ekki jafngóðr, sem verit hafði; þat fundu menn ok, at honum þótti hrossin slík eðr betri; ok einn dag er hann kom til hrossanna, fann hann hestinn drepinn ok lagðan með spjóti í gegnum; at þessu gaf hann sèr ekki; þat undra menn, er honum þótti eigi skaði at um slíkan grip, sem hestrinn var, en því optar gekk hann til meranna, ok þeim fylgði hann því fastara. Eitt var hrossit bleikt á lit, þat þótti honum bezt allra hrossanna, ok um vorit ætluðu menn, at fyl mundi í merinni bleiku, allir þeir er hana sá. Svâ er sagt, at stundir liðu, þar til er merin ber; varð þat öðruvísi enn menn ætluðu, þat var sveinbarn, en eigi fyl. Faðir þinn lèt taka, ok fæða upp barnit, þat var mikit ok frítt; hann lèt þenna svein heita Hrossþjóf, ok kallaði sinn son; ok er eigi[2] kynligt, at þú rembist með[3], þar sem þú ert merarson; hafði ok faðir þinn sjálfr drepit hestinn, ok eigi veit ek, hvört hann hefir

[1]) varliga, *B*; vorkunliga, *V*. [2]) *v. í C.* [3]) við, *B*, *V*; mikit, *C*.

fleiri syni átt við þeirri meri, en sagt heyrði ek, at hann ætti þann annan son, er Hesthöfði hèt, ok væri ok at honum hrossakyn, en þarsem þèr eruð mjök líkir hvorr öðrum, ok allir illir ok ólíkir öðrum mönnum, þá er þat líkast, at þèr sèuð svâ allir getnir. En við orð konúngsins hljópu þeir upp með grenjun ok ópi, allir berserkir. Þeir vildu allir senn í móti konúnginum. Rólfr brá þá sverðinu Risanaut, ok hjó þann fyrst, er fremstr var, beit þetta sverð svâ þeirra búka, sem í vatn brygði, þvíat þeir voru allir hlífarlausir, þvíat ekki vâpn hafði þeim áðr grandat; lýkr þar svâ þeirra í millum, at Rólfr konúngr drepr þá alla, ok varð drjúgum[1] ekki sár. Þá sèr hann at samansíga fylkíngar þeirra Háldánar konúngs ok þeirra fóstbræðra; hafði Hálfdán konúngr lið miklu fleira. Rólfr konúngr snýr nú í bardaga í móti Hálfdáni konúngi, var þessi bardagi bæði harðr ok lángr, voru þeir fóstbræðr enir áköfustu; en þarsem Rólfr konúngr gekk fram, veik undan fylkíng Hálfdánar konúngs, ok fèll þar fjöldi. Svâ er sagt frá Þóri járnskildi, at hann vildi eigi berjast móti Rólfi konúngi, fyrir þat er Hálfdán virði ekki hans tillög. Konúngsdóttir gekk upp í ena hæstu turna, ok sá til bardagans, hún sá drepna hrausta menn föður síns; hún gekk þá heim til hallarinnar, ok inn í hallina, hún

1) nær, C; v. í B, V.

sá at þórir sat einn samt í öndugi, ok þuldi í gaupnir sèr, hann hafði fóstrat meyna. Hún gekk fyrir hann, ok mælti: þat er ráð, fóstri! at standa upp ok veita föður mínum, þvíat ek sè at hann þarf yðvars trausts. þórir leit við henni, ok svaraði öngvu, ok sat sem áðr, en hún gekk á brott; ok er stund leið, gekk hún fyrir hann, ok mælti: hví sætir þat, fóstri! at þú sitr svâ fast, ok hjálpar eigi feðr mínum, þarsem hann er svâ mjök þurfi, ok er þetta mjök óheyriligt, mun þèr þetta ok til mikils ódrengskapar virt, þar sem þú ert hans öndugismaðr, ok þegit af honum margar gjafir, ok ráðit einn með honum öllu því, sem þú vildir. Hann leit þá reiðugliga til hennar, ok svarar aungu, ok sat sem áðr, en mærin gekk í braut, ok þótti fóstri sinn ófrýnligr mjök. Hún gekk þá at sjást um. þá sá hún at Hálfdán konúngr ok hans fylkíngar gengu fyrir, en hún sá Rólf konúng höggva til beggja handa. Hún efast nú í, hvört hún skal optar biðja fóstra sinn, ok verðr enn þat fyrir, at hún snýst at honum djarfliga, ok leggr hendr um háls honum, ok mælti: minn ljúfi fóstri! ek bið þik viðhjálpa feðr mínum, ok mèr at verða eigi nauðig gipt, hefir þú ok heitit at veita mèr eina bæn, þá er ek vil biðja þik, vil ek nú at þú gángir í þenna bardaga, ok veitir feðr mínum eptir megni, ok veit ek at þú munir vel til duga. Járnskjöldr hratt meyunni á hallargólfit hart. Hann var

þá svâ reiðugligr, at hún þorði eigi við hann at mæla. Hann sprettr þá á fætr. Þat heyrði hún, at hann blès við mjök. Hann grípr vopn sín, ok klæðir sik skjótt ok fimliga. Síðan gekk hann snúðigt til bardagans, skorti þar eigi mikit mannfall ok snarpa orrostu. Þórir gengr fram svâ hart, at allt hrökk undan honum. Ok er stund leið, litaðist Rólfr konúngr um, ok sá mikinn bug á fylkíng þeirra Íngjalds ok Ketils; snèri konúngr þá þángat, en bað Ásmund berjast undir þeirra merki, þartil er hann kæmi aptr. Ok er þeir fundust bræðr, spurði konúngr, hvörsu atfæri. Ketill kvað þúngt veita: hèr er kominn svâ mikill óvinr, at ekki stendr við, ok líkari er hann trölli enn manni. Konúngr mælti: maðr mun vera, ok má vera at hann sè nokkuru vaskari enn aðrir menn. Konúngr hjó þá með Risanaut á báðar hendr, ok mætti öngvum svâ fræknum, sterkum nè dramblátum, at eigi fengi skjótt dauðann fyrir lífit. Ketill fylgði fram hraustliga, ok drap margan mann, ok gengu þeir í gegnum fylkíngar, ok eptir þat hverfr Þórir þaðan, en konúngr rètti aptr fylkíngina; ok er þeir höfðu barizt um stund, sá hann at Ásmundr lèt [undan buga[1]. Þá snèri konúngr þegar aptr, ok undir merki sitt. Rólfr konúngr lèt þá frambera merkit, ok fylgði því með mikilli atsókn. Hálfdán konúngr gekk vel fram, ok var hinn fræknasti við

[1]) síga, C.

bardaga ok hinn hraustasti framgöngumaðr, ok feldi margt manna. Þórir var ok þar kominn, ok gekk fram harðliga með stórum höggum, ok gjörði hann skjótt um við alla, þá honum viku mót; ok þegar hann sèr Hrólf konúng, víkr hann skjótt undan, ok þángat sem þeir Ketill voru fyrir, gengr þar fram með miklu kappi sem fyrr, ok fellir hvorn um þveran annan, svâ at ekki stendr við. Hallast nú skjótt bardaginn á þá fóstbræðr. Sèr Ketill, at eigi mun svâ búit hlýða, ferr til móts við Rólf konúng, bróður sinn, ok mælti: undarligt þiki mèr þat vera, at þú ræðr eigi af meinvætti þessa, er oss gjörir svâ mikinn skaða, ok mundu vèr fyrir löngu sigr hafa, ef þetta tröll hefði eigi oss í móti gengit, vèr höfum eigi fundit þat fyrr enn nú, at þú hafir eigi verit vel hugaðr, eða eigi jafnan þar framgengit, sem mest raun hefir at verit, utan nú í dag, brestr þik áræði við spellvirkja þenna, ok sýnist oss svâ, sem hvorr ykkar forðist annan. Nú með því at þèr villð eigi fyrirkoma þessum manni, ef mann skal kalla, þá fá þú mèr sverðit Risanaut, ok vita hvort mèr bilar áræði, ef ek komumst í færi. Konúngr svaraði: mikit er um ákafa þinn, ok vel mundi þèr frambera, ef þú værir eptir því forsjáll, sem þú ert framgjarn, eða hyggstu munu vega með því vâpni, er ek fæ valla borit? Ketill svaraði: gjörla veit ek þat, at mèr er ekki vâpn í sverðinu, en eggja verð ek þik með nokk-

uru. Konúngr snýst þá með Katli; skorti eigi, at þar var enn ákafasti bardagi, ok mikil atsókn. Þórir járnskjöldr var þar fyrir, ok hjó á báðar hendr, ok feldi margan mann til jarðar. Konúngr snýr nú með nokkura menn á móti Þóri, ok var þá hörð svipan. Þat sá konúngr, at eigi mátti svâ búit standa, en sá at Þórir vildi þó eigi bera vâpn á hann, ok fór æ undan. Konúngr gekk þá svâ nær honum, at hann hjó þann, er fyrir honum stóð, ok annat sinn seildist hann yfir herðar honum með sverði, ok drap þann, at baki honum var. Þá fèll maðr fyrir fætr konúngi, ok rasaði hann um þann nær til falls, ok við þat stakk konúngr sverðinu við Þóri, er þá bar saman í rasinu, en Þórir snaraðist frá, ok brá at sèr klæðunum, ok nokkru síðar sá konúngr hann hvörgi, ok var hann horfinn or bardaganum. Konúngr eggjaði þá lið sitt til framgöngu, en hann sjálfr víkr til móts við Hálfdán konúng; var þá þegar auðsýnt er ágekk í nokkurn stað, flýði þá hvorr at öðrum, þeir sem lífit þáu. Hálfdán konúngr flýði til borgarinnar með því liði, sem undan komst, en fjöldi var fallinn, margt hafði ok fallit af þeim Rólfi konúngi. Konúngr bað sína menn fara til skipa, þá er sárir voru. Rólfr konúngr bað Ásmund gánga með sèr. Þeir gengu til skógar, en annat lið þeirra til skipa. Ásmundr mælti: hvat vill þèr forvitnast í skóg þenna. Konúngr mælti, þá er bardaginn var sem harð-

astr, skeinda ek með sverði mínu þann enn mikla mann, er oss gjörði mesta manntjón, ok hann vilda ek gjarna finna, þvíat ek hygg at hann gengi á þenna skóg. Ásmundr mælti: hyggr þú eigi, at hann hafi dáit af þessu sári, en ek veit at þú munt vilja drepa hann. Konúngr mælti: þat er eigi, því vilda ek finna hann, ok gjarna vilda ek græða hann, ef ek mætti, þvíat betri þiki mèr hans fylgð enn 10 annarra, þótt gildir sè. Ásmundr mælti: þat er líkast, at tröll þetta sè gengit [inn í hamra, ok finnist eigi[1]. Konúngr mælti: eigi mun svå vera, ok skal ek freista, ef hann finnst. Ok er þeir höfðu gengit nokkura stund um skóginn, komu þeir í rjóðr eitt, ok undir einni eik, sá þeir mann einn liggja; hjá honum var mjök blóðugt; hann var harðla mjök fölr; vopn hans láu hjá honum. Konúngr gekk at honum, ok mælti: hvörr er þessi maðr, er hèr liggr? hann svaraði: gjörla kenni ek þik, Rólfr konúngr Gautreksson! bæði sakir vaxtar ok fríðleiks, þikjumst ek ok vita, at því muntu hèr kominn, at þú munt vilja drepa mik, má vera at þú kallir til þess nógar sakir, en nafni mínu vil ek eigi leyna þik, menn kalla mik Þóri járnskjöld. Konúngr mælti: hefir þú barizt í móti oss í dag, ok felt marga vora menn. Þórir mælti: þat er satt, ok vel mætta ek hafa gjört yðr meira íllt, ef ek hefði viljat, en þvíat

[1]) á hamra ok drepit sik, C.

ek vissi, at Hálfdán konúngr mundi fá ósigr fyrir þèr, þá var ek tregr í þenna bardaga, þvíat ek þóttumst vita, at annarhvorr okkar mundi fyrir öðrum hníga; fór ek því undan, sem ek mátta, þvíat mèr þótti þat óbætiligr skaði ríki þínu, ef þèr yrði fyrirkomit, ok því gekk ek eigi af megni í móti þèr, varð þat ok ekki at þínum vilja, þótt ek fengi þetta sár. Þá mælti Rólfr konúngr: þú munt vera ágætr maðr í framgöngu, eða viltu þiggja grið at mér? Þórir svaraði: þat ætla ek nú litlu skipta. Konúngr mælti: ertu mjök sár. Þórir kvað lítit bragð at því: en þó fèkk ek þá skeinu af sverði þínu, at mèr er síðan nokkuru stirðara enn áðr, ok get ek, at þó hafi lítt tekit. Konúngr bað hann sýna sèr. Hann fletti þá af sèr klæðunum, sá konúngr, at ristinn var á honum allr kviðrinn, ok hèlt ekki nema lífhinnan[1]. Konúngr mælti: mikit er sár þitt, svâ at þú munt valla græðandi; en þarsem eigi liggja iðr þín úti, þá mun ek leita þèr lækníngar, ok vil ek bjóðast til at græða þik, ef þú vill gjörast minn maðr, ok veita mèr fylgð ok þjónustu. (Þórir mælti): ef ek skal nokkrum manni þjóna, þá kýs ek eigi annan heldr til þess enn þik, en með því vil ek líf þiggja, at þú gefir Hálfdáni konúngi grið ok öllum hans mönnum, því ekki aflar hann því at standa í móti yðr. Konúngr lèzt þat gjöra mundu, ef hann fengi vald á konúngi.

[1]) lífhimnan, B.

Síðan fægir hann sárit, ok eptir þat tekr hann nál með silkiþræði; ok saumar aptr sárit, síðan bar hann á smýrsl öll þau, er honum þóttu gróðrvænligust[1], bindr um, ok býr um með öllu, svâ sem honum þótti líkligast, ok þótti þá allan sviða ok verk or taka, ok náliga þóttist hann fær, hvört er hann vildi. Síðan fóru þeir til skipa, ok voru þar um nóttina. Um morgininn þegar í ár býr Rólfr konúngr lið sitt, ok ferr til borgarinnar; varð þar engi viðtaka, var Hálfdán konúngr handtekinn, ok gaf Rólfr konúngr honum grið fyrir bæna sakir Þóris á þann hátt, at Rólfr konúngr skyldi einn öllu ráða þeirra í millum, játar þá Hálfdán konúngr at gipta Katli dóttur sína. Síðan ferr Rólfr konúngr til skipa, ok lætr binda sár sinna manna, en heygja þá, sem fallit höfðu; en Hálfdán konúngr lèt búa til veizlu, ok býðr til mörgu stórmenni í ríki sínu; ok at ákveðnum tíma kemr Rólfr konúngr með öllum sínum mönnum til þessarar veizlu; drekka nú allir samt glaðir ok kátir með blíðri vingan ok góðu samþykki; stendr þessi veizla 7 nætr með enum mesta prís, ok at þessi veizlu fær Ketill Ólafar sèr til konu [með góðu hennar samþykki, ok svâ föður hennar; gefr hann með henni mikit fè í gulli ok silfri ok mörgum dýrgripum. At þessi veizlu[2] gefr Rólfr konúngr bróður sínum allt Gautland ok þar-

[1]) gróðrarligust, *C.* [2]) með ráði föður hennar, *C.*

með konúngs nafn. Ok at lokinni þessi veizlu heldr konúngr Rólfr braut með öllu sínu föruneyti, sæmdr af Hálfdáni konúngi mörgum dýrum gjöfum; einn af þeim gripum var horn svâ ágætt, er hann kallaði Hrínghorna; þat var með þeirri náttúru, at svâ hátt gall í því, ef af var drukkit, at heyrði um valska mílu, ef þat boðaði fyrir tíðindi, en ekki náði þá drykk or því heldr enn áðr, ef eigi var rètt afdrukkit; mikill gullhríngr var í stikli hornsins; þetta þótti vera mikil konúngs gersemi. Rólfr konúngr vildi ekki annat, enn Þórir færi með honum, ok þótti Hálfdáni konúngi hann mest at láta; skildu konúngar nú með mikilli blíðu; þóttist Hálfdán konúngr sjá, at Rólfr konúngr var mikit afbragð annarra konúnga, þótti öllum mikils vert um styrk hans ok harðfengi, er hann hafði einn yfirunnit ok fyrirkomit 12 berserkjum, þeim er þeir ætluðu at ekki mundi bella, ok jafnan höfðu áðr mikinn sigr unnit. Eptir þetta halda þeir brott af Garðaríki með fengna konu ok marga aðra góðgripi; koma heim til Svíþjóðar, verðr allt fólk þeim fegit, ok drukku þar fagra veizlu með fagnaði. Ok eptir þat fór Íngjaldr heim til Danmerkr, en Ketill til Gautlands, ok setjast í ríki sín, skipuðu ok stjórnuðu með miklum veg ok sóma; en Rólfr konúngr sat í Svíþjóð, ok þeir Ásmundr. Þann sama vetr andaðist Eirekr konúngr í Svíþjóð; tók þá Rólfr konúngr ríki allt undir sik,

ok gjörðist einvaldskonúngr yfir Svíþjóð, ok öllu því ríki, er Eirekr konúngr hafði stýrt. Rólfr konúngr hafði getit son við drottníngu sinni, þann er Gautrekr hèt; hann var snemma mikill ok þroskavænligr. Ráða um stund allir þessir konúngar ríkjum sínum með náðum ok góðu samþykki, ok líða svâ fram nokkrir vetr.

21. Konúngr rèð fyrir Írlandi, er Rólfr hèt; hann var mikill fyrir sèr ok ódæll, hann var blótmaðr. Hann átti sèr eina dóttur barna; sú heitir Íngibjörg; hún var vitr kona ok væn, ok þótti engi betri kostr á Írlandi. Hennar höfðu beðit margir ágætir konúngasynir, ok vildi faðir hennar eigi gipta hana; höfðu þeir þessa leitat bæði með ráðum ok með orrostu; en Rólfr konúngr var svâ forspár, at af sinni ilsku ok vondum átrúnaði vissi hann fyrir kvomu þeirra, ok hafði jafnan þá her óvígan, er þeir ætluðu at koma honum á úvart. Hann sjálfr var ok hinn mesti berserkr til framgöngu, svâ at hann feldi marga kappa í einvígum, þóat honum biði á hólm, ok fyrir slíkra hluta sakir varð hann frægr, svâ at öngvir konúngar fýstust við hann at keppa; hafði hann ok nú lángan tíma svâ setit í náðum at engi konúngr hafði strídt á hans ríki, þvíat allir óttuðust hans harðfengi. Einn tíma er þess viðgetit, at Ásmundr kemr at máli við Rólf konúng Gaut-

reksson: svå er (mál) með vexti, herra! at ek vildi staðfesta ráð mitt ok kvænast, gjörist faðir minn mjök aldraðr, ok á ek at taka ríki eptir hans dag. Rólfr konúngr svaraði: hvar horfir þú, fóstbróðir! á um þetta mál. Ásmundr svaraði: Hrólfr heitir konúngr, er ræðr fyrir Írlandi, mikilhæfr maðr; hann á dóttur væna ok vitra, heitir Íngibjörg; hennar vilda ek fá, ok hafa þar til yðvarn styrk ok harðfengi, at ná þessu ráði mèr til handa. Rólfr konúngr svaraði: eigi mun þèr Hrólfr konúngr ókunnigr vera, hann er fullr upp galdra ok gjörnínga, ok má honum ekki á óvart koma, er ok íllt at sækja Írland með hèr útlendum, þar er fjölbygt, en grunn mikil fyrir landinu, svå at þar við kemst ekki nema með smáskipum; ok hefi ek heyrt, at nokkurir mikilsháttar menn hafi beðit þessar meyar, ok engi fengit nema skömm ok svívirðíng af konúngi þessum. Nú veiztu, fóstbróðir! at oss gánga ekki svå mjök konbænir, þarsem vèr verðum at sækja með bardögum ok styrjöld ok miklum mannskaða, ok þótt konúngarnir sjálfir vili eigi stríða í mót oss, þá taka konurnar sjálfar ok halda bardaga oss í móti með mörgum vèlræðum; nú munu við leita oss lèttara, enn gánga í fáng Rólfi konúngi; með slíkum hug ætla ek ok vera Svía ok Gauta ok Dani, at þeim þiki mál at lètta þessu sukki ok hernaði, ok hafa eigi

svâ mikinn kostnað sumar frá sumri. Þat fann Ásmundr, at konúngr fór mjök undan, ok taldi allar latar[1] á um ferð þessa, vissi hann þat ok, at Írakonúngr var illr viðreignar, ok hann hafði skemmiliga leikit þá, er þángat höfðu mægða beðit; lèk Ásmundi þó ekki annat í skapi, ok taldi jafnan um fyrir konúngi, ok bað hann fá sèr til styrk, þótt hann vildi eigi fara sjálfr, ok leggja ráð til með honum. Konúngr kveðst ætla, at þat mundu til lítils koma, utan mannskaða fengi hann því meira. En er Ásmundr sá, at konúngr var fastr fyrir um þetta mál, ok ótalhlíðinn um þat, sem hann beiddi, þá biðr Ásmundr drottníngu túlka sitt mál, ok segir henni sinn vilja, ok svâ segir hann henni viðtal þeirra konúngs. Drottníng kveðst gjarna vilja gjöra hans vilja í öllu, því er hún orkaði, en til þessarar yðvarrar beiðslu kann ek sízt at leggja, með því at ek kann eigi þau ráð til gefa, at yðar frami eða sæmd mætti aukast við, þar sem svâ er við illan um at eiga, sem Rólfr Írakonúngr er, þvíat hann er harðr konúngr ok illrar náttúru; sèr Rólfr konúngr Gautreksson slíkt, þarsem hann er vitr ok forsjáll, ok getr mörgu nær.

22. Ok eitthvört sinn er þess viðgetit, at þau talast við, Rólfr konúngr ok drottníng. Hún spyrr, hvört hann skyti[2] undan ferðinni

[1]) letur, *B.* [2]) skorast, *B*, *F*; skerist, *C.*

við Ásmund, fóstbróður sinn, til Írlands. Hann kveðst víst þat hafa gjört. Hún mælti: þat gjörir þú illa, þvíat eigi veit ek þann mann, attu ættir heldr sæmdar at leita enn honum, hefir hann yðr lengi vel fylgt, ok þjónat kurteisliga ok verit með yðr í margri hreystiferð, ok þolat með yðr bæði blítt ok strítt, ok reynzt jafnan hinn vaskasti maðr. Konúngr mælti: ekki gánga oss kvânbænir svâ auðveldliga, þótt eigi sè við slíka heljarmenn at eiga, sem er Rólfr Írakonúngr, munu vèr lètta af um kvânbænir þessar, eða hvört ráð sèr þú til, er þú fýsir svâ mjök þessar ferðar, þat er vænast sè til framkvæmdar um vort mál. Hún kveðst þar engi ráð kunna til at leggja, kvað þat meir takast mundu eptir auðnu ok tilstilli yðru, herra! ef þèr komið fram ferðinni, er þat mitt ráð, at þèr hafið ekki mikit lið til ferðar þessar, vil ek at þeir sitì eptir Ketill ok Íngjaldr, ok hafið þèr ekki lið af þeirra ríkjum, þvíat þeim mun þrátt[1] þikja þessi útboð áliggja. Þórir járnskjöldr vil ek at hèr sè eptir til landvarnar, meðan þú ert í bruttu. En þið Ásmundr skuluð fara, ok hafa eigi meira enn 10 skip ok hundrat liðs á hvörju, en drekann et ellefta, þikjumst ek þat vita, ef ykkar aptrkvoma seinkast, at þeir Ketill ok Íngjaldr munu þá eigi um kyrt sitja, þiki mèr ok líkara at yðvar verði hefnt, ef þess þarf við, ef slíkir menn lifa ept-

[1]) þúngt, C.

ir, sem þeir eru. Rólfr konúngr mælti þá til Ásmundar: nú með því, fóstbróðir! at ek fari (með) þèr ferð þessa, slík sem hún verðr, skaltu tilvinna nokkut; mèr er svâ flutt, at faðir þinn eigi dóttur fagra, þá er Margrèt heitir, þessa mey skaltu játa í mína forsjá til giptíngar. Ásmundr lèzt þat gjarna vilja, kveðst því treystast, at konúngr mundi miklu betr fyrirsjá enn hann sjálfr. Eptir þetta hafa þeir tilætlan á um ferð sína, ok at sumarmagni voru þessi skip albúin, ok þat lið sem konúngi skyldi fylgja. Þórir vildi fara ferð þessa, en konúngr vildi þat eigi. Þórir lèzt gjöra mundu sína ferð, sem honum líkaði, þegar konúngr væri á brottu, en kveðst eigi skyldu vera í konúngs föruneyti, nema konúngr vildi, ok líkaði honum illa, er hann skyldi eigi ráða ferðum sínum. Konúngr bað hann hafa landráð ok ríkisstjórn. Þórir lèzt þat hyggja, at Rólfr konúngr þyrfti meir aðra umsjá, áðr hann kæmi aptr or þessari ferð, ok skildu þeir við nokkura fæð. Rólfr konúngr átti enn annan úngan son við drottníngu, þann er Eirekr hèt. Gautrekr, son Rólfs, var þa 11 vetra, er faðir hans fór or landi.

23. Nú er frá því at segja, þegar þeir voru búnir, hèldu þeir á brott af Svíþjóð, ok vestr í haf; gaf þeim heldr lítt, fengu veðr stór, ok óhæga byri, þeir höfðu mikla myrkva, tókst

þeim heldr ógreitt, lágu löngum við eyjar ok annes, mættu þar jafnan víkíngum, fóru þeirra skipti svâ, at Rólfr konúngr hafði jafnan sigr. Svâ er sagt at (á) áliðnu sumri komu þeir við England. Þá rèð fyrir Englandi Ella konúngr; hann var ríkr konúngr ok ágætr, ok er hann spyrr komu Rólfs konúngs Gautrekssonar, sendir hann menn á fund hans, ok býðr honum til veizlu með svâ mikit lið, sem hann sjálfr vildi. Rólfr konúngr bar þetta boð fyrir sína menn, ok spurði, hvörsu fýsiligt þeim þætti at sækja veizluna. Þeir báðu hann fyrirsjá. Konúngr kveðst mundu tilætla, ok bjóst með hundraðs liði. Svâ er sagt, at Ella konúngr átti dýr eitt, þat var svâ grimmt ok ólmt, at þat eirði öngu því, sem því var ávísat. Þat var bæði mikit ok sterkt, þat var leo; þetta dýr höfðu þeir svâ vanit, at þat grandaði öngvu utan þeim, er konúnginum veittu mótgáng, ok hann vildi því ávísa, en þat var spakt ok kyrt við alla hirð konúngsins, ok alla þá er konúngrinn vildi at með honum væri í friði ok náðum. Konúngi þótti góðr gripr í dýrinu, þvíat þegar ófriðr var gjörr á ríki hans, lèt hann slá lausu dýrinu, ok drap þat niðr á lítilli stundu fjölda manns, svâ at hundruðum skipti, var þat svâ örugt til landvarnar, at aungvir konúngar treystust á England at stríða, síðan þeir vissu athæfi þessa dýrs. Tveir menn eru nefndir með hirð Ella konúngs, hèt annar Sigurðr, en annar Bárðr,

þeir voru mikils metnir; þeir geymdu ok varðveittu þetta dýr, var þat hvörsdagliga bundit sterkliga með járnviðjum; þessir bræðr voru ójafnaðarmenn miklir, ok heldr illfúsir; ok er þeir urðu þess varir, at Rólfi konúngi var þángat boðit með sínu föruneyti, mælti Sigurðr: hvört ráð skulu við þat gjöra, at konúngr þessi tapi sæmd sinni, er svâ mjök er lofaðr af öllum mönnum, þvíat mèr þikir þat íllt at vita, ef hann fær hèr nokkurn frama af konúngi vorum. Bárðr svaraði: þat er helzt mitt ráð, at vèr farim á skóg þann, er á leið þeirra er, ok hafim með okkr dýr konúngsins, ok slám því lausu, þá er við sjám ferð þeirra; mun konúngr þessi eigi svâ mikilsmáttar, at hann sigri dýrit, heldr mun þat honum verða at skaða, færi þá sem skyldi ok ek vildi. Þeir fara nú með dýrit á skóginn, ok leynast þeir, þar til er þeir sjá ferð Rólfs konúngs. Þeir höfðu áðr dýrit ært með víni ok allskins drykk hinum sterkasta; slógu þeir síðan lausu dýrinu, ok lètu hlaupa, en fálu sjálfa sik.

24. Nú er at segja frá Rólfi konúngi, hann gengr upp við hundrat manna, ok ætlar á fund konúngsins, ok er þeir hafa litla hríð gengit, heyra þeir á skóg brak ok ógrlig læti. Ásmundr tók til orða: herra! segir hann, hvaða látum heyrum við? Konúngr biðr þá stað nema, ok hugsa til, hvað látum vera mun, en þat kunni

engi þeirra at skynja, utan þeim þótti mikit ok öskurligt at heyra til þessa. Konúngr mælti: þat hef ek heyrt, at Englakonúngr eigi dýr, þat er sè harðla mikit ok grimmt ok íllt við at eiga, má vera at eigi sè allt af trúnaði við oss gjört, nú vil ek, at þèr nemið hèr stað, en ek vil, at við Ásmundr gángim fram, ok forvitnumst, hvat látum þetta mun vera. Þeir gjöra svâ; ok er þeir hafa litla hríð gengit, sjá þeir dýrit, at þat leikr sèr í skóginum. Leo sýnir mátt sinn, ok kastar hala sínum í hríng um eikrnar, ok kippir svâ upp með rótum. Síðan grípr hann með klónum, ok kastar í lopt upp, sem þá er köttr leikr at fuglum. Ásmundr mælti: hví mun sjá ófagnaðr svâ láta? Konúngr mælti: þat munda ek ætla, at því mundi dýrit leikit[1] vera, at þat mundi ært vera áðr af drykk. Ásmundr mælti: sè ek þat, at aldrei komumst við fram fyrir þessum óvin. Konúngr mælti: við skulum taka annat ráð, hèr útaf veginum stendr einn hár stofn, þar er þraungr skógr fram at götunni, þar skaltu fara uppá stofninn, ok standa þar, ek skal hafa þik at agni við dýrit, en ek skal fela mik þar í hjá, ok þá er dýrit geisist fram at þèr, þá skaltu hlaupa út í skóginn, en ek mun vita, at ek fái nokkut [færi á því; þætti mèr vera mega, at þat festi sik í skóginum, þvíat hann er mjök þraungr[2]. Þú skalt hrína, sem þú mátt hæst ok líkast svíni,

[1]) leika, C. [2]) tilgert, C.

því at þat má hann með öngvu móti heyra, ok þat eitt veit ek hann óttast, sú er hans náttúra. Ásmundr gjörði, svâ sem konúngr bauð. Nú ferr þetta eptir því, sem konúngr gat til, at þegar er dýrit sá manninn, hleypr þat at með ákefð ok grimmleik, ok þegar fram í millum eikanna. Ásmundr gjörir, sem honum var boðit, hrín sem hann má hæst; ok er dýrit heyrir þessi læti, nemr þat stað, ok bregðr höfðinu milli fóta sèr, ok þröngvir með leggjunum at eyrum sèr svâ fast, at hann vildi eigi svíns hríninn heyra. Rólfr konúngr hljóp þá upp, ok hjó með sverðinu, ok í sundr hrygg dýrsins fyrir framan mjaðmirnar, ok deyr dýrit þegar í stað. Ok er þetta sá þeir bræðr Sigurðr ok Bárðr, hlaupa þeir heim til hallarinnar, sem þeir mega skjótast, ok segja Ellu konúngi þenna enn fáheyrða atburð, hvörsu Rólfr konúngr hafði dýrit unnit, þat er þeir ætluðu at ekki mundi bella. Konúngr spurði, hvörsu þetta hefði atborit, en þeir sögðu allt, sem farit hafði. Konúngr verðr þeim stórliga reiðr fyrir sínar tiltekjur, [ok kvað eigi þeirra færi, at þreyta hamíngju við Rólf konúng[1], ok lèt taka þá báða ok setja í bönd, en Ella konúngr sjálfr ferr í mót Rólfi konúngi með miklu liði, ok kvað líkligt at Rólfr konúngr ætlaði þetta af hans vèlræðum vera, er þessir menn höfðu á hendr tekizt. Eptir dráp dýrsins snúa þeir Ásmundr ok Rólfr konúngr aptr til manna sinna,

[1]) v. í. C.

ok mælti Rólfr konúngr: vèr skulum fara, sem vèr höfum áðr ætlat, þvíat ek hygg, at þetta sè eigi ráð Ella konúngs, ok þat er mín ætlan, at honum þiki mikill skaði at dýrinu, ok vil ek sjálfr segja honum. Þeir fara nú, þar til er þeir koma fram or skógi, ok geta at líta, at mikit fjölmenni ferr í móti þeim; þat var vel búit at vopnum. Þeir þikjast nú vita, at ófriðr mun vera. Þá mælti Rólfr konúngr: annathvort er nú, at konúngr þessi er fullr upp flærðar ok undirhyggju, ok hefir þetta hugsat þegar í fyrstu, at svíkja oss með níðíngskap, eða elligar er þetta ekki hans ráð, ok hafi nokkrir vondir menn þetta tekizt á hendr, ok gjört þetta til óvinganar vor í milli, ok þat munda ek hvörgi síðr ætla; gjörum oss nú[1] sem traustasta, ok göngum djarfliga í móti þeim, ok látum öngvan bilsbug á oss sjá, hvort sem þeir vilja oss gott eða íllt, ok ef þess þarf við, deyum heldr við sæmd, enn lifum við skömm! Þeir herðu þá hugina, ok báðu þann aldrei þrífast, er eigi dygði sem mætti. Þeir fóru með fylktu liði. Rólfr konúngr fór í miðri fylkíngu sinni, ok hafði bert sverðit Risanaut, ok lètu allvígmannliga; ok er þetta sèr Ella konúngr, lætr hann bregða upp friðskildi, ok ríðr sjálfr í mót Rólfi konúngi, ok fagnar honum vel, ok endrnýar þá enn boðit við Rólf konúng. Ok er Rólfr kon-

[1]) *hèr byrjar miðbrotið af D.*

úngr sèr blíðu bragð á Ellu konúngi, tekr hann því vel, fara þá allir saman til borgar; er þar fyrirbúinn enn bezti fagnaðr, ok harðla fögur veizla, talast konúngar þá við. Rólfr konúngr mælti: ek vil yðr kunnigt gjöra, at vèr munum hafa unnit yðr mikinn skaða, í því at ek drap dýr eitt, þat sem mèr er svâ flutt, at yðr muni (þikja) svâ mikill skaði at vera. En með því at ek þóttumst eiga hendr mínar at verja, þá gjörðum vèr af því þetta, en fyrir utan allan mótþróa við yðr, en allt þat sem þèr þikir í þessu misboðit, þá vil ek svâ bæta, at yðr megi vel líka. Ella konúngr svarar: sýni þèr í þessu, sem mörgu öðru, sanna vizku, at þèr bjóðið bætr fyrir þat, er aðrir ætti þèr at bæta; en sakir þess, at þú eignar eigi þetta vorri ódygð, þá vil ek þá menn gefa undir yðvarn dóm ok refsíng, er þessu eru valdandi. Lèt síðan sækja þá bræðr Sigurð ok Bárð, voru þeir báðir bundnir, leiddir fyrir hann, ok sögðu þeir sjálfir sína ráðagjörð. Eptir þat bað Ella konúngr Rólf konúng dæma þeirra mál, eða hvörn dauða at hann vildi at þeir hefði. Rólfr konúngr svaraði: öll þau lögbrot, sem yðrir menn gjöra, þá eigi þèr, herra! dóm á þeim, en ef þèr vildið nokkut gjöra fyrir minn bænarstað, þá vilda ek at þú gæfir þeim líf, ok færi þeir í brott or þínu ríki, ok hefðu þeir þat fyrir sinn ótrúleika. Ella konúngr mælti: þat er þó satt at segja, at fárra konúnga maki muntu vera á

mildi þína, ok skal þetta gjörast eptir þínum vilja. Lèt konúngr leysa þá, ok fèkk þeim skip ok fè nokkut, ok fóru þeir or landi, ok eru þeir or þessi sögu. Eptir þetta taka konúngar tal með sèr; spyrr Ella konúngr eptir um ferð Rólfs konúngs, en hann segir honum allt eptir því, sem ætlat var. Konúngr kvað þat vera heldr óvænliga ferð, kvað Rólf Íra konúng vera heldr harðan ok illan við at eiga, ok bað Rólf konúng eigi ætlast til þessarar ferðar á þessu sumri, bauð honum við sèr at vera með hundrað manna, en þeir vistaði annat lið hans þar á Englandi nær sèr, ok þetta boð þiggr Rólfr konúngr. Hafði Ella konúngr þar fyrirætlan ok alla tilskipun með kostnaði. Sitr Rólfr konúngr nú á Englandi við öllu liði sínu með mikilli gleði; veitti konúngr þat hitt kappsamligasta. Líðr nú svâ fram um hríð.

25. Þess er getit, at þeir Rólfr konúngr ok Ásmundr gengu úti um staðinn einn dag, at skemta sèr, ok er þeir ætluðu heim at gánga til hallarinnar, kom at þeim kerlíng ein. Hún gekk við tvo stafi. Kerlíng setti upp nasirnar, ok mælti: hvörir eru þessir enir tígugligu menn. Þeir sögðu til sín. Kerlíng mælti: er þetta enn agæti konúngr Rólfr Gautreksson, ok væra ek sæl, ef ek hefða hann fundit. Konúngr mælti: hvat vildir þú Rólfi konúngi? Svâ lízt mèr, sem sagt er, at þú sèr hvörjum konúngi vænni ok kurteisari, ok at öllum hlutum afbragð

annarra konúnga, er þat ætlan mín, at af þèr hljóti ek nokkut gott ok þínum ráðum. Konúngr spurði, hvörs hún þyrfti við. Hún svaraði: ek á lítit efni, er ek ein í húsi, ok dóttir mín, er unnit hefir fyrir mèr, ok er hún en vænasta kona at sjá, en nú er hún mèr verri enn engin, þvíat maðr venst til at glepja hana; er mèr þat mjök í móti skapi, gáir hún engis fyrir honum; er hann mikill maðr ok sæmiligr at sjá, en þó er mèr ekki um hann, vilda ek, herra! at þèr kæmuð ok talaðir við þenna mann; mun hann gjöra fyrir yðar orð ok láta af fiflíngum við dóttur mína. Rólfr konúngr svaraði þá: ek skal at vísu, kerlíng! koma nokkurn dag, at finna þann. Þá vísaði kerlíng þeim til húsa sinna. Síðan gekk konúngr heim til hallar, ok líða nú nokkurir dagar. Ok einn dag mælti konúngr til Ásmundar, at vel mundi fallit, at vitja kerlíngar. Ásmundr svaraði: þat ætla ek vera illa kerlíngu ok prettvísa, ok er mèr ekki um hana. Konúngr kvað nauðsyn, at sá maðr gjörði henni ekki vandræði. Ásmundr kvaðst eigi hirða, þótt hann hefði [þær báðar[1]. Ok eptir drykkju um daginn gengu þeir til húsa kerlíngar; þar var lítil stofa; þar sat kona á palli úng ok vænlig; þar sat hjá henni maðr mikill ok frekligr, hann sat með alvepni, ok talaði við konuna. Kerlíng sat í palls horni, ok hafði yfir sèr feld ok hökul

[1]) henni því lofat, *b*, *F*.

illan. Þau fögnuðu vel konúngi; ok er kerlíng varð vör við, at konúngr var kominn, spratt hún upp, ok greip stafi sína báða, ok fór fram á gólfit, ok mælti: ek bið þik, herra minn! at þú rekir minnar skammar, ok drepir þenna enn vonda mann, er mèr hefir gjört svâ mikla raun, at hann hefir gint ok gabbat dóttur mína. Konúngr mælti: vertu eigi svâ óð, fóstra! má þá vera, at þú hafir þitt mál, þótt við leikum í tómi við. Þat er eigi, sagði kerlíng, enda hafa þau svâ þreytt mik um þetta mál, at ek má eigi lengr svâ búit þola, þegar ek veit mèr nokkurs traustS vânir; hefr kerlíng upp hækjuna, ok ætlar at slá þenna mann við eyrat, sá maðr brá upp við högginu kerlíngar skildinum, ok laust hún svâ fast á skjöldinn, at í sundr gekk stafr kerlíngar. Rólfr konúngr tók kerlíngu, ok mælti: því kom ek á þinn fund, at ek skal nú sjá fyrir þínum hlut. Hann setr hana niðr hjá sèr. Konúngr spurði: hvörr er þessi maðr, er heldr stríð við kerlíngu? Hann svaraði: ek heiti Grímr. Hvat manna ertu? segir konúngr. Þórir heitir faðir minn, hann er bóndi hèr skamt í brott í þorpinu. Konúngr mælti: þú ert maðr vænligr, eða hve opt ertu vanr at koma til húsa kerlíngar? Hann kvaðst þar jafnan koma. Konúngr mælti: kerlíng þessi hefir kveinat nokkut um fyrir mèr, henni þikir þú gjöra ærit margtalat við dóttur sína, þikist hún afla oflítils á vinnu hennar,

en kveðr þar við liggja björg þeirra beggja. Nú vil ek biðja þik, attu látir af at gjöra kerlíngu þessa skapraun; er þèr í þessu lítilræði, en engi frami, at gjöra henni raun í þessu; er mèr þökk á, at ek þurfi lítils við umtalit, vil ek bjóðast til at veita þèr aðra bæn í móti. Grímr mælti: þat hafða ek ætlat, at gjöra aungva breitni á um ferðir mínar, hvörir sem þar legði orð til, en eptir bæn þinni ok vilja skal ek gjöra, sem þèr líkar bezt; mun ek ok eigi skjótt beðinn af ágætara manni, enn þèr eruð, vil ek ok ekki fresta at biðja yðr í móti; þat er mín bæn, at þèr takið við mèr til hirðvistar, ok fara ek með yðr at sumri, er mèr forvitni á at reyna mik, hefi ek aldrei í styrjöld staðit hèr til. Konúngr mælti: þetta vil ek sannliga veita þèr, lízt mèr vel á þik ok gæfusamliga, ok kom til móts við oss at sumri! Ok þegar gekk Grímr út, ok skildu þeir með blíðu. Þá stóð kerlíng upp, ok þakkaði konúngi sínar tillögur. Hún mælti þá: hvört mun engi konúngr betri bæna enn þú, eða kunni þèr nokkut at lyfja[1] elli, herra minn! Konúngr svarar: ekki kann ek þat, ok eigi veit ek, hvat þat er. Ásmundr mælti: opt er þat í karls húsi, er eigi er í konúngs[2], ek kann þat, kerlíng! at lyfja[3] þèr elli, ef þú vill af mèr þiggja. Hún kveðst þat gjarna vilja, eða hvort gjörir þú þat í hvílu[4]? Hann svar-

[1]) *þannig A*; lifja mèr, *D*; leyfa, *C.* [2]) ranni, *b. v. B, C, D, V.* [3]) lyfja, *D.* [4]) eða annarstaðar, *b. v. C.*

aði: farðu til mín, ek mun fara at, sem mèr líkar. Kerlíng kastaði frá sèr hækjunni, ok fór til Ásmundar. Hann hafði viðaröxi eina í hendi sèr; hann bað kerlíngu lúta at sèr[1]. Hún gjörði svâ, ok hugði at hann mundi vilja tala hljótt við sik; lèt þá Ásmundr hlaupa öxina á háls henni, svâ at aftók höfuðit. Hann mælti þá: nú lyfjaða[2] ek þèr elli. [Rólfr konúngr hafði ekki geymt at um viðtal þeirra, ok leit hann til, þá at affauk höfuðit[3]. Rólfr konúngr varð þessu svâ reiðr, at hann hèlt við, at hann mundi vaða[4] til Ásmundar, ok kvað þetta svâ íllt verk orðit ok óheyriligt, at þeir mundu aldrei bót bíða þessa ámælis, ok þeirra skömm mundu uppi vera, at þeir skyldu drepit hafa gamla kerlíngu ok fátæka í ókunnu landi. Ásmundr kvað undarligt at verða illa við slíkt; varð þeim þetta mjök atsundrþykki; gánga eptir þat heim til hallarinnar. Ok er menn voru komnir undir drykkjuborð, fann Ella konúngr, at Rólfr konúngr var ekki með blíðu bragði, ok spurði konúngr þegar, hvat tilkom, en Rólfr konúngr sagði, svâ sem orðit var, ok kvað þetta hafa orðit et mesta slis. Ella konúngr bað hann eigi þat mæla, því hún var en versta kerlíng, ok hin hreimsamasta[5], ok full upp flærða ok ljóna[6]: ok er miklu betr, at hún sè afráðin. Ásmundr

1) *hèr endar miðbrotið af D.* 2) leyfða, *C.* 3) *v. í C.*
4) slá, *C*; hrynda, *B*, *V*. 5) heimskasta, *V*. 6) lyga, *B*, *V*.

kveðst aldri sèð hafa Rólf konúng jafnreiðan fyrir lítit efni.

26. Þat er sagt at nokkurir mikilsháttar menn í Englandi urðu til þess at rægja Rólf konúng Gautreksson við Ella konúng, ok sögðu hann búa um svikræði við hann; voru at þessu óráði fyrirmenn[1] tveir jarlar ok margir aðrir ríkir menn. Þeir sögðu at Rólfr konúngr ætlaði at komast at ríkinu, hvat sem hann ynni til. Ella konúngr vildi þessu ekki trúa, ok fór svâ fram nokkura stund, at þeir kærðu þetta í hljóði fyrir konúnginum. Konúngr hèlt upp teknum hætti við Rólf konúng um alla gleði, ok kvað þetta mundu vera ena mestu lýgi. Hèr kom um síðir, at konúnginn grunaði, þvíat þeir sönnuðu þetta með mörgum skrökvottum; fundu menn þá brátt, at skipti lyndi konúngsins, ok gjörðist hann fár við Rólf konúng, hjá því sem verit hafði. Rólfr konúngr gaf sèr ekki at, ok liðu svâ enn nokkurar stundir. Þat var einn tíma, at jarlar komu at máli við Ellu konúng, ok kærðu fyrir honum þessi svikræði. Konúngr svarar: með því at þèr þikizt finna þenna mann at svikum við oss, þá gef ek yðr orðlof til, at skapið honum fyrir makliga hefnd, en þar sem Rólfr konúngr sitr hèr at voru boði, þá hef ek eigi lund til at veita honum atgöngu, meðan hann verðr eigi ber at svikum við oss, ok vil ek hjá sitja öllum yðrum viðskiptum;

[1]) *v. í C.*

mælti konúngr af því svâ, at honum var grunr á, at þeir mundu ljúga. Jarlar kváðust eigi framar beiða af konúngi. Síðan ákváðu þeir stefnu til, nær þeir mundu veita Rólfi konúngi atgöngu, kváðust mundu hann sækja bæði með eldi ok járnum. Konúngr bað þá nú gjöra, sem þeim líkaði; ok þann sama aptan, er jarla var at von, veitti Ella konúngr af miklu kappi, ok gjörði sik enn blíðasta við Rólf konúng, urðu flestir allir mjök drukknir. Rólfr konúngr drakk þá jafnan minnst, er aðrir voru mest drukknir. Rólfr konúngr svaf við sína menn í einni útiskemmu; hann var því vanr at gánga jafnan tímanliga at sofa, ok svâ gjörði hann þann aptan. Ella konúngr mælti: þú, Rólfr konúngr! hefir dvalizt í voru ríki um stundar sakir, höfum vèr jafnan skynjat yðvart athæfi ok yðvarra manna með góðri siðferð ok hæversk-ligum hvörs dags háttum; nú vil ek sofa í nótt í yðru herbergi, ok skynja athæfi yðvarra manna eigi síðr um nætr enn um daga. Rólfr konúngr [svarar: þat er yðr gjarnan í tè, ef þèr vilið hafa lítilæti til þess, ok viljum þat með þökkum taka. Ok sem borð voru upptekin, gengr Ella konúngr með Hrólfi konúngi til skemmunnar, ok lögðust til svefns, ok sofnuðu skjótt[1]. Ok er þeir höfðu skamma stund sofit, vaknar Rólfr konúngr við þat, at út er at heyra mikit háreysti, hark ok vâpnagný. Þat

[1]) *tekið úr B, V; eyða í A.*

fylgði ok, at eldr var borinn at skemmunni. Rólfr konúngr bað sína menn vaka ok vâpna sik: ok er oss orðit þetta mikit slis, er Ella konúngr skal hèr hjá oss staddr í þessum háska, þvíat þessir menn munu þikjast við oss sakir eiga, ok er þat íllt, at svâ góðr konúngr ok rètlátr skal gjalda vor. Rólfr konúngr vildi vekja konúnginn, ok gat þat eigi gjört, svaf hann svâ fast, at hann varð eigi var við þetta hark. Rólfr konúngr mælti: hèr mun verða skjótt til ráða at taka, áðr hús þetta brenni yfir oss, vèr skulum rífa setstokka or húsinu, ok færa fram á þilit, svâ at undan gángi. Konúngr skipaði til þá menn, er sterkastir voru, ok lèt taka Ellu konúng upp í öllum klæðum ok bera svâ út, ok bað menn bera hann til sængr sinnar: ok gefið at því beztan gaum, er konúnginum varðar, þvíat þar liggr við sæmd vor. Ok er þeir komu út, sá þeir at þar var komit fjölmenni mikit, tókst þar þegar en snarpasta orrosta; ok er Ella konúngr er útkominn, kallar hann ok biðr menn eigi berjast lengr. Síðan segir hann Rólfi konúngi svâ sem farit hafði, ok kvað þetta at sumu leiti sín ráð verit hafa, ok bað Rólf konúng fyrirgefa sèr þetta[1] tiltæki, en kvað þá skyldu drepa, er þetta róg höfðu kveikt. Rólfr konúngr kvað þá ekki fyrir þetta drepa skyldu; varð hann við þetta stórliga vinsæll af Eng-

[1]) þenna, B, F.

lands mönnum, tóku konúngar nú at halda upp teknum hætti um sína vináttu, veitti Ella konúngr Rólfi konúngi enn betr þaðan af enn áðr, þvíat nú þóttist hann þat hafa reynt, at hann var öngvum líkr at sínum heilleika; líðr nú af vetrinn, ok kom sumarit.

27. Þat var einn morgin snemma, at Rólfr konúngr gekk or sæng sinni einnsamt ok brott frá skemmunni eigi allskamt, hann hafði fátt klæða, en þess gekk hann hvörgi, at hann hefði eigi sverðit Risanaut, hvorki nótt nè dag. Konúngr litaðist um víða, ok er hann ætlaði til skemmunnar, þá sèr hann, hvar maðr ríðr ákafliga mikit, ok var vel vopnaðr, ok maðr ekki mikill á baki, ok þó hinn kviklátasti; ok er hann sèr, hvar konúngr stendr, þá víkr hann þángat, ok hafði sèð fyrr Rólf konúng, ok stígr af baki, ok kveðr hann sæmiliga. Konúngr tók því vel, ok spurði, hvörr hann væri. Hann kveðst Þorðr heita, ok eiga bú á land upp. Konúngr spurði, hvört hann ætlaði at ríða. Þórðr svaraði: ek ætla nú eigi lengra fram á leið, er ek hefi yðr fundit. Konúngr spyrr, hvört er eyrindi við mik? Hann svaraði: ek er mjök vant um kominn; fyrir þrim vetrum kom til mín maðr sá, er Hárekr heitir, ef mann skal kalla, þvíat eigi er hann ólíkari trölli; hann er enn mesti berserkr ok ójafnaðarmaðr; ek á systur, er Gyða heitir, ok er enn bezti kostr; þessi maðr vildi taka systur mína frillutaki, en

ek vilda þat eigi, þá skoraði hann mèr á hólm, ok játaða ek því. Nú sè ek at þat er ekki mitt færi at berjast við þetta flagð; ek hefi spurt, herra! til hreystiverka yðvarra margra. Nú vil ek biðja yðr, at þèr leysið mik af þessum háska, ok ráðið af berserkinn. Konúngr mælti: lítt ertu við kominn, ok vil ek víst finna þenna mann, ok mun ek gánga inn ok taka vâpn mín ok klæði. Þórðr mælti: ekki má svâ vera, verðið þèr nú þegar at fara svâ búnir, óttumst ek ok, at berserkrinn sè kominn; mun hann hyggja mik svâ ragan, at ek þori eigi at bíða hans, ok taki hann á brott systur mína; nú stigi þèr, herra! uppá þenna hest, ok tak hèr þegar vopn ok klæði; hafði hann þar þegar til reiðu, ok var hinn kviklátasti. Þetta verðr konúngi fyrir, at hann stígr á bak, ok ríðr, en Þórðr hleypr fyrir hestinum, var þat eigi allskamt á land upp. Ok er þeir komu til bæjar Þórðar, var Hárekr eigi kominn. Sá konúngr at þat var góðr bær, gánga þeir til stofu; ok er konúngi þar búit hásæti. Þar var margt manna, sýndist konúngi Gyða en sæmligasta. Ok er þeir höfðu setit um stund, kom þar Hárekr, ok þeir 12 saman, ok lètu þegar hit drjúgligasta, ok spurðu, hvört Þórðr væri búinn til hólmgöngu. Hann svaraði: ek hefi fengit mann fyrir mik, sem skilit var okkar í millum. Hárekr spurði, hvörr svâ mun djarfr, at byðist

í mót honum. Þórðr segir honum, at þat var Rólfr konúngr Gautreksson. Hárekr mælti: heyrt hef ek getit Rólfs konúngs, ok eru færri konúngar nú ágætari fyrir hreysti sakir ok íþrótta ok allrar atgjörfi, er þat ok miklu jafnligra, at við reynum með okkr, þiki mèr til lítils vera, at gánga í móti þèr, ok er þat ráð, Rólfr konúngr! at standa upp, með því at þú vill hætta virðíng þinni undir vopn mín. Konúngr kveðst ætla, at honum mundi lítil hættu raun, at gánga í móti honum. Eptir þat gánga þeir út, ok var kastat feldi undir fætr þeim, ok sagði berserkrinn upp hólmgöngu lög. Konúngr hafði ekki fleira vopna enn sverðit Risanaut. Þórðr hèlt skildi fyrir konúngi, ok í fyrsta höggi hjó konúngr berserkinn í herðar niðr; fèll hann skjótt dauðr til jarðar. Þórðr þakkaði konúngi þenna sigr, ok gaf Rólfi konúngi ágætar gjafir, þvíat hann var stórauðigr maðr. Konúngr bað hann eigi gipta systur sína, áðr hann kæmi aptr af Írlandi, ef þess yrði auðit, ok því hèt Þórðr. Eptir þat fylgði hann konúngi heim. Þá var brak mikit í bænum, hafði Ásmundr vaknat litlu síðar, enn konúngr var í brottu or bænum, ok hafði þegar leitat hans um allan bæinn, ok var eigi í góðu skapi. Ok er konúngr kom aptr, urðu menn honum stórliga fegnir, spurði Ella konúngr, hvört hann hefði farit. Rólfr konúngr segir honum allt, sem

gengit hafði. Ella konúngr mælti, ok kvað hann hafa unnit mikit happ, sigrat þann berserk, er verstr gekk um England, ok mestan ójafnað sýndi öllum mönnum í kúgan ok ránum, ok bað hann hafa mikla þökk fyrir. Marga aðra óspèll[1] siðaði hann þar um vetrinn, ok fór víða um England með Ellu konúngi; skipaði hann, ok setti þeim málum[2], er Ella konúngr átti dóm á, þvíat hann var þá gamall mjök; vildu allir svâ sitja ok standa, sem Rólfr konúngr vildi, fór hans vinsæld um allt England.

28. Nú er þar til máls at taka, er fyrr var frá horfit, at Þornbjörg drottníng sitr í Svíþjóð. Hún frèttir ekki til ferða Rólfs konúngs, voru nú liðnir 12 mánuðir, síðan hann fór or landi; er hún nú mjök hugsjúk um þeirra ferð. Þess er viðgetit einn dag, at Þórir járnskjöldr sat í öndugi í höllinni eptir vanda, ok fátt manna í hjá honum. Drottníng gekk þá í höllina, ok hafði í hendi hornit þat et góða. Hún gekk innar fyrir Þóri, ok bað hann drekka, kvað hann mundu þyrsta mjök. Þórir undraði, er hornit var innborit, þvíat hann hafði ekki sèð þat, síðan Rólfr konúngr fór á braut. Síðan undraði Þórir, er drottníng skeinkti honum, þvíat þat hafði hún aldrei fyrr gjört; en Þórir hafði þat mælt, þá er Hrólfr fór af Svíþjóð, at hann skyldi verða þess manns bani,

[1]) óspekt, *C.* [2]) *þannig C*; mm. *A*; mála, *B*, *V*.

er honum segði lát Rólfs konúngs Gautrekssonar. Þórir stóð upp í móti drottníngu, ok fagnaði henni vel, ok tók við horninu, ok drakk af; ok þá er hann hafði mjök svâ afdrukkit, þá gall í horninu svâ hátt, sem þá var jafnan vant, er eptir komu mikil tíðindi, eða ella voru þau umliðin; var þetta fyrir stórum orrostum ok lífláti göfugra manna. Þórir járnskjöldr kastar horninu, ok leit reiðugliga til drottníngar, ok mælti: segir þú mèr líflát Rólfs konúngs Gautrekssonar? Hún svaraði: eigi gjöri ek þat, heldr heyri ek þat, at hornit segir þèr nokkur tíðindi, [hvort sem þau eru komin fram, eða horfir til[1]; hefir mik svâ dreymt, at Rólfr konúngr muni þurfa liðveizlu, áðr þetta sumar sè allt á brottu. Nú með því, drottníng! at þú hefir tjáð mèr þína hugsan, er þèr segir erfiðliga hugr um Rólf konúng, ok með því ek á honum svâ mikit gott at launa, sem þú veizt, þá skal ek fara brott or ríki þessu, ok eigi aptr koma, fyrr enn ek veit, hvat orðit er af Rólfi konúngi, hvort konúngr er lífs eða dauðr; má ek ok eigi njota matar nè drykkjar, meðan ek veit eigi, hvat um hann líðr, ok ek hefi aungva vissu um hans athæfi. Eptir þetta fær hann sèr eitt lítit skip, ok þar til fá menn, ferr við þetta brott af Svíþjóðu; ok er hann kemr við England, var Rólfr konúngr þaðan í brottu, ok farinn til Írlands. Þórir dvelzt þar ekki, ok ætlar nú at koma til

[1]) v. í C.

fulltíngs við Rólf konúng, lèttir eigi fyrr sinni ferð, enn hann kemr við Írland, ok ekki þar [inn at[1], sem Rólfr konúngr kom. Þórir talar við sína menn: þèr skuluð mín hèr bíða, en ek einn gánga upp á land, mun ek ekki ákveða fyrir yðr um mína aptrkvomu. Þèr skuluð mín at aungvu geta, þótt þèr þikkizt nokkut áræðiligt spyrja til minna ferða, má vera at fara nokkru því fram, at þèr megið mín lítt njóta frá landsmönnum. Þèr skuluð segjast kaupsveinar, ok láta lítit yfir yðr, þar til ek kem aptr. Við þetta gengr Þórir um nótt frá skipi sínu svâ lángt á land upp, at hann gjörir hvörgi við sik vart; hann stefnir þá til konúngs atsetu; ok er honum þikir engi von, at nokkrir menn ráði í um ferð hans, tekr hann þat til ráðs, at drepa niðr bæði menn ok fè. Þat hyggja allir, þeir sem hann sjá, at þetta muni vera it hraustasta tröll komit í landit, stökkr undan hvörr, er því kemr við, svâ at engi uppreist er gjör í móti honum.

29. Nú er at segja frá Rólfi konúngi, þegar er voraði, stefndi hann at sèr liði sínu, ok býr ferð sína til Írlands. Ella konúngr býðr honum lið af sínu ríki, svâ mikit sem hann vildi hafa. Rólfr konúngr lèt þar eptir dreka sinn, ok öll en stærri skip sín, ok tók þar smærri skip ok fleiri; höfðu þeir af Englandi 30 skipa, ok öll smá. Grímr kom til móts við konúng,

[1]) nærri, C,

sem þeir höfðu ákveðit, skildu konúngar með blíðu, ok at búnu liði sínu siglir hann af Englandi, gefr þeim vel byr, ok koma við Írland; þat var síð um kveld, lágu þeir þar um nóttina. Svâ er sagt, at Rólfr Íra konúngr hafði vitat komu nafna síns af margkunnandi sinni ok vísdómi, ok hafði hann stefnt at sèr miklu liði. Um morguninn, er þeir fóstbræðr vakna, mælti Rólfr konúngr við Ásmund: mun eigi ráð at vitja meyar málanna, ok heyra svör af Rólfi konúngi. Ásmundr kvaðst þess víst fýsast. Konúngr mælti: vèr skulum fara friðliga ok með aungvu ofbeldi eða hernaði, meðan oss er engi ófriðr boðinn. Þá valdi konúngr með sèr hundrað manna, en bað liðit vopnast ok vera búit við öllum hernaði, ef til þyrfti at taka, ok gánga upp frá skipum, ok vera í skógi nær borginni. Nú ferr Rólfr konúngr, þar til er hann kemr nær borginni. Þá sá þeir, at lið ferr í mót þeim, ok búit sem til bardaga. Konúngr bað þá gánga. Borgarlýðrinn stefndi til móts við þá, ok er þeir fundust, var þar kominn Íra konúngr með 6 hundruð manna. Þá mælti Rólfr Íra konúngr: gjörla veit ek, Rolfr Gautreksson! hvörr þú ert, ok Ásmundr, fóstbróðir þinn, son Ólafs Skotta konúngs, ok veit ek eyrindi, ok þurfi þèr þat eigi upp at bera; ek skal þèr, Rólfr konúngr! gjöra skjóta kosti, með því at þú ert hvörjum konúngi fríðari ok ágætari, þá skal ek þèr leyfa heim at fara með öllu heilu

ok höldnu liði þínu, ok kom aldrei þessa eyrindis optar, þvíat fremri ok ágætari hafa þeir verit margir, er þessa ráðs hafa leitat, ok fengit eigi utan skömm ok skaða; vill þèr eigi þekkjast þetta vort boð, þá skulu þèr fara því hæðiligar, sem þèr þikist meira verðir enn aðrir menn. At lokinni ræðu Rólfs Íra konúngs, svaraði Rólfr konúngr Gautreksson: með því at þú ert svâ vitr konúngr ok forspár, at þú veizt óorðna hluti, hug eða ætlan hvörs manns, þá ætla ek at þat mundi forsjáligra, at þiggja þetta boð; en þarsem ek hefi rekizt heiman or Svíþjóð, ok með nokkuru liði, ok heitit Ásmundi, fóstbróður mínum, fylgð ok trygð til þessa máls, þá nenni ek eigi at snúa aptr við svâ búit ok reyna ekki framar yðvarn styrk ok mátt. Íra konúngr kvað hann þat kjósa, er honum gegndi verr ok liði hans. Rólfr konúngr gjörði þá njósn liði sínu, ok bað þá eigi dvelja at duga sèr, ætlaði Rólfr konúngr Gautreksson, at Íra konúngr mundi eigi hafa meira lið, enn þat sem þeir sjá, ok þóttist í hendi hafa hans ráð; en Íra konúngr hafði óflýanda her, ok vissu þeir ekki til þess. Íra konúngr vissi ok eigi, at Rólfr konúngr hefði lið í skóginum. Íra konúngr bað nú veita þeim atgöngu. Rólfr konúngr Gautreksson bað sína menn hlífa sèr, ok hefjast undan. Litlu síðar dreif at lið Íra konúngs, bað hann sína menn víkja aptr til borgarinn-

ar. Þá fèllu Írar mjök, áðr þeir kvomust í borgina; sóttu Rólfs menn eptir með miklum ákafa, ok þegar inn í borgina. Ok er lið Rólfs konúngs var allt inn komit í borgina, þá dreif lið at þeim öllu megin; fylgtu hvorirtveggju; er svâ sagt, at eigi var minni liðsmunr, enn 6 landsmenn voru um einn þeirra Svíanna; skaut þeim mörgum heldr skelk í bríngu, ok þótti þeim mikit ofrefli í móti at gánga svâ miklum múg manna, tókst þá bardagi bæði harðr ok lángr, sóttu Írar at með miklum ákafa ok mannfjölda, þvíat þeir sá at höfðíngi þeirra var harðla mannskæðr; skaut Íra konúngr svâ, at þeim sýndist tvær örvar senn á lopti, ok varð maðr fyrir hvörri. Rólfr konúngr Gautreksson barðist með fræknu hjarta; menn hans fylgðu honum allir vel ok drengiliga, ok fèllu með góðum órðstýr, þótt vèr kunnum eigi at segja frá hvörs þeirra vörn[1] ok framgöngu; sýndist þeim þá, at þeir höfðu margir verit enir mestu garpar; ok meðan þeir voru ómóðir, feldu þeir margan mann til jarðar, ok hopuðu hvörgi á hæl, þótt þeir ættu við mikinn liðsmun. Grímr, er fyrr gátum vèr, gjörðist auðkendr í þessum bardaga, var hann bæði fimr, röskr ok enn djarfasti í framgöngu. Rólfr konúngr Gautreksson gekk fram með mikilli grimd í þessi orrostu, ok hjó til beggja handa með sverðinu Risanaut, hlífði hann sèr hvorki

[1]) *þannig C*; vöxt, *A*.

með hjálmi nè skildi nè brynju, ok færði margan mann til heljar, ok gekk jafnan í gegnum fylkíngar af mikilli hugprýði. Með slíkum hætti gekk fram Ásmundr, ok hjó margt ok stórt, ok gjörði mikit afhroð í sinni vörn, þá varð bardagi ákafr, ok tókst enn hit mesta mannfall í hvorutveggja liði. Þar fór, sem jafnan kann verða, [at landsherinn verðr drjúgr[1]; snèri þá mannfallinu á hendr Rólfi konúngi Gautrekssyni ok hans mönnum; ok þegar er Írar fundu, at mannfallinu snèri á hendr sínum óvinum, þá gengu þeir at djarfliga; fèllu þá menn Rólfs konúngs Gautrekssonar hvorr um þveran annan. Þá var gengit at öllu megin með ópi ok eggjan. Ok er Rólfr konúngr sá, at lið hans fèll, svá at fátt var eptir, bað hann þá víkjast út at borgarvegginum, ok láta hann hlífa sèr. Þá sögðu menn hans, at þeir mundu flýja, ok vita ef þeir næði til skipa sinna. Konúngr kveðst eigi flýja vilja, kveðst heldr þar skyldu falla með öllu liði sínu; varð ok öngvum þat fyrir hans mönnum at flýja, heldr fèll hvorr á fætr öðrum, svá gjörsamliga at eigi stóð meir upp enn 12 menn, ok voru þó mjök sárir ok ákafliga móðir. Þá mælti Rólfr konúngr til Ásmundar: þat er nú vænna, fóstbróðir! at hljóta at vinna nokkut til mægðanna við Íra konúng, er þèr fýstuzt at fá yðr, þótti ek

[1]) at heimaherinn verðr drjugr, *B*, *V*; at ekki má við mörgum, *C*.

seinn ok tregr ferðar þessar, skal nú ok ekki afspara at veita þèr eptir megni, ok heimta út meyjar mundinn. Rólfr konúngr Gautreksson spenti þá tveim höndum meðalkaflann, ok hjó á báðar hendr bæði margt ok stórt, ok veitti mörgum skjótt líflát. Ásmundr ok Grímr veittu honum góða fylgð. Svâ er sagt at þeir hlóðu svâ umhverfis sik, at þeir máttu valla vega fyrir, ok fèllu þá allir menn Rólfs konúngs utan þeir Ásmundr ok Grímr. Þeir voru þá mjök sárir, en ákafliga móðir, svâ at þeir gâtu valla staðit uppi. Þá voru bornir at þeim skildir öllu megin, ok áðr þeir næði Rólfi konúngi, drap hann 15 menn fyrir þeim, fór honum þá, sem mælt er, at ekki má við margnum; voru þeir allir handteknir, ok flettir klæðum ok vâpnum, höfðu þeir barizt allan daginn ok mikit af nóttinni, fèll þar svâ gjörsamliga, at engi maðr komst á braut, höfðu þeir ok eigi annat stundat, enn veita konúngi sínum sem bezta fylgð. Lið Íra konúngs hafði svâ mjök fallit, at eigi var meir eptir enn 5 hundruð manna, ok þó allir sárir ok móðir. Rólfr Íra konúngr hrósar nú sigri sínum; hann mælti þá við Rólf konúng: nú hefir farit, sem mik varði, at þú ert yfirkominn með öllu liði þínu, væri þèr nú betra at hafa tekit þann kost með þökkum, sem þèr var boðinn, ok haldit svâ heilu liði þínu. Rólfr konúngr Gautreksson svarar: engrar frægðar eru þèr af þessu verðir, hafið þèr meir

unnit þetta mál með vèlum ok prettvísi, enn með drengskap eða hreysti sakir liðsfjölda þess, er þèr hafið oss í móti, enda má enn vera, at yðr verði þetta launat. Íra konúngr mælti: lèngi heldr þú á dul þinni, þvíat þú veizt ógjörla, hvat þú átt fyrir höndum, þvíat engi skal[1] fúlari ístaðnum, enn sá er þú skalt í fara. Rólfr konúngr Gautreksson mælti: þèr munuð nú at sinni hafa vald á oss fèlögum, ok er þat hraustra manna dauði, at vera hálshöggnir. Íra konúngr mælti: fyrr skal færa yðr í gestaskála minn, ok skulu þèr þar svelta í hel. Lèt hann leiða þá út í garðinn, þar sá þeir gjörfa eina gröf lángt í jörð niðr; þurftu þeir þá margir at at gánga, áðr þeir komu Rólfi konúngi þar niðr[2]. Þar var harðla djúpt, ok ef þeir hefðu konúnginn á höfðinu niðr fært, hefði hann [skjótt látit sitt líf[3], en hann kom standandi niðr. Þar var fýla mikil; þar voru undir manna búkar. Þeir Ásmundr ok Grímr voru ok niðrfærðir, tók konúngr þá á lopti, ok setti niðr hjá sèr. Síðan var færð yfir hella mikil, svâ varla gátu hrært 10 karlar. Fóru Íra konúngs menn þá í burt, ok tóku náðir á sik.

30. Þá mælti Rólfr konúngr Gautreksson til Ásmundar: þat ætla ek, fóstbróðir! at

---

[1]) skúli skal, *B*, *C*, *V*. [2]) *hèðan af og söguna út eru B, C, V mikið frábrugðin A, þó áðalefnið sè það sama, og eru þau fjölorðari hèðan og fram í 33 kap., en úr því er A lengri að frásögn.* [3]) hálsbrotnat, *C*.

nafni minn ætli þèr fyrr þessa hvíluna enn hjá Íngibjörgu, dóttur sinni, eða hvörsu þiki þèr hèr fyrir fyrirbúit? Ásmundr kveðst þikja stórliga íllt: vilda ek heldr hafa fallit í dag fyrir vopnum vaskra manna, enn at vera í þessum ófagnaði, mun oss hèr ætlat at deyja ok svelta til bana. Rólfr konúngr mælti: mælumst vel um, fóstbróðir! er þat, sem mælt er, at býsn skal til batnaðar, mun enn nokkut gott fyrir okkr liggja. Þeir stóðu berum fótum á manna búkum í skirtu ok línbrókum. Dóttir Íra konúngs hafði sèð á bardagann um daginn, ok sá, hvörsu hraustliga Rólfr konúngr barðist ok hans menn, ok harmaði mjök svâ ágætan konúng, at hann skyldi svâ skjótt týna lífinu. Hún átti eina skemmu, ok bygði hana með mörgum meyum. Hún var vitr ok vinsæl ok harðla væn ok kurteis. Hún átti eina skemmumey, er hún trúði betr enn öllum öðrum; hún var ríks manns dóttir á Írlandi, ok hèt Sigríðr. Ok er lokit var bardaganum, kallar hún meyna til sín, ok mælti: þú skalt fara til grafarinnar, sem Rólfr konúngr Gautreksson er með sínum mönnum, ok spyr, hvat hann vili helzt, þat er ek má veita honum! Hún ferr, ok kallar at gröfinni, ok spyrr, hvört þar lifi nokkur. Konúngr svarar, ok sagði þar lifa 3 menn. Mærin mælti: dóttir Íra konúngs bað mik spyrja yðr, Rólfr konúngr Gautreksson! hvat þèr kjósið helzt, þat er hún má veita yðr til hjálpar. Kon-

úngr mælti: þat skal skjótt kjósa, ek vildi helzt, at hún næði sverði mínu, mun þat auðkent í valnum fyrir sakir vaxtar ok mikilleiks; geymda ek ok þat, er ek var tekinn, at ek kastaði því í burt, sem lengst gat ek, í valinn, þar sem þykkvast lá. Mærin rann til skemmunnar, finnr Íngibjörgu, ok sagði henni, sem var, ok kvað þetta vera mundu allheimskan mann, svâ illa sem hann var staddr, at hann kaus þat, er honum lá ekki við með öllu. Konúngs dóttir mælti: þat höfum vèr þó heyrt, at Rólfr konúngr væri hvörjum manni vitrari, skaltu nú fara, at leita at sverðinu. Mærin kvaðst víst ikki þora at kanna valinn, fara til ein um nætr, vaða blóð ok gánga á manna búkum, kvað þat ekki kvenna ferðir. Hún bað hana fara, sagði ekki mundi tilsaka, ok við eggjun hennar fór hún, ok fór ódjarfliga, leitar ok finnr ekki sverðit, kemr aptr, ok segir at dauðir menn gengu öllumegin. Konúngs dóttir kvað hana vera hrædda ok heimska, er hún óttaðist dauða menn: skal ek[1] nú fara með þèr. Þær gánga nú báðar, ok leita um valinn, ferr konúngs dóttir hit djarfligasta, ok finnr sverðit, dróu þær þat eptir sèr til skemmunnar. Konúngs dóttir mælti enn til meyarinnar: farðu til grafarinnar, ok spyr Rólf konúng, hvat hann kýs helzt, þat er ek má veita honum. Mærin ferr, ok finnr gröfina, ok

[1]) *hèr byrjar seinasta blaðit af D.*

spyrr, hvörs þeir þurfa helzt, ok sagði þær hefðu náð sverðinu. Konúngr kvað þegar vænt horfa. Mærin mælti: hvat vilì þèr nú helzt kjósa, ok seg mèr! Konúngr svarar: helzt vildum vèr þiggja klæði nokkurt undir fætr oss; er hèr kalt ok fúlt at standa á dauðra manna búkum, sè ek, at loft er einu megin undir helluna, ok má þar inn koma. Ferr nú mærin, ok segir konúngs dóttur þeirra beiðslu. Íngibjörg svarar: sýnir Rólfr konúngr þat enn, at hann er hvörjum konúngi hraustari ok ágætari; mundu margir bráðlátari til hjálparinnar, ef fá mættu, ok væru svâ staddir, sem nú er hann, ok er þat íllt, at slíkir hreystimenn skulu svâ fljótt enda lífit. Nú tók hún þeim alla luti, er þeim voru nauðsynligir, drykk ok vist, góð smyrsl ok [læknings líf, klæði[1] ok ljós, ok allt þat er þeir þurftu at hafa; ferr hún nú með meyunni, ok færir þeim þessa hluti. Höfðu þær snæri, ok lètu síga niðr at þeim. Með sama hætti færðu þær þángat sverð Rólfs konúngs, varð hann því stórliga feginn, ok þakkaði þeim með fögrum orðum. Tekr hann nú sár þeirra Ásmundar ok Gríms, ok hafði hvorgi þeirra bannvænlig sár. Síðan bjuggust þeir um, ok klæddust, síðan átu þeir ok drukku, þikir þeim þegar vænkast um sinn hag, en verða þó at vera samt í vandræði sínu.

[1]) lækníng' líf, *D.*

31. Nú er at tala um þat, hvat framferr í Svíþjóð, Danmörk ok Gautlandi. Þórir járnskjöldr hafði landráð í Svíþjóð eptir burtferð Rólfs konúngs, svâ sem fyrr var getit. Þeir Íngjaldr ok Ketill undu stórilla, at þeir hefðu eptir setit. En eptir burtferð Þóris af Svíþjóð sendi Þornbjörg drottníng[1] orð Katli ok Íngjaldi, at þeir skyldu safna liða ok leita Rólfs konúngs Gautrekssonar. Þeir brugðu við skjótt, ok buðu út leiðángr af Danmörk ok Gautlandi. Drottníng dró ok her saman af Svíþjóð; tók hún þá skjöld ok sverð, ok rèðst til ferðar með Gautreki, syni sínum; hann var þá 12 vetra gamall; hann var hinn vænsti maðr, mikill ok sterkr. Ok í ákveðnum stað fundust þau öll saman með miklu liði, hafði drottníng ráð ok skipan fyrir [liði þeirra[2], var enn sem optar, at Ketill sýndi meir ákafa enn forsjó eðr fyrirleitni, vildi hann at allt yrði senn um hans ferð. Látum þau nú [fara, sem þeim líkar[3].

32. Þat varð til tíðinda einn dag á Írlandi, eptir þat Rólfr konúngr Íra hafði dregit saman her sinn allan, ok vissi þar kominn

---

[1]) *hèr byrjar það elzta og bezta skinnbókarbrot Ab þannig:* drottníng gerði þá orð Katli ok Ingjaldi í Danmörk o. s. *fr. því nær orðrètt samhljóða A; en hin eru enn nokkuð fjölorðari og frábrugðin. D bætir hèr inn í því sem komið var um drykkju þóris í 28 kap.* [2]) ferð þeirri, *Ab.* [3]) búast fyrst at tómi, *C, V*; búast með friði, ok hverfum þar frá at sinni, *D.*

Rólf konúng Gautreksson af fjölkýngi sinni, ok heldr því liði saman hálfan mánuð, áðr Rólfr konúngr kæmi, at tröll eitt mikit kom á landit fyrir[1] konúngs atsetunni, svâ íllt ok grimt at eigi[2] reisti rönd við, drap niðr menn ok fènað, en brendi bygðir, ok öngvu vætti eyrði því, drap niðr hvört kvikindi lifandi, ok gjörði hit mesta illvirki, en þat, sem eptir var, flúði á merkr ok skóga. Ok þenna morgun kom þat til borgarinnar eptir orrostu konúnganna; hafði Rólfr Íra konúngr lengi drukkit um nóttina. Síðan sofnar hann ok allir hans menn. Ok um morguninn, er menn ætluðu út at gánga, var tröll svâ mikit komit í hallardyrin, at enginn þóttist sèð hafa jafnmikit tröll; þat hafði alvæpni ok skjöld svâ mikinn af járni, at huldi[3] öll hallardyrin. Þetta tröll var svâ grimt ok ógrligt, at engi þorði til útgöngu at leita, ok svâ mikil ógn fylgði þessu kvikindi, at aftók allan vísdóm[4] af konúnginum með megni ok bragðvísi, svâ enginn varð hræddari enn sjálfr hann við þenna atburð, þótti mönnum þetta mikil[5] fádæmi, ok hin mesta býsn, at þeim skyldi slík fádæmi at hendi bera. Tröllit lèt, sem þat mundi þá ok þá inn hlaupa í höllina at þeim. Konúngr bað öngvan svâ djarfan vera, at til móts gengi við þetta tröll, sagðist vænta, at þat mundu burt leita af stundu. Sitja menn þar um dag-

[1]) fjarri, *Ab.* [2]) vætta, *b. v. Ab.* [3]) *hèr endar D.* [4]) ok spakleik Hrólfi Ira-, *b. v. Ab.* [5]) undr ok, *Ab.*

inn [í þot[1] við þetta tröll, ok varð mönnum fátt til gamans.

33. Skemmumey Íngibjargar konúngs dóttur hafði gengit þenna dag til hallarinnar, ok er hún kom nærri höllinni, sá hún þetta hitt mikla tröll, hljóp hún þá aptr til skemmunnar með ópi miklu ok gani. Konúngs dóttir spyrr, því hún lèti svâ óvitrliga. Hún segir at tröll eitt[2] var komit í hallardyrin, svâ ekkert mun þvílíkt vera. Konúngs dóttir mælti: ætlar þú víst, at tröll væri, heldr enn mikill maðr? Hún svarar: ekkert tröll mun þvílíkt vera, ok svâ lætr þat grimmliga, sem þat muni öngvu eyra, því er at því færi. Konúngs dóttir mælti: eigi mun tröll vera, þó tröllsliga láti, þiki mèr vera mega, at grimt sè í hug, ok þikist híngat eiga at leita til hefnda. Vil ek nú senda þik til hallarinnar; þú skalt hafa með þèr mat, ok bjóða tröllinu, má vera at þat [sè þá ekki svâ grimt, ok[3] linist heldr við menn. Mærin mælti: nú mælir þú ódæmi, at ek, lítil meya, mundi gánga at því trölli, sem enginn þorir móti at sjá, þar sem konúngrinn, faðir þinn, þorir ekki út at gánga, slíkr kappi sem hann er, ok enginn hans manna, ok munu heldr svelta til dauða; ok muntu vera heilluð af óvætti þessum, er gengr um

[1]) *b. v. Ab; v. í A*; í þrá, *B, C, V.* [2]) svâ hræðiligt, *Ab.*
[3]) *v. í Ab.*

hásumar ok ljósa daga, er þú vilt gefa þeim mat, er drepa vill konúnginn, föður þinn. Ok þó hún talaði slíkt, þorði hún ekki í móti at gjöra hennar vilja. Hún[1] hafði disk á lófa, en horn mikit í annarri hendi. Ok er hún kom svâ nær, hún hugði hann mundi heyra, [kallaði hún: et mat þinn, tröll[2]! Hann leit til hennar. Hún varð mjök hrædd, hljóp aptr til skemmunnar með ópi miklu[3]. Hún feldi niðr af diskinum matinn, en sló drykkinn or horninu, ok sagði þetta mikil[4] undr, at senda hana í trölla hendr: eðr fyrir hvörja sök viltu bana mèr? Konúngs dóttir mælti, ok sagðist ekki vilja, at hún fengi mein eðr bana af sínum ráðum: ok ekkert íllt muntu hèr af fá; segir mèr svâ hugr um, at þetta muni ekki tröll vera, skaltu nú fara í annat sinn. Mærin ferr, þó hún væri treg, ok er hún kom svâ nær, at hún sá gjörla tröllit, mælti hún: viltu þiggja mat, hit mikla tröll? Hann leit við henni, ok igldist á hana. Hún hljóp í burt, ok segir konúngs dóttur, at hún hafði nú gjörla sèð tröllkallinn. Konúngs dóttir mælti: hvörsu leizt þèr á tröllit, eðr vildi þat nokkut tala til þín? Hún svarar: aldrei hefi ek fyrri tröll sèð, en ekki sýndist mèr þat svâ illiligt, sem þat er mikit til, þat er magurligt ok svángt,

[1]) ok fór hún, ok, *Ab.* [2]) ef hún kallar, þá nam hún staðar, ok mælti: viltu mat, tröll! hún sá at, *Ab.* [3]) ok sagði, at tröllit vildi taka hana, *b. v. Ab.* [4]) údœmi ok, *Ab.*

sem þat muni lengi soltit hafa, undra ek þat etr ekki dauða mennina, er liggja um alla borgina. Má vera, júngfrú! at þetta sè blendíngr, ok sè ekki [fullkomit tröll[1], ok ekki varð ek nú jafnhrædd sem fyrr. Konúngs dóttir mælti: hvörsu er tröllit búit? Hún svarar: loðkápu hefir þat mikla, svâ hvorki sèr hendr þess nè fætr, skjöld hefir þat svâ mikinn[2] af járni, at hylr öll hallardyrin, spjót hefir þat ógrligt, ok leggr því inn með skildinum. Konúngs dóttir mælti: nú mun ek leggja ráð með þèr; þú skalt fara, ok bjóða því matinn, ok seg at lifi Rólfr konúngr Gautreksson, ok vit þá, hvat af skipast. Hún ferr nú, ok miklu djarfligar enn fyrr, ok er hún kom mjök at honum, rètti hún diskinn, ok mælti: et mat þinn, tröll! lifir Hrólfr Gautreksson. Hann leit þá til hennar blíðliga, tók hendinni í mót diskinum, át ok drakk. Hún sá at hann var mjök lystugr til matarins, þótti þó ekki þrælsliga atfara; ok er hann er mettr, gengr hún í burt, líðr af nóttin, segir hún konúngs dóttur sem var, ok þat með er hann tók móti diskinum: undir kápunni var rauð ermi ok þar á digr gullhríngr. Líðr nú nóttin, komust þeir ekki úr höllinni, ok urðu allir ráðlausir fyrir jötni þessum. Um morguninn kom mær-

[1]) með öllu aðaltröll, *Ab.* [2]) *hèr endar læsiliga síðan af Ab-brotinu; hin er gjör|máð og ólæsilig.*

in aptr með mat, ok færði honum, ok er hann seildist móti diskinum, tók hann með hönd meyarinnar, setti hana á knè sèr, en hún kvað við hátt. Hann bað hana eigi óttast: ok seg mèr, hvar Rólfr konúngr Gautreksson er, ok hvörr honum hefir líf gefit. Hún svarar, ok segir honum allt, sem gengit hafði, um þeirra ferð, ok hvar komit var þá þeirra máli. Hann mælti þá: seg konúngs dóttur, at ek muni þar koma í nótt, at finna hana, vil ek at við tölumst við nokkut; lèt hann þá meyna lausa. Hljóp hún þá aptr til skemmunnar, segir konúngs dóttur, at tröllit hafi getat tekit hana, ok kvað hann margt hafa talat við sik: ok hann ætlar at finna þik í nótt. Konúngs dóttir sagði þat vel vera, sagði þann einn vera mundu, hún mundu eigi óttast þurfa. Ok um nóttina kom hann til skemmunnar; er svâ sagt at konúngs dóttir brá sèr ekki við, þó hún sæi þetta tröll, tóku síðan tal með sèr, spurði hún, hvat hann ætlaði til bragða at taka. Hann kvaðst ekki heldr annat ætla, enn svelta inni konúnginn með allri hirð sinni: en með því at Rólfr konúngr Gautreksson lifir, ok þèr hafið hólpit honum, mun ek fara fram yðrum ráðum. Hún svarar: önnur ráð eru mèr heyriligri til at leggja, enn þat faðir minn sè sveltr inni sem refr í skor, eða melrakki í greni, hefir mik svâ dreymt, at hann muni skamt ófriðar missa, er þat ætlun mín, at Rólfi kon'ngi Gaut-

rekssyni komi fleiri dugnaðar menn, ok mun ekki lángt at bíða. Þórir mælti: til þess er mèr annast, at finna Rólf konúng, fóstra minn. Hún kveðst þat vel mega veita honum, at tala við þá, en sagði þeim ekki mega burtkoma utan með mannfjölda; fara þau síðan til grafarinnar. Ok er Þórir sá helluna, er þeir voru læstir með, þreif hann til hennar með afli, ok kastaði henni marga faðma á völlinn; síðan lèt hann síga inn festi, ok dró þá alla upp; varð þar fagnaðar fundr mikill, þóttust hvorir aðra or helju heimt hafa; fóru nú allir til skemmunnar, ok drukku þar glaðir ok kátir. Spyrr þá Rólfr konúngr, hvat þá skyldi til ráðs taka. Ásmundr kvað þá hægt til ráða; er þat fyrst, at bera eld at höllinni, at brenna konúnginn inni með liði sínu. Konúngs dóttir gekk þá þar at, ok mælti: þess vil ek biðja yðr, Rólfr konúngr! at þèr gefið grið föður mínum, þó þèr eigið vald á honum. Konúngr kveðst því gjarna játa vilja henni fyrir hennar hæversku ok dygð, er hún hafði honum veitta, sagði hana verðuga at þiggja sína bæn.

34. Nú er at segja frá ferð konúnganna Ketils, Íngjalds ok Þornbjargar drottníngar; þau bjuggu her sinn út, ok höfðu 60 skip, öll stór ok vel skipuð, tókst þeim hit greiðligasta, komu við Írland þá sömu nótt, er Rólfr konúngr var tekinn or dýblissu, þeirri er hann hafði verit í settr, ok ætlaðr þar hæðiligr dauði

af Rólfi fra konúngi. En hann þorði ekki út at gánga fyrir því mikla trölli, ok enginn hans manna. Ok er þeir Ketill komu, sáu þeir skipastól mikinn, ok kendu mörg af þeim, er átt hafði Rólfr konúngr Gautreksson; enginn maðr var á þeim skipum; brá þeim mjök við þetta, þóttust þeir vita, hvör tíðinði þar mundu orðit hafa, fara þeir nú með miklum gný ok ákafa til hallarinnar, sáu skjótt þau merki, er þar höfðu orðit, var þar margr maðr hryggr. Spyrr Þornbjörg drottníng, hvat þá skyldi til ráðs taka. Ketill mælti: nú skal mínum ráðum fram fara, skal nú bera eld at hvörri skemmu, húsi ok þorpi, ok brenna allt upp, þat fyrir verðr. Drottníng mælti: ekki eru þetta mín ráð, mun hèr þat eitt fjölmenni eptir, at vèr munum hafa nógan liðsafla til við þá at ráða, mun Rólfr konúngr ok hans menn svâ hafa við skilit, áðr enn hann hafi látit líf sitt; má ok ske at þeir byggi hèr eitthvört herbergi, er vèr viljum eigi mein gjöra heldr enn sjálfum oss; sè ek ok at borgin er órudd af dauðum mönnum, þeim er fallit hafa í þessum bardaga. Ketill kvaðst nú ráða skyldu; var nú þegar eldr kveiktr ok borinn at allstaðar.

35. Svâ er sagt af þeim Rólfi konúngi, at þeir sátu við drykk glaðir ok kátir, heyra þeir út gný mikinn ok vopnabrak, ok þvínæst var borinn eldr at skemmunni þeirri, er þeir sátu inni, tókst svâ til at drottníng sjálf var fyrir því liðinu, ok Gaut-

rekr, sonr hennar. Rólfr konúngr mælti þá: þat ætla ek, Þórir fèlagi! at skjöldr þinn hafi litla vörn veitt konúngsmönnum; munu þeir nú útkomnir með liði sínu; látum þá nú kenna vopna vorra, áðr enn vèr erum yfirkomnir. Síðan hlaupa þeir upp, ok vopnast. Þá mælti konúngs dóttir: sjáið nú svâ fyrir, Rólfr konúngr! í útgöngu yðvarri, at þetta eru ekki Íra konúngs menn heldr þínir vinir ok frændr, ok efnið nú vel öll heit við oss! Þeir tóku stokk einn, ok skutu á skemmuhurðina, hraut hún þegar í sundr, gengu þeir þá þegar út. Kendi Rólfr konúngr skjótt Gauta ok Svía; maðr einn stóð fyrir honum með alvæpni, ok var hinn vígligasti, hann tók af hjálminn, ok hnekti af aptr, kendi hann at þat var Þornbjörg drottníng. Konúngr mælti: seint er þó at tryggja slíkar konurnar, sem þú ert, ok viltu nú brenna mik inni sem melrakka í greni. Hún svarar: virða mættir þú betr, ef þú vildir, Rólfr konúngr! því vèr gjörðum þetta ekki af illvilja, ok eigum nú öll sigri at hrósa, er þèr eruð allir heilir, er mest eruð verðir, ok tökum nú þat ráð, er öllum er heyriligast! Rólfr konúngr bað slökkva sem skjótast eldana. Frèttist þetta nú skjótt um herinn, at Rólfr konúngr var heill ok ósakaðr, ok Ásmundr ok Þórir járnskjöldr var þar ok kominn, varð þá feginleiki mikill allra höfðíngja ok liðsmanna. Varð lítit fyrir at slökkva eldana, er

óvíða höfðu kveiktir verit. Ok er Íra konúngr merkti, at ófriðr var kominn, ok tröllit var ekki í hallardyrunum, hlupu þeir út, ok vörðu höllina hraustliga; var Ketill konúngr þar til atsóknar bæði með eldi ok járnum; varð þó áðr nokkut mannfall, enn Rolfr Gautreksson kom út, ok bað slökkva eldana, en gekk at með kappi ok styrk, ok lèt höndum taka Rólf Íra konúng, en drepa alla þá, er fyrir honum vildu standa. Ok at þeim verkum unnum mælti Rólfr konúngr Gautreksson: nú er svâ komit, nafni! fyrir fáum nóttum áttu þèr vald á lífi mínu, ok höfðuð ætlat mèr heldr harðan dauða, ef eigi hefði betrast vort mál; en nú eru þau umskipti orðin, at ek á vald á yðr ok öllu því yðr varðar, munu þèr nú verða at hlýta við vorum dómum; vili þèr nú unna Ásmundi, fóstbróður mínum, syni Skotta konúngs, mægða við yðr, ok vinna þat yðr til lífs ok yðar mönnum til friðar ok frelsis? Rolfr Íra konúngr kveðst því játa mundu. Katli konúngi Gautrekssyni ok öðrum liðsmönnum þótti undarligt, at Rólf Íra konúng skyldi ekki þegar af lífi taka, svâ sem hann hafði liði þeirra at skaða orðit; höfðu þeir látit marga góða drengi ok mikilsháttar menn; en Rólfr konúngr Gautreksson sagðist þat mest gjöra vegna konúngs dóttur, kvað hana vel hafa gjört sèr ok sínum fèlögum, sagði Rólf Íra konúng einskis góðs frá sèr verðan, kvað hann vera illan konúng ok prett-

vísan, sagði þat mest hafa hlotizt af Þóri járnskildi, fóstbróður sínum, at hann kom öngvu illu fram með fjölkýngi sinni, sem hann var vanr, heldr fengit skömm ok skaða, sem makligt var. Eptir þetta greiddi Íra konúngr dóttur sinni mikit fè í gulli ok silfri ok allskonar dýrgripum, þvíat þeir vildu sem skjótast burt af Írlandi, ok vildu ekki unna Íra konúngi þeirrar sæmdar, at halda brúðkaup dóttur sinnar; gjörðu þeir hann um allt sem hrakligastan, annat enn hann hèlt lífinu, tóku hans góts, ok kunnu honum öngva þökk fyrir; sigldu síðan burt af Írlandi með öll þau skip, er þeir máttu með komast, ok of fjár; var nú mikil gleði í liði þeirra, höfðu náð konúngi sínum ok þeim höfðíngjum, er þeir unnu stórliga mikit, fengit konu væna ok vitra, sem Íngibjörg var, ok þá menn er hún fýstist með sèr at hafa; tóku síðan England. Ella konúngr fagnar harðla vel Rólfi konúngi Gautrekssyni, varð ok vel við þat mannalát, er hann hafði fengit. Eptir þat sendu þeir heim allan herinn, ok settu fyrir 3 höfðíngja, hèt einn Áki, danskr, annar Björn, ok var gauzkr, þriði hèt Brynjúlfr, ættaðr or Svíþjóð; þeir voru allir hinir ríkustu menn, skyldu þeir hafa landvörn ok stjórn fyrir ríkjunum, til þess at konúngarnir kæmi heim. Konúngarnir höfðu eptir 12 skip harðla vel skipuð; þeir sátu lengi á Englandi. Grímr Þorkelsson fèkk Gyðu, systur Þórðar, er fyrr

var getit, með ráði Rólfs konúngs; vildi hann fara með Rólfi konúngi, ok skiljast ekki við hann. Ella konúngr beiddi Rólf konúng, at Þórir járnskjöldr væri eptir á Englandi til landvarnar, ok styrkja ríki sitt, ok at viljanda Þóri varð þat; ok lèt Rólfr konúngr þetta eptir Ella konúngi. Þórir fèkk Sigríðar þeirrar sömu skemmumeyar, er fylgt hafði Íngibjörgu konúngs dóttur, var hún ríks manns dóttir á Írlandi, ok þótti vera hinn bezti kostr; gjörðist Þórir nú hinn ríkasti maðr á Englandi, þótti ætíð hinn mesti kappi ok hreystimaðr; en um ferð hans til Írlands kunnum vèr fátt at segja, ok um heitstrengíng hans, hvort hann hefir haldit hana eðr eigi; lifa menn opt lengi við marga þá luti, sem eigi má mat kalla með öllu, sem eru grös mörg ok rætr. Skildu þeir Rólfr konúngr Gautreksson með blíðu ok Þórir, ok er hann or þessi sögu.

36. Eptir þetta býst Rólfr konúngr burt af Englandi, skyldu þeir Rólfr konúngr ok Ella konúngr hinir mestu vinir, siglir Rólfr konúngr til Skotlands; ok er Ólafr konúngr frèttir komu Rólfs konúngs ok Ásmundar, sonar síns, ok þeirra allra fóstbræðra, býr hann ágæta veizlu í móti þeim, býðr Rólfi konúngi með öllu liði sínu; gekk konúngr sjálfr móti þeim, ok fagnar þeim ágæta vel með hinni mestu blíðu. En með ráði Rólfs konúngs hefr Íngjaldr konúngr uppi orð sín, ok biðr dóttur

hans sèr til handa, ok við flutníng Ásmundar var þetta mál auðsókt við konúnginn; var þar búin hin ágætasta veizla, drekka þeir brúðkaup sín, Íngjaldr til Margrètar, dóttur Ólafs Skotta konúngs, en Ásmundr til Íngibjargar, dóttur Íra konúngs, ok at lokinni veizlunni vistar Rólfr konúngr lið sitt á Skotlandi, en konúngarnir sátu með sæmd ok prís hjá Ólafi konúngi, ok undu allir sèr stórliga vel. Á þeim vetri andaðist Ólafr Skotta konúngr; var hann mjök gamall, ok hafði verit hinn ágætasti höfðíngi. Tók þá Ásmundr konúngdóm á Skotlandi, ok gjörðist góðr höfðíngi ok vinsæll. Ok at sumarmagni bjuggu konúngarnir skip sín. Sat Ásmundr þar eptir; hann bauð Gautreki, syni Rólfs konúngs, at vera þar eptir, ok þat þektist hann með ráði föður síns, var hann lengi síðan með Ásmundi konúngi, ok fèkk hann honum skip, lagðist í hernað, ok varð hinn frægasti maðr; höfum vèr þat ok heyrt, at hann herjaði til Írlands með styrk Ásmundar konúngs, ok fèkk þar ríki af Rólfi Íra konúngi; þóttist Ásmundr þar eiga vald á, með því Íngibjörg var einberni Íra konúngs; unni Ásmundr konúngr ok Gautreki þess ríkis vegna vináttu við Rólf konúng ok þeirra fóstbræðralags. Býst nú Rólfr konúngr burt af Skotlandi, gaf Ásmundr honum ágætar gjafir, ok skildu með hinni mestu blíðu, ok voru ágætir vinir jafnan síðan; kom Rólfr konúngr heim í Svíþjóð, urðu

menn honum storliga fegnir, ok fögnuðu vel sínum herra. Þeir Ketill ok Íngjaldr voru litla stund í Svíþjóð, fór Íngjaldr konúngr heim í Danmörk, en Ketill til Gautlands, lètti Rólfr konúngr hinum mesta hernaði, ok sat heima um hríð. Óx þar upp Eirekr, son hans, ok gjörðist hinn mesti afburðarmaðr, bæði á vöxt ok vænleik ok allt atgjörfi; ok er hann röskvaðist, fèkk Rólfr konúngr honum skip, tók hann drekann Grímarsnaut ok allan þann herskap, er átt hafði Rólfr konúngr, faðir hans, lagðist hann í hernað með miklum styrk ok harðfengi, gjörðist hann ágætr maðr ok víðfrægr.

37. Sá atburðr gjörðist í Garðaríki, at Hálfdán konúngr andaðist, ok eptir þat tóku þeir ríkit, sem ekki voru tilkomnir; ok er þeir fréttu þat, Rólfr konúngr ok Ketill, bróðir hans, fóru þeir þángat, ráku þá burt, er stjórnat höfðu, en drápu suma, friðuðu allt ok frelstu. Ketill[1] gjörðist þar konúngr yfir, var hann meir ágætr at hreysti ok framgirni, ofrkappi ok ákefð, enn vizku eðr forsjó, var hann þó vinsæll, ok hafði hit mesta traust af Rólfi konúngi, bróður sínum. Tók þá Rólfr konúngr Gautland undir sína tign, ok sat þar laungum. Grímr Þorkelsson hèlt vináttu sinni við Rólf konúng. Rólfr konúngr sat í Svíþjóð, þótti hann þá fyrikonúngr allra konúnga sakir atgjörfis ok örlætis,

[1]) *B, C, V láta Grím hafa verið settan til landvarnar í Garðaríki.*

hafði hann þat af föður sínum, treystust öngvir konúngar á hans ríki at seilast, varð hann hvörjum konúngi ríkari, ok vinguðust margir við hann, ok væntu sèr þar í mót friðar ok frelsis af ríki hans, heldr enn ágángs ok ófriðar, sem margir urðu at þola; treystust því öngvir móti honum at stríða. Varð Rólfr konúngr gamall maðr, ok dró[1] sótt hann til bana. Tók Eirekr konúngdóm eptir hann, ok allt þat ríki, er átt hafði Rólfr konúngr, faðir hans, varð hann frægr konúngr ok mjök líkr föður sínum. [Svâ segja menn, at saga þessi sè sönn; þó hún hafi ekki í tabúla skrifuð verit, hafa þó fróðir menn hana í minnum haft, ok mörg þau hreystiverk Rólfs konúngs, er eigi standa hèr, þrýtr ok fyrr seinan penna, enn hans snildarverk. Man svâ um þessa sögu sem um margar aðrar, at eigi segja allir einn veg, en margr er maðrinn, ok ferr víða, ok heyrir þat annar, sem annar heyrir ekki, ok má þó hvorttveggja satt vera, ef hvörgi hefir gjörla atkomizt. Undrist menn eigi, þó menn hafi verit fyrr ágætari at vexti ok afli en nú, hefir þat satt verit, at þeir hafa skamt átt at telja til risanna sinnar ættar; nú jafnast mannfólkit, er blandast ættirnar, er þat trúligt, at margir smámenn fèlli fyrir höggum stórmennis, þar sem vopn þeirra voru svâ þúng, at hinir óstyrkvari menn fengu varla lypt af jörðu; má því marka, at smámenn mundu eigi

[1]) *þannig leiðrètt,* drap, *A.*

standast, er þeir hjuggu til með miklu afli ok biturligum eggjum, er allt lamdist fyrir, þótt ekki biti vopnit. Þiki mèr bezt sóma, at finna eigi til, þeir eigi umbæta; hvort sem satt er eðr eigi, þá hafi sá gaman af, er þat má at verða, en hinir leiti annars þess gamans, er þeim þikir betra. Lúkum vèr hèr sögu Hrólfs konúngs Gautrekssonar[1].

1) *Frá* [ *hafa B, C, V þannig* : Svâ segja fornir (fróðir, *B*, V) menn, at mörg sè þau hreystiverk Hrólfs konúngs, er eigi sè skrifuð í þessari sögu; kemr þat mest þartil, at menn hafa þar eigi sannar frásagnir af, þvíat þessi saga kemr lítt við aðrar sögur, þvíat þessa sögu segja eigi allir eins, þá kemr þat fram, at þat þikist annar heyra, er annar heyrir ekki í frásögum; ok lýkr hèr nú Hrólfs sögu Gautrekssonar.

# SAGA

## HERRAUÐS OK BÓSA.

## Sagan af Herrauði ok Bósa[1].

Hríngr hefir konúngr heitit, er rèð fyrir Eystra-Gautlandi, hann var son Gauta konúngs, sonar Óðins, er konúngr var í Svíþjóð, ok kominn var utan úr Asíam[2], ok frægstar konúngaættir eru frákomnar hèr í Norðrlöndum. Þessi konúngr Hríngr var bróðir Gautreks ens milda at faðerni, en móðerni átti hann göfugt. Hríngr[3] konúngr átti Sylgju, dóttur Sæfara[4] jarls af Smálöndum; hún var fríð kona ok vel skapi farin. Bræðr hennar voru þeir Dagfari ok Náttfari; þeir voru hirðmenn Haralds konúngs hilditannar, er þá rèð fyrir Danmörk ok mestum hluta Norðrlanda. Þau áttu einn son, sá hèt Herrauðr, hann var mikill vexti ok fríðr sýnum, sterkr at afli, vel at íþróttum búinn, svâ

[1]) *þannig D;* Saga af Bögu-Bósa, *með nýrri hendi A; v. í hin. A, B, D, V bæta þessu við yfirskriftina:* Saga þessi helst eigi af lokleysu þeirri, sem (kátir, *b. v. D, V.*) menn hafa (skrökkva, *B, D, V.*) sèr til gamans eðr skemtunar með ófróðligum setníngum, heldr sannar hún sik sjálf með rèttum ættartölum ok fornum orðskviðum, er menn hafa iðugliga af þeim hlutum, sem í þessu æfintíri, (þessari sögu, *B, D.*) eru skrifaðir, *en skinnbókin C sleppir því.* [2]) Asia, *D.* [3]) *hèr endar fyrsta brot af B.* [4]) Sævara, *V.*

at fáir menn máttu við hann jafnast. Hann var vinsæll af öllum mönnum, en ekki hafði hann mikit ástríki af feðr sínum, ok olli þat því, at konúngr átti son annan frilluborinn, ok unni hann þeim meira; sá er nefndr Sjóðr; konúngr átti hann í æsku sinni, ok var hann fulltíða maðr, þá er [Herrauðr var barn[1]. Konúngr fèkk honum lèn mikit, ok var hann ráðgjafi konúngsins, ok tók hann saman skatta konúngs, leiðángr ok landskyldur, ok var fyrir öllum útlátum ok inntektum, ok þótti flestum hann frekr í útheimtum, en fastr í útlyktum[2] ok launum, en hollr var hann konúngi, ok vildi hans jafnan fullastan, ok hófst af því sá málsháttr af hans nafni, [at sá er[3] kallaðr öðrum sjóðfeldr, er honum sèr mesta hagsmuni, ok geymir bezt eptir. Sjóðr samdi til þess púnga, þá er síðan voru kallaðir fèsjóðar, at geyma í silfr þat, er hann tók í skuldir konúngs, en þat sem hann tók meir, enn tilstóð, gjörði hann (at) smápúnga, ok kallaði hann þat slæg[4], ok umventi hann því til kostnaðar, en landaurum var óbrigt. Ekki var Sjóðr þokkasæll af mönnum, en konúngr unni honum mikit, ok lèt hann einn öllu ráða.

2. Maðr er nefndr Þvari, hann bjó ekki lángt í burtu frá konúngsatsetunni, hann var kallaðr BrynÞvari; hann hafði verit víkíngr

1) *sagan gjörðist, C, D.* 2) lyktum, *D.* 3) *þannig C, D*; ok þá, *A.* 4) slægpúnga, *F.*

mikill enn fyrra hluta æfi sinnar, en þá hann var í hernaði, mætti hann skjaldmey einni, er Brynildr hèt; hún var dóttir Agnars konúngs úr Nóagörðum[1]; þau börðust, ok bárust sár á Brynildi, þángat til er hún var óvíg, tók Þvari hana þá til sín ok mikin fjárlut með henni; hann lèt græða hana at heilu, ok var hún síðan öll hnýtt ok baglöð[2], ok var hún því kölluð Brynildr baga. Þvari gjörði brullhlaup til hennar, ok sat hún á brúðbekk með hjálm ok brynju; þó voru ástir þeirra góðar. Lagði Þvari þá af hernað, ok settust þau í bú; þau áttu tvo sonu, ok hèt Smiðr enn ellri; hann var ekki mikill maðr vexti, manna fríðastr, slýngr við allar íþróttir, ok svâ hagr at hann lagði á allt gjörfa hönd. Bósi hèt annar son þeirra, hann var mikill vexti, sterkr at afli, dökklitaðr ok ekki mjök fríðr, líkr móður sinni bæði at skaplyndi ok sköpun, kátr ok keskimáll ok þráfylginn, því sem hann tók upp, ok ekki mjök fyrirleitinn við hvörn, sem hann átti; móðir hans unni honum mikit, ok voru þau um marga hluti mjök skaplík; hann var kendr við móður sína ok kallaðr Bögu-Bósi, hafði hann ok margar tiltekjur til þess, bæði í orðum ok verkum, at honum var þat sannnefni. Busla hèt kerlíng, hún hafði verit frilla Þvara karls; hún fóst-

[1]) Nóatúnum, *C, D, F.* [2]) bömluð, *C, D.*

raði sonu karls, þvíat hún kunni mart í töfrum. Smiðr var henni miklu eptirlátari, ok nam hann mart í töfrum. Hún bauð Bósa at kenna honum galdra, en Bósi kveðst ekki vilja, at þat væri skrifat í sögu sinni, at hann ynni nokkurn hlut sleitum[1], þat sem honum skyldi með karlmensku telja. Mjök var nær um aldr þeirra Herrauðar konúngssonar ok karlssona, ok var vinngott með þeim, ok var Bósi jafnan í konúngsgarði, lögðu þeir Herrauðr lag sitt saman. Sjóðr vandaði um þat, at Herrauðr gaf Bósa klæði af sèr, því hans voru jafnan í sundr rifin, þótti hann ok harðleikinn, ef hann var at leikum, en engi þorði um at vanda fyrir Herrauði, því hann mælti allt eptir honum. Nú beiddi Sjóðr, at hirðmenn konúngs skyldi lemja hann úr leik[2].

3. Þat var nú eitthvert sinn, at konúngrinn hafði leik þat, er soppleikr heitir; ok var þá leikit af kappi, ok gjörðu þeir nú leik til Bósa, en hann tók hart í móti, ok gekk hönd úr liði á einum konúngs manni; annan dag braut hann lærlegg í manni; en hinn þriðja dag veittust at honum tveir menn, en margir óþægðu honum; sló hann augat úr einum með soppinum, en annan feldi hann, brotnaði hann á háls; hlupu þeir þá til vopna, ok vildu drepa Bósa, en Herrauðr stóð hjá honum með þá

[1]) með göldrum, *V.* [2]) ok gerðu þeir leik at Bósa, *b. v. D.*; en þeir tóku ekki gull við grjóti, *b. v. V.*

menn, sem hann gat fengit, ok var búit við sjálft, at þeir mundu berjast, áðr enn konúngr kom til; en við tillögur Sjóðs gjörði konúngr Bósa útlægan, en Herrauðr kom honum undan, svâ honum varð ekki náð. Litlu síðar beiddi Herrauðr föður sinn at fá sèr herskip ok röskva menn til fylgðar, því hann kveðst vilja úr landi ok afla sèr meiri frægðar, ef þess yrði auðit. Konúngr bar þat mál fyrir Sjóð, en hann kveðst ætla, at sneiðast mundu fèhirðslurnar, áðr enn Herrauðr væri svâ heiman gjörr, sem honum líkaði. Konúngr segir, at þeir skyldu við þat leita, ok varð svâ at vera, sem konúngr vildi; var nú búin ferð Herrauðs með miklum fèkostnaði, ok var hann vandr at öllu; ok kom þeim (bræðrum) lítt saman; hafði hann fimm skip úr landi, ok voru þau flest öll forn; vaska menn hafði hann með sèr ok mikit fè í gulli ok silfri; sigldi hann svâ út af Gautlandi, ok suðr til Danmerkr. Einn dag, [er þeir sigldu með landi fram[1] í miklu veðri, þá stóð maðr nokkur á bjargi, ok beiddi fars. Herrauðr kveðst eigi gjöra sèr króka til hans, en kvað far til reiðu, ef hann næði skipinu. Þessi maðr stökk af björgum, ok kom niðr á sveifinni[2], ok var þat fimtán álna lángt hlaup. Þar þektu þeir Bósa; Herrauðr fagnaði honum vel, ok kvað hann skyldu vera stafnbúa á skipi sína. Síðan sigldu þeir til Saxlands, ok herjuðu, hvar sem þeir fóru. Þeim varð gott til fjár, ok fóru þeir svâ fimm vetr.

[1]) *b. v. C, D, F.* [2]) fyrir utan stýrit, *b. v. C, D. F.*

4. Nú er at taka til heima í Gautlandi, þá Herrauðr var í burtu, skoðaði Sjóðr fèhirðslur föður síns, voru þá tómar kistur, ok svâ töskur allar, ok varð honum opt sama á munni: man ek þat, sagði hann, at öðruvís var í þenna sjóð at líta. Síðan bjóst Sjóðr heiman, at taka saman skatta föður síns ok skyldr, ok var hann þá frekr í flestum útheimtum. Hann kemr til Þvara, ok kallar þar leiðángr, sem annarstaðar; Þvari kveðst fráeldr herferðum, ok því aunga leiðángr gjöra. Sjóðr kvað hann eiga meira leiðángr at gjöra enn aðrir menn, kvað hann því ollat hafa, at Herrauðr var úr landi (farinn), ok beiddi bóta fyrir þá menn, er Bósi hafði meitt; en Þvari sagði, at maðr ætti sjálfr at ábyrgjast sik, hvort er hann gengi til leiks eða glímu, ok kveðst eigi austroka[1] fè sínu fyrir slíkt; stóð þá í deilu með þeim, braut Sjóðr upp útibúr Þvara karls, ok tók i burtu tvær gullkistur ok meira fè annat í vopnum ok klæðum, ok skildu þeir við svâ búit. Fór Sjóðr heim, ok hafði mikinn fjár afhlut; sagði hann konúngi frá ferðum sínum. Konúngr kvað þat illa, er hann hafði rænt Þvara karl, ok kveðst þat ætla, at honum mundi þat illa gegna. Sjóðr kveðst eigi sakast um þat. Nú er at segja frá Herrauði ok Bósa[2], at þeir búast at sigla heim úr hernaði; þá höfðu þeir frètt, at Sjóðr hafði rænt Þvara karl; ætlaði Herrauðr þá at friða fyrir

1) ausa út, *C, D.* 2) *skrifast nú optast í A:* bbe, (þ. e. Bögu-Bosi; *hèr* bba.

Bósa, ok sætta þá, ef þess yrði auðit; þeir fengu veðr svâ mikil, at skip þeirra skildust; týndust skip þau öll, sem Herrauðr hafði heiman haft, en Herrauðr komst tvö skip í Elfarsker, en Bósa rak til Vinnlands[1] einskipa; þar lá fyrir Sjóðr með tveimr skipum, nýkominn úr Austrveg, ok hafði hann keypt konúngi dýrgripi; en er Bósi vissi þat, bað hann sína menn vopnast, lagði hann til fundar við Sjóð, ok spurði, hverju hann vildi bæta, at hann hafði rænt þvara karl, en Sjóðr kvað hann firna djarfan, er hann þorði slíkt at mæla, þar sem hann var áðr útlagi konúngs, ok kvað honum vel yfir at láta, ef þèr mistuð eigi meira. Bósi bað hann taka vopn sín, sló þá í bardaga með þeim, ok lauk svâ, at Bósi varð banamaðr Sjóðs, gaf hann þá grið þeim, sem eptir voru af hans mönnum, en tók at sèr skipit ok allt þat á var; en þegar honum gaf byr, sigldi hann undir Gautland, ok fann þar Herrauð, fóstbróður sinn, ok sagði honum tíðindin, en Herrauðr sagði honum, at þat mundi eigi bæta vinsældir við konúng: eða því fórt þú á minn fund, svâ nær mèr sem þú hafðir höggvit. Ek vissi, segir Bósi, at mèr mundi eigi tjá, at forðast þik, ef þú vildir illu til þín snúa[2], en ek þóttumst þar allt traust eiga, sem þú vart. Kalla má, segir Herrauðr, at litill mannskaði væri at Sjóð, þó mèr væri

[1]) *Vinlands*, *C*; *Vindlands*, *D*; *Finnlands*, *V*. [2]) *slá*, *C*, *D*, *V*.

skyldr, ok mun ek fara á fund föður míns, ok freista, ef ek gæti sætt ykkr. Bósi kveðst eigi vænta mikils lètta af konúngi, en Herrauðr sagði at eigi dygði ófreistat. Ferr Herrauðr á fund föður síns, ok gekk fyrir hann, ok kvaddi hann virðuliga. Faðir hans tók honum fáliga, því hann hafði frètt áðr sameign þeirra Bósa ok Sjóðs. Herrauðr mælti til föður síns: þar er til bóta at sjá, sem þèr eruð, Bósa, fèlaga minn, hefir hent slis mikit, hann hefir vegit Sjóð, son þinn, þó at sakir væri nokkrar til, ok viljum vèr bjóða sættir, ok fè svâ mikit, sem þú vilt sjálfr kjósa, ok þarmeð vort fylgi ok hylli, ok slíka þjónustu, sem þèr villð hann krafit hafa. Konúngr segir þá reiðugliga: mikit kapp leggr þú á, Herrauðr! at fylgja illmenni þessu, mundi mörgum þikja þèr betr standi, at hefna bróður þíns ok vorrar svívirðíngar. Herrauðr segir þá: lítill mannskaði var at Sjóð, veit ek ok eigi, hvort hann var minn bróðir eðr eigi, þóat þú hèldir mikit til hans, þikir mèr þú eigi virða mik svâ mikils, at þú vilt eigi sættir taka fyrir mínar (bænir); en ek þikjumst þó bjóða betra mann í staðinn í þá þjónustu, sem hann hafði. Þá mælti konúngr reiðr mjök: allt þitt formæli, þat sem þú veitir Bósa, skal mikit spilla til, þegar ek get honum náð, skal hann uppi hánga miklu hærra, enn menn vita dæmi til, at nokkur þjófr hafi svâ hátt hángit. Þá segir Herrauðr reiðr: ok þat munu margir

mæla, at (þèr) kunnið eigi sóma yðvarn at þiggja, en með því at þú vilt mik einkis virða, þá mátt þú til þess ætla, at eitt skal yfir okkr gánga, Bósa ok mik, ok skal ek svâ verja hann sem sjálfan mik, ok mèr endist líf til ok karlmenska, ok munu þat þó margir mæla, at nógu dýr muni þá keyptr einn ambáttarson, ef þèr gefið oss við. Snèri Herrauðr þá í burtu reiðr mjök, ok lètti eigi, fyrr enn hann fann Bósa, ok sagði honum, hversu þeir feðgar höfðu skilit.

5. Hríngr konúngr lætr nú kalla saman lið sitt ok blása herblástr, ok ferr til móts við þá fóstbræðr, ok sló þar þegar í bardaga með þeim; hafði konúngr lið hálfu meira eða þrjú[1] slík. Þeir fóstbræðr gengu vel fram, ok drápu margan mann, en þó voru þeir ofrliði bornir, ok voru þeir herteknir ok settir í fjötra, ok kastat í myrkvastofu, en konúngr var svâ reiðr, at hann vildi þegar láta drepa þá, en Herrauðr var svâ vinsæll, at allir mæltu undan, ok var þá fyrst skipt herfángi, ok grafnir enir dauðu; voru margir menn í dagþíngan við konúnginu, at hann skyldi taka sættir af Herrauð, ok var hann leiddr fyrir konúng. Konúngr bauð honum grið, ok lögðu margir þar vel til, en Herrauðr kveðst eigi grið vilja þiggja, nema Bósi hefði bæði lífs grið ok lima, en konúngr sagði þess aungva von; Herrauðr kveðst

1) þrenn, *D.*

þess manns bana verða skyldu, sem rèði lífláti Bósa, ok eigi konúngi hlífa, heldr enn öðrum. Konúngr sagði þá, at þá færi eigi illa, at sá hefði brek, sem beiddist; var konúngr þá svâ reiðr, at eigi mátti orðum við hann koma, ok bað at leiða Herrauð aptr í myrkvastofu, skyldi þá báða drepa um morguninn, ok þótti flestum nú óvænliga horfa. Þetta kveld kom Busla kerlíng at máli við Þvara karl, ok spurði, hvort hann ætlaði eigi at bjóða fè fyrir son sinn, en hann kveðst eigi austroka fè sínu, kveðst vita, at hann gæti eigi keypt þeim manni líf, sem deyja skyldi, ok spurði, hvar nú væri komin töfr hennar, at hún veitti eigi Bósa nokkut lið, en hún kvað sèr eigi mega gaungumannligar fara enn honum. Þetta kveld et sama kom Busla í þat herbergi, sem konúngr svaf í, ok hóf upp bæn þá, sem síðan er kölluð Buslubæn, ok hefir hún víðfræg orðit síðan, ok eru þarí mörg orð, sem kristnum mönnum er þarfleysa í munni at hafa, ok þetta er upphaf á:

Hèr liggr Hríngr konúngr[1],
hilmir Gauta,
einráðastr
allra manna;
ætlar þú son þinn
sjálfr at myrða,
þau munu [sjálfdæmi
spyrjast[2] víða.

1) v. í V. 2) fádæmi frèttast, C, D, V.

Heyr þú bæn Buslu[1],
[hún mun brátt[2] súngin,
[svâ at heyrast skal
um heim allan,
ok óþörf öllum,
þeim sem á heyra,
en þeim[3] fjandligust,
sem ek vil fortala[4].
Villist[5] vættir[6]
verði ódæmi[7],
hristist hamrar,
heimr sturlist,
vesni veðrátta
verði ódæmi;
nema[8] Hríngr konúngr[9]
Herrauð friði
ok Bögu-Bósa[10]
bjargir veiti.
Svâ skal ek [þjarma
þèr at brjósti[11],
at hjarta þitt[12]
höggormar gnagi,
en eyru þín
aldri heyri,
en augu þín

1) mína, *V.* 2) er brátt mun, *V.* 3) þó, *b. v. C.* 4) *Istað þess frá* [ *hefir V:* yfir hausa mótum ok hvirfli þínum óþörf þeim er á hana hlýða, en þèr fjandligust í frásögu minni. 5) villi, *V.* 6) þik, *b. v. V.* 7) undranir, *V.* 8) þú, *b. v. V.* 9) *v. í V.* 10) honum Bósa, *V.* 11) brjosti þínu brátt þrugandi, *V.* 12) *v. í V.*

[úthverf snúist[1];
nema þú Bósa
björg um veitir
ok Herrauði
heipt uppgefir.
Ef þú siglir
slitni reiði,
[ef stýrir[2]
stökkvi krókar,
rifni reflar,
reki segl ofan,
en akttaumar[3]
allir slitni;
[nema þú Herrauð
heipt uppgefir
en Bögu-Bósa
biðir[4] til sætta[5].
Ef þú ríðr,
raskist taumar,
heltist hestar[6]
en hrumist klárar,
en götur allar
ok gagnstigar[7],
troðist tvefaldar[8]
[í tröllhendr fyrir þèr[9];
nema þú Bósa

1) út at hverfist, *V.* 2) en af stýri, *C, D, V.* 3) auktaumar, *V.* 4) bjóðir, *D.* 5) nema þú Bósa bjargir veitir ok honum H. h. u, *V.* 6) hestr þinn, *V.* 7) geinstigar, *V.* 8) allar, *C, D*; á við þèr, *V.* 9) svá þú tapir vegi, *V.*

björg um veitir,
ok Herrauði
heipt uppgefir.
Sè þèr í hvílu,
sem í hálmeldi[1],
en í hásæti,
sem á hafbáru;
[þó skal þèr síðar
sýnu verra,
ef þú vilt við meyjar
manns gaman hafa,
[villr ert þú[2] vegarins[3],
vilt þú þulu lengri.

Þá segir konúngr: þeigi þú, vond vættr! ok vert í brutu, elligar mun ek láta meiða þik fyrir forbænir þínar. Svâ höfum við ok fundizt, segir Busla, at við munum eigi skilja, fyrr enn ek hefi fengit minn vilja. Konúngr vildi þá uppstanda, ok var hann fastr við sængina, en smásveinar vöknuðu eigi, lèt Busla þá fara annan þriðjúng bænarinnar, ok mun ek láta um líða, at skrifa hann, en þó er þetta upphaf á:

Tröll ok álfar
ok töfra nornir,
búar bergrisar
brenni þínar hallir,
hati[4] hrímþussar

[1]) stráeldi, *D.* [2]) villstu þá, *C, D.* [3]) *I stað þess frá fyrri [ hefir V*; en þó skal þèr seinna synum vera; villtu meira mit gaman hafa eða. [4]) þik, *b. v. C, D.*

[hellir þínar[1],
stráin stángi þik,
[stofnar ángri[2] þik,
verði þèr vei,
nema þú vilja minn gjörir.

En þá er sú þula var úti, segir konúngr henni: fyrr enn þú illmælir meir, þá mun ek gefa Herrauði líf, en Bósi fari úr landi, ok sè dræpr ok tiltækr, nær sem ek get áhent hann. Þá skal taka þèr fram betr, segir hún; hóf hún þat, er Syrpuvers heitir, ok mestr galdr er í fólginn, [ok eigi er lofat at kveða eptir dagsetr, ok er þetta þar í nær endanum:

Komi hèr seggir sex,
seg þú mèr nöfn þeirra!
öll óbundin,
ek skal þèr sýna,
getr þú eigi raðit,
svâ at[3] rètt þiki,
þá skulu þik hundar
í hel gnaga,
en sál þín
sökkva í víti[4].

R. A. Þ. ᛉ. ᛘ. ᚢ. IIIII. ꝺꝺꝺꝺꝺꝺ: ᛏᛏᛏᛏᛏᛏ:
IIIII: ᛚᛚᛚᛚᛚ:

Ráð nú þessi nöfn, svâ at rètt sè, elligar hríni þat allt á þèr, sem ek hefi þèr verst beðit, ok þessir karlar kunna þèr verst at biðja, nema þú gjörir minn vilja[5]. Konúngr vissi þá varla, hverju

[1]) hestar troði þik, *D.* [2]) en stjörnur (stormr, *D*) æri, *hin.* [3]) mèr, *b. v. C.* [4]) *þannig hin; v. í A.* [5]) *þat frá:* ok eigi er lofat, *v. í D.*

svara skyldi fyrir forbænum kerlíngar. Hverr er þinn vili? sagði konúngr; sett þú þá forsendíng, (segir kerlíng), svâ at tvísýni sè á, hvort þeir haldi lífinu, ok ábyrgist þeir sik sjálfir. Konúngr bað hana þá í burt fara, en hún vildi ekki, fyrr enn konúngr sór henni eið, at hann skyldi halda þat, sem hann lofaði, enda skyldi Buslubæn eigi á honum hrína; hvarf kerlíng þá í burtu.

6. At morni dags er konúngr snemma uppi, ok lèt blása til þíngs, ok voru þeir þángat leiddir Herrauðr ok Bósi, spurði konúngr þá ráðgjafa sína, hvat við þá skyldi gjöra; en flestir báðu konúng vægja fyrir Herrauð. Þá mælti konúngr til Herrauðs: lítils vilt þú virða mik, segir konúngr, en nú vil ek gjöra þat fyrir bæn vina minna, at Bósi skal hafa lífs grið ok lima; hann skal fara úr landi, ok eigi aptr koma, fyrr enn hann færir mèr þat gammsegg, er skrifat er með gullstöfum utan, ok erum við þá sáttir, en elligar skal hann heita hvers manns níðíngr; en Herrauðr fari hvort sem hann vill, fylgi Bósa eða gjöri sjálfr ráð fyrir sèr, því eigi munu við samvistum saman vera at svâ búnu; voru þeir fóstbræðr þá leystir, fóru þeir þá til Þvara karls, ok dvaldust hjá honum um vetrinn. En þegar er voraði, bjuggu þeir ferð sína úr landi, ok höfðu eitt skip ok á [fjóra menn ok tuttugu[1]; fóru þeir mjök at tilvísan Buslu;

[1]) sextigi ok tveir, V.

sigldu þeir þá í Austrveg, komu undir Bjarmaland, ok lögðu undir einn eyðiskóg.

7. Hárekr hèt konúngr, er þá rèð fyrir Bjarmalandi; hann var kvongaðr, ok átti tvo sonu, hèt annar Hrærekr, en annar Siggeir; þeir voru kappar miklir ok hirðmenn Goðmundar konúngs af Glæsisvöllum, ok landvarnarmenn hans. Dóttir Háreks konúngs hèt Edda, hún var fríð sýnum ok flesta luti vel kunnandi. Nú er at segja frá þeim fóstbræðrum, at þeir voru komnir undir Bjarmaland, ok lágu undir skógi þeim, er Vínuskógr heitir; þeir reistu þar tjald á landi, þar var leyni nokkut ok fjarri mannavegum. Um morguninn sagði Bósi mönnum sínum, at þeir Herrauðr mundi gánga á land ok kanna skóginn, ok vita, hvers þeir yrði vísir: en þèr skulið bíða okkar hèr mánuð, en ef við komum þá eigi aptr, þá skulu þèr sigla, hvert sem þèr vilið, því þá erum við eigi lífs. Mönnum þeirra þótti mikit fyrir þessu, en þó varð svâ at vera, sem þeir vildu. Síðan gengu þeir fóstbræðr á skóginn, ok höfðu þat eitt til matar, sem þeir skutu, dýr ok fugla, en stundum höfðu þeir eigi nema ber ok safa. Skógrinn ónýtti mjök klæði þeirra. Einn dag komu þeir at húsabæ nokkrum; þar stóð karl úti, ok klauf skíð; hann heilsaði þeim, ok spurði þá at nafni; þeir sögðu til et sanna, ok spurði, hvat karl hèt, en hann kveðst heita

Hóketill; hann kvað þeim til reiðu nætrgreiða, ef þeir vildi, en þeir þökkuðu honum, ok sögðust gjarnan vilja; fylgði karl þeim til stofu, ok var þar fáhjúat; húsfreyja var við aldr, dóttur áttu þau væna, ok dró hún klæði af gestum, ok voru þeim fengin þur klæði; síðan voru laugar fram látnar, ok var þeim reist borð, ok gefit gott öl at drekka, en bóndadóttir skeinkti. Bósi leit opt hýrliga til hennar, ok stè fæti sínum á rist henni, ok þetta bragð lèk hún honum. Um kveldit var þeim fylgt at sofa með góðum umbúníngi; bóndi lá í lokreykju, en bóndadóttir í miðjum skála, en þeim fóstbræðrum var skipat í stafnsæng við dyr utar; en þá fólk var sofnat, stóð Bósi upp, ok gekk til sængr bóndadóttur, ok lypti klæðum af henni; (hún) spyrr, hvat þar væri; Bósi sagði til sín, kveðst vilja undir klæðin hjá henni: því mèr er eigi hægt, þar sem um mik var búit, [ok gaf henni gullhríng, ok gekk í sængina til hennar, ok fór allt vel með þeim, en þá er af voru blíðu brögð, birti Bósi fyrir henni um ferðir sínar, ok[1] spurði, hvort hún vissi eigi til, hvert at leita skyldi at gammseggi því, sem við bræðr erum eptir sendir, ok gullstöfum var ritat, en hún kveðst eigi minna mundu launa honum gullit

[1]) *þannig V; í hinum handritum stendr nokkut frekara um fundi þeirra, sem ekki gerir til sögunnar.*

ok góða nætrskemtan, enn segja honum, þat er hann vildi vita: en hverr var þèr svâ reiðr, at þik vildi feigan ok senda þik forsendíng: eigi gengr álit til alls, ok verðr engi frægr af öngvu, eru þeir ok margir hlutir, at opt snúast til gæfu, þóat háskasamliga sè stofnaðir.

8. Hèr í skógi þessum stendr hof mikit, þat á Hárekr konúngr, er hèr ræðr fyrir Bjarmalandi, þar er göfgat goð, þat er Jómali[1] heitir, þar er gull mikit ok gersemar; fyrir því hofi ræðr móðir konúngs, sú er Kolfrosta heitir, hún er mögnöð af blótskap, at henni kemr engi hlutr á óvart; hún veit þat fyrir með kynstrum sínum, at hún á eigi at lifa út allan þenna mánuð, því fór hún hamfari austr á Glæsisvöllu, ok nam í burtu Hleiði, systur Goðmundar konúngs, ok ætlar at hún skuli vera hofgyðja eptir sik; en þat er þó skaði mikill, því hún er allra meyja kurteisust, ok væri betra at þat færist fyrir. Hvat er til vandhæfa í hofinu? (segir Bósi). Gammr er þar, segir hún, svâ grimmr ok bölvaðr, at hann drepr allt, þat sem fyrir verðr; hann horfir beint í móti dyrum, ok þekkir allt, þat inn kemr, ok er því aungu lífs at vænta, er verðr fyrir klóagángi hans eða eitri; þræll einn er í hofinu, hann vaktar mat gyðjunni, tvævetra kvígu þarf hún í mál; undir þessum gammi er egg þat, er þú ert eptir sendr; griðúngr einn er í hofinu, tryldr ok

[1]) *þannig hin*; Jómanne, *A.*

blótaðr, hann var bundinn með járnviðjum, hann skal skjóta kvíguna, blandast þá ólyfjan við hana, ok tryllast þeir allir, sem af eta, hana skal matgjöra fyrir Hleiði konúngs systur, ok verðr hún þá líka tröll, sem hofgyðjan var áðr; nú þikir mèr óvænt um, at þú munir sigra óvættir þessar við svâ mikinn tröllskap, sem um er at eiga. Bósi þakkaði henni sögu sína, sofa þau síðan til dags. En at morni fór hann til Herrauðs, ok sagði honum, hvat hann hafði frètt, dvaldust[1] þeir þar þrjár nætr, en síðan fóru þeir í burtu; sagði bóndadóttir þeim til, hvat þeir skyldu stefna til hofsins, ok mælti vel fyrir þeim at skilnaði; fara þeir nú leið sína. Einn morginn snemma sáu þeir, hvar maðr fór, mikill vexti í grám kufli; hann leiddi með sèr naut, þeir þóttust vita, at þat mundi þrællinn, stiltu þeir nú at honum; Bósi sló hann kylbuhögg, ok varð þat hans bani; síðan drápu þeir kvíguna, síðan flóu þeir af henni belg, ok stoppuðu upp með mosa ok lýng, síðan fór Herrauðr í kufl þrælsins, ok leiddi eptir sèr kvígubelginn, en Bósi steypti kápu sinni yfir þrælinn, ok bar hann á baki sèr, þangat til sem þeir sáu hofit; þá tók Bósi spjót, ok rak í rass þrælnum, ok neðan eptir honum endilaungum, svâ at oddrinn tók út um við herðarnar, gengr síðan

[1]) duldust, *C.*

at hofinu, ok gekk Herrauðr inn í hofit í búníngi þrælsins; hofgyðjan var þá í svefni; Herrauðr leiddi kvíguna á básinn, en leysti síðan griðúnginn, en hann hljóp upp á kvíguna, mosabelgrinn varð veikr fyrir, ok rak griddi höfuðit í múrinn, ok braut af sèr hornin, en Herrauðr greip í eyrun ok í granirnar, ok snaraði hann úr hálsliðinum; þá vaknaði hofgyðjan[1], ok hljóp á fætr; í þessu kom Bósi inn, ok bar þrælinn upp yfir sèr á spjótsoddinum; gamminn brá við skjótt, ok steypti sèr ofan úr hreiðinu, ok ætlaði at gleypa þann, sem inn var kominn, [svalg hann nú þrælinn ofan at midti[2]; Bósi þrysti spjótinu, ok gekk þat í gegnum háls gamminum, allt þángat til at stóð í hjartanu; gammrinn festi klærnar í [kryppu þrælsins[3], en setti vænghnúann við eyra Bósa, svâ hann fèll í óvit; fèll gammrinn ofan á hann, ok voru hans fjörbrot eigi lítil. Herrauðr rèð á kerlíngu, ok var þeirra (atgángr) enn harðasti, hafði kerlíng illa skornar neglr, ok reif hún hold hans niðr at beini; bárust þau þángat at, sem Bósi var fallinn, þar var blóðugt mjök, varð kerlíngu hált á blóðinu, ok fèll á bak aptr, voru þá sviptíngar miklar með þeim, voru ýmsir undir; Bósi raknaði þá við, ok greip höfuð griðúngsins ok rak á nasir kerlíngu, en Herrauðr sleit af henni höndina í axlarliðinum[4], en

[1]) gyngrin, *C.* [2]) *b. v. C, D.* [3]) þjóinn á þrælskrokknum, *C, D.* [4]) tók henni nú at dofna leikrinn, *b. v. C, D.*

í fjörbrotum hennar varð landskjálfti mikill; þeir gengu nú um hofit ok rannsökuðu í hreiðri gamínsins, fundu þeir eggit, ok var þat allt með gullstöfum ritat; þar fengu þeir gull svâ mikit, at þeir höfðu nóg at bera; þeir kvomu at stalli þeim, sem Jómali[1] stóð á; af honum tóku þeir gullkórónu, setta með tólf gimsteinum, ok men þat sem kostaði 3 hundruð marka, ok úr knjám honum tóku þeir silfrbolla svâ stóran, at aungvir fjórir menn mundu afdrekka; hann var fullr af rauða gulli, en pell þat, sem tjaldat var um Jómala[2], var meira vert heldr enn þrír farmar af drómundi þeim, er ríkastr gekk um Grikklandshaf; þetta tóku þeir allt til sín. Þeir fundu afstuku eina í hofinu, ok var hún komin mjök leyniliga; þar var fyrir steinhurð sterkliga læst, ok voru þeir allan dag upp at brjóta, áðr enn þeir kvomust inn. Þeir sáu þar konu sitja á stóli, eigi höfðu þeir aðra vænni sèð; hár hennar var bundit við stólbrúðir; þat var fagurt sem hálmr barinn eða gullteinn nýskafinn; járnfestur var um hana miðja sterkliga læst at henni; hún var grátin mjök; en er hún sá mennina, þá spurði hún, hvat ylli ókyrleika þeim, er verit hefir í morgin: eða því þikir ykkr líf ykkvart svâ íllt, at þið fýsizt híngat í trölla hendr, þvíat þeir, sem hèr ráða fyrir, munu þegar drepa ykkr, at vart verðr við ykkr;

---

1) *þannig C, D, F*; Jómanus, *A*. 2) *þannig*.

en þeir sögðu, [at mörgu svaraði frestinu[1], ok spurðu þó at, hvat hún hèt, eðr því hun væri þar svâ harðliga haldin; en hún sagðist Hleiðr heita, ok vera systir Goðmundar konúngs af Glæsisvöllum: en tröllkona sú, er hèr ræðr fyrir, sótti mik þángat með fjölkýngi, ok ætlar at ek skula gánga fyrir blótum í hofinu[2], þá hún er dauð, en ek vildi fyrri gánga á loganda bál. Góð mundir þú þeim manni, segir Herrauðr, er þik leysti undan þessu ánauðaroki; hún kveðst vita, at þat mundi engi geta gjört; mundir þú til vilja vinna, at vera mín kona, ef ek kæmi þèr hèðan í burtu? Aungvan veit ek þann menskan mann svâ leiðan, at ek mundi eigi heldr vilja eiga, enn vera blótuð hèr í hofinu; eða hvert er nafn þitt? Herrauðr heiti ek, segir hann, sonr Hríngs konúngs af Eystra-Gautlandi, en eigi þarf þú at óttast hofgyðjuna hèðan af, þvíat við Bósi höfum [sèð ráð fyrir henni[3], en til þess mátt þú ætla, at ek (muni) sæmda verðr þikjast, ef ek leysi þik hèðan; ek hefi eigi meira í veð at setja, enn sjálfa mik, (segir hún,) ef þat er vill frænda minna; ekki mun ek leita giptínga til frænda þinna, (segir Herrauðr), en aungan vil ek undandrátt í þessu máli, en eigi skal nauðoka þik til kaupa nokkra, því ek þikjumst þèr eigi varboðinn, ok skal leysa þik sem

1) frest mundi verða á um hríð á þeirra atgjörðum, *V.* 2) ok vera hèr ablhadís, *b. v. C, D, V.* 3) súngit yfir hausamótum hennar, *C, D, V.*

áðr; eigi veit ek þann mann, segir hún, at ek mundi heldr kjósa enn þik af öllum þeim, sem ek hefi sèð; eptir þat leysti hann hana, ok kveðst þá vildu gjöra, hvort er hún vildi, at fara heim með sèr, ok gjörði hann brullhlaup til hennar, eðr senda hana austr á Glæsisvöllu, ok sjá hana aldrei síðan; en hún kjöri at fara með honum, ok lofaði hvort öðru sinni trú. Eptir þat báru þeir út gull allt úr hofinu ok gersemar, en síðan lögðu þeir eld í hofit, ok brendu upp alltsaman, svâ at ekki sá örmul nema öskuna, fóru síðan í burtu með fèð, þat sem þeir höfðu fengit, ok lèttu eigi fyrr, enn þeir kvomu aptr til Hóketils karls, ok dvöldust þeir þar eigi lengi hjá þeim karli ok kerlíngu, gáfu þeir þeim fè mikit, en báru á mörgum hestum gull ok gersemar til skips síns, ok urðu menn þeirra þeim fegnir.

9. Þessunæst sigldu þeir burt af Bjarmalandi, sem byrgaf, ok er þá eigi getit fyrr um ferðir þeirra, enn þeir kvomu heim í Gautland, ok höfðu þeir þá tvo vetr í burtu verit; gengu þeir þá fyrir konúng, ok færði Bósi honum eggit, ok var þá brotin ranf á skurninni, ok voru þar í 10 merkr rauða gulls, hafði konúngr skurnit fyrir borðker síðan. Bósi gaf konúngi kerit, þat sem þeir tóku af Jómala[1], ok voru þeir nú sáttir. Í þenna tíma komu þeir til hirðar Hríngs konúngs, Dagfari ok Náttfari, bræðr drottníngar, ok voru þeir sendir af Haraldi Hilditönn í liðs-

1) *þannig hin*; Jómanu, *A.*

bón, þvíat þá skyldi vera bardagi á Brávöllum, er mestr hefir verit á Norðrlöndum, sem segir í sögu Sigurðar Hríngs, föður Ragnars loðbrókar. Hríngr konúngr bað Herrauð fara fyrir sik, en hann kveðst skyldu geyma brúðar hans á meðan, ok skyldu þeir þá vera sáttir um allt þat, sem þeirra hefir í millum farit. Herrauðr gjörði nú, sem faðir hans beiddi, ok fóru þeir Bósi með þeim bræðrum með fimm hundruð manns til móts við Harald konúng. Í þessi orrostu fèll Haraldr konúngr, ok með honum fimtán konúngar annars hundraðs, sem segir í sögu hans, ok margir kappar þeir sem konúngum voru meiri; þar fèllu þeir Dagfari ok Náttfari; en þeir Herrauðr ok Bósi urðu báðir sárir, en þó kvomu þeir báðir aptr úr bardaganum, ok höfðu þá orðit umskipti í Gautlandi, meðan þeir voru burtu.

10. Nú tökum vèr þar til máls, at Goðmundr konúngr frá Glæsisvöllum saknar systur sinnar, ok var hennar leita farit bæði á sjó ok á landi, ok kunni hana eigi upp at frètta. Þeir bræðr Hrærekr ok Siggeir voru þá með Goðmundi konúngi. Konúngr bað Siggeir at bindast fyrir at leita Hleiðrar, ok vinna þat til eiginorðs við hana, en Siggeir kveðst ætla, at eigi mundi auðvelt at finna hana, ef hofgyðjan á Bjarmalandi vissi eigi til hennar. Síðan bjuggust þeir úr landi, ok höfðu fimm skip, ok fara nú þángat til, sem þeir kvomu til Bjarmalands, ok fundu Hárek

konúng, ok sögðu honum sín erendi, en hann sagði, at þeir skyldu fara til hofsins, ok eigi mundi laust fyrir liggja, ef Jómali[1] eða gyðjan vissi eigi til. En litlu síðar fóru þeir til hofsins, fundu þeir þar öskudýngju, en eigi sáu þeir örmöl nokkurs þess í hofinu átti at vera; fóru þeir þá um skóginn, ok komu til bygða karls ok kerlíngar, ok frèttu eptir, hvort þau vissi eigi til, hverr hofinu hefði grandat, en karl kveðst eigi þar til vita, en sagðist þó vita, at tveir gauzkir menn hefði legit undir Vínuskógi lengi, hèt annar Herrauðr, en annar Bósi, ok kvað sèr þá þikja líkasta til, at hafa gjört þetta stórvirki, en bóndadóttir sagði, at hún hefði fundit þá í veginum, þá þeir fóru til skips, ok með þeim hefði farit Hleiðr, systir Goðmundar af Glæsisvöllum, ok kvað þá svâ hafa sèr sagt, at hennar mætti til þeirra leita, ef nokkur vildi eptir henni leita. Eptir þat stefna þeir bræðr at sèr liði um allt Bjarmaland, ok fengu þeir þrjú skip ok 20; sigldu þeir síðan til Gautlands, ok komu þeir þar í þann tíma, sem þeir fóstbræðr voru í bardaganum á Brávöllum, ok var Hríngr konúngr fámennr heima, buðu þeir konúngi bardaga, elligar gefa upp meyna. Konúngr kjöri heldr at berjast; urðu þar skjót umskipti, fèll þá Hríngr konúngr ok mestr hluti liðs hans, en þeir tóku meyna, en ræntu fènu ok miklum gersemum, ok fóru í burtu síðan, ok

[1]) *þannig hin*; Jómanni, *A.*

lèttu eigi fyrr, enn þeir kvomu heim á Glæsisvöllu, ok varð Goðmundr konúngr feginn systur sinni, ok þakkaði þeim fyrir ferðina, ok þótti þeirra ferð orðin en frægasta. Siggeir biðr nú Hleiðrar, en hún var treg til þess, [ok kvað þat makligt, at sá nýti sín, sem hana hafði frelsat úr tröllahöndum[1], en konúngr kvað hann vel til þess hafa unnit: á ek ok at ráða giptíngu þinni, segir konúngr, skal ok eigi útlendum höfðíngjum gagnast at eiga þik, ef þú vilt eigi vorum ráðum hlýta, varð nú svâ at vera, sem konúngr vildi; [látum þá nú búast við brullhlaupi sínu, því at þeir hyggja gott til sín[2].

11. Tökum nú þar til, at þeir Herrauðr ok Bósi kvomu heim hálfum mánaði síðar enn þeir Siggeir sigldu í brutu; sakna þeir nú vinar í stað; taka þeir ráðagjörðir sínar, sótti Bósi föður sinn at ráðum, en hann sagði þeim, at þeir mundi ofseinir, ef þeir söfnuðu miklu liði, ok sögðu at þeir mundi heldr ná konúngsdóttur með djúpsettum ráðum ok snörum atburði; varð þetta ráð þeirra, at þeir bjuggu eitt skip, ok völdu þrjátigi manna. Smiðr skyldi fara með þeim, ok hafa forsögn alla ok skipun á siglíng þeirra, lagði hann[3] ok mörg ráð til með þeim; sigldu þeir nú, þegar þeir voru búnir. Þá var Smiðr svâ byrsæll, at hafði nógan byr ávalt, þegar hann stýrði, ok verðr ferð þeirra með meira

[1]) *b. v. hin.* [2]) en þat mætti verða, at þeina spjöll yrði á boðinu, *b. v. C, D*; *frá* [ *v. í V.* [3]) þeim, *ofaukið í A*; Karl ok Busla, *C, D.*

flýti, enn líkindi þætti á vera, kvomu þeir vonu bráðara austr í Glæsisvöllu, ok lögðu skipi sínu undir einn eyðiskóg. Smiðr hafði hulinshjálm yfir skipi þeirra; þeir gengu á land Bósi ok Herrauðr, kvomu þeir at húsabœ litlum ok kyrfiligum; þar bjó karl ok kerlíng; þau áttu dóttur væna ok vel kunnandi; bóndi bauð þeim nætrgreiða; þeir þágu þat; þar voru góð hýbyli; þá var áliðinn dagr, ok var þeim unninn beini, ok voru tekin upp borð fyrir þá, ok gefit munngát at drekka, ok var þar gott öl; bóndi var fálátr ok óspurull, en þó borðaði hann með þeim; bóndadóttir var þar miklu mannúðugust af þeim, skeinkti hún gestum; Bósi var glaðlátr við hana, ok gjörði henni nokkrar glíngur; hún gjörði ok svâ í móti. Um kveldit var þeim fylgt at sofa, en þegar at ljós voru slokin, þá kom Bósi þar sem bóndadóttir lá, ok lypti klæðum af henni; hún spurði, hvat þar væri, en Bósi sagði til sín; hvat vilt þú híngat? segir hún; [ek vil skemta þèr, sagði hann, ok gaf henni fíngrgull, ok gekk í sængina til hennar[1]; ok skemtu þau sèr um nóttina; hún spurði hann, hvaða manni hann væri, en hann sagði til et sanna, ok spurði í mót, hvat þar væri títt í landi, en hún sagði at þat væri nú nýast, at þeir bræðr Hrærekr ok Siggeir hefði náð Hleiði, konúngs systur, en drepit Hríng konúng í Gautlandi: ok þeir eru

[1]) *þannig V; í hinum handritunum stendr nokkuð frekara um fundi þeirra.*

nú svâ frægir orðnir af þeirri ferð, at þeirra líkar skal eigi vera í öllum Austrvegi; ok konúngr hefði gefit Siggeir systur sína, væri þat í móti hennar vilja, ok skyldi nú brullhlaupit vera innan þriggja nátta; en þeir eru svâ varir um sik, at þeir hefði njósn á hverri götu ok í hverrihöfn, ok mætti ekki á óvart koma, þvíat þeim þikir aldrei örvænt, nær þeir Herrauðr ok Bósi kynni at vitja meyjarinnar: konúngr hefir látit gjöra sèr höll svâ mikla, at á henni eru hundrað dyra, ok er jafnlángt í milli allra, hundrað manns má rúmliga í (vera) millum hverja dyra; tveir dyraverðir eru við hverjar dyr, ok skal engi mega inngánga, nema sá er þektr væri við einshverjar dyrnar, en sá, sem hvergi væri þektr, þann skyldi taka ok hafa í varðhaldi, þángat til er prófaðist, hvat manni er hann væri; sæng stendr á miðju hallargólfi, ok eru þar fimm pallar upp at gánga, þar skal liggja brúðrin ok brúðguminn, en hirðin öll skal vaka, ok má þeim því eigi á óvart koma. Hverir eru menn með konúngi, segir Bósi, þeir er hann heldr mest af? sá heitir Sigurðr, segir hún, hann er ráðgjafi konúngs, ok svâ mikill meistari til hljóðfæra, at hans líki er engi, þó allvíða leiti, ok mest â hörpu slátt; hann er farinn til frillu sinnar, hún er ein bóndadóttir hèr við skóginn, hann lætr sauma sèr klæði

ok semr hljóðfæri sín; eigi er nú getit um skraf þeirra fyrst at sinni, sofa þau af um nóttina.

12. Um morguninn snemma kemr Bósi til Herrauðs, ok segir honum, hvat hann hefir frètt um nóttina; en síðan bjuggust þeir burtu frá karli ok kerlíngu[1]; fóru þeir at tilvísan bóndadóttur, þángat til sem þeir sáu bæ þann, er Sigurðar var von; þeir sáu, hvar Sigurðr fór ok einn sveinn með honum, ok stefndu heim til borgarinnar; þeir gengu á veg fyrir Sigurð; Bósi drap Sigurð, en Herrauðr kyrkti sveininn til bana, síðan tók Bósi þá, ok fló belg af þeim báðum, ok fór síðan til skips síns, ok sögðu Smið, hvat þeir höfðu afrekat, gjörðu þeir þá ráð sín. Smiðr færði Bósa í nágrímuna, en hann fór sjálfr í aðra; síðan fór Bósi í klæði Sigurðar, en hann fór sjálfr í þann búníng, sem sveininn hafði átt, ok hafði hans nágrímu fyrir sèr; sögðu þeir Herrauði fyrir, hversu hann skyldi bera sik at, fara nú síðan heim til borgarinnar, komu þeir at þeim hallardyrum, sem Goðmundr konúngr var sjálfr fyrir, þóttist hann þar kenna Sigurð, ok fagnaði honum vel, var Sigurðr nú innleiddr, tók hann þegar at sèr fèhirzlur konúngs, ölgögn ok kjallara, ok hefir skipun á, hvert öl fyrst skal drekka, ok segir byrlurum fyrir, hversu ákaft þeir skulu skenkja, segir, at þat varðar mestu, at menn verði et fyrsta kveld sem drukn-

[1]) ok gaf Bósi dóttur hans fíngrgull, ok var eyr í innan, *b. v. C.*

astir, því þar eymir lengst af. Þessunæst var höfðíngjum í sæti skipat ok bruðrin innleidd ok á bekk sett, ok með henni margar meyjar hæverskar. Goðmundr konúngr sat í hásæti, ok Siggeir brúðgumi í hjá honum, Hrærekr[1] þjónaði brúðgumanum; eigi er hèr greint, hversu höfðíngjum var skipat, en þess getr at Sigurðr sló hörpu fyrir brúðunum; ok þá at full voru innborin, töluðu menn, at hans líki mundi engi vera, en hann kvað þar lítit mark at fyrst; en konúngr bað hann eigi afspara. En þá inn kom þat minni, at signat var Þór, þá skipti Sigurðr um slaginn, tók þá at ókyrrast allt, þat sem laust var, bæði knífar ok borðdiskar, ok allt þat sem laust var ok engi hèlt á, ok fjöldi[2] manna stukku upp úr sætum sínum, ok lèku á gólfinu, ok gekk þetta lánga stund; þvínæst kom inn þat minni, sem helgat var öllum Ásum, skipti Sigurðr þá enn um slagina, ok stillti þá svâ hátt, at dvergmáli kvað á öllu; stóðu þá upp allir þeir, sem í höllinni voru, nema brúðrin ok brúðguminn ok konúngrinn, ok var nú allt á ferð ok flaug í höllinni, ok gekk því lánga stund. Konúngr spurði, hvört hann kynni eigi fleiri slagi, en hann segir at eptir væri enn nokkrir slagir, ok bað fólkit hvílast fyrst; settust menn þá niðr fyrst, ok tóku til drykkju; sló hann þá

1) Hárekr, *hèr ok framvegis*, C, D. 2) *hèr v. blað í A; tekið úr Aa.*

Gýgjarslag ok Draumbút[1] ok Hjarrandahljóð; en þvínæst kom inn minni, þat var signat Óðni, ok lauk Sigurðr þá upp hörpunni, hún var svâ mikil, at maðr mátti standa rètir í[2] henni, hún var öll sem á rauða gull sæi; þar tók hann upp hvíta glófa gullsaumaða, ok sló þá þann slag, at Faldafeykir heitir, stukku þá faldarnir af konunum, ok lèku þeir fyrir ofan þvertrèn, stukku konurnar ok allir mennirnir, ok engi hlutr var sá, at kyrr þyldi; en þá þetta minni var afgengit, þá kom inn þat minni, er helgat var Freyju, ok átti þat síðast at drekka, tók Sigurðr þann streng, er lá um alla þvera strengina, hann hafði hann ekki fyrr slegit, ok bað konúnginn búast við ramma slag, en konúngi brá svâ við, at hann stökk upp, ok svâ brúðrin ok brúðguminn, ok lèku nú öngvir vakrari, ok gekk þessu um lánga stund; tók Sigurðr nú sjálfr hörpuna, en Smiðr tók í hönd brúðinni, ok lèk nú allra vakrast; hann tók borðbúnað af stólnum, ok kastaði upp í sængina, þegar hann sá sèr færi á. En frá Herrauði er þat at segja, at hann lætr menn sína fara með sjónum, ok meiða öll þau skip, sem í nánd voru, svâ ekki var sjófært; suma hefir hann heima í borginni, ok báru þeir til sjófar gull ok silfr, er Smiðr hafði lagt honum til handargagns; var nú mjök húmat, sumir fóru uppá glugginn,

1) Drambuslag, *V*. 2) maganum á, *b* v. *C*, *D*, *V*.

ok skynjuðu, hvat inni var, ok dróu út um gluggin, þat sem upp var kastat í sængina, en sumir *færðu til skipa*, ok fermdu skip, ok snèru stöfnum frá landi sem skjótast.

13. Þat berr nú næst til tíðinda, at þá þeir lèku sem glaðast í konúngs höll, at maðr kemr í höllina, sá var mikill vexti ok fríðr sýnum, hann var í rauðum skarlazkyrtli, ok silfrbelti um sik ok gullhlað um enni, hann var slippr, ok fór leikandi sem aðrir, þángat (til) hann kom fyrir konúnginn; hann reiðir þá upp hnefan, ok drepr um nasir konúngi svâ mikit högg, at úr honum stukku þrjár tennrnar, en blóð stökk úr nösum hans ok munni, en hann fèll sjálfr í aúngvit. Sigurðr sèr þat, ok kastar hörpunni upp í sængina, en rak báða knefana milli herða honum; hann snèri undan, en Sigurðr eptir honum ok þeir Siggeir ok allir aðrir, sumir styrmdu yfir konúngi. Smiðr tók í hönd brúðinni, ok leiddi hana upp í sængina, ok læsti hana innan í maga hörpunar, en þeir drógu hana út um gluggin, sem úti voru, ok svâ sjálfan hann með, ok flýttu sèr til skipsins, gengu síðan út á skipit, var sá þá þar kominn, er konúnginn hafði slegit. Sigurðr gekk út á skipit, þegar hann kom, en Siggeir eptir honum með brugðit sverð. Sigurðr snèrist aptr í móti honum, ok hratt honum á kaf; urðu þá hans menn at draga hann á land verr enn dauðan, en Smiðr

hjó landfestina, settust þeir til ára, ok dróu segl upp, ok gjörðu bæði, at sigla ok róa, ok lètu gánga út á haf. Hrærekr hljóp til skips, ok margir menn með honum, en þegar skipum var fram hrundit, fèll þar í kolblár sjór, ok var því eigi eptir þeim farit, ok varð því svâ búit at vera; voru ok allir drukknir, svâ at þeir voru verr enn ráðlausir, snúa nú heim til hallar, ok var þá konúngr viðraknaðr, ok þó lítils máttar; leituðu þá menn við at næra hann, en[1] hann var mjök máttdreginn, en veizlan snèrist í sút ok sorg. Þá er konúngr tók at hressast, gjörðu þeir ráð sín, kom þeim þat ásamt, at slíta eigi fjölmenni, ok búast sem skyndiligast at fara eptir þeim fóstbræðrum. Látum þá nú búast, en víkjum nú aptr til þeirra fóstbræðra; þeir sigla þángat til, sem þeir vissu, at vegirnir skildust, ok lá annar til Bjarmalands; bað Bósi þá Herrauð sigla heim til Gautlands, en hann kveðst eiga erendi til Bjarmalands, en Herrauðr kveðst eigi við hann skiljast, ok spurði, hvat í erendum væri, en hann sagði, at þau mundi síðar birtast. [Smiðr bauð at bíða þeirra fimm nætr. Bósi sagði, at þeim mundi þat vel endast[2], tóku þeir bátinn, ok fóru í bruttu, ok kvomu nær bæ Háreks konúngs; þeir földu bátinn undir leyni nokkut, ok gengu til bygða; þar bjó karl ok kerlíng, þau áttu

[1]) *hèr byrjar aptr A.* [2]) *v. í C*; gendast, *rángt A.*

dóttur væna, þar var vel við þeim tekit; at kveldi voru borð upptekin ok laugar framlátnar, ok var þeim gefit gott vín at drekka. Bósi leit þá hýrliga til bóndadóttur, en hún veitti honum þat í móti, en litlu síðar fóru menn til sængr. Bósi kom til sængr bóndadóttur; hún spurði, hvat hann vildi; [en hann kvaðst mundi gleðja hana gersemi; lèku þau af um nóttina[1]. Ok síðan töluðust þau við, ok spurði hún, hvaðan hann væri; hann sagði til et sanna, ok spurði, hvort hún væri nokkut í kærleikum við Eddu konúngsdóttur; hún sagðist opt koma í skemmu til hennar, ok vera þar vel tekin: ek mun hafa þik at trúnaðarmanni, segir hann; ok mun ek gefa þèr þrjár merkr gulls, en þú skalt koma Eddu konúngsdóttur í skóginn til mín. Hann tók úr púngi sínum þrjár valhnotur, þær voru sem á rauðagull sæi, ok fèkk henni, ok bað hana segja konúngsdóttur, at hún vissi í leyniligum stað, at slíkar hnetur væri nógar; en bóndadóttir svaraði, ok kvað hana eigi upporpna fyrir einum, kvað henni fylgja at jafnaði geldíng þann, er Skálkr hèt, ok væri svâ sterkr, at hann hefði 12 karla afl, hvat sem prófa þyrfti. Bósi kveðst þat eigi hirða, ef eigi væri við fleirum at sjá. Um morgininn snemma fór hún at finna konúngsdóttur, en þeir Bósi fóru í skóginn;

[1]) *þannig V; en í hinum stendr nokkuð frekara um fundi þeirra. Hèr byrjar B.*

hún sýndi konúngsdóttur gullhneturnar, ok sagði, at hún vissi, hvar at slíkar fyndist; fóru þær nú í skóginn, ok þrællinn með þeim. Nú verðr Bósi ok Herrauðr varir við, hvar þau fara, ok snúa til móts við þau; Bósi heilsaði konúngsdóttur, ok spurði, því hún færi svâ einmana; hún kvað eigi hættligt um þat; hann kvað þat vera, sem takast vildi, ok tók hann þá til konúngsdóttur, ok bað hana gjöra annathvort, fara viljuga með sèr, eðr hitt at hann gjörði þar brullhlaup til hennar þar í skóginum. Þrællinn spurði, hverr þessi væri svâ firnadjarfr, at slík ódæmi þyrði at tala, en Herrauðr bað hann þegja. Þrællinn hafði klumbu stóra, ok sló til Herrauðar, en hann brá við skildinum, ok var höggit svâ þúngt, at skjöldrinn brotnaði í sundr. Herrauðr hljóp undir þrælinn, en hann tók sterkliga í móti, voru þat sviptíngar stórar, ok fór þrællinn hvergi á hæl. Þá kom Bósi at, ok tók fætr undan þrælnum, ok lagði hann snöru á háls honum, ok heingðu hann þar á viðinum; en síðan tók Bósi konúngsdóttur, ok setti hana á handlegg sèr, ok bar hana svâ til skips, lètu síðan frá landi, ok lèttu eigi fyrr, enn þeir fundu Smið. Konúngsdóttir barst lítt af, en þegar er Smiðr hafði orð við hana, þá tók af henni allan óhug, ok sigldu þeir síðan heim til Gautlands.

14. Tökum nú þar til máls, sem þeir Goðmundr konúngr ok Siggeir búa lið sitt, ok sigla eptir þeim fóstbræðrum, ok höfðu þeir ógrynni hers; en svâ hafði Goðmundi konúngi orðit þúngr pústr Herrauðar, at eigi var hann ferðugr at fara þessa ferð, ok skyldi Siggeir ok þeir bræðr hafa veg ok vanda af þessi ferð. Þeir höfðu fjörutigi skipa af Glæsisvöllum, en þeir juku þó mörgum við í ferðinni; fóru þeir nú, til þess er þeir koma til Bjarmalands, ok fundu Hárek konúng, ok höfðu þeir Bósi ok Herrauðr fyrir litlu þaðan siglt, ok hafði Hárekr konúngr þá fulla vissu yfir, at þeir hefði tekit í burtu dóttur hans, hafði hann þá búit lið sitt, ok hafði hann fimtán[1] skip öll stór ok vel skipuð, slæst hann nú í ferð með þeim bræðrum, höfðu þeir þá alls 60 skipa, sigla nú til Gautlands. Er þat at segja frá þeim Herrauði ok Bósa, at þegar þeir kvomu heim, söfnuðu þeir at sèr múg ok margmenni, ok vildu vera búnir við, ef þeim væri eptirför veitt, en halda þá [brullhlaup sitt, er færi gæfist á[2]. En Þvari karl hafði látit smíða spjót ok örvar, á meðan þeir voru í burtu, ok var nú eigi lángt at bíða, áðr enn þar kom saman mikit fjölmenni; en þann dag, sem þeir ætluðu sitt brullhlaup at setja, kvomu þeir Hárekr konúngr ok synir hans með liði sínu, ok var

[1]) 12, *C.* [2]) brullaupin, er gott tóm gæfist, *B, C, D.*

nú eigi alþíngis þausnalaust[1], lèt Herrauðr leggja skipum sínum út í móti þeim, hafði hann lið mikit ok frítt, en þó höfðu þeir miklu meira, sem til voru komnir; Bósi lagði sínu skipi út í móti skipi Háreks, en Herrauðr í móti Siggeiri, þurfti eigi at sökum at spyrja, tókst nú bardagi með þeim, ok voru hvorirtveggju hinir áköfustu. En er bardaginn hafði eigi lengi staðit, rèð Siggeir til uppgaungu á skip Herrauðar, ok varð skjótt mannsbani. Sniðill hèt stafnbúi Herrauðar, hann skaut spjóti at Siggeir, en hann tók spjótit á lopti, ok skaut aptr at þeim, er sendi; spjótit fló í gegnum Sniðil, ok svâ lángt í skipsstafninn, at hann nísti hann þar við. Herrauðr snèri í mót Siggeir, ok lagði til hans með atgeirnum, hann gekk í gegnum skjöldinn, en Siggeir snaraði svâ hart skjöldinn, at Herrauði varð laus skjöldrinn[2], en hann hjó til Herrauðar, ok kom á hjálminn, ok tók af fjórðúnginn, ok fylgði þar et hægra eyrat, en Herrauðr greip upp ruddu stóra, er lá á þilunum, ok sló á nasir Siggeirs, svâ at blikit gekk at andlitinu, ok brotnaði í honum nefit, ok úr honum allar tennurnar, stökk hann öfugr aptr á skip sitt; ok fèll þá í óvit, ok lá mjök lengi. Smiðr barðist drengiliga. Hárekr konúngr komst uppá skip Smiðs við 12ta

[1]) þusulaust, *C*; þausulausn, *B*, *D*. [2]) atgeirinn, *B*, *C*, *D*.

mann, ok ruddist um fast; Smiðr snèrist í móti honum, ok hjó til hans með saxi því, sem Busla kerling hafði gefit honum, því hann bitu eigi ákvæðalaus vopn; höggit kom framan um þverartennurnar, ok brotnuðu þær úr honum allar, en gómbeinit brotnaði, varirnar báðar sprúngu, ok hljóp þar úr blóð mikit; en við þetta högg brá honum svâ, at hann varð at flugdreka, ok spjó eitri yfir skipit, fengu þar bana margir menn; hann steypti sèr niðr at Smið, ok gleypti hann upp í kjapta sèr, ok svelgði hann niðr í sik, ok varð þat hans bani; þá sáu þeir, hvar fugl fló af landi ofan, sá er skergípr[1] hèt, hann hefir höfuð svâ mikit ok hræðiligt, at fjandanum er tiljafnat; hann rèðst í móti drekanum, ok er þeirra atgángr hræðiligr at sjá, en svâ lauk þeirra skiptum, at þeir fèllu báðir niðr, ok fèll skergíprinn[2] niðr í sjóinn, en drekinn kom niðr í skipi Siggeirs. Herrauðr var þá kominn uppá skip Siggeirs, ok lèt gánga kylfuna á báðar hendr, sló hann þá til Siggeirs. Í öðru sinni kom þat högg undir eyrat, ok brotnaði í Siggeiri allr hausinn, en hann hraut fyrir borð, ok sökk til grunna, ok kom aldrei upp síðan. Hárekr konúngr raknaði nú við, ok varð at einum gelti; hann greip til Herrauðar með tönnunum, ok reif af honum alla brynjuna[3], ok festi tennr í hans brjósti,

[1]) skergreppr, *V.* [2]) skergygrinn, *C ok A hèr.* [3]) brínguna, *C.*

ok reif af honum báðar geirvörturnar niðr af beini, en hann hjó í móti á trýni geltinum, ok tók af fyrir framan augun; var Herrauðr þá svâ móðr, at hann fèll á bak aptr, en galtinn trað hann undir fótum, en gat þá eigi bitit, er af var trýnit; kom þá glatúngs[1] hundtík mikil upp á skipit, hún hafði stórar vígtennr; hún reif rauf á náranum á geltinum, ok rakti þar úr þarmana, ok hljóp fyrir borð; en Hárekr var þá í mannslíki, ok steypti sèr fyrir borð eptir henni, ok sukku þau til grunna, ok kom hvorki upp síðan; þótti mönnum, sem mundi verit hafa Busla kerlíng, þvíat hún sást aldrei síðan.

15. Bögu-Bósi er nú kominn uppá skip Hræreks, ok berst alldrengiliga; hann sèr, hvar faðir hans flaut með borðinu mjök mátt-dreginn, stökkr hann þar fyrir borð, ok hjálpaði honum, ok kom honum upp í skip sitt; en þá var Hrærekr kominn á skipit, ok hafði drepit margan mann; en Bósi kom þá upp á skipit, ok var þá ákafliga móðr, en þó rèði hann í móti Hræreki, ok hjó í skjöldinn, ok klauf hann allan niðr í gegnum, ok af honum fótinn í ristarliðnum, sverðit kom í vindásinn, ok stökk í sundr í miðjunni. Hrærekr hjó í móti; Bósi snèrist undan á hæli, sverðit slapp af hjálminum, ok niðr á herðarnar, ok reif af Bósa alla brynjuna, ok fèkk hann sár á báðum herð-

[1]) glatúns, *B*, *C*, *D*.

arblöðunum, gekk svå niðr um allt bakit; öll[1] klæði rifnuðu af honum, svå hann var allr nakinn eptir, ok af enum vinstra fæti hælbeinit. Bósi þreif upp vindásdökkuna[2], en Hrærekr ætlaði þá at hlaupa fyrir borð. Bósi sló hann í sundr við skipborðinu með öllum herklæðunum; var nú fallinn mestr hluti liðs þeirra; buðu þeir þeim þá grið, sem eptir voru, ok urðu þeir glaðir við þat; kanna þeir nú lið sitt, ok var eigi betr enn hundrað manna liðfært af öllum her þeirra fóstbræðra; áttu þeir nú miklum sigri hrósa, skipta þeir síðan herfángi, fóru síðan heim til borgar, voru þá bundin sár manna, ok græddir þeir sem þess varð auðit.

16. Síðan bjuggust þeir við brullhlaupum sínum, ok skorti þá eigi tilfaung bæði góð ok nóg, stóð sú veizla mánuð fullan, ok voru menn virðuligum gjöfum í burt leystir; var Herrauðr þá til konúngs tekinn yfir öll þau ríki, er faðir hans hafði átt. En litlu síðar söfnuðu þeir liði, ok fóru til Bjarmalands, ok beiddi Bósi sèr þar viðtöku, ok taldi þat til, at Edda ætti land allt eptir föður sinn, er nú var orðin eiginkona Bósa, kveðst hann svå mega helzt bæta landsmönnum þann skaða, sem þeir hefði af honum fengit, at hann væri konúngr þeirra, ok styrkja þá með góðum rèttarbótum; en með því at þeir voru höfðíngjalausir, þá sáu

[1]) *hèr endar B.* [2]) vindaspíkuna, *C, D.*

þeir eigi vænna, enn taka hann til höfðíngja yfir sik, en þeim var Edda áðr kunnig at góðum siðum; tók Bósi síðan undir sik Bjarmaland, ok gjörðist konúngr yfir; en hann átti son við frillu sinni, þeirri sem hann fann í skóginum, sá hèt Sviði enn sókndjarfi, er var faðir Vilmundar viðutan; þá gerðist Bósi höfðíngi mikill; hann fór austr á Glæsisvöllu, ok sætti þá Goðmund konúng ok Herrauð, fór (Herrauðr síðan) heim í Gautland, ok gerðist mikill höfðíngi; þau Hleiðr unnust mikit; þeirra dóttir var Þóra borgarhjörtr, er átti Ragnar loðbrók. Svâ segir, at í gammsegginu því, er þeir sóktu til Bjarmalands, fyndist lýngormr[1], sá er gullslitr var á, ok gaf Herrauðr hann dóttur sinni í tannfè, en hún lèt leggja undir hann gull, ok óx hann svâ mikit, at hann lá í kríngum skemmu hennar, ok varð svâ grimmr, at engi maðr þorði at koma í skemmuna, nema jarl ok sá maðr er orminum færði mat, oxa gamlan þurfti hann í mál, ok þótti hann hit mesta meinvættr, ok heitstrengði Herrauðr þess, at hann skyldi þeim einum manni gipta dóttur sína, sem þyrði at gánga í skemmuna til máls við hana, ok afrèði orminn, en þat þorði engi, fyrr enn til kom Ragnar, son Sigurðar Hríngs; sá Ragnar var síðan kallaðr loðbrók, ok tók hann þat nafn af klæð-

[1]) ymlíngr, *C*, *D*, *V*.

um þeim, sem hann lèt gjöra sèr, þá hann vann orminn; [ok lúkum vèr nú hèr sögu Bögu-Bósa[1].

---

[1]) sem segir í hans sögu, en frá Bósa er eigi annat sagt, enn hann yrði ágætr konúngr, ok stjórnaði vel ok lengi. Ekki segir, hvort hann ætti börn við drottníngu sinni eðr eigi, en sonr Herrauðar er sagt at hafi verit Rigarðr, faðir Konráðs, sem fór í Ormaland, *V*.

## Hèr hefr Gaungu-Hrólfs sögu[1].

SVA byrjar[2] þessa frásögu, at Hreggviðr er konúngr nefndr; hann átti at ráða fyrir [Hólm-

---

[1]) *C hefir eptirfylgjandi inngáng*: Margar frásagnir hafa menn samansett til skemtanar mönnum, sumar eptir fornskræðum eðr fróðum *mönnum*, ok stundum eptir fornum *bókum*, *er í fyrstu* hafa settar verit með stuttu máli, en síðan orðum fyldar, því flest hefir seinna verit, enn sagt er; verða menn jafnan misfróðir, því þat er optliga annars sýn ok heyrð, er annars er eigi, þó þeir sè við atburð staddir. Er þat ok margra heimskra manna náttúra, at þeir trúa því einu, er þeir sjá sínum augum eðr heyra sínum eyrum, er þeim þikkir fjarlægt sinni náttúru, svâ sem orðit hefir um vitra manna ráðagjörðir eðr mikit afl eðr frábæran lèttleika fyrirmanna, svâ ok eigi síðr um konstir eðr huklaraskap ok mikla fjölkýngi, þá þeir seiddu at sumum mönnum æfinliga ógæfu eðr aldrtila, en sumum veraldar virðíng, fjár ok metnaðar; þeir æstu stundum höfuðskepnur, en stundum kyrðu, svà sem var Oðinn eðr aðrir þeir, er af honum námu galdrlistir eðr lækníngar; finnst þar ok dæmi til, at sumir líkamir hafa hræríng haft af óhreins anda íhlæstri, svâ sem var Eyvindr kinnrifa í Olafs sögu Tryggvasonar eðr Einar skarfr eðr Freyr, er Gunnar helmíngr drap í Svíaríki. Nú verðr hvorki þetta nè annat gjört eptir allra hugþokka, þvíat enginn þarf trúnað á slíkt at leggja, meir enn fallit þikkir, er þat ok bezt ok fróðligast at hlýða, meðan frá er sagt, ok gera sèr heldr gleði at enn ángr, því jafnan er þat, at menn hugsa eigi aðra syndsamliga hluti, á meðan hann gleðist af skemtaninni; stendr þat ok eigi vel þeim, er hjá eru, at lasta, þóat ófróðliga eðr ómjúkliga sè orðum um farit, því fátt verðr full vandliga gert, þat er eigi liggr meira við enn um slíka hluti. [2]) ek, *b. v. B.*

garðaríki, er sumir menn kalla Garðaríki[1]; hann var[2] mikill at vexti, sterkr at afli, manna vænstr ok vopndjarfastr, hugarfullr ok bardagamaðr mikill, vitr ok ráðugr, stórgjöfull við vini sína, stríðr ok refsíngasamr við óvini sína; voru honum flestir hlutir vel gefnir[3]; mikillar ættar drottníngu hafði hann átta, ok er hún eigi nefnd, [ok því kemr hún[4] ekki við þessa sögu; dóttur eina barna átti hann við drottníngu sinni, er Íngigerðr hèt; allra kvenna var hún fríðust ok kurteisust, er í voru öllu Garðaríki, ok þótt víðara væri leitat; vizku ok málsnild bar hún yfir hvern mann; allar þær listir kunni hún, er kvennmanni sómdi, [ok þá plöguðu dýrar konur nær ok fjarri[5]; hún hafði hár svâ mikit, at vel mátti hylja allan hennar líkama, ok svâ fagrt sem gull eðr hálmr. Mikit unni konúngr dóttur sinni; hafði hún sèrliga herbergi innan borgar, [var þat ágætt herbergi at stöð ok sterkleika, ok forkunnliga gert með gull ok gimsteina; sat hún dagliga í þessu herbergi með þeim öðrum, er henni þjónuðu[6]. Hreggviðr konúngr var mjök við aldr í þann tíma. Svâ er sagt, þá er konúngr var á úngum aldri, lá hann mjök í hernaði, ok hann hafði [undir sik lagt um[7] ána

1) Hólmgarði, *C*; Garðaríki, *B*, *D*. 2) ríkr ok vinsæll, *b. v. B.* 3) at fornum sið, *b. v. B.* 4) þvíat hún kemr, *B.* 5) *v. í B.* 6) ágætliga vel innan búit með gull ok geimsteinum; henni þjónuðu 30 meyja, *B.* 7) siglt í, *B*, *C.*

Dýnu, [er fellr um Garðaríki[1], ok herjaði þaðan í Austrríki á ýmisligar þjóðir, þarmeð fèkk hann fásèna dýrgripi; þessi á er hin þriðja eða fjórða mest í heiminum. [At uppsprettu ár þessarar leitaði Íngvar hinn víðförli, sem segir í sögu hans[2]. Í þessari ferð var Hreggviðr konúngr 7 vetr samfleytt, hugðu menn hann þá dauðan. Eptir þat kom hann í Garðaríki, ok settist um kyrt; hann hafði fengit hest þann, er kunni manns máli, hann hèt Dúlcefal; skjótr var hann sem fugl, fimr sem [leo, mikill sem úlfr, enginn var honum líkr at mikilleika[3] ok afli; hann lèt eigi takast, ef sá fèkk ósigr, er honum reið, en ef honum varð sigrs auðit, þá fór hann [at sínum meistara[4]. Hann átti herklæði þau, er engi voru þvílík; hjálmr allr [gimsteinum settr, ok óvinnanligr fyrir harðleika sakir[5], brynja hans var öll þreföld af harðasta stáli ok björt sem silfr; skjöldrinn var bæði breiðr ok þykkr, svâ eigi bítu járn á; burstöng sú, er þar fylgði, var stinn ok seig, ok gaf hljóð af sèr, [sem klukka[6], ef henni var drepit á skjöldinn, en er ósigr var vís, gaf hún ekki hljóð af sèr; sverðit nam hvergi í höggi stað, ok beit með atkvæðum stál ok steina svâ sem blauta mannsbúka;

1) *v. í B.* 2) ár þeirrar *o. s. fr.*, *B*; þar hafði farit um áðr Eirekr víðförli, *C.* 3) íkorni, en líkastr leon at grimd, *B*; íkarni, mikill sem úlfaldi, en líkastr ljóni at grimmleik, *C.* 4) sjálfr at manni, *B.* 5) gulllagðr ok harðr sem fílsbein, svâ ekki vopn festi á, *B.* 6) *v. í B.*

þat var gert af gerjárni[1]; þat fellr í firði þeim, er Ger heitir; þat kann eigi ryðga nè stökkva. Hestrinn Dúlcifal var af [kyni drómedaríórum[2], svâ vorðnu[3] hestakyni. Aldri hafði Hreggviðr konúngr ósigr farit, síðan hann fèkk hestinn ok þessi herklæðin. Ríki hans var mjök herskátt, ok átti hann jafnan orrostur stórar ok hans menn. Konúngr hafði með sèr marga ráðgjafa ok vildarmenn; einn af þeim hèt Sigurðr, ok var kallaðr ullband, hann var sonarson[4] Hálfdánar rauðfels[5], sonar Brennu-Kára[6]; hann var ofrhugi mikill, vinsæll [við alþýðu ok gamall at aldri; hann hafði lengi verit með konúngi, ok fylgt honum vel í mörgum mannraunum[7].

2. Eirekr er konúngr nefndr, hann var [sjákonúngr, ok[8] ættaðr af Gestrekalandi; þat liggr undir Svía konúng[9]; þar eru menn sterkir[10] ok þussligir, harðir ok illir viðreignar ok fjölkunnigir. Eirekr konúngr var stór maðr ok rammr at afli, svartr ok stórskorinn mjök; hann lá úti vetr ok sumar með fjölda skipa, ok herjaði á ýmiss lönd, var hann hinn mesti hermaðr ok mjök óeirinn; systur átti hann fríða, er Gyða hèt, ok var hún jafnan með konúngi. Eirekr hafði marga berserki ok kappa í liði sínu, ok eru 4 nefndir af þeim; þat voru

[1]) gresjárni, *B.* [2]) Dremedióre, *B.* [3]) heitnu, *B, C.* [4]) son, *C.* [5]) rauðs, *B*; rauðnefs, *C.* [6]) *v. í B.* [7]) ok heilráðr, *B.* [8]) *v. í B.* [9]) ríki, *B.* [10]) stórir, *B.*

bræðr tveir, hèt annar Sörkver, en annar Brynjólfr, miklir ok sterkir voru þeir ok illir viðreignar, fjölkunnigir ok svâ galdrafullir, at þeir deyfðu eggjar í orrostum; Sörkver var þeirra sterkari ok burtreiðarmaðr mikill; þriði maðr var frændi konúngs, er Þórðr hèt, ok var kallaðr Hlèseyjarskalli, mikill ok sterkr; hann var ættaðr úr Hlèseyju í Danmörku, þar hafði hann uppvaxit; Grímr hèt fóstbróðir hans, ok kallaðr ægir; maðrinn var sterkr ok at öllu illr; ekki vissu menn kynferði hans eðr ætt, því Gróa[1] völva hafði fundit hann í flæðarmáli [í Hlèsey, en hún var móðir Þórðar, ok hafði[2] Grím[3] fóstrat ok uppfæddan, ok kendi honum svâ alla fjölkýngi, at enginn á Norðrlöndum var hans líki, þvíat hans eðli var ólíkt allra annarra manna náttúru. Þat er sumra manna ætlun, at móðir Gríms muni sjógýgr[4] nokkur verit hafa, því hann mátti bæði fara[5] í sjó ok vatni, ef hann vildi, var hann því ægir kallaðr[6]; hann át hrátt, ok drakk blóð bæði úr mönnum ok fènaði[7]; hann brást ok opt í ýmissa kvikinda líki, ok skipti hömum svâ skjótt, at varla festi auga á; hans andi var svâ heitr, at

---

[1]) *v. í B.* [2]) ok fóstraði Grím, ok kendi *o. s. fr.*, *B.* [3]) hann, C. [4]) *þannig C*; þó gýgr, *A*; sjógyðja, C. [5]) lifa, *B.* [6]) at, *b. v. A*, *C*; *v. í B.* [7]) öðrum skepnum, hann grenjaði sem vargr, ok gerði menn bæði blinda ok daufa, *B.*

menn þóttust brenna, þó herklæddir væri; hann spjó ok ýmist eitri eðr eldi á menn, ok deyddi með því bæði menn ok hesta, ok því stóðu honum aungvir. Eirekr konúngr hafði mikit traust á honum, ok öllum þeim, spörðu þeir ok ekki íllt at vinna.

3. Í þann tíma kom Eirekr konúngr með her sinn í ríki Hreggviðar konúngs; þeir drepa menn, brenna bygðir, en ræna fè, ok er landsmenn verða varir við ófrið þenna, fara þeir á fund Hreggviðar konúngs, ok segja honum sem vorðit var; en er hann frètti þessi tíðindi, lætr hann herör[1] uppskera, ok býðr öllum vígum mönnum á sinn fund, fèkk hann þó lítit lið, þvíat herinn bar snart at, en flestum segir þúngr hugr, hversu gánga mundi. Þenna sama morginn, áðr bardaginn skyldi vera, herklæddist Hreggviðr konúngr öllum sínum herklæðum; hann spenti gullmen at hálsi sèr, þat var allgóðr gripr; eptir þat girði hann sik sverðinu góða; hann tók burstöngina, ok drap á skjöldinn, ok gaf hún ekki hljóð af sèr. Hestrinn Dúlcifal vildi ok eigi láta takast, var hann eltr af mörgum mönnum, varð honum umsíðir komit inní djúpar traðir, gekk þá konúngr til, ok vildi taka hann; en þegar hestrinn sèr konúng, stökk hann út [yfir grindrnar[2] ok burt á skóg; þótti þetta öllum hin mestu undr, ok hugðu vísan ósigr,

[1]) boð, *B.* [2]) á garðinn, *B.*

ok gerðu eigi eptir honum at (leita). Hreggviðr konúngr lèt taka sèr hest annan, skjöld ok burstöng, en fèkk dóttur sinni skjöldinn ok burstöngina til varðveizlu; bjóst hann síðan til bardaga, ok allr herinn. Eirekr konúngr heimti saman allan sinn her, ok bað hvern duga, sem drengr væri til, ok spara nú ekki allskyns mátt, er hverr má frammi hafa. Grímr ægir segir: þat er skylt, herra! at hverr dugi sem getr, en ef vèr sigrum Hreggvið konúng, þá viljum vèr hèr staðfestast, ok vil ek þiggja einn land til yfirsóknar ok jarlsnafn. Þórðr, frændi þinn, skal með mèr fara, ok skal eitt yfir okkr gánga, en Sörkver ok Brynjólfr skulu með yðr fara, ok verja land fyrir yðr. Konúngr játar þessu, er Grímr mælti, ok sagði svâ vera skyldu; fylkja nú hvârirtveggju, ok síga saman fylkíngar; Eirekr konúngr var í öðrum fylkíngararmi sínum, en Grímr í öðrum. Liðsmunr var mikill, svâ at 4 voru um einn landsmanna. Hreggviðr konúngr fylkti móti Eireki konúngi, en Sigurðr ullband móti Grími ægi; varð þar hin snarpasta orrosta með höggum ok slögum, skotum ok grjótkasti, gengu hvorir í lið annars með ópi ok eggjan. Berserkir Eireks konúngs gengu fyrir fylkíngar fram, ok hjuggu niðr lið Hreggviðar konúngs sem hráviði, ok fellr hverr um þveran annan. Þetta sèr Sigurðr ullband, ok

höggr til beggja handa, þar til er hann mætir Þórði Hlèseyjarskalla, ok höggr til hans, en hann atti í mót skallanum, ok beit ekki á. Eptir þat hjó Þórðr Sigurð banahögg; fèll hann með góðum orðstýr; þetta sèr Hreggviðr konúngr, ok eirir illa falli Sigurðar, ok keyrir hestinn sporum, ok ríðr hart fram, ok höggr ok leggr til beggja handa bæði menn ok hesta, svâ allt hrökkr undan, beit sverðit sem í vatn brygði; umgerðin var öll gulli búin, þar er bæta þótti, ok í aptra[1] hjalti sverðsins voru leystir lífsteinar þeir, er eitr ok sviða drógu úr sárum, ef í voru skafnir, ríðr hann svâ styggr fram at merki Eireks konúngs, at hann hefir báðar hendr blóðgar til axla; stundum drap hann tvo eða þrjá í einu höggi, þartil er þeir komu í móti honum Grímr ægir ok Þórðr, ok hjuggu báðir senn til hans, en konúngr varðist svâ vel, at hann var ekki sár; í því blès Grímr með svâ miklum galdri, at hestrinn viknaði, svâ hann reiddi til falls; konúngr hljóp þá af baki, ok hjó þá enn til beggja handa, hlóð hann svâ háfan valinn í kríngum sik, at honum tók í belti; hann hjó þá tveim höndum til Gríms ægis, en hann blès ímót, svâ at sverðit hraut úr hendi honum; þá tók hann öxi eina, ok laust með hamrinum í skallann á Þórði, svâ hann lá lengi í óviti. Síðan hóf hann sik í lopt upp, ok hljóp út yfir valköst-

[1]) eptra, *B.*

inn; kom þá móti honum Eirekr konúngr, ok hjó með sverði til Hreggviðar, svâ þat gekk í sundr undir hjöltunum, en ekki beit á herklæðin; í því lagði Grímr ægir neðan undir brynjuna, svâ í gegnum stóð, með mæki; konúngrinn fèll þar með mikilli hreysti ok góðum orðstýr, ok þikir varla verit hafa frægri maðr í Garðaríki enn Hreggviðr konúngr; flýði þat lið allt, er eptir var, en þó var meiri hlutr fallinn. Mart hafði ok fallit af liði Eireks konúngs; var þá haldit upp friðskildi, ok gengu þeir til griða, er líf var gefit, ok þat vildu þiggja, en hinir drepnir, er eigi vildu þjóna Eireki konúngi, ok lýkr nú bardaganum. Eptir þat voru flettir dauðir menn, en konúngr gekk í borgina með sínu föruneyti, ok höfðu allskyns gleði með drykk ok hljóðfærum; líðr svâ af nóttin, en um morguninn kallar konúngr á Grím ægi, ok þá fèlaga, at þeir skyldu hitta konúngsdóttur, ok svâ gerðu þeir. En er þeir komu í herbergi hennar, þá heilsaði hún Eireki konúngi, ok var þó mjök grátin ok harmsfull. Eirekr konúngr gladdi hana, ok sagðist skyldu bæta henni mannamissi ok skaða þann, er hún hafði fengit: ok skaltu þiggja af mèr hverja bæn, er þú vilt beðit hafa, en oss samir at veita, ef þú vilt síðan oss samþykkja ok vorn vilja gera. Þá segir Íngigerðr konúngsdóttir: eigi má sá með rèttu konúngsnafn bera, er eigi heldr þat, er hann

lofar einni júngfrú, mun ek þá yðr samþykkjast ok gera yðvarn vilja, ef þèr haldið yður orð, ok veitið mèr bæn þá, er ek biðr yðr, en fyrr enn ek gángi nauðig með nokkrum manni, þá skal ek fyrr heldr veita mèr bráðan bana; ok nýtr mín þá enginn. Konúnginum rann mikill ástarhugr til hennar, ok mælti: verði sá niðíngr, er eigi heldr sín orð við yðr, ok kjós á sömu stundu, en ek skal veita. Þat er fyrst bæn mín, segir konúngsdóttir, at haugr sè orpinn eptir föður minn, mikill ok vel innan gjörr ok hár skíðgarðr umhverfis hauginn; haugrinn skal standa lángt burt í eyðimörk; bera skal gull ok góða gripi í hauginn hjá honum; hann skal vera í öllum sínum herklæðum, ok girðr sverði sínu; hann skal sitja á stóli, ok skipa köppum hans til beggja handa honum þeir er fallit hafa; á hestinum Dúlcifal skal engi taka af yðrum mönnum, ok hann skal sjálfráðr fara; ek vil ráða fyrir fjórðúngi ríkisins um þrjá vetr, ok þeir sem ek skipa til með mèr, ok skulu þeir allir í friði ok náðum, sem mèr tilheyra; ek skal á hverju ári fá mann til burtreiðar við yðr eða Sörkvi, kappa yðvarn, en ef ek fæ öngvan svâ frægan af mínum mönnum, at Sörkvi ríði af baki á þessum tíma, þá skuluð þèr ráða mínum kosti, ok öllu ríkinu; en ef Sörkver verðr unninn, þá skuluð þið burtu verða með öllu yðru föruneyti, ok koma aldri í Garðaríki síðan, en ek taki þá

lönd ok ríki eptir föður minn, sem rèttr stendr til. Grímr ægir mælti: varla er þessari bæn neitanda, því hún stendr með djúpri grundan ok lángri forhugsan; þiki mèr yðr eigi standa, herra! at vera svâ lengi vonbiðill eptir nokkurri kvinnu, en vel megið þèr treysta Sörkvi, svâ (ok) ráðum mínum ok vitsmunum, at ekki mun tilsaka. Konúngr svarar: eigi hugði ek þat, konúngsdóttir! at þèr munduð þessa beiðast, en þó mun ek efna orð mín við yðr, því ek treysti vel Sörkvi, at eigi fáið þèr honum frægra mann; bundu þau þetta fastmælum, ok skildu nú talit. Grímr ægir mælti: ráð kom mèr í hug, þat oss mun duga, vèr skulum seið efla láta, ok seiða til þess, at Sörkvi skal enginn vinna mega, hvârki í burtreið nè einvígi, nema sá er hefir öll herklæði Hreggviðar konúngs, en haugrinn skal vera svâ sterkr gjörr með múr ok tigl, at hann skal enginn menskr maðr opna mega; munið þèr vilja halda öll yður orð við konúngsdóttur, þèr skuluð jafnan senda menn eptir herklæðunum, ok heita Gyðu, systur yðari, þeim er náð getr, ok eru þau þá í yðru valdi, ella munu þeir eigi lífs aptr koma. Þótti konúngi þetta vel ráðit, ok öllum þeim; var nú haugr gerr, ok Hreggviðr konúngr í settr. Íngigerðr gekk síðast úr hauginum; hún lèt þángat færa með leynd tvenn herklæði, ok lagði í knè föður sínum, var síðan haugrinn aptrbyrgðr, ok umbúit eptir forsögn Gríms

ægis; síðan (var) ríkinu skipt eptir skildögum, ok allt fullgert, þat er fyrr var sagt; fèkk konúngsdóttir aungvan þann, er við Sörkvi þyrði at reyna. Konúngr sendi marga menn til haugsins, ok kom enginn aptr. Grímr ægir stýrði Ermlandi[1], þat er eitt konúngssetr[2] í Garðaríki, ok undu þeir allir illa sínum hlut, er undir hann þjónuðu. [Þeir Þórðr Hlèseyjarskalli áttu jafnan mikit stríð við þá ofan úr Jötunheimabygðinni frá Áluborg, ok er þat margra frásagna vert, er þeir áttust við í göldrum ok fjölkýngi ok stórum orrostum, ok veitti ýmsum verr, en hvârigum betr[3]; þeir Sörkvir ok Brynjólfr voru í hernaði á sumrum, ok höfðu landvörn fyrir Eirek konúng. Íngigerðr konúngsdóttir sat í einum friðkastala[4] í ríki sínu, ok hennar vildismenn, ok var mjök hugsjúk um sinn hag.

4. Í þenna tíma, er þetta var tíðinda, er nú (var) frásagt, rèð Sturlaugr hinn starfsami fyrir Hríngaríki í Noregi. Hann átti Ásu enu vænu, dóttur Eireks jarls. Þau áttu marga sonu ok vel mannaða: einn hèt Rögnvaldr, annar Fraðmar[5], þriðì Eirekr, fjórði hèt Hrólfr; hann var kallaðr eptir Hrólfi nefju, fóstbróður Sturlaugs; hann dó í hofinu á Írlandi, þá Sturlaugr sótti þángat [úrar hornit[6]. Hrólfr Sturlaugsson var manna mestr, bæði at digurð

1) *þannig C*; Enulandi; *óglöggt A.* 2) ríki, *B.* 3) *v. í B.* 4) kastala, *B.* 5) Framar, *B.* 6) *þannig B, óglöggt í A.*

ok hæð, ok svâ þúngr, at engi hestr fèkk borit hann allan dag, ok var hann því jafnan á gaungu; manna var hann vænstr at yfirlit; ekki var hann siðblendinn við alþýðu, fór litt með gleði ok skemtan, utan helzt þótti honum gaman at fara í skotbakka, ok vera at burtreiðum; var hann svâ þúngr ok sterkr, at enginn kom honum úr söðli, en ófimliga bar hann vopn fyrir sik, ok aldri bar hann vopn; bæði var hann meinlaus ok gagnlaus flestum mönnum. Ekki var Hrólfr líkr bræðrum sínum, var ok jafnan fátt með þeim. Einn dag var þat sem optar, at þeir Sturlaugr ok Hrólfr töluðust við, (Sturlaugr mælti:) svâ lízt mèr á þik, sem lítil muni þín afdrif verða, heyrir meir konu enn karlmanni, at hafa þvílíkt framferði, sem þú hefir, því þiki mèr ráðligt, at þú kvænist, ok setìst í bú, ok gerir þik at kotkarli í afdal nokkurum, þar engi maðr finnr þik, ok al þar þinn aldr[1], svâ lengi sem auðit verðr. Hrólfr segir: eigi mun ek búa, ok eigi kvænast, því konur skulu mèr ekki, sè ek þat ok gjörla, at þèr gengr þat til ámælis þíns, at þú sparir mat við mik, skal ek því burt verða, ok eigi aptr koma, fyrr enn ek hefi fengit jammikit ríki, ok þú átt nú, eða liggja dauðr ella; þiki mèr þetta kotúngs eign, er þú hefir meðferðar ok lítil til skiptis með oss bræðrum,

[1]) *hèr er hálft blað rifit úr B.*

skal ok hvârki yðr nè þeim verða gagn at mèr hèðan frá. Sturlaugr mælti: bæði má ek fá þèr skip ok góða fardrengi, ef þú vilt nokkut þat fyrir þik leggja, er þèr megi til frægðar verða eðr metnaðar. Hrólfr segir: eigi hirði ek at draga menn eptir mèr, til þess at þeir sjái [af sonum yðrum[1], mèr mun ok ekki orrosta heyra, því ek þori eigi mannsblóð at sjá, vil ek ok eigi þyrpast útá smábáta með mart fólk, svâ þá sökkvi þeir niðr, ok drukknu vèr allir. Sturlaugr mælti: ekki mun ek tilleggja með þèr, þvíat ek sè, at þú ert bæði heimskr ok einráðr; skildu þeir at svâ mæltu; þótti sinn veg hvorum. Hrólfr gekk þá til Ásu, móður sinnar, ok mælti: þat vilda ek, móðir! at þú sýndir mèr kápurnar, þær er Vefreyja, fóstra þín, gerði föður mínum endr fyrir laungu. Hún gerði svâ, lauk upp kistu einni stórri, ok mælti: hèr máttu nú sjá kápurnar, ok fyrnast þær enn lítit. Hrólfr tók upp kápurnar allar, þær voru svâ gerðar: ermar voru á, ok höttr uppaf, ok grímur fyrir andliti; bæði voru þær víðar ok síðar, engi járn bitu þær, ok eigi mátti þeim eitr granda. Hrólfr tók þær tvennar, er stærstar[2] voru, ok mælti: eigi hefi ek ofmikit úr föðurgarði, þótt ek hafi kápurnar. Ása mælti: ekki muntu svâ skjott fara, frændi! at þú hafir ekki vopn ok föruneyti. Hrólfr gekk íburt þegjandi, en

1) of sjónum yfir mèr, *C.* 2) *þannig B, C;* læstar, *A.*

fám dögum síðar hvarf hann í brutt, svâ engi maðr vissi, hvat af honum varð; hvorki bað hann vel lifa föður sinn nè móður ok öngva sína frændr; vissu menn ok eigi, hvat um hann leið. Ekki er þess getit, at Sturlaugr gæfi sèr um burtferð Hrólfs; leið nú svâ um tíma, at Sturlaugr sat um kyrt í ríki sínu.

5. Þorgnýr er greindr til sögunnar[1]; hann átti at ráða fyrir Jótlandi í Danmörk, ok þar hafði hann atsetu, en tók hann skatta af fleirum ríkjum; hann var höfðíngi mikill, ok hafði gott mannval með sèr, gamall var hann mjök, er þessi frásögn gerðist. Drottníng hans var önduð, en eptir lifðu tvö börn, er þau áttu; Stefnir hèt son hans, en Þóra dóttir, þau voru bæði fríð ok vel mönnuð. Stefnir jarlsson var sterkr at afli, ok hinn mesti íþróttamaðr, ok var dagliga hógvær, ok vel skapi farinn. Þóra var kvenna högust, ok var henni skemma reist, ok þar sat hún með sínum þjónustukonum. Björn hèt maðr, hann var ráðgjafi jarls, ok honum hinn kærasti, vitr ok góðgjarn, ok kunni vel til herskapar; Íngibjörg hèt kona hans; hún var kurteis ok vel ment, ok unni Björn henni mikit. Hann átti búgarð skamt frá borginni, en þó sat hann optast með jarlinum. Þorgnýr jarl hafði mikit unnt drottníngu sinni, ok var haugr hennar nær borginni, sat jarl þar optliga í góðum verð-

[1]) Þornýr er jarl nefndr, C.

um, eðr þá hann hafði málstefnur, eðr lèt leika fyrir sèr. Jarlinn sat optast í kyrsæti, ok hafði friðsamt ríki optast.

6. Nú er þar til at taka, er Hrólfr fór úr Hríngaríki, sem fyrr var sagt, ekki hafði hann vopna nema eikikylfu, hann var í kápunni Vefreyjunaut, en bar aðra. Honum voru vegir ókunnigir, fór hann optar um fjöll ok skóga enn bygð, stefnir hann svâ austr á Eiðaskóg, ok ætlaði upp í Svíaríki; aungva hefir hann vegu um skóginn, fór hann villr mjök, ok var lengi úti. Eitt kveld seint hitti hann skála einn sterkan í skóginum; þetta var um vortíma, hurð var hnigin[1] aptr; hann setr klumbu sína við vegginn, en gengr inní skálann; þar var eins manns sæng ok sæti utarfrá, skinnavara var þar nokkur, en lítit fè annat. Hrólfr kveikti eld upp, en er at sólarfalli kom, gekk maðr inní skálann, mikill vexti, hann var í svörtum kufli, ok hetta mórauð uppaf, svartr var hann yfirlits, skolbrúnn ok skeggjaðr mjök; hann var girðr sverði, en gekk við spjót; hann mælti: hverr er þessi þjófrinn, eðr hvaðan komtu at? Hrólfr segir: eigi þarftu at vera[2] svâ harðorðr fyrir aungva sök, en eigi hirði ek at leyna nafni mínu; ek heiti Hrólfr, er ek kominn úr Hríngaríki. Skálabúi segir: enginn skyldi sá heill, er þaðan kæmi, en far þú burt frá eldinum, ok sit uppí sætit,

[1]) *þannig B, C*; heingð, *A.* [2]) *hèr er B aptr heil.*

ok hvíl þik! Hrólfr gerði svâ; en er hann var niðrsettr, mælti skálabúi; nú skal eigi leyna þik mínu nafni; ek heiti Atli Ótryggsson, ættaðr úr Hríngaríki, kenni ek þik nú gerla, þú ert son Sturlaugs hins starfsama, skaltu þess nú gjalda, er faðir þinn gerði mik útlægan, þá er ek hafða drepit hirðmann hans; síðan greip hann spjótit tveim höndum, ok lagði fyrir brjóst Hrólfi svâ hart, at hann öngvaði saman, en ekki beit á kápuna. Hrólfr vildi þá uppstanda, en þess var engi kostr, því hann var fastr við sætit. Þá mælti Atli: eigi skal þèr nú fjölkýngi tjá, ok skal taka klumbu þína ok lemja þik í hel með henni; hljóp hann þá út úr skálánum. Hrólfr þóttist nú illa kominn, ok brauzt um fast, þar til er losnaði fjölin sú, er hann sat á, var þat jafnsnemma at Atli kom með klumbuna. Hrólfr hljóp undir Atla; hann (kastar) klumbunni, ok tókust þeir fángbrögðum, ok glímdu sterkliga. Hrólfr gekk at ramliga, ok barst Atli fyrir orku sakir, þar til er hann fèll á bak aptr, lèt Hrólfr þá fylgja knè kviði, ok greip báðum höndum um háls honum ok barka, svâ hann kom aungu orði upp; Atli brauzt um sterkliga, en Hrólfr hèlt sama taki, þar til at hann var dauðr. I skálanum fann Hrólfr fèsjóð mikinn, ok hafði hann með sèr; hann tók sverðit ok spjótit, en lèt eptir klumbuna. Hrólfr færði Atla úr kuflinum, því honum þótti hann lèttari at gánga í enn kápurnar,

ok bar hann þær. Hann brendi Atla, ok lá þar um nóttina, þat er eptir var; en um morgininn fór hann veg sinn, ok gekk þá enn marga daga um skóginn. Einn dag kom hann fram í eitt rjóðr, ok sá þar ellifu menn alvopnaða; einn þeirra var bezt búinn, ok sá þótti honum, sem vera mundi formaðr þeirra, en er þeir sjá Hrólf, þá mælti þessi maðr: hèr er kominn Atli hinn illi, standið nú upp allir ok drepið hann sem skjótast, ok launum honum rán ok manndráp. Kom Hrólfr nú aungum orðum fyrir sik, en þeir sóttu at honum í ákafa bæði með höggum ok lögum. Hrólfr snèrist við karlmannliga, gerði ýmist, hann hjó eðr lagði með spjótinu; varð hann þeim stórhöggr, þvíat spjótit var hit bezta vopn, en fèkk Hrólfr sír nokkur á höndum ok fótum; þeir börðust lengi, ok lauk svâ, at Hrólfr drap þá alla, var hann þá mjök móðr, hafði hann sár mörg ok smá, batt (hann) þá sár sín, ok kastaði af sèr kuflinum, því hann vildi eigi slíkt fá af honum optar. Svâ þótti honum sem þeir menn mundu verit hafa úr Vermalandi ok farit at jaga dýr, eðr um eptirleit við Atla; fór hann þá leiðar sinnar, er ok ekki sagt frá ferðum hans, fyrr enn hann kom fram í Gautland við Gautelfi; hann sèr, hvar skip eitt flýtr við land, þat var lángskip mikit, skipit var tjaldat allt stafna í millum; bryggja lá á land, en við bryggjusporðinn var eldr, ok menn

at matgerð. Hrólfr hafði síðan kápuhöttinn, ok gekk þar til, ok heilsar á þá, er við eldinn voru; þeir tóku kveðju hans, ok spurðu hann at nafni, eðr hvaðan at hann kæmi. Hann nefndist Stígandi[1], ok kominn at úr Vermalandi. Hrólfr frètti, hverr skipit ætti, eðr hverjum þeir þjónuðu; þeir sögðu at hann hèti Jólgeir, ok var ættaðr ofan úr Sylgisdölum í Svíaríki; Hrólfr segir: gott mundi at þjóna slíkum manni. Þeir segja þann verr hafa, er honum þjónaði: því hann er berserkr fjölkunnigr, ok bíta eigi járn, harðr er hann ok hinn versti viðreignar; vèr erum áttatigir á skipi, ok þjónum vèr honum allir nauðigir, því hann hefir drepit vorn höfðíngja, er skipit átti, ok nauðgaði oss til at sverja sèr trúnaðareiða; hefir hann þetta allt unnit með svikum ok fjölkýngi, ætlar hann nú í hernað í Austrveg. Hrólfr segir þá vel skemt hafa, gekk hann síðan útá skip, ok fyrir Jólgeir, ok kvaddi hann, sat hann í lypting á skipinu, ok sýndist Hrólfi hann mjök ósvipligr. Jólgeir tók kveðju hans, ok spurði hann at erendum ok nafni; hann segir: Stígandi heiti ek, en þat er erendi mitt, at koma mèr í þjónustu með góðum mönnum, er mèr óleitt at vinna dyggiliga, þat er þarf, en engi er ek bardagamaðr, hefi ek góða frètt[2] af yðr, at þú ert höfðíngi mikill ok óspar at gefa manni mat, er þurfu.

---

[1]) Strángi, *hèr B.* [2]) *b. v. B*; *v. í A, C.*

Jólgeir segir: sannspurt hefir þú þat, at mèr er matr óspar[1], en illa lízt mèr á þik, því ek ætla at þú sèrt illmenni, en fara máttu með oss, ef þèr líkar; Hrólfr þakkar honum, ok skilja með því talit. Þeir herja um sumarit; býtti Hrólfr silfrinu úr sjóðnum á tvær hendr, ok var þeim öllum vel til hans nema Jólgeir, því Hrólfr var bæði latr ok svefnugr, en kunni eigi í skipi at gera; aldri var hann í bardögum nè nokkurum mannraunum. Jólgeir fór illa með herskap sínum, ok rænti mest búþegna ok kaupmenn, en herjuðu optast um Kúrlönd, ok fengu of fjár. Þat var eitt sinn, at Jólgeir skipaði Stíganda at halda vörð á skipi þeirra, lá skipit við land, ok var ein bryggja uppi, veðr var íllt af stormi ok regni. Fóru þeir til svefns á skipinu, en Hrólfr var á landi við bryggjusporðinn; leið svâ nóttinn, en er mornaði, tók Hrólfr at höfga, ok vafði hann Vefreyjunaut utan at sèr; en er Jólgeir vaknaði, herklæðist hann, ok gengr á land upp, ok hafði sverð í hendi; hann sèr, hvar Hrólfr liggr ok sefr, svâ hrýtr um glæðrnar. Jólgeir varð ákafliga reiðr, hann bregðr sverðinu, ok höggr báðum höndum ofan á Hrólf miðjan, svâ þat hefði hans bani vorðit, ef eigi hefði kápan hlíft honum. Hrólfr vaknar með andfælum, ok sprettr upp, en Jólgeir vildi þá höggva í höfuð honum annat högg; Hrólfr rèð undir hann; Jólgeir tók í móti, ok

[1]) ósúr, rángt *A*.

urðu þar sviptíngar harðar, hamaðist hann þá á Hrólf, en hann lèt berast undan ok fram at sjónum, þar til er þeir fèllu báðir á kaf ofan fyrir einn hamar, færði þá hvor annan í kaf, ok voru lengi niðri; þeir tóku mörg köf ok stór, en engi vildi skakka með þeim, því öllum hugnaði betr til Hrólfs enn til Jólgeirs; svâ lauk þeirra fundi, at þá bar at landi upp, ok kom Hrólfr fótum undir sik, ok þar var [forbrekt, ok þverhögt mjök niðr[1] fyrir, tók Hrólfi þá í linda stað, en Jólgeir tók eigi niðri, þreif Hrólfr þá í herðar honum, ok færði hann í kaf, ok hèlt honum niðri, þar til hann drekti honum. Hrólfr gekk þá á land, ok var móðr mjök, en allir menn Jólgeirs þökkuðu honum þetta verk, ok sögðu hann frægðarmann, er hann fèkk unnit þvílíkan berserk. Hrólfr spurði: þèr munuð nú vilja taka mik til höfðíngja yfir yðr í stað Jólgeirs, ok skal ek eigi verr til yðar gera, vil ek nú kunngera yðr, hverr ek er, því ek heiti Hrólfr, en Sturlaugr er faðir minn, enn starfsami, er ræðr fyrir Hríngaríki í Noregi. Þeir fögnuðu honum allir, ok sögðu hann eigi kynvana, þó hann væri hinn mesti kappi; gengu þeir þá á málstefnu, ok rèðu þeir þat af, at þeir gengu á hönd Hrólfi, ok tóku hann til skipstjórnarmanns; var Hrólfr óspar af fè því, er Jólgeir hafði samandregit, ok

[1]) förberg mikit ok þar höggvit, *B.*

gaf þeim stórar málagjafir; varð hann skjótt vinsæll af þeim, höfðu þeir margar orrostur, ok hafði Hrólfr jafnan sigr; en er hausta tók, sigldu þeir austan; sagði Hrólfr at þeir mundu halda til Danmerkr; þeir komu síð um haust til Jótlands skamt frá borg Þorgnýs jarls, ok lögðu í einn leynivog, festu skip sitt, ok tjölduðu. Hrólfr segir sínum mönnum, at þeir skyldi bíða þar, til þess er hann kæmi aptr: en ek mun gánga einn frá skipi, at sjá, hvat ígerist.

7. Svâ er sagt einn dag, at þat bar við í Jótlandi, er Þorgnýr sat yfir drykkjuborðum, at upplukust hallardyr, ok maðr gekk inn í hallina; hann var bæði digr ok hár, hann var í loðkápu síðri, ok mikit spjót í hendi. Allir þeir, er inni voru, undruðust mikilleik hans. Hann gekk fyrir jarl, ok kvaddi hann virðuliga; jarl tók kveðju hans, ok spurði, hvat manna hann væri. Hann segir: Hrólfr heiti ek, en Sturlaugr heitir faðir minn, er ræðr fyrir Hríngaríki, em ek hèr kominn, at ek vil kanna yðra siðu[1], því mèr er sagt, at þú sèrt höfðíngi mikill. Jarl segir: gjörla kenni ek ætt þína ok kynferði, ok vil ek gjarna at þú sèrt velkominn í mínu ríki, ok þiggr allt þat, er þú vilt beiða, en oss stendr at veita, eðr hversu marga menn villð þèr yðr láta þjóna dagliga? Hrólfr segir: áttatigir manna eru á skipi mínu, en þeir

[1] hirðsiðu, C.

skulu mèr fylgja, ok nóg hefi ek skotsilfr at leggja fyrir oss, vil ek fá kastala nokkurn skamt frá yðr, at halda þar í mína menn ok hafa landvörn fyrir yðr, ef þèr vilið. Jarl segir: þökk er mèr á þinni hèrkvomu, ok skulu allir hlutir í þínu valdi, er þín sæmd er þá meiri enn áðr. Hrólfr þakkaði jarli orð sín, gekk hann síðan til sinna manna, fèkk jarl þeim kastala til forráða; sat Hrólfr í kastalanum um kyrt, ok hèlt vel sína menn, en löngum fór hann í hernað, ok varði kappsamliga ríki jarls. Vingott var með þeim Stefni[1] ok Hrólfi; Björn ráðgjafi var ok hinn kærasti við Hrólf; leið nú svâ fram um hríð, at ekki bar til tíðinda.

8. Tryggvi er maðr nefndr, ok var Úlfkelsson; hann var ættaðr af Búkansíðu[2] af[3] Skotlandi; hann var hinn mesti kappi ok berserkr; hann lá úti með fjölda skipa bæði vetr ok sumar; hann átti sèr fóstbróður, er Vazi[4] hèt, [hann var ok it mesta tröllmenni, bæði[5] sakir vaxtar ok sterkleika[6]. Þorgnýr hafði drepit föður Tryggva, þá hann var í víkingu. Tryggvi hafði nú fengit 12 skip, ok öll vel búin at mönnum ok vopnum; hann hèlt þessum her til Danmerkr, ok vildi hefna föður síns á Þórgný jarli. Vazi var með honum, ok

1) jarlssyni, *b. v. B. C.* 2) Búkannssíðu, *B*; Búkkanssíðu, *C*; *v. í D.* 3) á, *B.* 4) Vaxi, *allstaðar B.* 5) *hèr vantar blað í C.* 6) ok var ættaðr af Attandalandi í Svíaríki, *B.*

mart annarra kappa. Þegar er þeir komu í ríki Þorgnýs jarls, fóru þeir hermannliga, ok rændu bygðir, en drápu menn, ok ræntu fè öllu, er þeir náðu, en er jarl spurði þessi tíðindi, lætr hann herör uppskera, ok stefnir liði at sèr, en sakir at hann var gamall, þá setr hann þá Hrólf ok Stefni höfðíngja fyrir liðinu. Þetta var á öðrum[1] vetri þeim, er Hrólfr var fyrst í Danmörk. Þeir Hrólfr fara nú mót Tryggva, ok höfðu 10 skip; þeir fundust við ey eina óbygða, varð þar fátt um kveðjur, ok sló þegar í bardaga. Þeir Tryggvi ok Vazi höfðu dreka stóran, voru þeir mjök ákafir; óhægt var at vega uppá drekann fyrir borðhæð, báru þeir ofan af drekanum grjót á Hrólf ok hans menn; fèll mjök lið þeirra Stefnis, en mart varð sárt, ok hallaðist nú bardaginn á þeirra menn. Þeir Stefnir ok Hrólfr voru í kápunum Vefreyjunautum, ok festi eigi vopn á þeim; leggja þeir nú skipi sínu at drekanum, ok sækja at kappsamliga. Hrólfr hafði spjótit Atlanaut ok eikikylfu stóra undir beltit; Stefnir hafði gott sverð í hendi, ok var hinn mesti hreystimaðr; en þá er sóknin var sem áköfust, hleypr Hrólfr uppí söxinn; hann ruddist um fast, ok leggr með spjótinu svâ sterkliga, at annathvort fèllu þeir, er fyrir urðu, eðr gekk í gegnum þá. Stefnir hljóp þegar eptir honum, ok hjó til beggja

1) liðinum, *B.*

handa, ruddu þeir skjótt söxinn, gekk þá svâ aptr með sínu borðinu hvorr þeirra, ok allt hrökk undan aptr um siglu; dagr var þá mjök áliðinn. En er þeir Tryggvi ok Vazi sjá þat, sækja þeir hart fram í móti þeim. Vazi hafði atgeir í hendi, en Tryggvi öxi. Hrólfr fór mót Vaza, ok lagði hvorr til annars. Atgeirinn kom í skjöld Hrólfs, ok klofnaði hann allr í sundr, en Hrólfr varð ekki sár; Vazi kom skildi við laginu, ok sleppr útaf, ok kemr í lærit á Vaza, ok var þat mikit sár; Vazi hjó í spjótskaptit. Hrólfr greip þá kylfuna, ok varðist með henni, hann lamdi allan skjöldinn fyrir Vaza; þeir börðust lengi, þar til Hrólfr braut atgeirinn af skapti; í því hljóp Vazi á Hrólf, svâ honum lá við falli, kastar Hrólfr þá kylfunni, ok tekr í móti; var glíma þeirra laung ok hörð; þóttist Hrólfr eigi við sterkara mann hafa átt, þann sem einhama var. Svâ lauk með þeim, at Hrólfr færði hann út á vígit, ok braut sundr í honum hrygginn. Þeir Stefnir ok Tryggvi höfðu barizt allan þann tíma; var Stefnir yfirkominn af mæði ok þúngum höggum, en ekki var hann sár. Tryggvi var sár mikit. Hrólfr skundaði nú þángat, en er Tryggvi sèr þetta, vill hann eigi bíða hans, ok steypir sèr fyrir borð. Þeir máttu eigi eptir honum leita fyrir myrkri; gafst þá upp orrostan, var þeim öllum gefin grið, er eptir voru; 6 skip voru hroðin af

hvorum; þar tóku þeir mikit fè, ok hèldu heim við svâbúit; þakkar jarl Hrólfi vel sína framgöngu; ekki fundu þeir Tryggva í því sinni, ok skildi svâ með þeim.

9. Þat bar til tiðinda einn dag sem optar, at tveir menn ókunnir gengu inn í höllina, þeir voru miklir ok þrekligir, en lítt búnir at vopnum ok klæðum; þeir gengu fyrir jarl, ok kvöddu hann; hann tók vel kveðju þeirra, ok spurði þá at nafni; hinn stæri maðrinn sagði: við erum bræðr, ek heiti Hrafn, en bróðir minn Krákr, ok erum við flæmskir at ætt. Íllt var þá til góðra nafna, sagði jarl, er svâ röskvir menn skyldu svâ heita. Hrafn mælti: hèr vildum við þiggja vetrvist í vetr, því okkr er sagt, at þú sèrt vel til þeirra manna, er lángt eru atkomnir. Jarl segir þá skyldu vera velkomna, ok skipaði þeim sæti utan frá öndvegismanni á miðjan bekk; þeir voru þar í góðu yfirlæti af jarli; ekki áttu þeir marga gleði eða skemtan við aðra menn; [þar voru knattleikar jafnan, margir menn báðu þá bræðr at fara til leiks[1]; þeir sögðust jafnan at leikum verit hafa, [ok þóttust heldr harðleiknir. Jarlsmenn[2] lètust sjálfir mundu ábyrgjast sik, hvat sem umliði. Um morginn eptir gengu þeir bræðr í leikinn, ok höfðu þeir jafnan hnöttinn um daginn; hrundu þeir

[1]) en jarl spurði, hvort þeir kynni ekki í leik at vera, en, *B.* [2]) þótt harðleiknir menn væri, *B.*

mönnum, ok feldu harðliga, en slógu suma; at kveldi voru þrír handbrotnir, en margir lamdir eðr meiddir, þóttust jarlsmenn nú hart af fá, gekk svâ fram nokkuru daga. Þeir tóku þat ráðs, at þeir báðu Stefni jarlsson fara í leikinn ok rètta nokkut þeirra hluta; hann játar því, ok um morgun eptir fór Stefnir til leikvallar, ok þegar Hrafn sá hann, mælti hann: hvârt ertu svâ sterkr, at þú mátt ekki at leikum vera með öðrum mönnum, eðr þikist þú svâ stór, at engi skal þora at leika í móti þèr. Stefnir sagði, hvârki er ek svâ sterkr nè mikillátr, at ek mega eigi at leikum vera. Hrafn mælti: þá býð ek þèr til leiks at þriggja nátta fresti, ok þeim manni, sem þú kýs til með þèr í móti okkr bræðrum, ef þú treystist. Stefnir sagði: víst skaltu vita, at ek skal koma til leiksins. Gekk hann síðan burt, ok lèt taka sèr hest, ok reið til þess at hann kom til kastala Hrólfs; sá var annar vetr, er Hrólfr var í Danmörku; en þegar Hrólfr vissi, at Stefnir var kominn, gekk Hrólfr móti honum, ok fagnaði honum með allri blíðu; settust þeir þá til drykkju. Stefnir mælti: til þess er ek hèr kominn, at ek vildi biðja þik til leiks með mèr móti vetrtaksmönnum föður míns, er heita Krákr ok Hrafn. Hrólfr sagði: mèr er sagt, at þeir hafi marga menn meidda, en suma drepna, ok þeir sè menn sterkir; en ek kann ekki at leikum, mun ek

þó fara með yðr, ef þèr villð; fóru þeir nú til borgarinnar, tók jarl vel við Hrólfi. Annan dag eptir gengu þeir Hrólfr ok Stefnir til leiksins; voru þeir bræðr ok þar komnir. Hrafn tók knöttinn, en Krákr hnatttrèit, ok lèku at vanda þeirra. Jarl sat á stóli, ok horfði á leikinn, en er þeir höfðu leikit um hríð, fær Hrólfr náð hnettinum; hann grípr knatttrèit af Kráki, ok fær Stefni; leika þeir þá svâ lengi, at þeir bræðr náðu ekki hnettinum. Þat var eitt sinn, at Hrafn hljóp eptir hnettinum, at maðr einn rètti fyrir hann fót, svâ hann fèll, úngr maðr ok glettinn við aðra menn, frændi jarls. Hrafn varð reiðr mjök, ok spratt upp skjótt, ok greip þann, er hann feldi, ok færði hann á lopt, ok keirði hann niðr at höfðinu, svâ hann gekk úr hálsliðnum. Jarl kallar á menn sína, ok bað taka Hrafn ok drepa. Hrólfr hljóp þá at Hrafni, ok þreif til hans; í annan stað tókust þeir á Krákr ok Stefnir. Hrólfr bannaði, at nokkur skakkaði með þeim; þeir glímdu, ok eigi lengi, áðr Hrólfr vo Hrafn uppá bríngu sèr, ok færði niðr, svâ hann lá lengi í óviti, en af gekk skinnit af herðarblöðunum, en er Hrafn raknaði við, reis Hrólfr upp at honum, ok mælti: sèr ek, at þú hefir tigns manns augu, ok biðr ek yðr, herra! at þèr gefið þessum mönnum grið, þvíat ek veit[1], at þeir eru mikillar

[1]) *hèr byrjar aptr C.*

ættar. Stefnir hafði ok borit af Kráki, ok bað föður sinn veita Hrólfi þat, er hann beiddi; var jarl lengi enn reiðasti, en þó gaf hann þeim grið fyrir bæn Hrólfs ok Stefnis. Þeir bræðr voru stirðir mjök, ok gengu brutt þegjandi, ok til herbergis síns, komu þeir ekki undir borð á því kveldi, gafst nú upp leikrinn, ok fóru menn til drykkju. Hrólfr mælti við Stefni: nú skaltu taka þèr klæði, er við eigum bezt, ok fá Þóru, systur þinni, í hendr, ok skal hún gera þeim bræðrum klæði ok láta vera búin árla í morginn. Stefnir gerði svâ, ok gekk til Þóru með klæðit, ok sagði henni, hversu gera skyldi; gekk Stefnir síðan í burt, en hún tók at gera klæðin; leið svâ nóttinn, en um morginn snemma sendi Þóra Hrólfi klæðin, ok voru þau fullgerð; tók hann við, ok fór til herbergis þeirra bræðra, ok sá at þeir lágu. Hrólfr mælti: því flýgr Hrafn síð upp, þar sem nóg er ægslað[1], ok eru nú ernir ok önnur hrækvikindi full orðin. Hrafn segir: varla má vel fljúga, ef skerðir eru, eðr fjaðrsárir. Hrólfr tók klæðin, ok kastaði til þeirra, en gekk burtu síðan; en þeir bræðr tóku klæðin, ok fóru í, ok gengu síðan undir borð; leið nú svâ vetrinn. Ekki er þat sagt, at þeir Krákr ok Hrafn þakkaði Hrólfi klæðin nè lífgjöfina, ok voru þeir þó vel haldnir. Í móti sumri hurfu þeir burtu, svâ engi maðr vissi, hvat af þeim varð, ok þótti

[1]) æxlið, *B*; ægli, *C*.

mörgum kynligt þeirra athæfi. Hrólfr fór í hernað um sumarit, ok þeir Stefnir báðir, ok var gott til fjár ok mannorðs; þeir komu heim at hausti með heilbrigðu, ok er ekki sagt frá stórvirkjum þeirra.

10. Þat sumar var Hrólfr með Þorgný jarli í miklum metorðum. Þat var einn dag um haustit, at Þorgnýr jarl sat á haugi drottníngar sinnar, ok var leikit fyrir honum, at svala ein flaug yfir hann, ok feldi niðr einn silkiklút í knè honum, ok flaug burt síðan. Jarl tók, ok leysti til, ok sá þar í eitt mannshár svâ langt, at þat var mjök mannhátt, ok gullslitr á. Jarl gekk undir drykkjuborð um kveldit, sýndi hann þá hárit, þat er svalan hafði niðrfelt, þotti flestum, sem konuhár mundi vera. Jarl mælti: þess strengi ek heit, at fá þá konu, er hárit er af, eðr liggja dauðr ella, ef ek veit, at hvers bæjar er at leita, eðr á hverju landi hún er. Öllum þotti mikil heitstrengíngin, ok horfði hvorr til annars. Nokkurum nóttum síðar stefndi jarl þíng fjölment; hann stóð upp á þínginu, ok birti mönnum heitstrengíng sína, ok spurði, ef nokkur kynni deili á þessi konu, ok hvert hennar væri at at leita; var þá ok sýnt hárit, ef nokkur kannaðist við. Björn ráðgjafi mælti: svâ feginn vilda ek tala ok gera, herra! at yðr ok yðru ríki væri til heiðrs ok virðíngar, heldr enn til nokkurs skaða eðr mínkanar; virðist mèr

heitstrengíng þín mikil, ok hygg ek þessari konu eigi auðnat, en neri mun ek geta, hvar hún er, þótt ek hafi ekki frèttum fyrir haldit: Hreggviðr hèt konúngr, hann rèð fyrir Garðaríki, hann átti dóttur, er Íngigerðr hèt, kvenna var hún fríðust ok bezt at sèr gjör um alla hluti; þat hefir ek sannspurt, at engi kona á Norðrlöndum hafi betr verit at sèr ger, ok hafi meira hár ok fegra enn hún, ok þat er mitt hugboð, at þetta hár eigi hún, með hverjum klókindum sem þat er til yðar komit; nú munuð þèr sannspurt hafa, hver tíðindi þar hafa orðit, í fráfalli Hreggviðar konúngs fyrir Eirek konúngi, með konúngsdóttur; hún skal hafa mann til burtreiðar við Sörkvi, kappa konúngs, ok frelsa sik með því; hygg ek fá verða til þess fúsa, við þvílíkan sem við er at eiga; en þótt Sörkva geti nokkur af baki riðit, þá þiki mèr konúngsdóttir eigi auðfengin úr Garðaríki heldr enn áðr; þótti öllum þeim, sem við voru, sem svâ mundi vera, sem Björn sagði.

11. Þorgnýr jarl þagði nokkura stund af orðræðu Bjarnar, ok mælti: þeim manni, er fara vill í Garðaríki, ok ríða burt við Sörkvi, ok náir þessari meyju mèr til handa, skal ek gefa Þóru, dóttur mína, ok þriðjúng alls ríkisins; til farar þessarar skal ek hvârki spara skip nè manna forræði við þann, sem til vill verða. Allir menn þögnuðu við þessa ræðu,

ok svaraði enginn jarli, þar til er Hrólfr stóð upp, ok mælti: illa er þat gert, at svara eigi slíkum höfðíngja, sem vèr eigum, en sakir þess, herra! at ek hefi með yðr verit um (nokkura) tíma í góðu yfirlæti, ok marga góða hluti af yðr þegit, þá vil ek fara þessa ferð, ok leita at ná konúngsdóttur, ella liggja dauðr; en þótt ek komi aptr úr þessi ferð, þá skulu þèr gipta dóttur yðra, hverjum sem þèr villð, því hún er vel verð góðs gjaforðs, en mèr er eigi hugleikit konur at eiga. Jarl þakkaði Hrólfi mikiliga, ok bað hann hafa svâ mikit lið, sem hann vildi, en Hrólfr segist engan mann vildi, því minni vari verðr tekinn einum enn mörgum, hvar sem þeir koma. Stefnir bauðst at fara með honum, en Hrólfr vildi (eigi, ok) var nú slitit þínginu; fór Hrólfr heim í kastala sinn, ok hverr til síns heimilis.

12. Innan litils tíma hvarf Hrólfr í brutt [úr kastalanum[1], svâ engi frètti til hans, en menn hans voru þar eptir; hann var í kápunum Vefreyjunaut, en gekk við spjótit Atlanaut; hann hafði boga ok örvamæli á herðum sèr. Ekki er sagt frá, hverja leið Hrólfr fór, en svâ sem hann hafði mjök sótt úr Danmörk, var þat einn dag, at hann sá, hvar einn maðr gekk, hann var mikill vexti ok herklæddr til handa ok fóta, hann hafði brugðit sverð í hendi, ok gekk á veginn

[1]) af Jótlandi, *B.*

Hrólfs; en hann heilsaði þessum manni, ok spurði hann at nafni, hann segir: ek heiti Vilhjálmr, en forellri mitt hirði ek ekki at greina þèr, en um tvo hluti skaltu kjósa: sá er annar, at þú segir mèr, hverr þú ert, eðr hvert þú vilt fara, eðr hvat í erindum er; hinn annar, at ek drep þik, ok ferr þú þá ekki lengra! Hrólfr segir: aungva afarkosti þarftu mèr at gera, því mitt er ekki óvænna enn þitt, hvat sem við skulum reyna. Vilhjálmr hjó til Hrólfs með sverðinu, en hann brá fyrir spjótinu, ok beit ekki á. Hrólfr kastar spjótinu, ok ræðr á Vilhjálm, en hann tók á móti, ok varð glíma þeirra laung, áðr Vilhjálmr fèll. Hrólfr mælti: nú á ek alls kosti við þik, muntu segja verða, hvert þitt erindi er, eðr hvar þú ert landvanr. Hann segir: hèr er ek ættaðr í Danmörk, er ek bóndason einn, en ætlaða at fara í Garðaríki ok rjúfa haug Hreggviðar konúngs, en ná vopnum hans, vinna svå til Gyðu, systur Eireks konúngs; nú vil ek gjörast þinn þjónustumaðr, er mèr mart vel gefit, því ek er bæði vitr ok tölugr, er þèr bezt at gefa mèr líf; skal ek þèr trúliga þjóna, mun þèr at mèr gagn verða. Hrólfr segir: vænn maðr ertu, ok víst hirði ek eigi at drepa þik, ef þú vilt mèr fylgja, en eigi hefir þú tryggilig augu; lèt Hrólfr hann þá uppstanda, ok segir honum allan sinn trúnað ok tilgáng sinna ferða; fóru þeir nú

leiðar sinnar. Hestr Vilhjálms var þaðan skamt í burt frá honum, þoldi hann ekki at gánga með vopnunum, var hann skrautmenni mikit at klæðum ok söðulreiði; segir Vilhjálmr jafnan veg, meðan þeir fóru um Danmörk.

13. Einn dag litu þeir bæ mikin reisiligan fyrir sèr. Vilhjálmr mælti: hèr fáum við góða gistíng í kveld at bæ þessum, því hèr á fyrir at ráða frændi minn, er Ölver heitir, ok er góðr bóndi, ok heldr marga sveina; ok er þeir komu heim at bænum, gekk bóndi í móti þeim, ok fagnaði vel Vilhjálmi ok þeim báðum, ok spurði, hverr sá væri enn mikli maðr. Vilhjálmr segir: Hrólfr heitir hann, ok er búsbóndi minn, mikill er hann ok sterkr, vel ættaðr ok mikill kappi. Bóndi bauð þeim til drykkju; þar var mart frelsíngja. Vilhjálmr vildi ekki öðrum tilhlíta enn sèr, at þjóna Hrólfi, ok lofaði hann í hverju orði. Þar var gott öl, ok gleði mikil. Nú leið svâ kveldit, drukku þeir lengi áfram, en er Hrólfr gerðist drukkinn, vildi hann fara at sofa, var honum búin sæng virðulig; kastaði hann klæðum af sèr, ok lagðist í sængina, ok sofnaði skjótt; en er liðin var nóttin, vaknaði Hrólfr, ok eigi við góðan draum, því hann var bundinn at höndum ok fótum, ok reyrðr sterkliga við einn ás; hann var klæðlaus ok kominn fram at miklu báli; þar stóð yfir honum Vilhjálmr, sveinn hans, bóndi ok allir heimamenn; Vilhjálmr mælti: nú er svâ orðit,

Hrólfr! at ek er orðinn þèr yfir sterkari, ok mundir þú eigi þat ætla fyrir stundu, eru nú enn tveir kostir fyrir höndum: er sá annar, at þú skalt verða brendr hèr á báli þessu, svâ aldri skaltu sól sjá, elligar skaltu fylgja mèr í Garðaríki ok þjóna mèr í öllum hlutum, ok kalla mik þinn meistara, ok allt þat sanna, er ek segi frá mínum högum; þú skalt allar þrautir vinna, þær sem fyrir mik verða lagðar, þar til er konúngr játar mèr Gyðu, systur sinni, til eiginorðs, en síðan skaltu laus vera úr minni þjónustu; aldri skaltu mèr þessa vanvirðíng hefna ok aungum þeim manni, er hèr hefir at verit, ok hèr skaltu eið at vinna, at halda þetta allt, er nú hefi ek fyrir skilit, eðr nú í stað í eldinum brenna. Þá sagði Hrólfr: með því at mèr er nokkut til undanlausnar, at komast úr þinni áþján, þá mun ek heldr þessu játa, enn missa lífit, þvíat þat veit ek, at lítt nái ek jarlsins erindi, ef ek dey nú hèr; vil ek ok þat tilskilja, at þú segir ekki mína fyrirætlun, eðr hvat manna ek er, ella sè laus allr okkar skilnaðr. Vilhjálmr sagði svâ gera skyldu; var Hrólfr nú leystr, ok sór hann eið, eptir því sem þá var siðvenja til; þjónar Hrólfr nú Vilhjálmi, ok lèt sem honum þætti einkis umvert, fóru þeir frá Ölvi, ok reið Vilhjálmr, en Hrólfr gekk fyrir hesti hans. Þeir fóru um Svíþjóð, ok þaðan til Garðaríkis. Ekki er þat greint, hverja leið þeir

fóru, fyrr enn þeir komu til Aldeigjuborgar; sat Eirekr konúngr í borginni, ok var þetta á öndverðum vetri; fengu þeir sèr herbergi, ok gengu síðan fyrir konúng.

14. Þat var um þann tíma, er konúngr sat yfir borðum; þeir kvöddu konúnginn, en hann tók vel kveðju þeirra, ok spurði, hvat manna þeir væri. Vilhjálmr segir: ek heiti Vilhjálmr, en þetta er sveinn minn, er með mèr ferr, ok heitir Hrólfr, ek er son jarls eins úr Físlandi, ok varð ek þaðan landflótti, því ríkit var svikit undan mèr af sjálfum landsmönnum; er ek hèr því kominn, at ek hefi spurt til yðvarrar rausnar ok mikilmensku, ok vilda ek hèr þiggja vetrvist í vetr. Konúngr segir: eigi spari ek mat við yðr, ok muntu vera íþróttamaðr mikill? Vilhjálmr segir: nógar kann ek íþróttir, ok sú hin fyrsta, at ek er svâ sterkr, at mèr verðr aldri aflfátt; önnur er sú, at ek hefi fráleik yfir öll dýr ok ferfætt kvikindi. Þjóflig íþrótt, segir konúngr, ok kemr þó opt at gagni. Vilhjálmr mælti: eigi vantar mik skotfimi ok vopnfimi, sund eðr tafl ok burtreiðir, vizku ok málsnild, ok öngva missi ek þá, er karlmann má prýða. Heyri ek, segir konúngr, at eigi vantar þik skörugleik[1]; tel nú þínar listir, Hrólfr! því honum treysti ek ekki verr en þèr. Hrólfr segir: eigi má ek þær telja, herra! sem aungvar eru til. Mjök er þá misskipt með ykkr, segir konúngr, at annar hefir allar, en annar

[1]) *ágízkað*; skiolugleich, *A.*

aungvar, en gángið til sætis á enn óæðra bekk miðjan. Þèr munið ráða, herra! segir Vilhjálmr, en aldri hafði ek jafn óvirðuligan sess fyrri; gengu þeir síðan til sætis. Ekki voru þeir Sörkvir ok Brynjólfr heima í þenna tíma, voru þeir farnir með Grími ægi uppí Jötunheima. Þeir Vilhjálmr ok Hrólfr voru þar í góðu yfirlæti; skjalaði Vilhjálmr í hvern heim, en Hrólfr var jafnan hljóðr ok þögull, ok ekki at leikum með öðrum mönnum; dró Vilhjálmr mjök undan sínar íþróttir; en konúngr var veiðimaðr mikill, ok þótti þat skemtan at jaga dýr með hirð sinni; var hann jafnan í kyrrsæti, síðan hann kom í Garðaríki, því flestir voru ófúsir at herja á hans ríki, sakir kappa þeirra er með honum voru, einkanliga sakir galdra ok fjölkýngi Gríms ægis.

15. Eirekr konúngr fór á skóg einn dag með hirð sína, sem vandi hans var til, at jaga dýr ok skjóta fugla. Þeir sáu hjört einn mikinn ok fríðan; ekki þóttust menn hafa sèð vænna dýr, þótti flestum, sem þat mundi alidýr, þvíat öll hans horn voru grafin ok gulli ísmelt[1] skurðina, en stika var sett á milli hornanna með silfri, lèku þar á tveir gullhríngar; um hálsinn lá ein silfrfesti, ok niðr af henni ein bjalla með silfr, ok gaf hún mikit hljóð af sèr, þegar hjörtrinn hljóp, ok hrærði sik. Konúngr vildi ná

[1]) rent í, *B.*

hirtinum, ok bað lausum slá öllum hundum, ok svâ var gert; hlupu menn nú, ok riða, hverr sem mest gat, ok vildu taka hjörtinn, en hann æstist mjök undan hundunum, ok komast þeir hvergi nærri; eltu þeir hann allan daginn, en um kveldit, er dimmaði, vissu þeir eigi, hvat af honum varð; fór svâ þrjá daga, at þeir fundu hjörtinn, ok gátu eigi náð honum, en um kveldit, er konúngr kom undir drykkjuborð, ok menn hans voru komnir í sæti, þá mælti hann: lítit þiki mèr þú, Vilhjálmr! sýna oss íþróttir þínar, því þú ert at öngri gleði nè skemtan með öðrum mönnum, ok eigi ferr þú á skóg með oss. Vilhjálmr segir: litil gleði verðr mèr þat, herra! at reyna íþróttir við menn yðra, því ek sè hèr aungvan kunna neinar íþróttir; lèt ek ok jafnan fá mèr villibráð aðra menn, þá ek sat heima í ríki mínu. Konúngr mælti: vèr höfum elt hjört einn þrjá daga, ok kunnum vèr eigi ná honum, en ef þú náir hirtinum, ok færir oss hann lifanda með öllum sínum búnaði, þá vil ek gefa þèr Gyðu, systur mína, ok mikit ríki, með því ek hefi aungan þann hlut sèð, at ek vildi gjarnari eiga; máttu þetta vel gera, ef þú ert svâ fóthvatr, sem þú hefir sagt; þó skaltu vinna tvo hluti aðra, þá sem ek legg fyrir yðr, skal ek þinn heiðr þá auka í öllum hlutum, ok vinna ríki þitt aptr með mínum styrk, þat er þú hefir áðr mist; ok er sá nokkur annar af mínum mönn-

um, at þetta fái gert, þá skal hann jafnt verkkaup fyrir taka. Þá sagði Vilhjálmr: þat er bæði, herra! at þetta fær enginn gert utan ek, enda hafið þèr mèr þetta ætlat, skal ek ok tilvinna, eðr liggja dauðr ella; áttu þeir at þessu handfestar, sem siðr var til. Hrólfr gaf sik ekki at þessu, fóru menn síðan til svefns, ok tóku á sik náðir; þjónaði Hrólfr Vilhjálmi at öllu, sem fyrr var sagt. Snemma um morgin stóðu þeir upp Vilhjálmr ok Hrólfr, ok bjuggust at leita eptir hirtinum. Þeir fóru á skóginn, ok sáu skjótt, hvar hjörtrinn fór. Vilhjálmr hefr sik nú til hlaups, ok ferr svâ hart sem fugl flýgi; hjörtrinn æsist því meir; Hrólfr þrammar eptir Vilhjálmi, ok þótti honum Vilhjálmr frár í fyrsta skeiði, hlaupa þeir svâ lengi, at Hrólfr er jafnan á öðru leiti, en Vilhjálmr framar, þar til er hann kastaði sèr niðr, ok mælti: aldri verði sá heill, er þat vinnr til konu, fjár eðr ríkis, at sprengja sik á hlaupi. Í þessu kom Hrólfr at Vilhjálmi, ok spurði, því hann lèti dýrit undan gánga. Vilhjálmr sagði: vel má ek hlaupa lengra, ef ek vil, en mèr þikir þú skyldr at taka dýrit, ok vinna allar þrautir fyrir mik eptir skildögum, ef þú ert maðr til. Hrólfr svaraði aungu, ok hleypr fram eptir dýrinu, ok eltir þat lengi, þar til er saman dregr með þeim, því hjörtrinn gerðist móðr mjök; þeir komu fram í eitt rjóðr um síðir; var þá

dagr áliðinn; í miðju rjóðrinu stóð hóll einn; hann var bæði víðr ok hár; rjóðrit var fagrt ok mjök grasloðit víða; en er Hrólfr kemr fram hjá hólnum, þá opnast hann, ok gengr hann þar um kríngum hann. Þar kom út kona, ok var í blám týglamötli, ok heldr [á eldi[1], ok mælti: íllt hefir þú at verki, Hrólfr! er þú ert þræll þrælsins, ok þó til þess at stela annarra manna fè, þvíat ek á dýr þetta, er þú vilt taka, ok náir þú því aldri, nema ek vill; nú skal gera þèr kost á, at ná dýrinu, þú skalt gánga inní hólinn með mèr, ek á dóttur eina, ok er henni þat skapat, at komast eigi frá eldi sínu, því hún ætti, nema menskr maðr hefði hendr á henni, hefir hún nú legit 19 dægr á gólfi, ok má eigi lèttari verða, hefi ek því hjörtinn sent í augsýn við yðr, at ek vissa, at þèr mundið vilja ná honum, ok elta hann híngat; treysti ek þèr at þú hafir bezt hjarta til at gánga í hólinn með mèr, en ekki mun konúngr hjartarins njóta, þó hann sè færðr honum. Hrólfr segir: til mun ek þat vinna, at gánga inní hólinn með þèr, ef ek nái hirtinum, at færa konúngi, en eigi hirði ek, hvat af honum verðr síðan. Álfkonan varð nú glöð við þetta, ok gengu þau inní hólinn, voru þar væn herbergi, ok fagrt um at litast, ok margir hlutir sýndist honum þar undarligir. Hann kom þar at, er konan lá, ok var hún lítt haldin, en þegar

[1]) við aldr *B*, *C*.

Hrólfr fór höndum um hana, varð hún skjótt lèttari; þökkuðu þær honum með fögrum orðum, ok báðu honum virta. Álfkonan mælti: eigi verðr þèr launat, sem verðugt er, heilsugjöf við dóttur mína; en hèr er fíngrgull, er ek vil gefa þèr, þess muntu þurfa, þá þú ferr til Hreggviðar haugs; en ef þú hefir þat á hendi þèr, þá máttu hvârki villast nótt nè dag, á sjá ok landi, í hverju myrkri sem þú ert, ok yfir muntu vinna þrautir allar þær, er fyrir þik eru lagðar, en ekki skaltu trúa Vilhjálmi, þaðan af þú ert fráskildr honum; því gjarna vill hann þik feigan. Hrólfr þakkaði henni, ok gengu (þau) út úr hólnum, tók hún þá hjörtinn, en Hrólfr lagði hann á bak sèr, ok þótti mikils um vert fegurð hans; bað nú hvert vel fyrir öðru; ferr hann nú heimleiðis, þar til hann fann Vilhjálm, ok fagnaði hann vel Hrólfi, ok bað hann bera hjörtinn heim til borgarhliðs. Hrólfr gerði svâ, en ekki segir hann Vilhjálmi, hversu hann hafi dýrinu náð; komu þeir til borgarinnar seint um kveldit, þá konúngr var undir borð kominn. Vilhjálmr mælti: nú skulum við fara inní höllina, en ek skal bera dýrit fyrir konúnginn, en þú skalt sanna sögu mína, svâ konúngr trúi því er ek segi; tók Vilhjálmr við dýrinu, ok lèt á bak sèr, ok viknaði í hnèsbótum, ok þó fèkk hann borit dýrit inní höllina fyrir konúnginn, ok kastaði niðr á gólfit; hann blès mjök mæðiliga, ok mælti: nú þikjumst ek kom-

inn til ráðahagar við systur þína, ok er nú kominn hèr hjörtrinn, ok munu þeir ekki margir bjóðast yðr til mága, er slíku geta orkat sem ek. Konúngr segir: þat virðist mèr i skapi, at eigi hafir þú hjörtinn unnit, ok vinna skaltu fleiri frægðarverkin, áðr þú fær hennar. Eigi þurfið þèr at misgruna mína frægð, þvíat afburð hefi ek flestum mönnum; veit þat Hrólfr, sveinn minn, at fjarlægr var hann mèr, þá ek tók hjörtinn. Hrólfr sagði: bæði er, at ek var Vilhjálmi gagnlaus, enda tók (hann) sèr í aungu at hlífa. Vilhjálmr segir: því vil ek einn tilvinna, at ek vil einn taka verkkaupit, eðr hvat vilið þèr fleira fyrir mik leggja, því ek (er) búinn til at vinna. Konúngr segir: nú skaltu fara til Hreggviðar haugs, ok sækja þángat vopn Hreggviðar konúngs, ok er þat lítil mannraun; Vilhjálmr segir: nú vilið þèr mik feigan, því enginn hefir sá aptrkomit, er þángat hefir farit hèr til. Víst vil ek, segir konúngr, at þú komir aptr, en sannindi eru þat, at enginn hefir aptr komit, er ek hefi þángat sent; er mèr mikill aptrmundr at gripum þeim, er í hauginn fóru, skal ok sá einn fá systur minnar, sem frægri er enn aðrir menn. Vilhjálmr segir: gera mun ek þetta; því mèr þikir þetta þrautlaust, at ræna dauða menn ok vinna þat til meyjar. Gekk Vilhjálmr nú til sætis síns, ok skildu at svå mæltu.

16. Eptir fá daga var þat eina nótt, at Hrólfr tók á fótum Vilhjálms, ok mælti: mál er at vinna til meyjarinnar, ok fara til haugsins. Vilhjálmr stóð upp skjótt, ok var Hrólfr þá klæddr ok kominn í Vefreyjunaut, ok hafði spjótit Atlanaut, en Vilhjálmr alvæpni; hann reið, en Hrólfr gekk fyrir hesti hans; fóru þeir svâ, þar til skógr varð fyrir þeim, ok einn forntroðinn götustigr; en er þeir höfðu skamt farit, þá laust veðr móti þeim svâ mikit með fjúki ok frosti, at Vilhjálmr fèkk eigi á baki setit, leiddi Hrólfr þá hestinn, en Vilhjálmr gekk eptir um stund, þar til at hríðin tók svâ at gerast sterk, at hestrinn fèkk ekki gengit, ok dró Hrólfr hann flatan eptir sèr, en studdi sik við spjótit; varð honum þá litit aptr, ok sá, at Vilhjálmr var horfinn, en hestrinn laungu dauðr; skildi hann þar við hestinn, en gekk fram á leiðina. Hríðin var svâ sterk, at eikrnar brotnuðu af stofnunum, ok komu hvar fjarri niðr, fèkk Hrólfr þaraf optliga stór högg, svâ þat hefði bana unnit flestum mönnum, þar með eldíngar ok reiðarþrumur, svâ hann hugði þat sinn bana orðit hafa, ef eigi hefði kápan hlíft honum; var svâ alla nóttina framan til dags. Í móti degi varp mikilli fýlu móti honum, at hann hefði kafnat, ef kápugríman hefði eigi hlíft honum. Þat þóttist Hrólfr skilja, at hríðin mundi hafa drepit sendimenn konúngs, ok þetta mundi gerníngahríð vera; þóttist hann

ok aldri í þvílíka raun komit hafa; en er mjök var ljóst af degi, þá tók upp hríðina, ok gerði logn, hvarf þá burt fýlan; sá Hrólfr þá haug mikinn sem fjall, ok hár stauragarðr um kring; hann tók hendinni um einn staurinn, ok varpar sèr inn yfir; gekk síðan uppá hauginn, ok sýndist honum hann mjök torvelligr at rjúfa; en er hann litast um, sèr hann mann einn norðan undir hauginum storan vexti með konúngs skrúða. Hrólfr gekk til hans, ok kvaddi hann konúngs kveðju, ok spyrr hann at nafni. Hann segir: ek er Hreggviðr, ok ek byggi haug þenna með köppum mínum, ok ertu hèr velkominn, en þat skaltu vita, Hrólfr! at ek veld eigi hríðum þessum, ok fýlum eðr öðrum undrum, ok eigi hefi ek menn drepit; valda þeir þessu öllu Sörkvir ok Grímr ægir, ok þeir hafa valdit lífláti konúngsmanna, en þó brestr þeim stundum vísdómrinn; þá er þeim liggr mest við, ok ef þeir vissi, at þú værir hèr, þá vildi þeir þik feigan. Ek fór í svölulíki til Þorgnýs jarls með hár Íngigerðar, dóttur minnar, því ek vissi at þú mundir eptirleita af jarlsmönnum, ok þú einn vart maðr til at frelsa hana, ef lukkan fylgði, ann ek þèr bezt hennar at njóta, ef þú vilt ríða burt við Sörkvi, þvíat þik vantar hvârki hug nè hreysti, en þat hefir Grímr ægir játat honum, at enginn skyldi hann yfirvinna, nema (sá) er hefði herklæði mín; er því haugrinn óvinnanligr gerr, ok því

eru torfærur til hans, at hann hugði at enginn skyldi herklæðunum ná mega; nú skal ek fá þèr alla þá hluti úr haugnum, er þú vilt hafa, ek vil fá þèr tvenn herklæði, ok hvorr öðrum lík, utan at kostum eru þau ólík; þau skaltu fá konúngi, er verri eru, en önnur skaltu ekki sjá láta, fyrr enn þú þarft við at hafa, ok á sverðinu skaltu mikla vandvirkt hafa, því fásèð er annat slíkt; Íngigerðr, dóttir mín, geymir öll burtreiðarvopn mín ok hestinn Dúlcifal, sem ólíkr er flestum öðrum fyrir margra hluta sakir; honum skaltu ríða, þá þú átt við Sörkvi, ok er þèr sigrinn vís, ef hann lætr takast; burstaungin ok skjöldrinn munu ok halda sinni náttúru; Vilhjálmi skaltu ok ekki trúa, þaðan af þú ert úr hans þjónustu, því hann svíkr þik, ef hann getr; muntu halda vilja eiða þína, en betr (er) hann af dögum ráðinn fyrr enn síðar, því hann mun þik hættan hafa. Eptir þat fèkk Hreggviðr Hrólfi gripuna ok vopnin, ok síðast menit af hálsi sèr; þá mælti Hreggviðr: þat hefir mèr skapat verit, at ek skal mega fara þrjá tíma úr haugi mínum, ok þarf eigi aptr at byrgjast utan í síðasta sinn; nú mun þèr ekki sveigra verða, er þú ferr heim aptr; nú far þú vel, ok gángi þèr allt eptir vild ok vilja! en ef þú kemr aptr í Garðaríki, þá vitja mín, ef þú þarft lítils við; hvarf Hreggviðr nú inní hauginn, en Hrólfr tók gripuna, ok varðveitti, fór síðan frá haugnum aptr enu sömu

leið, ok varð nú við engin undr var; ok er hann kom úr skóginum, kom Vilhjálmr þá móti honum, hafði hann skriðit undir viðarrætr, ok legit þar um alla hríðina, fèkk hann varla talat fyrir kulda, flaðraði hann þá mjök at Hrólfi, ok mælti: aldri þiki mèr ofsögum mega segja af þinni frægð ok giptu þeirri, er okkr fylgir, þar sem nú er brotinn haugrinn, ok sótt gull ok dýrgripir, sè ek nú þat at okkr má enginn hlutr fyrir standa, en þó var þetta mikit veðr, svâ varla gat ek stýrt mèr, þikist ek nú kominn til ráðahags við systur konúngs; skaltu nú fá mèr gripuna ok vopnin, því ek vil sjálfr afhenda þá konúngi. Hrólfr mælti: lítit viltu vinna til frægðarinnar, ok illa muntu mèr launa, þó ek leggi líf mitt í hættu fyrir þik; tak nú við gripunum, ok fær konúngi, en ek mun halda öll mín orð við þik, ok sanna sögu þína, þóttu sèrt ómakligr. Hrólfr hafði fólgit hin vopnin í skóginum, ok sá Vilhjálmr ekki þau; fóru þeir nú leið sína, til þess er þeir hittu konúnginn; sat hann undir drykkjuborðum at kveldmáltíð. Vilhjálmr kvaddi konúnginn, ok lèt mjök mæðiliga; allir menn í höllinni urðu ókveða við þeirra aptrkvomu. Vilhjálmr mælti: víst trúi ek varla, at meiri þraut vera muni með öllu saman, þvíat Hreggviðr[1] er it mesta tröllmenni sakir sinnar fjölkýngi, en haugrinn torsóttligr at brjóta, hefi

[1]) *hèr endar fyrsta brot af B.*

ek átt við Hreggvið konúng í alla nótt, (kom ek þar í mikla mannraun, áðr ek náði herklæðunum, tók hann þá sverðit ok menit, lagði á borð fyrir konúnginn. Þá mælti konúngr: sóttir eru víst gripirnir, ok þiki mèr nú allir verri enn fyrr, utan menit, þat er óspilt, en þat hygg ek at Hrólfr hafi sótt, en eigi þú. Hrólfr segir: þat segi ek yðr, at ek fór eigi í hauginn, ok megið þèr þat til líkinda ráða, at eigi mundi ek móti mæla, at fá slíkar sæmdir eðr aðrar, ef ek ætti þess kost. Vilhjálmr mælti: undrar mik þat, herra! at þèr grunið sögu mína eða frægð ok hreysti minnar karlmensku, má hèr skjótt raun til gera, at við Hrólfr reynum með okkr, ok mun hann mèr fjarlægr standa, því þat er fyrst at hann þorir eigi mannsblóð at sjá, ok þá ek fór í Hreggviðar haug, skyldi hann festi haldit hafa, ok þá hann heyrði dunr ok stór högg í hauginn, varð hann svâ hræddr, at hann rann frá festinni, var þat eitt þá mín hjálp, at ek hafði borit festarendann um stóran stein, ok las ek mik upp úr hauginum með handafli. Konúngr svarar: vel trúi ek, Hrólfr! orðum hans, en eigi mundi gripirnir hèr komnir, ef þeir hefði eigi í hauginn sóttir verit; lætr nú konúngr geyma vopnin mjök vandliga, ok hugði, at eigi skyldi Sörkvi at meini verða. Svâ er sagt, at eina nótt hvarf hjörtrinn burt, svâ þeir urðu eigi

varir við, er geyma skyldu; þótti konúngi þat mestr skaði, var hans leitat nær ok fjarri, fannst hann eigi; þóttist Hrólfr vita, at álfkonan mundi hafa sótt hann. Vilhjálmr lèt nú vel yfir sèr, ok gekk jafnan til tals við konúngssystur, ok fóru vel ræður með þeim; sparði hann ekki at skjala mart af sèr um alla hluti, leið nú svâ vetrinn fram um jól, at ekki bar til tíðinda.

17. Menelaus er konúngr nefndr, hann rèð fyrir Tattararíki; hann var ríkr konúngr, ok mikill fyrir sèr. Tattararíki er eitt kallat mest ok gullauðgast í Austrríki, þar eru menn stórir ok sterkir ok harðir til bardaga. Undir Menelaus konúng lágu margir konúngar ok mikilsháttar menn. Svâ er sagt, at milli Garðaríkis ok Tattararíkis liggr ey ein, er Hèðinsey heitir, hún er eitt jarlsríki; þat er fróðra manna sögn, at Hèðin konúngr Hjarandason tæki fyrst land við þá ey, er hann sigldi til Danmerkr af Indíalandi[1], ok þaðan tók eyin af honum nafn síðan. Um þessa ey stríddi jafnan Tattarakonúngr ok Garðakonúngr, ok þó lá hún undir Tattarakrúnu. Eirekr konúngr hafði herjat um ey þessa, áðr hann kom í Garðaríki, ok gert þar mikit hervirki. Menelaus konúngr hafði sett þann mann yfir eyna, er Sóti hèt; hann var þar ættaðr at móðurkyni, en föðurkyni

[1]) eptir tilvísun Göndlar, sem segir í Hèðnínga vígum, *b. v. C.*

í Hólmgarðaríki[1]. Sóti var þá eigi í landi, er Eirekr konúngr kom þar; hann var hit mesta tröllmenni fyrir sakir afls ok vaxtar; yfirlitr hans var eptir nafni (hans), hann herjaði víða, ok hafði jafnan sigr. Sóti átti fóstru gamla ok fjölkunniga, hún hafði gert honum laug, þá er hann bitu eigi járn síðan; gekk hann því hlífarlaus í orrostum; hún hafði ok sagt honum, at á þessu hausti væri honum vænst til hefnda við Eirek konúng, ok nú væri aungvir kappar hans heima í landinu. En er Sóti vissi þat, fór hann til Menelauss konúngs, ok fèkk mikinn styrk af honum, hèlt síðan til Garðaríkis; hann hafði margar þúsundir hermanna. Sá maðr var með Sóta, er Norðri hèt; hann var mikill ok sterkr, ok bar jafnan merki hans, ok var hinn mesti kappi. En er Eirekr konúngr frètti, at Sóti var við land kominn með mikinn her, lætr hann herör uppskera á alla vega frá sèr, ok bauð til sín koma hverjum, er mætti, ok safnaðist til hans mikit fjölmenni[2]. Eirekr konúngr kallaði Vilhjálm til sín, ok mælti: nú hefir þú unnit tvo hluti, er ek hefi fyrir þik lagt, ok veit ek eigi, hvert þú hefir þat gert; nú skaltu vinna hinn þriðja hlut, svâ ek sè nær staddr, at drepa Sóta berserk, mun ek þá eigi í móti mæla, at þú eigir systur mína, ef þú vinnr þetta vel af hendi, skal ek þá halda all-

[1]) Hólmgarði, *C.* [2]) Hèlt hann móti Sóta. þegar herinn var búinn; var honum mikit sagt af Sóta ok hans fjölmenni, *b. v. C.*

an skildaga við þik, sem við höfum áðr talat. Vilhjálmr segir: þess er ek búinn, at gánga í móti Sóta, þiki mèr nú gott, at þèr megið nú sjá, hverr afreksmaðr ek er; ok skulið þèr velja mèr öll hin beztu vopn, ok sterkasta hest, sem þèr eigið; þvíat ek mun mjök reyna hans, áðr þessi orrosta lýkst; var svâ gert, sem Vilhjálmr bað. Hrólfr fór með honum, ok gekk eptir vanda sínum, fór konúngr með herinn, til þess er hann fann Sóta, voru þar slèttir vellir, ok þykkr skógr öðrum megin; bjugg-ust nú hvârirtveggju til orrostu, ok var þar mikill her samankominn, var þar lúðragángr mikill, ok sigu saman fylkíngar, ok æptu hvârttveggi heróp.

18. Eirekr konúngr var þá í miðju brjósti fylkíngar sinnar, ok gekk þar vel fram í önd-verðri orrostunni. Sóti fylkti ok móti honum, varð þar hin harðasta orrosta, ok gengu hvârir-tveggju vel fram; en þegar orrostan tókst, reið Vilhjálmr utí skóginn í rjóðr eitt. Hrólfr mælti: nú er þèr, Vilhjálmr! at ríða fram, ok vinna til meyjarinnar, ok drepa Sóta. Vil-hjálmr segir: verði mèr þat til konu ok ríkis, sem auðit verðr, en þat vinn ek[1] til aungra hluta, at voga mínu lífi í slíka orrostu, eðr hvat skal mèr júngfrú eðr ríki, ef ek missi lífit; er þèr miklu nær at frelsa mik úr ánauð ok þrældómi; tak nú vopn mín ok hest, ríð fram,

[1]) *hèr vantar blað í C.*

ok drep Sóta, ella muntu mèr þjóna verða um þína daga. Hrólfr tók þá hestinn ok vopnin Vilhjálms, ok reið til bardagans; orrostan var mjök mannskæð, ok hallaðist mjök á Eirek konúng, þvíat þeir Tattararnir gengu hart fram. Sóti ok Norðri ruddust um fast, ok hrökk undan allt; Sóti hafði atger at vega með, ok gerði ýmist, hann hjó eðr lagði. Norðri hafði sverð gott, ok gekk hart fram. Eirekr konúngr hafði sótt með miklu kappi í miðjan her Sóta, þar til er Norðri kom móti honum, ok margir Tattarar. Þeir sóttu fast at konúngi, fèll þá mjök lið hans, svâ hann var nauðliga staddr milli sinna óvina. Hrólfr reið nú fram með vopnum Vilhjálms svâ hart, at fylkíng Sóta hrökk fyrir honum, hjó ok lagði til beggja handa, ok feldi margan mann, þar til hann kom móti Eireki konúngi. Hrólfr drap þar meir enn 30 manna. En er Sóti sèr þat, eirir honum stórilla, ok snèri þángat, sem Hrólfr var, ok lagði til hans með atgernum, hann kom skildi fyrir sik, ok lagði í móti fyrir brjóst Sóta, ok beit ekki á, en brotnaði spjótit í falnum; Sóti hjó tveim höndum til Hrólfs, höggit kom á miðjan skjöldinn, ok þar í sundr, ok hestinn fyrir framan boguna, svâ í jörðu nam staðar; var Hrólfr þá á fæti mjök móðr, þvíat hann hafði ákafliga barizt áðr um daginn. Eirekr konúngr barðist við Norðra, var þeirra atgángr harðr. Hrólfr hjó

þá höfuð af hesti Sóta; voru þeir þá báðir gángandi. Sóti hjó til Hrólfs, en hann veik sèr undan, ok sökk atgerinn í jörðina allt upp at höndum honum. Hrólfr hjó með báðum höndum á öxl Sóta, svâ sverðit gekk sundr fyrir framan hjöltinn. Hrólfr varð reiðr mjök, ok hljóp at Sóta, ok setti gaddhjaltit í höfuð honum, svâ stóð í heilanum, en við því gat hann eigi gert; fèll Sóti þar til jarðar, ok var þegar dauðr. Eirekr konúngr hafði þá drepit Norðra, brast þá flótti í liði Tattara, ok rann hverr til, sem mest mátti. Eirekr konúngr rak flóttann ok hans menn, ok drápu hvern, er þeir náðu, fengu þeir þar mikit herfáng í gulli ok silfri, vopnum, klæðum ok öðrum dýrgripum. Hrólfr vildi eigi reka flóttann, tók hann sèr hest, ok hljóp á bak, ok reið útí skóginn til Vilhjálms, ok segir honum, hversu farit hafi, bað Hrólfr hann taka hest þenna ok vopn sín: lát nú at öllu hröstliga, ok flýt nú brullaupsgerðinni! Vilhjálmr mælti: vel höfum við framgengit, ok er mikils vert um ráð mín ok vitsmuni, hversu mikit ek get til leiðar komit, ok mun ek frægðarmaðr verða. Hrólfr brosti at orðum hans, ok sagði, at honum þótti hann lítit gott vinna til frægðarinnar. Vilhjálmr stígr nú á hestinn, ok ríðr með öllum sínum herklæðum til Gyðu konúngssystur, ok segir mikit af sinni framgöngu ok hreystiverkum. Eirekr konúngr var þá heim kominn ok genginn til drykkju í

höll sína; Vilhjálmr gekk fyrir konúng, ok kvaddi hann, ok mælti: nærri var yðr nú farit í dag, herra! áðr ek hjálpaði yðr, þurfi þèr nú eigi at geta til, hverr ek er, eðr hvat ek fæ gert, því mèr er ekki ómáttugt. Konúngr segir, þat hygg ek, Vilhjálmr! at þín væri vopnin ok herklæðin, en Hrólfs hendrnar. Hrólfr segir: þat hygg ek, at gjarna vildi ek eiga systur þína, ok mega kenna mèr at rèttu hreystiverk Vilhjálms, en þat kemr mèr skamt fram, at ljúga þeim sæmdum á mik, er ek vinn ekki til, ok ek er eigi tilborinn. Vilhjálmr mælti: undarligt mun þat þikja, herra! þeim mönnum, sem til spyrja, at þèr villð mína frægð ok hreystiverk fordjarfa, eðr þikir yðr meiri sæmdarauki, at einn drengr af kotkarlaætt hafi unnit þetta ok eignizt systur yðra, slíkr sem Hrólfr er, því ósýniligr mun hann þikja til góðs höfðíngja, fólki at ráða eðr fremd at vinna; en ek er jarl at nafnbót ok jarls son, kominn af sjálfri konúngaættinni, fríðr ásýndar ok fullhugi hinn mesti, ok at öllum hlutum ágætr, þat er tignum mönnum berr at hafa. Nú ef þèr villð eigi festar eðr brullaupsgerð fram láta eptir skildögum, skal ek í burtu verða ok bera þinn vanheiðr á hvert land, at þèr hafið níðzt á mèr, ok rofit orð yðr ok trú; var þat talat í mínu landi, at hver konúngsdóttir væri fullsæmd af mínu gjaforði. Eirekr konúngr mælti: eigi skal þat

frèttast, at ek níðist á þèr, ok mun ek halda allan minn skildaga, en þat undra ek, at Hrólfr gengr aldri úr hug mèr, um meðferð ok athæfi ykkart, þvíat eigi þiki mèr þat at tilskipuðu vera. Skildu þeir nú talit, en konúngr lèt nú við brullaupi búast, ok var þar sótt veizla virðulig; at þeirri veizlu gekk Villijámr at eiga Gyðu, systur Eireks konúngs, ok hafði hún þar engin mótmæli; fèkk Vilhjálmr þá marga menn til þjónustu, ok lèt hann nú mikit yfir sèr.

19. Þat var einn morgun snemma, at Hrólfr gekk í skemmu þá, er Vilhjálmr svaf í, gekk at sænginni, ok mælti: nú er svâ komit, Vilhjálmr! at þú ert orðinn konúngs mágr, en ek hefi þjónat þèr allan tíma, segi ek þèr nú upp mína þjónustu ok lausan allan okkarn skilmála, máttu nú vel láta líka þèr, at við skiljum svâ búnir, virði ek meir til þess drengskap minn, en þína tilgerð; gekk Hrólfr síðan burt, en Vilhjálmr varð mjök hvimsa við. Gyða spyrr, því Hrólfr færi burt svâ skjótt, eða fyrir hverja sök hann færi þvílíkum orðum um? Vilhjálmr segir: þat er hans náttúra, at hann vill hvergi vera í sama stað meir enn mánuð eðr tvo, ef hann rèði, en ek hefi lengi haldit honum hræddum; nú er þat til þrautar, at sá hefir verr, er hans þjónustu hefir, því honum er allt illa gefit, er hann bæði þjófr ok[1] illmenni, en eigi veit ek, hvârt ek nenni at láta drepa hann hèr í ókunnu

[1]) *hèr byrjar aptr C.*

landi, en þó mun hann skjótt birta, hverr maðr hann er, ok mun hann þeim illa launa, er bezt gerir til hans; skildu þau nú talit; leið veizlan vel fram. Svâ er sagt, at lið þat, er undan komst af her Sóta, sigldi heim í Tattararíki, ok höfðu fengit mikinn mannskaða; þótti Menelaus konúngi þeirra ferð ill orðin, ok varð svâ búit at vera. Snemma um vorit komu þeir Sörkvir ok Brynjólfr af Jötunheimum, ok færðu Eireki konúngi marga fásèna gripi, höfðu þeir Grímr átt margar orrostur ok fengit jafnan sigr. Hrólfr var með konúngs hirð, ok var fátt með þeim öllum Sörkvi, Brynjólfi ok Vilhjálmi; en vel kom Hrólfr sèr við sessunaut sinn, því hann gaf jafnan silfr á báðar hendr, en aungum gerði hann gott, meðan hann var hjá Vilhjálmi. Sá var nú hinn þriðì vetr, er konúngsdóttir átti at fá mann til burtreiðar við Sörkva, ok hugsaði Eirekr konúngr nú til sín, ok þótti sem konúngsdóttir mundi aungvan mann fá.

20. Litlu síðar komu sendimenn konúngsdóttur til Eireks konúngs með þeim erindum, at hún beiddi at hann lèti þíng stefna fjölmennt mjök, ok á því þíngi vildi hún kjósa mann til burtreiðar við Sörkva, en ef hún fengi aungvan þann, er til þess vildi verða, þá vill hún gánga með konúngi eptir því, sem fyrr voru skildagar ok sættir þeirra

í milli. Við þeirri orðsendíng varð konúngr mjök lèttbrýnn, ok þótti nú júngfrúin sèr í hendi, lèt hann nú þíng kveða, ok boða þángat múg ok margmenni af borgum ok kastölum ok úr nálægum hèruðum, svâ ok it sama konúngsdóttir af sínu ríki bauð til sín mannvali því, er röskvast var innan lands; kom þar ok margr óboðinn, því mörgum var forvitni á, hversu til mundi gánga, voru allir landsmenn hugsjúkir fyrir hennar hönd. Þíngit var sett skamt frá kastala Íngigerðar konúngsdóttur. Eirekr konúngr kom til þíngsins með miklu fjölmenni, var þar með honum Sörkvir ok Brynjólfr ok Vilhjálmr, mágr hans, ok lètu allir (mikit) yfir sèr; Hrólfr var ok þar í för, ok hafði með sèr vopnin Hreggviðarnaut, ok þótti lítils um hann vert; var þar nú samankomit mikit fjölmenni. Svâ var skipat mönnum á þíngínu, at raðir voru settar í hrínga, ok eitt hlið á, er gánga mátti í milli. Vilhjálmr sat it næsta konúnginum, þá Sörkvir ok Brynjólfr útífrá, en aðrir vildarmenn sátu sèr. Hrólfr sat utarliga í yzta hríngnum ok mjök lágt. At svâ skipuðu gengr Íngigerðr konúngsdóttir á þíngit svâ fögr ok listilig, at eigi mátti ofsögum segja af hennar vænleik, horfðu allir menn á hana, nema Hrólfr, hann leit eigi til hennar, ok dró niðr höttinn fyrir andlitit. Konúngsdóttir gekk fyrir hvern mann; ok leit í augu þeim, gekk hún

svâ annan hríng ofan, en annan fram; at lyktum kom hún þar, er Hrólfr sat, ok þreif í hönd honum, en hann sat sem áðr; hún hnykkir þá upp kápuhettinum, ok mælti: eigi er hèr gott val á mönnum, en þennan kýs ek til burtreiðar fyrir mik móti Sörkvi, ok skal sjá maðr með mèr fara, ef hann vill. Hrólfr segir: allheimskliga kýs þú, þvíat ek kann eigi at ríða einsaman, svâ ek falli eigi ofan, er ek ok hræddr, þegar menn ýglast á mik. Konúngsdóttir segir: aldri sá ek þik fyrr, en þó skaltu eigi undan gánga, ef ek má ráða. Eirekr konúngr mælti: þat hugða ek, júngfrú! at þèr skylduð mann kjósa innlenzkan, en eigi úr öðrum ríkjum; er Hrólfr sveinn Vilhjálms, ok minn mann, skal hann því frjáls af þessu. Hrólfr segir: einkis manns sveinn er ek hèr í landi, skal ek ok at vísu veita konúngsdóttur hina fyrstu bæn, er hún biðr, ef hún þikist nokkut frjálsari eptir (enn) áðr; stendr Hrólfr upp síðan, ok gengr með konúngsdóttur, ok allir hennar menn, heim í kastalann, setr hún Hrólf í hásæti, ok veitir honum allan prís ok gleði. Eirekr konúngr fór í annan kastala af þínginu, ok var mjök ókátr; flestir menn undruðust, at konúngsdóttir kjöri þenna mann, er ósigrstrángligastr var. Iðraðist konúngr mjök, er hann hafði játat þessu konúngsdóttur, ok bað Sörkvi nú duga eptir megni, ok spara engin sín konstr,

er hann mætti frammi hafa: hefir mèr jafnan sagt þúngt hugr um þenna mann, skaltu nú ok vel geyma herklæðin Hreggviðarnauta, at eigi megi oss þat meina. Hrólfr var nú í kastalanum hjá konúngsdóttur í góðum fagnaði, ok segir hann henni sitt erindi, jarlsins vegna, en hún segist þat gjörla áðr vita mundu, ok því ráða: at ek fara með þèr burt hèðan, en þú þætti mèr makligastr, mín at njóta, ef þú frelsaðir mik af óvina valdi; skildu þau at svá mæltu. Um morgun var Hrólfr snemma á fótum, ok fór í herklæðin Hreggviðarnauta, en girði sik með sverðinu góða. Konúngsdóttir fèkk honum burstöngina ok skjöldinn, er faðir hennar hafði átt, bað hún hann þá tilgánga, ok taka hestinn Dúlcifal, var hann þá rekinn í sterkar grindr með mörgum hrossum, beit hann ok barði, ok drap mörg hrossin; Hrólfr gekk at grindunum, ok drap stönginni á skjöldinn; Dúlcifal gekk at Hrólfi, en svâ saung í staunginni ok skildinum, at öllum þótti undr í, er hjá voru. Hrólfr tók nú hestinn, ok lagði á söðulinn, ok hljóp upp fimliga með öllum sínum herklæðum, en Dúlcifal sprang af stað, ok stökk út yfir grindrnar, svâ hann kom hvergi nærri, ok síðan fram á völlinn. Nú var Sörkvir ok kominn til leikvallar, ok konúngr með honum, Vilhjálmr ok Brynjólfr ok mikill múgr manns.

21. Skikkar nú hvorr sinni burstöng (til) lags, ok ríðr hvorr móti öðrum, sem hestarnir kunna harðast; leggr þá hvorr til annars með miklu afli. Spjót Sörkva kom í skjöld Hrólfs, ok rendi útaf, en Hrólfr stakk hjálminum af Sörkvi, átti hann þá þriðjúng skeiðs eptir, er Hrólfr var af. Dúlcifal vill eigi staðar gefa, ok snýr aptr í móti, ok hefir Sörkvir eigi afriðit fjórðúng, áðr enn þeir mættast; leggr enn hvorr til annars, ok fór sem fyrr, at Sörkvir vann ekki á, en hann misti skjöldinn. Þeir ríða þá at í þriðja sinn, ferr þá Dúlcifal, sem fugl flýgi, þar til þeir mættust; Hrólfr leggr til Sörkvis, svâ festi í brynjunni, ok vegr hann upp úr söðlinum, ok hleypir með hann um völlinn, þar til hann steypir honum at höfðinu í einn fúlan pytt, svâ at Sörkvi gekk úr hálsliðnum, stóð þá Dúlcifal kyrr, sem hann væri grafinn niðr. Varð nú konúngsdóttir mjök fegin, ok allr landslýðr. En er Eirekr konúngr sèr þetta, verðr hann ákafliga reiðr, ok bað alla sína menn slá hríng um Hrólf, ok drepa hann sem skjótast[1], ok kvað hann síðar verr gera mundu, ef hann yrði nú laus. Var nú svâ gert, (sem) konúngrinn mælti, at sótt var at Hrólfi öllummegin; en er Dúlcifal sèr þat, rís hann upp örðugr, ok lamdi með framfótunum, ok beit með tönnunum marga menn til bana;

[1]) Vilhjámr sagði þat nauðsyn, *b. v. C.*

augu hans sýndust sem blóðsegar, en eldr þótti brenna úr nösum honum ok munni, fór hann svâ hlaupandi, at hann braut menn undir sik; Hrólfr sat ok eigi kyrr á baki, reyndi hann nú sverðit Hreggviðarnaut; hann hjó ok lagði til beggja handa bæði menn ok hesta, var hverjum vís dauðinn, er fyrir honum varð, stökk nú allt undan; Hrólfr reið þar at, er konúngr var fyrir, en hann hafði á hlaupi undan; drap Hrólfr þá meir enn hundrað manna, áðr hann komst á skóg, ok var móðr, en ekki sár. Þóttist nú Eirekr konúngr hafa fengit mikinn mannskaða, ok fór heim í kastala sinn um kveldit mjök óglaðr. Þetta sama kveld gerði konúngsdóttir sik blíða við menn sína, ok veitti þeim kappsamliga. Hún gerði allar sínar skemmumeyjar svâ drukknar, at þær fèllu sofnar niðr, en er skamt var af nótt, kom Hrólfr í kastalann, ok hitti konúngsdóttur, ok bað hana búna með sèr at fara. Hún segir sèr þá ekki at vanbúnu. Hrólfr hafði með sèr tvo kistla stóra, ok voru í dýrgripir konúngsdóttur, stíga þau síðan á Dúlcifal, ok riðu leið sína. Eigi er þat greint, hvar þau fara, eðr hversu lengi þau voru á leiðinni, en meir fóru þau um nætr enn um daga.

22. Nú er at segja frá Eireki konúngi, at hann vaknar um morguninn, ok bað menn herklæðast, ok leita eptir Hrólfi. Var nú svâ gert, ok leituðu hans þrjá daga, ok fundu hann

eigi, lèt konúngr þá leita til kastalans konúngsdóttur, ok var hún þaðan í burtu, svâ engi maðr vissi, hvat af henni var orðit; fèkk nú konúnginum mikils ótta[1] allt saman, ok var mjök reiðr. Hann mælti til Vilhjálms: þat sèr ek, at þú hefir logit allt at mèr, bæði frá þèr ok Hrólfi, má nú sjá, at hann er allr annar maðr, enn þú hefir sagt; sè ek, at Hrólfr hefir í hauginn farit, en eigi þú, hefir hann fengit hin góðu herklæðin, en ek þau er engu eru nýt; mátti þat á honum sjá, at hann var stórra manna, en þú ert dáðlaus svikari, ragr í hverja taug, hefir þú vitat alla hans fyrirætlan, ok þorat eigi at segja mèr, hygg ek þik at heldr eiga ríki eðr aðra góða hluti, at ek ætla þik þrælborinn þorpara í allar ættir; værir þú makligr, at ek lèti hengja þik á gálga fyrir þat fals ok svik, er þú hefir mèr gert ok minni systur, ok mun sá dauði fyrir þèr liggja, þó hann komi nú eigi fram. Við þessi orð konúngsins varð Vilhjálmr hræddr mjök, ok mælti: ek skal þat enn skjótt birta, hverr maðr ek er, stíg ek á stokk, ok strengi ek þess heit, at ek skal eigi fyrr koma í sæng hjá Gyðu, systur þinni, fyrr enn ek hefi Hrólf af lífi tekit, ok fært yðr höfuð hans ok júngfrúna, skal ek hèr einkis manns styrk til hafa nè fylgi; tók nú Vilhjálmr vopn sín ok hest, reið burt sem hvat-

[1]) *v. í C.*

ligast, ok eptir Hrólfi, en Eirekr konúngr sat eptir í Garðaríki, ok þótti nú illa at fara.

23. Nú víkr sögunni aptr í Danmörk til Þorgnýs jarls ok hans manna, ok (á) því sama hausti, er Hrólfr fór til Garðaríkis, fór jarl um ríki sitt at veizlum, sem siðr hans var til. Einn dag gekk maðr ókunnigr fyrir jarlinn, ok nefndist Möndull Pattason, ok sagðist farit hafa víða um Upplönd[1], ok lèzt frá mörgu segja kunna, ok mikla frægð unnit hafa. Hann var lágr á vöxt ok mjök riðvaxinn, fríðr at yfirlitum, utaneygðr var hann mjök. Jarl tók vel við þessum manni, ok bað hann með sèr dveljast. Þat þekktist hann, skemti hann jarlinum optliga, ok sagði frá mörgu fróðliga. Þar kom at jarlinn tók hann í mikla kærleika, at hann kallaði hann at hverju máli, ok var Möndull á tali við hann nætr ok daga, svâ at jarl gleymdi þar fyrir sinni ríkisstjórn. Einn tíma, sem optar, er Björn ráðgjafi fyrir Þorgný jarli, ok ávítaði hann fyrir þat, er hann gerði ókunnigan mann sinn trygðamann, ok þat tal tæki svâ úr hófi at gánga, at hann gái eigi síns ríkis þar fyrir. Jarlinn reiðist orðum Bjarnar, ok sagðist gera mundu, sem hann hafði þenkt, hvat er Björn sagði. Möndull heyrir orð Bjarnar, ok gaf sèr ekki at. Björn talaði hèr um enn mörgum orðum sannliga, ok gekk burt síðan. Björn átti hús í borginni nær jarls herbergi, en

[1]) útlönd, C.

annan garð utan borgar, sem fyrr var sagt; einn dag kom Möndull svå í herbergi Bjarnar, at hann var eigi heima, ok engi maðr annar nema Íngibjörg, kona hans; hann lèk við hana mjök blíðliga, en hún tók því vel; þar kom at hann leitaði við hana samfara, ok fór þar um mörgum fögrum orðum, hann bauð henni af sèr at þiggja marga góða gripi, en lastaði Björn í hverju orði, ok kvað hann ekki at manni vera. Íngibjörg reiddist þessu mjök, ok svaraði honum hæðiliga, ok sagðist (aldri) með honum gánga skyldu. Möndull tók þá könnu[1], ok brá undan yfirhöfn sinni, ok bað hana drekka sáttarbikar þeirra, en hún sló hendinni neðan undir kerit, ok uppí andlit honum. Hann reiddist við þetta, ok mælti: eigi skulu vèr fyrr skilja, þú ok Björn, bóndi þinn, en ek hefi launat ykkr því, sem þið eruð maklig, fyrir þá svívirðíng, er þið hafið mèr gert, bæði með orð ok verk. Gekk hann síðan burt, ok fyrir Þorgný jarl, ok mælti: þat vildi ek, herra! at þèr sýnduð yðvart lítillæti, ok þægið af mèr belti eitt, er ek tók í arf eptir föður minn; hann leggr þat á borð fyrir jarlinn; þat var allt með gulli gert[2], ok gimsteinum sett; eigi þóttist jarl betra grip sèð hafa. Jarl þakkaði honum, ok sagðist eigi þvílíka gjöf þegit hafa af ótignum manni; var Möndull þar um vetrinn í sömum kærleikum, en fátt var Stefni til hans ok Birni. Jarl

[1]) ok ker, *b. v. C.* [2]) grafit, *b. v. C.*

hafði mikla virt á beltinu, ok sýndi þat vinum sínum jafnan, þá er hann hafði veizlur. Íngibjörg, kona Bjarnar, tók kránkleika nokkurn undarligan um veturinn, hún gerðist öll blá sem hel, en sinnaði um aungvan hlut, sem hún væri vitstóla; varð Birni mikil raun at þessu, því hann unni henni mikit. Þat bar til (um) vorit[1] at veizlu einni, at beltit Möndulsnautr hvarf burt frá jarli; var þess víða leitat, ok fannst eigi; þótti jarli þat mikill skaði, ok lèt mjök grund at gefa um eptirleitina, ok fannst þat eigi. Jarl spurði Möndul, hvat (hann) hugði af orðit, eðr hversu eptir skyldi leita. Möndull segir: vant er mèr at kveða á mann hverr tekit hefir, þótt ek þikist nærri geta munu, en þat er líkara, at sá hafi fleira frá yðr stolit enn þessu einu, er beltit hefir tekit, mun þat ríkr maðr gert hafa, sá er jafnan hefir yðarn heiðr öfundat. Nú er þat mitt ráð, at þèr látið ransókn uppi hafa, þá er alla varir minnst, ok lát öngvan undan gánga, þótt framr[2] sè, en eigi mun sá sjálfkrafi sína hirzlu uppi láta, er tekit hefir, en hverr, sem þat (hefir) gert, má at rèttu á gálga (hánga). Jarli þikir þetta gott ráð, ok segir svâ vera skyldu, lætr hann nú samankalla alla sína hirð, ok segir þeim, at hann vill ransaka hvers manns hirzlu; fyrst Stefnis, sonar síns, ok Bjarnar ráðgjafa, svâ at aðrir menn mætti því betr við una. Þeir

[1]) veturinn, C [2]) frómr, C.

lètust þess búnir; var nú svâ gert, at Stefnir sýndi fyrst sínar fèhirzlur, ok fannst þar ekki; síðan var hjá Birni leitat ok öllum, er í voru borginni, ok kunni þat eigi at finnast. Þá mælti Möndull: eiga mun Björn fleiri hirzlur, en hèr at eins í staðnum, ok hefir þar eigi leitat verit. Stefnir sagði: víst á Björn utan borgar, ek trúi (ok eigi) þángat leita mega. Jarl segir þángat fara skyldu, ok svâ gerðu þeir; lèt Björn þá uppi ransókn sem fyrr. Möndull gengr at fornri kistu einni, ok spyrr, hvat þar er í? Björn segir, þarí vera fornan skipsaum. Jarl bað upplúka. Björn leitaði at lyklinum, ok fann ekki. Jarl gekk þá at, braut upp, ok bar upp þat er í var, en á neðanverðum botninum lá beltit. Allir menn undruðu þetta, en Björn þó mest, því hann vissi sik saklausan af þessu. Jarl varð nú reiðr mjök, ok bað Björn höndum taka: ek skal, segir hann, heingja þik á hæsta gálga, þegar er morgin kemr, því þetta hefir hann fyrri gert, þó nú at eins sè víst orðit. Var nú Björn tekinn ok bundinn sterkliga, því enginn þorði móti mæla, þó hann þætti ómakligr þessa. Björn bauð skírslur fyrir sik, sem landssiðr er til, en jarl vildi þat ekki heyra. Stefnir fèkk þat af föður sínum, at hann lifði 7 nætr, ef þat fyndist nokkut í, at honum væri til hjálpar, ok skyldi hann vera í varðhaldi Mönduls, ok eigi í borgina heim koma. Margir hörmuðu

þetta, því Björn var mjök vinsæll. Fór jarl nú heim í staðinn með mönnum sínum, ok gengu undir drykkjuborð. En þegar hirðinn hafði kent fyrsta rètt, ok drukkit fyrsta bikar, var öllum horfin vinátta við Björn, ok þótti þá öllum, sem hann mundi sannr at sök. Möndull var nú í garði Bjarnar, ok rak í burtu alla hans heimamenn, hann tók Íngibjörgu, ok lagði í sæng hjá sèr hverja nótt, Birni ásjáanda, ok hafði hún allt blíðlæti við hann, en mundi ekki til Bjarnar, bónda síns: þótti nú Birni þúngliga at fara, ok líða nú svâ þessar 7 nætr, sem frá var sagt. Víkr nú aptr sögunni þángat, er fyrr var frá horfit, því eigi verðr af tveimr hlutum sagt í senn, þótt báðir hafi jafnfram orðit.

24. Nú er frá því at segja, at þau fóru úr Garðaríki, Hrólfr ok konúngsdóttir, at einn dag sjá þau, hvar einn maðr ríðr eptir þeim; hann er í línklæðum einum, ok girðr sverði; hann dregr skjótt eptir þeim; kennir Hrólfr, at þar er Vilhjálmr kominn, en þegar hann sèr Hrólf, fellr hann til fóta honum, ok biðr sèr liknar á marga vega: hefir ek hart af fengit, síðan við skildum, segir Vilhjálmr, því konúngr lèt setja mik í myrkvastofu, ok vildi láta drepa mik, komst ek í burt með ráðum[1], bæði frosinn ok húngraðr, er ek nú kominn á þína miskun, Hrólfr minn! hvat sem þú vilt af mèr gera; vilda ek aldri gert hafa, er þèr mætti

[1]) nauðum, C.

mislíka, ok alla daga vera þèr hollr ok trúr hèðan frá, ef þú lætr mik nú lifa ok fylgja þèr aptr til Danmerkr. Hrólfi fèkkst hugar við hörmúngarlæti Vilhjálms, ok segist eigi nenna at drepa hann, þó hann væri þess makligr. Konúngsdóttir kvað, því misráðit vera mundu: því hann hefir íllt yfirbragð ok illa mun hann reynast. Vilhjálmr fór nú með þeim, ok gerði sik mjök þjónustumjúkan, en aldri var honum óhætt at koma nærri Dúlcifal, því hann beit Vilhjálm, ok barði, ef hann náði, fóru þau til þess, er ein dagleið var eptir til Þorgnýs jarls; höfðu þau tekit sèr náttstað undir skógi einum, ok skutu sèr laufskála um kveldit, lágu þau Hrólfr ok konúngsdóttir bæði saman hverja nótt, ok nakit sverð í milli þeirra. Vilhjálmr stakk Hrólfi svefnþorn um nóttina, en um morgin stóð hann upp snemma, ok tók hestinn Dúlcifal, ok lagði söðul á hann, ok þetta eitt vildi hann at Vilhjálmi þiggja. Hrólfr lá í herklæðum sínum, ok utan yfir Vefreyjunaut. Íngigerðr stóð upp, hún knúði Hrólf, ok fèkk eigi vakit hann, hvernveg sem hún fór at, gengr hún þá úr skálanum, ok grætr. Vilhjálmr sèr þat, ok spyrr, hvárt henni gætist lítt at hvílbrögðunum. Hún segir: allt má mèr vel við hann líka, en svá sefr hann fast, at ek fæ ekki vakit hann; ek skal þá vekja hann, segir Vilhjálmr, gengr hann þá at, ok ryðr í sundr skálanum,

síðan hjó hann báða fætrna undan Hrólfi; ok stakk þeim milli klæða sèr. Hrólfr svaf sem áðr. Konúngsdóttir spyrr, hvat brysti. Lífstundir Hrólfs, sagði Vilhjálmr. Konúngsdóttir segir: njót allra manna verst lífs ok handa, ok var þetta it mesta óhappaverk unnit, muntu illa ílls bíða. Vilhjálmr mælti: tveir eru kostir gerfir, taktu hvârn, er þèr þikir vildari, ok er sá annar, at þú skalt fara með mèr til Þorgnýs jarls ok sanna þat, er ek segi, því ek hygg mèr lítit til sæmdar, at fara aptr í Garðaríki, hinn er annar kostr, at ek drep þik, sem þú ert kominn; hún hugsar, at kjósa sèr eigi dauða, meðan hún á kost at lifa, en þikir fyrir Vilhjálmi einskis ílls örvænt, segir hún þá, at hún mun honum fylgja, ok eigi í móti mæla, því er hann segir, ef hann gerði henni öngvan vanheiðr í sínum orðum, varð hún hèr eið at vinna. Vilhjálmr vildi taka Dúlcifal, en þess var engi kostr, þvíat hann beit ok barði á alla vega, svâ hann mátti honum hvergi nærri koma, ok eigi mátti hann at Hrólfi gánga fyrir hestinum, mátti hann ekki með sverðit fara fyrir þúnga sakir; lá Hrólfr nú þar eptir, en þau fóru leiðar sinnar; þótti konúngsdóttur nú þúngt atfara, ok mikit við Hrólf at skilja, svâ lítt sem hann var staddr. Er eigi frá þeirra ferð fyrr sagt, en þau komu til Þorgnýs jarls, gengr hann móti konúngsdóttur með allri vegsemd ok blíðu;

hann spurði, hvat manna hann væri. Hann svarar: ek er einn bóndason af góðri ætt hèr í Danmörku, ok kom ek í ferð með Hrólfi, þá er hann fór til Garðaríkis, höfum við þar unnit margar þrautir, ok at seinustu vann hann Sörkvi, kappa Eireks konúngs, ok drap hann, þat þoldi konúngrinn eigi, ok lèt taka Hrólf ok drepa, eru hèr fætr hans, er ek hefi með mèr til sýnis; náði ek síðan konúngsdóttur, ok færði ek hana híngat, hefi ek lagt mik í margan lífsháska fyrir yðra skuld, ok báðir við Hrólfr, var ok engi honum hraustari, þvíat hann gafst aldri upp, fyrr enn hann misti báða fætrna; þikkjumst ek nú kominn til ráðahags við Þóru, dóttur yðra, er yðr smánarlaust at eiga mik fyrir mág fyrir ættar ok mannskapar sakir; þarf því eigi at fresta, at nú sè bæði saman brullaupin. Flestum þótti saga Vilhjálms sannlig, ok hörmuðu allir dauða Hrólfs, mest jarl ok Stefnir, son hans. Ingigerðr grèt mjök; jarl blíðkaði hana, ok spurði, hvort Vilhjálmr hefði honum satt sagt. Hún sagði: eigi mun Vilhjálmr meira at yðr ljúga enn öðrum, en þess vil ek yðr biðja, at þèr frestið mánuð brullaupunum, kann þar mart til at koma, at yðr þikir eigi svâ mega vera. Þóru fèll ok lítt til Vilhjálms, ok beiddi þess sama. En er Vilhjálmr heyrði þetta, kjaptaði hann: látið þèr eigi á brullaupum frest,

hvat sem þær segja, því kvenna skaplyndi er ómerkiligt. Stefnir sagði: vel stendr, at konúngsdóttir ráði þessu, ok eru þetta eigi löng frest. Vilhjálmr segir: óhöfðíngliga er þat sagt, at láta konur ráða fyrir sèr ætlun sinni, eðr son sinn, ef þau ráða þó verr. Stefnir reiddist við orð hans, ok sagði þær skyldi ráða, en eigi Vilhjálmr: ella skal ek missa lífit. Vilhjálmr segir þat skaðalaust, þó hann væri drepinn. Jarl bað þeim þetta eigi at grein verða: en þó mun Stefnir ráða því, er hann vill tilhlutast, en þú, Vilhjálmr! munt ná ráðahag við dóttur mína, því þú hefir vel tilunnit. Stefnir tók í hönd Íngigerðar, ok leiddi hana til skemmu systur sinnar, læsti síðan, ok geymdi sjálfr lykkilinn. Þat er sögn manna, at Íngigerðr konúngsdóttir hafi geymt fætrna ok borit hjá þau grös, er ekki mátti deyja; líkaði Vilhjálmi illa við Stefni, ok varð at hafa svâ búit.

25. Nú er þar til máls at taka, er Hrólfr er; hann lá til kvelds sem dauðr, því svefnþorninn lá í höfði honum, hafði Vilhjálmr hann ekki burttekit. Dúlcifal stóð með söðli ok beizli þar yfir honum, til þess er hann gekk at Hrólfi, ok velti honum með höfðinu um völlinn, fèll þá burtu svefnþorninn. Hrólfr vaknar við þat, at undan voru báðir fætrnir, horfinn skálinn, en Vilhjálmr burt ok konúngsdóttir, þar lá sverðit Hreggviðarnautr. Hrólfi þótti nú

mjök harkast um, en þó hreyfir hann sik, ok tekr lífsteinana, ok skefr í stúfana, tók þá skjótt sviða úr sárunum. Hrólfr skreið at hestinum, en hann lagðist niðr, fèkk Hrólfr þá velt sèr í söðulinn, stóð Dúlcifal þá upp; reið Hrólfr þá til þess, er hann kom til bæjar Bjarnar, vinar síns, því hann vildi eigi ríða til borgarinnar, en þótti lángt til kastala síns. Dúlcifal lagðist, þegar hann kom í garðinn, tók Hrólfr þá beizl af honum, en skreið inní húsin, þótti honum þar auðigt mjök. Hrólfr fór í eldaskála, ok kastar sèr niðr í sætit, þar er skuggi bar á, ok lá þar um stund, hann sèr þá, hvar kona gengr, ok hefir eld meðferðar; þessi kona var blá at yfirlit sem klæði, ok mjök bólgin; hún kveikti eld. Litlu síðar kemr inn maðr í skarlatsbúnaði ok skarband um enni af gulli gert, hann var lágvaxinn ok miðdigr; hann leiddi mann einn eptir sèr, ok var bundinn at höndum ok fótum; þar kennir hann Björn, vin sinn, ok þikir hann harðliga leikinn. Hann leggr Björn niðr, en sezt niðr við eldinn, ok setr konuna hjá sèr, ok kysti hana. Björn mælti: illa gerir þú, Möndull! er þú hefir svikit konu mína, en forlogit mik við jarl, svå hann lætr hengja mik á þriggja nátta fresti fyrir aungva sök, mundi eigi svå fara, ef Hrólfr Sturlaugsson væri innan lands, mun hann ok mín hefna, ef

honum verðr aptrk vomu auðit. Möndull svarar: aldri mun han n þèr hjálpa, nè þín hefna hèðanfrá, má ek þat af honum segja þèr, at undan honum eru báðir fætrnir, ok ódauðr at eins, mun hann aldri lífs aptrkoma. Hrólfr færist nú á stúfana upp í sætinu, ok tekr báðum höndum um háls Mönduls, ok mælti: þat skaltu vita, at enn lifa hendr Hrólfs, þó fætrnir sè farnir; kippir honum niðr undir sik, svâ at kvorar niðr í honum. Hann mælti þá, ger svâ vel, Hrólfr! at þú drep mik eigi, skal ek þik þá heilan gera, þvíat ek á þau smyrsl, er engi eru slík á Norðrlöndum, hefi ek svâ mikil konstr til læknisdóms, at ek má allt heilt vinna, þat lífs er von, innan þriggja nátta; ek vil þèr ok kunngera, at ek er dvergr í jörðu byggjandi, ok dvergsnáttúru hefi ek á kynstrum til lækidóms ok hagleik; fór ek þess erindis híngat, at ek ætlaði at heilla Þóru jarlsdóttur eðr Íngibjörgu, ok hafa þær burtu með mèr; en fyrir því at Björn sá gjörst, hverr ek var, þá vildi ek svâ fyrirkoma honum, at ek tók beltit ok lèt ek í kistu hans, en ek tók burt lykkilinn, at hann þætti því líkligri til, at hann hefði stolit, sem hann væri tregari til kistunni upp at lúka, hefir ek snúit allra manna vináttu við Björn. Nú vil ek gjarna allt til lífs mèr vinna, þat er þú kant beiða, þvíat minn lífgjafa skal ek aldri svíkja. Þá mælti Hrólfr:

þat mun ek voga, at gefa þèr líf, en fyrst skaltu Íngibjörgu lækna ok leysa Björn; lèt hann þá Möndul uppstanda, ok var hann svartr ok ljótr eptir skapan sinni, leysti hann Björn, en færði Íngibjörgu úr klæðum, ok smurði hörund hennar með góðum smyrslum, ok gaf henni minnisveig at drekka, ok vitkaðist hún þá skjótt, en hvítnaði hörundit, ok tók þá heilsu sína, ok týndi allri ást við dverginn. Þökkuðu þau Björn Hrólfi, sem verðugt var. Eptir þat hvarf Möndull, ok kom aptr, þegar stund leið, ok fór þar með fætr Hrólfs ok stóran smyrslabuðk. Hann mælti: nú mun ek þat gera verða, sem ek hafði áðr eigi ætlat, at græða þik, Hrólfr! skaltu nú leggjast niðr við eldinn ok baka stúfana. Hrólfr gerði svâ; smurði hann þá smyrslunum í sárin, ok setti við fætrna, ok batt við spelkur, ok lèt Hrólf svâ liggja þrjár nætr, leysti þá af umbönd, ok bað Hrólf upp standa ok reyna sik. Hrólfr gerði svâ, voru honum fætrnir þá svâ hægir ok mjúkir, sem hann hefði á þeim aldri sár verit. Nú þótt mönnum þiki slíkir hlutir ótrúligir, þá verðr þat þó hverr at segja, er hann hefir sèð eðr heyrt. Þar er ok vant móti at mæla, er hinir fyrri fræðimenn hafa samsett[1]. Þá

[1]) hefði þeir þat vel mátt segja, at á annan veg hefði atborizt, ef þeir vildi; hafa þeir ok sumir spekíngar verit, er mjök hafa talat í figúru um suma hluti, svâ sem meistari Galterus í

mælti Hrólfr til Mönduls: nú hefir þú vel gert, er þú hefir mik læknat, skaltu hjá mèr hafa nokkura hluti, er þú beiðir; þess vil ek biðja, at þú fylgir mèr til Garðaríkis, ef ek fer þángat aptr. Möndull segir, svâ vera skyldi, mun ek nú fara til minna heimkynna, hefi ek hart af fengit okkrum viðskiptum, ok þat harðast, at ek skilda við Íngibjörgu, en þó mun nú svâ verða vera. Fór Möndull dvergr við svâ búit, ok vissi Hrólfr ekki, hvat af honum varð.

26. Um morguninn eptir stendr Hrólfr upp, ok herklæðist. Hann mælti til Bjarnar: nú munu við fara í borgina fyrir jarl. Björn segir: ófús er ek þess, þvíat nú er úti sá tími, er mèr var griðum játat, ok er mèr vís dauði, ef ek kem þar. Hrólfr mælti: til þess muntu hætta verða. Fóru þeir nú til borgarinnar, ok gánga inní höllina, ok námu staðar utarliga. Jarlinn sat þá yfir drykkjuborðum, ok kendi eigi Hrólf, ok engi sá, er inni var. En þegar sem jarls menn sáu Björn, mæltu þeir allir til hans: djarfr gerist þjófrinn Björn, er hann gengr fyrir augu jarls, ok illa hefir Möndull gætt hans, er hann er laus orðinn. Einn maðr tók upp öxahnútu stóra, ok snarar

Alexandrí sögu eðr Umeris skáld í Trójumanna sögu, ok hafa eptirkomandi meistarar þat heldr til sanninda fært, enn í móti mælt, at svá mætti vera; þarf ok engi meira trúnað á at leggja, en hafa þó gleði af, á meðan hann heyrir, *b. v. C.*

at Birni, en Hrólfr tók hana á lopti, ok sendi aptr þeim, er kastaði, kom hnútan fyrir brjóst honum, ok í gegnum hann, svâ hún stóð föst ítimbrveggnum. Allir hljóðnuðu við þetta, ok hræddust hinn mikla mann, er inn var kominn. Hrólfr mælti til Bjarnar: gaktu fyrir sæti Stefnis, ok tala þessum orðum: bjóða mundi Hrólfr Sturlaugsson þèr, ef hann væri hèr fyrir, en þú kæmir til. Björn þverfetar innar eptir höllinni, því hann var hræddr mjök, þar til hann kom fyrir Stefni, mælti hann þá þessum orðum, er Hrólfr bauð honum. En er Stefnir heyrði orð hans, stökk hann fram yfir borðit, ok gekk utar at Hrólfi, ok lètti kápuhettinum frá andliti honum, kendi hann þá Hrólf, ok fagnaði honum forkunnar vel, ok leiddi hann fyrir föður sinn. Jarl varð feginn komu Hrólfs, ok stóð upp í móti honum með allri blíðu. Vilhjálmr setti nú ekki vel augun, er hann sá Hrólf; var hann stundum rauðr yfirlits, en stundum bleikr sem bast af hræzlu. Þorgnýr jarl mælti: hèr sýnist mèr nú Hrólfr, Vilhjálmr! en eigi dauðr. Hrólfr spyrr, ef Vilhjálmr væri þar. Hann segir: hèr em ek, Hrólfr minn! ok er allt á þínu valdi, þat mèr tilheyrir. Hrólfr segir: ekki skildist þú vinsamliga við mik, Vilhjálmr! ok mun þèr lengi illt innan brjósts búit hafa, þó nú sè framkomit, ok er þat nú vildast, at þú segir æfisögu þína, þótt eigi sè góð, þvíat

lítill heiðr mun þèr at þínu lífi verða hèðan frá. Svâ skal gera, sem þú vilt, Hrólfr minn! því þat mun bezt gegna, segir Vilhjálmr.

27. Þat er upphaf at sögu minni, at faðir minn bjó við skóg einn hèr í Danmörk, er Úlfr hèt, hann átti sèr konu ok átta börn, ok var ek eitt af þeim, et elzta at aldri. Faðir minn átti geitr margar ok mjök óspakar, var ek til þess fenginn, at geyma þeirra, ok allt gerða ek, þat er tilfèll, ok ek komst höndum undir, en viðgerníngr var lèttr, ok illa var ek klæddr; en þegar ek kom eigi geitunum heim, þá var ek flengðr, tók ek þetta illa at þola, þar til at ek kom heim eina nótt, bar ek eld at húsunum, ok brendi ek þau inni; bjó ek þá búinu um lánga stund, tók ek þá mikinn þroska. Eina nótt dreymdi mik, at maðr kom at mèr mikill vexti, ok nefndist Grímr, hann kvað mik vera gott mannsefni ok mikla giptu lagna verða, ef ek kynni eptir at leita, ok mælti til kaupa við mik; ek spurði, hvernin kaup þat væri. Hann segir: ek skal gefa þèr enn meira afl[1], enn þú hefir áðr, þar með vopn ok góð klæði, ok fleiri hluti aðra; en þú skalt fara á fund Hrólfs Sturlaugssonar, ok svíkja hann, ef þú getr, því hann er nú á ferðkominn, ok ætlar hann nú til Garðaríkis, ok ná burt konúngsdóttur, mun hann mörgu illu af stað koma, ef hann er eigi af dögum ráðinn; má svâ gera giptumuninn, at þú

[1]) áhalds, C.

verðir mágr Eireks konúngs, en hann fái bana. Ek játaði þessu. Síðan tók hann horn undan skikkju sinni, ok gaf mèr einn drykk; þótti mèr þá hlaupa afl í mik; síðan skildu við at svâ mæltu, ok er ek vaknaði, lágu þar bæði vopnin ok klæðin; fór ek síðan, þar til er við fundum Ölvi, frænda minn, voru þat allt mín ráð, er þar fór fram, því ek þóttist vita, at þú mundir halda eiða þína, ok ek mundi kosti eiga at drepa þik, þá er ek vilda, ok þú hefðir unnit mèr þat til framkvæmdar; þikist ek nú vita, at þetta hefir Grimr ægir verit, er mèr hefir vitrazt, ok því fór ek úr Garðaríki eptir þèr, at ek hræddumst, at hann mundi mèr grimliga hefna, ef ek gerði þat eigi, er hann hafði mælt. Nú hafði ek ætlat, at fá Þóru til eiginkonu, ok því færði ek Íngigerði[1] híngat, en eigi í Garðaríki, hefði ek þar aldri óttalaus verit, ef it sanna væri uppi um hagi mína, ok hefi ek ætlat at drepa Stefni, ok svâ jarl eptir, ok taka Íngigerði ok ráða einn fyrir ríkinu þaðan af; mundi ek hafa gengit milli bols ok höfuðs á þèr, Hrólfr minn! í skóginum, ef ek hefði eigi óttast Dúlcifal. Er nú æfisaga mín úti. Væntir mik nú, Hrólfr minn! at þú munir gefa mèr líf, þótt ek sè ómakligr, því mèr hefir nokkur vorkun á verit, at vinna til þvílíks heiðrs, sem í boði var, ok slíks kvonfángs ok mikils ríkis. Eptir þat þagnar Vilhjálmr, en öllum þeim, er heyrðu

[1]) mik, C.

þessa sögu, þótti hann vera hinn mesti svikari. Eptir þat hefir Hrólfr upp sína sögu, ok segir frá því, er hann fór heiman úr Danmörku, ok til þess, er þá var komit, ok þótti mönnum mikils vert um hans frægð ok hreystiverk, ok þótti dvergrinn honum sendr verit hafa til happa. Tók nú Björn aptr þvílík metorð ok heiðr, sem hann hafði áðr haft, en Vilhjálmr var nú fánginn, ok er stefnt til hans fjölment þíng; var þá um leitat, hvern dauðadag hann skyldi helzt hafa; urðu allir á þat sáttir, at hann fengi hit hræðiligasta líflát, ok var síðan sett ginkefli í kjapt honum, ok hengðr á hæsta gálga, lèt Vilhjálmr svâ sitt líf, sem fyrr var sagt, ok var þess von, at illa mundi illum lúka, þarsem þvílíkr svikari ok morðíngi var. Íngigerðr konúngsdóttir varð fegin aptrkomu Hrólfs, ok því at hann var heill orðinn, átti jarl þá tal við hana, ok segir, at nú mundi ekki brullaupinu lengr fresta þurfa. Hún segir; þat skuluð þèr vita, herra! at eigi er hefnt Hreggviðar konúngs, föður míns, ok þat með, at ek skal í enskis manns sæng koma, fyrr enn þat er gert, at Eirekr konúngr er drepinn, ok Grímr ægir, ok allir þeir er þar gerðu mest at; vil ek ok eigi, at Garðaríkis menn þjóni undir annan höfðíngja enn þann, er ek skal eiga. Hrólfr segir: meðr því ek færði konúngsdóttur burt úr Garðaríki, ok hún vildi mèr lostig fylgja, þá skal hún ok ó-

nauðug af hverjum manni, ef ek má ráða; en bjóða vil ek yðr, herra! at fara í Garðaríki með styrk yðrum, ok vinna þar þvílíkt, er ek má orka. Jarl segir: þakka vil ek yðr, Hrólfr! fyrir þann góðvilja, er þèr hafið mèr tèð í þessu ok í allri þinni þjónustu. Nú vil ek gjarna þat þiggja, at þið, Stefnir! sèuð formenn þessar ferðar, skal ek ykkr svâ búa í þessa ferð at skipum ok liði, sem ek hefi framast efni á, þvíat ek vildi, at þið kæmuð svâ hefndum fram, at konúngsdóttur líki, skal ok brullaupit eigi fyrr vera, enn þið komið aptr, ef þess verðr auðit. Konúngsdóttir segir sèr þetta vel líka, ok var þetta með þeim staðráðit. Menn Hrólfs höfðu beðit hans í kastalanum, meðan hann var í burtu, ok urðu þeir glaðir við hans heimkomu.

28. Lætr nú Þorgnýr jarl hafa skipa búnað ok vopna um sumarit, svâ vítt sem hans ríki var; kom honum ok mikit lið af Svíþjóð ok Fríslandi, er frændr hans ok vinir sendu honum, ok enn fèkk hann mikinn styrk af Vindlandi[1], var nú mikill viðbúnaðr í Jótlandi í þessari herferð, en svâ sem herinn var allr saman kominn, var þat frítt lið ok vel búit. Þeir höfðu hundrað skipa, ok flest stór, voru þeir Hrólfr ok Stefnir formenn þessa liðs. Þeir biðu byrjar nokkura daga; einn dag gekk maðr fram at borði á skipi

[1]) *Þannig C*; Vinnlandi, *A.*

Hrólfs; hann var lágr ok digr, hafði stóran bagga á herðum sèr; henn gengr bryggjuna á skipit; Hrólfr kennir þenna mann; þar er kominn Möndull dvergr; Hrólfr fagnar honum vel; Möndull lagði baggann af sèr, ok mælti: nú er ek hèr kominn, sem þú beiddir, Hrólfr! ok mun ek fara með þèr, ef þú vilt, með því móti at ek ráði öllu því, er ek vil tilleggja, ok engi bregði af mínum ráðum, þó mun alls við þurfa, at vel takist. Hrólfr svarar, ok segir, at allir skyldi hans ráð hafa, ok hann vildi gjarna hans föruneyti þiggja. Þá mælti dvergr: þat er fyrst mín skipan, at þú, Hrólfr! skalt vera á því skipi, sem fyrir skal fara alla leið, þvíat þú hefir gullit álfkonunaut; máttu eigi vilt fara; vèr skulum tengja saman öll skip vor, hvert af stafni annars, ek skal vera á því skipi, er seinast ferr. Vèr skulum eigi fyrr leysa, enn undit er segl á öllum skipunum, ok þótt nokkur leysist úr flotanum, þá skal enginn hjá fram sigla, skuluð þèr þessu framhalda, ok eigi af bregða, hvat er ánýr[1], eðr yðr kann sýnast, ok mun þá vel duga; aldri skulu vèr at landi leggja, nè nokkura dvöl hafa, fyrr enn vèr komum til Garðaríkis; skulum vèr nú segl vinda, þvíat byr mun eigi skorta. Var nú svâ gert, sem Möndull hafði fyrir sagt, bað Þorgnýr jarl vel fyrir þeim ok Íngigerðr. Björn ráðgjafi var eptir

[1]) ágnýr, C.

með (jarlinum), ríkinu til gæzlu. Rann nú byr á, ok sigla þeir Hrólfr í haf; þeim byrjaði hægliga, en svâ sýndist þeim, sem annat mundi veðr í lopti, sjór var úthverfr kríngum þá, ok miklar dunr voru í loptit at heyra. Möndull sat við. stjórn á síðasta skipi. Hann tók eitt stórt kefli, ok batt þar um blám þræði, ok dró þat eptir skipinu í vörina. Eina nótt sýndist þeim, sem herskip færi í móti Hrólfi, ok veitti honum harða atsókn. Möndull kallaði, ok bað öngvan gefa sik at því, en þeir sögðu hann svâ hræddan, at hann þyrði eigi verja lið Hrólfs. Þeir leystu skip eitt úr flotanum, ok vildu fara framfyrir önnur skipin, en þess var eigi kostr, þvíat vindr kom í móti þeim, ok rak þá aptr um öll skipin, ok þat sá hann til þeirra síðast, at einn stór hrosshvalr kom at þeim, ok steypti skipinu um koll, týndist þar hvert mannsbarn. Mörg undr bar fyrir þá önnur ok brugðu menn sèr misjafnt við; þeir týndu alls tuttugu skipum, áðr þeir komu í Garðaríki; lögðu þeir uppí ána Dýnu, ok herjuðu þar á bæði borð, brendu bygðir, en ræntu fè, því er þeir náðu; mart fólk gekk til handa þeim, ok fengu þeir með því fjölda liðs, spurðu þeir brátt til Eireks konúngs, hvar hann var með fjölmenni; lögðu þeir þá skipunum í eitt lægi. Möndull tók bát einn, ok rèri kríngum öll skipin. Síðan gekk hann á land, ok bað menn tjalda við einn hamar, er þar var nær þeim: skal hvert tjald standa af annars

enda upp; var nú svâ gert. Eptir þat leysti hann bagga sinn, ok tók þar úr svört silkitjöld; hann tjaldaði þeim utan yfir öll önnur tjöldin svâ breitt ok sterkliga, at hvergi fannst smuga á. Þetta var fyrir vetrnætr, er þeir komu í Garðaríki. Möndull dvergr mælti: nú skal bera kost af skipunum í tjöldin, svâ endast megi um 3 nætr, síðan skulið þèr í tjöldin gánga, ok enginn utsjá, fyrr enn ek segi yðr til; var nú allt gert eptir hans boði; gekk Möndull síðast inn, ok fór þó áðr umhverfis tjöldin. Litlu eptir þetta heyrðu þeir, at veðr tók at hvessa, ok gnúði fast á tjöldin, þótti þeim þat undrum gegna. Maðr einn var svâ forvitinn, at hann spretti tjaldinu, ok sá út, en er hann kom inn aptr, var hann bæði vitlaus ok mállaus, ok innan lítils tíma dauðr. Þessu gekk þrjár nætr, at veðrit stóð. Möndull mælti: eigi komum vèr allir aptr til Danmerkr, ef Grímr ægir má ráða, því hann var sá hrosshvalr, er týndi skipum vorum, ok hefði hann svâ með öll farit, ef ek hefði eigi farit síðast, því hann mátti aldri lengra fara, enn at kefli því, er ek dró eptir mèr. Nú hefir hann hríð at yðr gert með frosti, at allir þèr hefðuð bana fengit, ef eigi hefðu tjöldin hlíft yðr, en nú á þetta ofan eru komnir 12 menn í skóginn skamt hèðan, er Grímr hefir sendt Eireki konúngi; þeir eru ofan af Ormalandi[1], ok eru nú at efla seið, ok

[1]) Ermlandi, *C.*

skulu seið ætlat ykkr Hrólfi ok Stefni, svâ þið skulið sjálfir drepa ykkr. Nú skulum vèr fara 7 saman móti þeim, ok sjá, hvat ígerist. Gerðu þeir nú svâ, unst þeir komu í skóginn, sáu þeir hús eitt, var þángat at heyra ill læti, er þeir frömdu seiðit[1]. Gengu þeir síðan inní húsit, ok sjá þar hjall háfan, ok undir fjóra stólpa. Möndull fór inn undir hjallinn, ok reist þeim seiðvillur með þeim atkvæðum, at þeim hrifi sjálfum seiðmönnum; gengu þeir síðan útí skóginn, ok námu (staðar) um hríð, en seiðmönnunum brá svâ við, at þeir brutu ofan seiðhjallinn, ok hlupu beljandi útaf húsinu á sinn veg hverr þeirra, sumir hlupu í fen eða sjó, en sumir fyrir björg ok hamra, ok drápu sik allir með þessum hætti. Fóru þeir síðan aptr til skipa sinna, ok voru þau heilbrigð; sáu þeir at hríðin hafði ekki víðara tekit enn um kríng skipin ok tjöldin. Þá mælti Möndull: nú er svâ orðit, Hrólfr! at ek mun ekki í orrostu gánga, því ek er engi at hreysti eðr framgöngu, en þó mundir þú liðfár hafa orðit, ef þú hefðir einn um sèð með; ykkr Stefni var þessi dauði ætlaðr, sem nú sáuð þèr, at seiðmennirnir fengu. Þökkuðu (þeir) honum fyrir sín konstr, ok bjuggu sik til landgöngu síðan.

29. Litlu síðar enn þeir Hrólfr fóru or Jótlandi ok í Garðaríki, kom við land Tryggvi berserkr, sá er fyrr var getit í sögunni; hann

[1]) seiðzlur sínar, *C*.

hafði óvígan her fyrir fjölda sakir, hafði hann optast verit í Skotlandi ok Englandi, síðan hann flýði undan þeim Hrólfi ok Stefni, en nú hafði hann spurt, at þeir voru úr landi farnir, ok nú mundi lítil viðtaka, en þegar Þorgnýr jarl spurði hersöguna, lèt hann safna liði, ok með því at Tryggvi hafði mjök á óvart komit, ok þat annat at burt var allt mannval úr landinu, þá fèkk jarl lítit lið móti svâ miklum her. Fundr þeirra var skamt frá borginni, sló þar þegar í enn harðasta bardaga, gengu hvârirtveggju vel fram. Þorgnýr jarl lèt röskliga frambera merki sitt, ok fylgði sjálfr, ok barðist alldjarfliga, ok drap margan mann. Björn ráðgjafi fylgði honum karlmannliga, ok feldi marga menn, því þeir voru vanir til herskapar ok fullhugar til framgöngu. Tryggvi gekk ok hart fram, ok óð í gegnum lið jarls, svâ ekki stóð við honum, ok hallaðist mjök orrostan á hans menn, jarlsins. Bardaginn stóð allan dag, ok lyktaðist með því, at Þorgnýr jarl fèll með góðan orðstýr, ok Tryggvi varð hans banamaðr. Flýði þá Björn ráðgjafi, ok þat lið er eptir var, til borgar, ok hèldu sik þar, en Tryggvi settist um borgina. Síð um kveld sáu menn, at 3[1] skip sigldu at landi, voru öll stór ok svört fyrir borði. Þeir lögðu í lægi ok tjölduðu; voru nú borgarmenn hugsjúkir um sinn hag; en þegar morgun kom, gánga skipamenn

[1]) 12, *C.*

heim til borgar með fylktu liði; 12 gengu fremstir, ok höfðu tveir af þeim grímur fyrir andliti. Tryggvi fylkti ok liði sínu, en er þeir fundust, varð þar fátt um kveðjur, því grímumenn rèðu þegar til bardaga, ok sóttu hart fram; ok er borgarmenn sjá þat, gengu þeir út af borginni, ok komu í opna skjöldu, varð Tryggvi mjök í kvínni[1], ok fèll mjök lið hans; menn sóttu fast at Tryggva, ok lauk svâ, at hann fèll, ok mestr hluti liðs hans, tóku þeir þá mikit herfáng. Fóru grímumenn þegar til skipa sinna, ok áttu ekki tal við aðra menn, undruðust landsmenn mjök, hvat mönnum þetta mundi vera, ok kunni þat enginn at segja; var nú eptir um kyrt, ok var Þorgnýr jarl haugsettr. Þóru fèkk mikit fráfall föður[2] síns ok mörgum öðrum landsmönnum, því hann hafði verit góðr höfðíngi ok stjórnsamr ok ráðit lengi ríkinu, ok átt mjök friðsamt; var hann því öllum mönnum harmdauði.

30. Frá því er nú at segja, sem fyrr var fráhorfit, at Hrólfr stefnir öllum sínum her móti Eireki konúngi. Þeir fundust skamt frá Aldeiuborg, hafði konúngr mikit lið ok harðsnúit; margir voru miklir höfðíngjar með Eireki konúngi; einn af þeim var jarl, er Ími[3] hèt; hann var mikill ok sterkr ok vel vígr, ættaðr úr Garðaríki; með þeim var hálfbróðir hans, er

[1]) *öljóst.* [2]) bróður, *C.* [3]) Sóni, *allstaðar C.*

Röndólfr hèt, hann mátti vel tröll kallast fyrir vaxtar sakir ok afls; móðurætt hans var frá Áluborg í Jötunheimum, ok þar hafði hann uppvaxit; hann hafði kylfu fyrir vopn 6 álna lánga ok mjök digra í annan enda; eigi bitu flest járn á ólpu þá, er hann var í; Röndólfr var hamaðr, ok grenjaði sem tröll, þegar hann reiddist. Brynjólfr var með konúngi, en þeir Þórðr ok Grímr voru eigi komnir, þvíat þeir söfnuðu liði et efra um landit. Hvorirtveggju reistu sínar herbúðir, ok sváfu af þá nótt. Þar var slèttlent, ok skamt til sjófar, en um morgin snemma bjuggust þeir til orrostu, en konúngr skipaði fylkíngar tvær, ok var sjálfr í annarri, en Brynjólfr bar merki konúngs. Fyrir framan merkit setti hann Röndólf, ok alla þá er mestir kappar voru; en í annan fylkíngararm var Ími jarl ok fleiri tignarmenn, þó þeir sè eigi nefndir; hans merki bar sá maðr, er Arnoddr hèt, ok var mikill kappi. Hrólfr setti ok tvær fylkíngar, skipaði hann sèr móti Eireki konúngi, ok undir sitt merki Svíum ok Frísum. Stefnir var í annan arm ok Jótar; sá maðr bar merki fyrir honum, er Áli hèt, hinn mesti hreystimaðr. Hrólfr var í herklæðunum Hreggviðarnaut, hann reið Dúlcifal. Mart riddaralið var í hvârumtveggja hernum. Stefnir var í annarri kápu Hrólfs. Möndull var ekki í orrostu, því hann var ekki við vopn vanr. At svâ

skipuðu æptu hvârirtveggju heróp, ok eptir þat sigu saman fylkíngar; var þegar hörð orrosta ok mikit mannfall af hvârumtveggjum; var fyrst atreið með riddörum, en síðan ákafr bardagi með höggum ok lögum. Röndólfr gekk þegar hart fram, ok lamdi á tvær hendr með kylfunni, ok drap svâ bæði menn ok hesta. Engi var svâ sterkr riddari, at þyldi eitt hans högg, hrökk því allt undan, þat er fyrir varð. Brynjólfr bar merkit fram kappsamliga, ok gerðist nú illr kurr í liði Hrólfs; hann ríðr nú fram á Dúlcifal, ok var enginn svâ hraustr, at í söðli sæti fyrir honum ok hans höggum; hann hjó með sverðinu Hreggviðarnaut bæði menn ok hesta, ok drap margan mann, því sverðit beit, sem í vatn brygði, ok nam hvergi í höggi stað; var nú orrostan mjök skæð, svâ hverr fèll um þveran annan. Nú er frá því at segja, (at Stefnir) ríðr hart fram í lið Íma jarls, ok veitir mörgum riddara skaða, þar til at Ími jarl kemr í móti honum, ríðr þá hvorr at öðrum með miklu kappi, ok leggr hvorr til annars í skjöldinn; en er þeir mættust, brotnaði spjótskapt Íma sundr í miðju, en Stefnir hjó jarl aptr úr söðlinum, svâ hann kom fjarri niðr hestinum, spratt hann skjótt á fætr, ok brá sverðinu. Stefnir hljóp þá af baki, ok hjó til Íma, en hann hjó á móti, ok kom sverð Stefn-

is á gaddhjaltit, ok tók af höndina með; eptir þat lagði Stefnir jarl í gegnum með sverðinu, ok lèt hann svâ sitt líf, gekk hann síðan hart fram. Þeir fundust í annan stað Áli ok Arnoddr, ok sóttust með mikilli hreysti; þeir hjuggust, svâ af þeim voru allar hlífarnar. Báðir höfðu þeir kastat merkjunum, en svâ lauk þeirra viðreign, at Arnoddr lagði með sverðinu í kvið Ála, ok út um bakit, en hann óð upp á lagit, ok hjó með báðum höndum í höfuð Arnoddi, svâ í tönnunum nam staðar, fèllu þeir nú báðir dauðir til jarðar. Nú sèr Hrólfr skaða þann, er Röndólfr gerir á liði hans, ok sèr, at eigi muni svâ búit hlýða; hann hleypr af baki Dúlcifal, ok veðr á móti Röndólfi, en er þeir mætast, þá lystr Röndólfr til Hrólfs með járnkylfunni, en hann veik sèr undan, ok treysti eigi at standa undir svâ þúngu höggi. Kylfan kom á tvo menn, er staðit höfðu á baki Hrólfs, ok lamdist hvert bein í þeim. Hrólfr slæmdi sverðinu á hönd Röndólfs, ok tók af í úlfliðnum, ok allar tær af öðrum fæti. Röndólfr reiddi upp stöngina með annarri hendi, ok laust til Hrólfs af öllu afli; kylfan kom í jörðina, ok sökk til miðs, en Hrólf sakaði ekki. Hjó Hrólfr þá af Röndólfi aðra höndina, svâ hún fèll niðr, snèri hann þá undan; hann veifaði stúfunum, ok öskraði sem griðúngr, í því höggr Hrólfr undan honum báða þjóhnappana, svâ þeir loddu við í

knèsbótum, dró hann þá slóðann eptir sèr, ok hljóp beljandi upp í fylkíng Eireks konúngs, svâ allt hrökk undan; drap hann með því margan mann. Hrólfr ok Stefnir neyttu þessa, ok þeirra menn, höggva nú ok leggja hvern mann, er fyrir varð; fèll nú undvörpum lið Eireks konúngs. Röndólfr gáði ekki, hvat fyrir var, ok hljóp á Brynjólf, svâ at hann fèll á bak aptr með merkit, ok komst með nauðum á fætr, ok flýði síðan. En er menn Eireks konúngs sjá merkit fallit, þá flýði hverr einn. En er Eirekr sèr þat, flýr hann sem aðrir til borgarinnar, en þeir Hrólfr ok Stefnir ráku flóttann, ok drápu hvern, er þeir náðu, varð þar svâ mikit mannfall, at varla má tölu á koma. Röndólfr hljóp út á ána, ok drekti sèr; en Eirekr konúngr ok þeirra lið, er undan komst, byrgðu sik inni í borginni, ok lauk með því orrostu; var þá komit at kveldi. Hrólfr fór þá til herbúða sinna, ok lèt binda sár manna sinna, hafði ok mart fallit af liði hans; en er áleið kveldit, saú menn Hrólfs þrjú herskip fara at landi; þeir lögðu í lægi, ok bjuggust um; eptir þat gengu frá skipum 3 húndruð manna, þat var allt vaskligt lið ok velbúit. Einn maðr var þar stærstr fyrir liði. Þessir menn gengu til herbúða Hrólfs, ok er þeir finnast, kennir Hrólfr, at þar er kominn faðir hans Sturlaugr ok Eirekr, bróðir hans; verðr þar mikill fagnafundr

með þeim öllum saman. Spurði Hrólfr föður sinn tíðinda, ok af ferðum sínum. Sturlaugr var þá gamall mjök, ok hafði lengi aflagt herferðir; sagðist hann hafa spurt til ferða Hrólfs, ok hann hefði því farit af Noregi til Garðaríkis, at veita Hrólfi lið. Drukku þeir um kveldit, ok höfðu mikla gleði. Sturlaugr hafði herklæði sín, ok saxit Vefreyjunaut; með honum voru margir kappar ok hreystimenn úr Hríngaríki, einn af þeim hèt Tjörfi[1] hinn sterki, annar Bárðr, þriði Garði, fjórði Atli, fimti Birgir, sjötti Sölvi, sjöundi Loðinn[2], áttundi Knútr kveisa; allir voru þessir hinir mestu hreystimenn; þótti þeir Tjörfi ok Knútr bera lángt af þeim, tóku þeir nú náðir á sik um nóttina, ok höfðu vörðu sterka.

31. At Eireki konúngi dreif mart lið um nóttina; þeir úr hèröðum söfnuðust til hans, en þeir Grímr ægir ok Þórðr Hlèseyjarskalli komu um kveldit með ótöluligan her, voru með þeim margir kappar ok berserkir, ok eru 12 nefndir: einn er Örn enn ermski, [Úlfr, Hárr ok[3] Gellir, Sörli[4] síðnefr ok Tjörfi, Tjösnir, Loðmundr[5], Haki[6], Lífólfr ok Styrr sterki, Brúsi beinserkr; allir voru þessir illir viðreignar, ok líkari tröllum enn mönnum, þótt fjórir væri verstir, en þat var

1) Torfi, *allstaðar C.* 2) digri, *b. v. C.* 3) *leiðrètt*; Illr, Hallr ok, *hèr A*; annar Ulli, þriði Hárr, fjórði, *C.* 4) Sölli, *C.* 5) Luðmundr, *C.* 6) Herkir, *C.*

Tjösnir ok Gellir ok þeir bræðr Styrr ok Brúsi. Varð nú Eirekr konúngr feginn þeirra komu, ok sagði þeim, hann hefði fengit mikinn mannskaða, ok Hrólfr væri ólíkr flestum mönnum fyrir hreysti sakir ok herklæða, er hann hafði: var oss þat mikit óhapp, at Hrólfr náði sverðinu Hreggviðarnaut. Grímr segir: vel mun duga, skulum vèr þann mannskaða aptr bæta á morgin, er þèr fenguð í dag. Leið náttin, en dagr kom, bjuggust nú hvârirtveggju til orrostu. Eirekr konúngr fór út af borginni með allt sitt lið, ok skipaði sínar fylkíngar. Brynjólfr bar enn merki hans, en undir merkinu stóðu 8 berserkir: Örn ermski, [Úlfr, Haki[1], Sörli, Lífólfr, Loðmundr[2], Herkir, Tjörfi ok Grímr ægir; stóð hann fyrir framan fylkíngarmerkit. Í annan arminn var Þórðr Hlèseyjarskalli, ok var borit fyrir honum merki. Þar voru þeir Tjösnir ok Gellir, Styrr ok Brúsi ok mart annat lið. Í mót Eireki konúngi fylkti Hrólfr ok Stefnir, ok með þeim Knútr kveisa[3] ok Torfi hinn sterki. Á mót Þórði fylkti Sturlaugr ok Eirekr, son hans, ok þeir 6 kapparnir: Haddr, Garði, Atli, Birgir, Sölvi ok Loðinn. Eigi er þess getit, hverir merki báru fleiri enn Brynjólfr. Liðsmunr var mikill, svâ at konúngr hafði þrjá um einn. Síðan var í lúðra blásit, ok eptir þat sigu saman fylkíngar með ópi ok eggjan, ok miklu vopnabraki; var

[1]) Ulli, Hárr, C. [2]) v. í C. [3]) þannig C; ok Kesja, A.

fyrst hörð skothríð, en síðan höggorrosta, ok gengu hvârir sterkliga á aðra, voru margir þeir hlutir ok atburðir, at jafnfram báru við, ok verðr þó fram í einu senn at segja. Möndull dvergr var eigi í orrostu, ok stóð á hæð nokkurri; hann skaut af handboga, ok var mjök mannskæðr; gengu nú hvârirtveggi hart fram, svâ eigi þurfti sóknar at frýja. Í móti Grími ægi komu þeir Knútr kveisa ok Torfi hinn sterki, báðir voru þeir sterkir[1] ok fjölkunnigir; þeir sóttu hann báðir senn lengi dags, var þeirra atgángr (svâ) harðr, at menn urðu forða sèr nærri at vera. Berserkirnir konúngs gerðu mikit af sèr, ok gengu í gegnum lið Hrólfs, svâ allt hrökk undan, varð þar margr góðr drengr ríki sitt at missa; engi var svâ góðr hjálmr, eðr þykkr skjöldr, at eigi yrði at gánga fyrir þeirra höggum, var lið Hrólfs búit til flótta. Hrólfr hafði gengit í fylkíng Eireks konúngs ok Stefnir, ok gerðu þar mikinn skaða, áðr þeir sáu, hversu berserkirnir gengu hart fram, snèru þeir þá í móti þeim, ok er þeir fundust, var þar ekki stórra höggva at frýja, er hvârir greiddu öðrum. Hrólfr hjó til Arnar, en hann kom skildi við, ok tók hann sundr, en bloðrefillinn reist allan kviðinn, svâ út fèllu iðrin. Eptir þat lagði hann Herki í gegnum, ok (hjó) báða fætr undan Lífólfi. Stefnir lagði með spjóti til Ulfs[2], en hann kom skildi fyrir

[1]) hamramir, *C.* [2]) Ulla, *allstaðar C.*

lagit, ok gekk í gegnum, ok svâ í lærit, var þat mikit sár. Úlfr hjó spjótit af skaptinu. Hárr hljóp ok fram at Hrólfi[1], ok laust með gaddakylfu utan á hjálminn, svâ honum hèlt við ómegin, ok hrapaði at Úlfi, ok stakk við honum sverðinu, en brynjan dugði eigi, ok gekk í gegnum hann. Loðmundr lagði til Stefnis, [þar er kálfann tók[2], ok í gegnum kálfann. Hrólfr kom at því, ok höggr báðum höndunum í höfuð Loðni[3], ok klauf hann allan niðr í gegnum, (svâ) at í jörðu nam staðar. Í því lögðu þeir Sörli ok Tjörfi at Hrólfi. Hárr laust með kylfunni um hrygg Hrólfs, hefði þat orðit hans bani, ef eigi hefði kápan hlíft honum ok herklæðin, en hann fèll á bæði knè. Hann spratt upp skjótt, ok hjó á fót Hárs, svâ aftók í hnjáliðunum. Hrólfr slæmdi ok sverðinu utan á síðu Tjörfa, svâ hann tók sundr í miðju. Sörli leitaði þá undan, ok hnykti[4] á annan fótinn, ok lamdi með kylfunni, hvat er fyrir varð. Hann drap 11 menn, áðr Stefnir hjó hann banahögg, lèt hann líf sitt með góðan orðstýr, var nú hörð orrosta. Eirekr konúngr ok Brynjólfr drápu margan mann, Möndull skaut Eirek konúng [með pílu[5] gegnum handlegginn. Þeir Hrólfr ok Stefnir sækja nú hart fram á nýrra leik, því mjök hallaðist á þá bardaginn. Þeir komu þar at, er þeir höfðu við ázt, Grímr ok Torfi

[1]) Sturlaugi, *C.* [2]) fyrir neðan kápuna, *C.* [3]) Lauðmundi, *C.* [4]) Hárr hnekti, *C.* [5]) *v. í C.*

ok Knútr, ok var þar jörðu umsnúit; lyktaði svâ þeirra viðreign, at Knútr var dauðr, en Torfi ófær fyrir sára sakir. Grímr var móðr mjök, en þó hafði hann drepit þá enn margan mann. Hrólfr ok Stefnir höggva til hans báðir senn, en hann fór niðr í jörðina undan, þvílíkt sem á vatni væri. Frá því er nú at segja, er jafnfram bar við, at þeir Sturlaugr sækjast í annan fylkíngararm, gengu þar hvârir í lið annarra með stórum höggum ok sterkum spjótalögum, var þar mikit mannfall. Sturlaugr hjó, ok lagði til beggja handa með saxinu Vefreyjunaut, þurfti sá engi um sár at binda, er skeinu fèkk af því. Eirekr, son hans, fylgði honum vel, ok feldi margan mann. Þórðr Hlèseyjarskalli gekk með miklu kappi mót Sturlaugi, hann atti fram berum skallanum, en, þó á hann væri höggvit með sverðum eðr öxum, þá beit ekki, því mátti hann öruggr framgánga. Þeir Norðmennirnir, 40 af mönnum Sturlaugs, komu móti honum, ok sóttu allir at honum, en hann varðist með miklu kappi. Í öðrum stað mættust þeir Styrr sterki ok Brúsi beinserkr, en í móti þeim kom Haddr ok Garðr, Birgir ok Sölfi, gengu þeir þrír at hinum tveimr, ok þurftu þeir allra handa við, var þeirra sókn bæði hörð ok áköf, ok eru þeirra högg ok lög eigi með atvikum greind; en svâ lauk þeirra fundi, at þeir Styrr ok Brúsi sprúngu af mæði,

höfðu þeir þá drepit [Hadd ok[1] Garð, ok höggvit báðar hendr af Sölva, en Birgir var mjök sár. Sölvi hljóp at einum manni, ok setti hausinn[2] fyrir brjóst honum, svâ inn gengu bríngspalirnar, var þat hans bani. Eptir þat feldi hann annan, ok beit sundr barkann í þeim, var hann þá lagðr spjóti í gegnum, ok lèt hann líf sitt með mikilli hreysti. Loðinn ok Atli sóttu tveir Gelli, ok var þeirra fundr harðr, því hann var it mesta illmenni, særðu þeir hann mörgum sárum. Gellir hjó Atla með bryntröllsbroddi, en hann kom í hjálminn, ok klauf hann, svâ í heila nam staðar. Loðinn vildi hefna hans, ok lagði með sverði til Gellis í gegnum brynjuna, ok í lærit, varð þat mikit sár. Gellir hjó þá til Loðins, ok kom á viðbeinit, ok tók þat sundr, ok sneið hjartat; fèll hann dauðr niðr. Þá kom at Eirekr Sturlaugsson, ok höggr Gelli banahögg. Nú finnast þeir Tjösnir ok Sturlaugr, höggr hvârr til annars, ok varð hvârgi sár. Hann hjó af Tjösni allan skjöldinn, en þó hörfði Sturlaugr fyrir stórum höggum Tjösna; Möndull sèr þetta, hann leggr ör á streng, ok skýtr einni krókör í augat á Tjösna, svâ lángt sökk uppá skaptit. Tjösnir grípr í örvarskaptit, ok slítr burt örina, ok var þar á augat. Þessu sætir Sturlaugr, ok höggr í því Tjösna sundr í miðju, svâ sèr fèll hvorr hlutr-

1) *v. í C.* 2) hjálminn, *C.*

inn. Sturlaugr sèr nú, hversu mikinn skaða Þórðr gerir honum, svâ náliga var lið hans komit á flótta, en sumt drepit; sækir hann nú þángat til, er Þórðr er, en hann snýst í móti, ok varð þeirra einvígi bæði hart ok lángt, þar til er Sturlaugr kom staðhöggi á Þórð, þat kom í skalla honum, ok bilaði eigi heldr enn vant var. Þat högg varð svâ mikit, at hann klauf höfuð Þórðar ok allan búkinn niðr í gegnum, svâ hann fèll í tveim hlutum til jarðar. Sturlaugi vannst at með ýkjum, ok varð honum saxit laust, ok smaug niðr í jörðina, ok fannst aldri síðan. Um þenna atburð greinast mjök bækr, at því svâ segir í Sturlaugs sögu ok fleirum öðrum sögum, at hann hafi orðit sóttdauðr heima í Hríngaríki, ok væri þar heygðr, en hèr segir svâ, at eptir fall Þórðar kom Grímr ægir upp úr jörðunni á baki Sturlaugi, ok hjó með mæki um hrygg honum, svâ tæki sundr í miðju; vitum vèr eigi, hvârt sannara er. Eirekr, son hans, sèr þetta, því hann var nær staddr; hann hjó til Gríms með sverði af mikilli reiði, ok kom á öxl honum, ok gnast við, sem í stein kæmi, ok beit ekki á. Grímr snèrist í móti Eireki, ok spjó eitri í andlit honum svâ heitu, at hann fèll þegar dauðr niðr. Allir menn skelfðust við þessa sýn, en þó var enn hörð orrosta ok mikit mannfall. Ok er Hrólfr vissi þessi tíðindi, varð hann reiðr mjök, ok sparði hann þá

ekki Hreggviðarnaut, ok hjó bæði hart ok títt, svâ allt hrökk undan, þat er fyrir var, drap hann stundum tvo eðr þrjá í einu höggi, ok óð þvílíkt fram, sem hann væði þúngan árstraum. Orrosta þessi stóð allan daginn, til þess at svâ var myrkt, at eigi var vígljóst, lèt þá Eirekr konúngr halda upp friðskildi, ok gafst upp orrostan. Fór konúngr í borgina með sitt lið, en Hrólfr til herbúða sinna, ok voru bundin sár manna þeirra, er lífvænir voru; en svâ hafði fallit lið Hrólfs ok Stefnis, at eigi voru meir eptir enn tvær[1] þúsundir manna af öllum þeirra her, ok flest allt mjök sárt; var nú illr kurr í liðinu[2]; tóku menn þá á sik náðir, ok sofnuðu skjótt eptir mikla mæðu.

32. En þegar menn voru í svefni, stóð Hrólfr upp mjök hljóðliga. Hann gekk þángat, sem Dúlcifal var, ok stè á bak honum, ok reið til þess er hann kom til Hreggviðar haugs; túnglsljós var bjart; Hrólfr stè af hestinum, ok gekk uppá hauginn; hann sèr, hvar Hreggviðr konúngr sitr utan undir hauginum ok horfir mót túnglinu, ok kvað:

Gleðst Hreggviðr
af góðri[3] för
Hrólfs hins hugdjarfa
híngat til landa;

---

[1]) 3, *C.* [2]) ok eggjuðu flestir at flyja, *b. v. C.* [3]) *þannig C*; frægri, *A.*

mun rekkr sá
ræsis hefna
á Eireki
ok öllum þeim.
Gleðst Hreggviðr
af Gríms dauða
Þórðar ok þar með
þrjóta lífstundir;
mun flokkr sjá
fjanda minna
fyrir Hrólfi
hníga verða.
Gleðst Hreggviðr,
þá Hrólfr fær
úngrar meyjar
Íngigerðar;
mun Hólmgarði
hilmir stýra
Sturlaugssonr[1],
standi kvæði.

Gekk þá fram Hrólfr, ok kvaddi hann virðuliga. Konúngr tók vel kveðju hans, ok spurði, hversu honum gengi til. Hrólfr segir: gjörla munuð þèr þat vita þikjast, þótt ek segi þar eigi af, en þúngt hefir oss orrostan veitt hèr til sakir þess mikla mannskaða, er vèr höfum fengit, ok er yðr nú til, at leggja nokkur góð ráð, at oss verði liðsemd at. Hreggviðr mælti: nú þiki mèr góð efni í, at þú munir geta hefnt mín, ok mun

[1]) ok, *b. v. C.*

þèr sigrs auðit verða, þó ólíkligt þiki. Hèr eru tvær byttur, er þú skalt við taka ok skeinkja öllum þínum mönnum[1] af annarri, þegar þeir vakna í morgin, en af hinni minni byttunni skulið þið Stefnir drekka, ok mun ykkr þaðan af enginn hlutr at áskilnaði verða; kann ek þèr þat at segja, at Stefnir ætlar sèr Íngigerði, dóttur mína, þegar hann sá fegurð hennar, en eigi Þorgný, föður sínum, eðr þèr. Nú ann ek þèr at njóta hennar, enda mun Stefni þat vel líka, er þú vilt vera láta, þegar þið hafið af byttunni drukkit. Hèr er ok knífr ok belti, er ek vil gefa þèr, ok munu eigi þvílíkir gripir á Norðrlöndum finnast, skaltu þeim einum manni gefa þat, er þú þikist mikit gott eiga upp at unna, en nú munum við hèr skilja at sinni, ok aldri síðan sjást; skaltu nú hauginn aptrbyrgja, sem ek hefi þèr áðr fyrir sagt; berr þú kveðju mína Íngigerði, dóttur minni, vildi ek til þín hyrfi öll sú hreysti ok hamíngja, er mèr hefir áðr fylgt; far nú heill ok vel; gángi þèr allir hlutir eptir óskum! Síðan (fór) Hreggviðr öfugr inní hauginn, en Hrólfr byrgði aptr hauginn, sem honum var boðit, ok stè síðan á Dúlcifal, ok snèri heimleiðis. En er hann var mjök kominn at herbúðum, fór Stefnir þar í móti honum með alvæpni mjök reiðiligr, ok mælti; illa hefir þú gert, Hrólfr! er þú hefir gengit í Hreggviðarhaug, ok vilt þèr einum frægða, ok

[1]) *hèr v. blað í C.*

hyggst þar með at fá Íngigerðar konúngsdóttur, en þat er þó eigi þess vissara. Hrólfr segir: enga frægð hefi ek í þessu unnit, þótt ek hafi víðara farit náttlengis heldr enn þú, hefi ek aungvan hug á þat lagt, at ek mundi konúngsdóttur fá, mun sá hennar njóta, er lagit verðr, hvat er hvergi hugsar. Segir Hrólfr þá Stefni af sinni ferð til haugsins, ok sýndi honum byttturnar, settust þeir þá niðr, ok drukku af byttunni, ok þóttust þeir við þann drykk mikit styrkna, gerðist Stefnir þá blíðr við Hrólf, ok segir honum makligast at njóta Íngigerðar: ok er þat sannligra at þú fáir hennar, heldr enn faðir minn, svâ gamall sem hann er. Gengu þeir síðan til herbúða sinna, ok svófu þat, er nætr var eptir. Árla um morgin vakti Hrólfr lið sitt, ok skenkti öllum af byttunni, en þegar hverr hafði afdrukkit, kendi enginn sinna sára, þott áðr væri ófærir, þegar sezt hafði með þeim; eggjuðu þeir mest, at berjast skyldi, er áðr vildu harðast flýja. Möndull sá í byttuna, ok segir slíka hluti vinsamliga: en þó vil ek ekki þetta öl drekka, mega því allir ógrliga framgánga, at oss kemr góð dagveizla, áðr enn sjá dagr er úti, en þó munu þeir tíðindi segja kunna. Herklæddust nú allir, ok bjuggu sik til orrostu. Möndull mælti þá: nú mun sá dagr kominn, Hrólfr! er þú munt þurfa kápu þinnar, er hèr ein brún silkiblaka, er þú skalt setja innan undir kápugrímuna, ok aldri henni

frá andlitinu lètta, þó þèr kunni heitt at verða. Hrólfr tók við blökunni, ok bjó svâ um, sem dvergr sagði fyrir. Fóru þeir nú til vígvallar, ok fylktu liði sínu, ok sýndu sik búna at berjast; tóku þeir sèr annan orrostustað, því sá hinn sami mátti eigi vera fyrir valfalli. Möndull gengr tysvar rángsælis kríngum valinn; hann blès ok blístraði í allar ættir, ok þuldi þar forn fræði yfir, ok sagði þann val þeim eigi at meini verða mundu.

33. Eirekr konúngr hafði farit í borgina um kveldit eptir orrostuna, at binda sár sinna manna; hafði hann mikinn mannskaða, ok látit alla kappa sína, svâ at Sörli síðnefr lifði einn eptir af öllum þeim, er Grími ok Þórði hafði þángat fylgt, dreif til konúngs mikit lið úr hèruðum bæði nætr ok daga. Þóttust þeir Eirekr konúngr ok Grímr hafa ráð þeirra Hrólfs í hendi sèr fyrir liðsmunar sakir, bjóst nú Grímr við mörgum brögðum um nóttina, ok þeir Brynjólfr. Sár þat, er Eirekr konúngr fèkk í handlegginn af pílu þeirri, er Möndull sendi honum, tók mjök at þrútna, ok var honum höndin óvíg. Um morgin árla reið Eirekr konúngr út af borginni með allan sinn her; skikkaði hann fylkíngum sínum, ok var skotit skjaldborg um hann. Brynjólfr skyldi verja skjaldborgina, en sá maðr bar merki, er Snákr hèt; Grímr ægir í annan arm ok Sörli síðnefr.

Liðsmunr var svâ mikill, at 6 voru um einn Hrólfs manna. En er hann sèr þat, segir hann sínum mönnum, at þeir skulu ekki fylkja: ok munum vèr renna at riðlum 30 eða 40 í flokki, at eigi verði hríngr um oss sleginn af þeirra fjölmenni; mun ek skipa mèr móti Grími ægi, en Stefni móti Eireki konúngi, ok með honum Torfa, en þèr, Möndull dvergr! ætla ek at sjá við göldrum Gríms, at eigi geri hann vorum mönnum líftjón með sinni fjölkýngi. Möndull gekk þá fram, ok var kominn í kufl svartan, ok var hvergi bert á honum. Undir annarri hendi hafði hann belg stóran, ok var innan með dýrskinn, en utan með gult klæði; boga ok örvamæli hafði hann í annarri hendi; öllum þótti búnaðr hans undarligr. Grímr gengr þángat, er valrinn lá, ok velti þeim, er dauðir voru, ok vildi uppreisa, en gat eigi; gerist hann nú svâ hræðiligr at í sinni ásjónu, at flestir menn þorðu eigi í móti honum at sjá, því augu hans voru sem eldr, en svartr reykr úr nösum ok munni með hinni sterkusta fýlu. Skjótt eptir þat æptu hvortveggju heróp, ok gánga hvârir móti öðrum. Grímr öskraði svâ hátt, at hans hljóð barst yfir allt herópit. Hann hljóp fram fyrir fylkíng sína, ok hristi einn poka, en þar úr fýkr ein dumba svört, ok at mönnum Hrólfs; en er Möndull sá þat, gengr hann fram, ok hristi belg sinn, ok blès þar úr vindi miklum í móti dumbunni, svâ hún fauk aptr í augu á

Gríms mönnum, svâ þeir urðu þegar blindir, ok fèllu áfram, ok voru fóttroðnir til bana af sínum mönnum. Grímr varð nú reiðr mjök; hann leggr örina á streng, ok skaut til Mönduls, en hann skýtr í móti, ok mættust örvarnar í oddana, ok fèllu niðr báðar, fór svâ þrjá tíma. Þessu jafnfram tókst harðr bardagi með braki ok kalli, er hverr eggjar annan, því svâ voru menn Hrólfs ákafir, at þeir eirðu aungu, lètu sem þeim væri viss sigrinn. Stefnir gekk hart fram móti Eireki konúngi, ok með honum Torfi ok Birgir. Þeir ruddust um fast, ok er seint at telja högg ok lög þeirra, er þeir drápu margan mann, svâ varla mátti tölu á koma. Brynjólfr gengr nú ok hart fram ok Snákr merkismaðr, svâ þeir feldu í fyrstu hríð 40 riddara. Hrólfr kemr mót Grími ægi, ok höggr til hans, en hann barst undan í lopt upp í flugdreka, ok spjó eitri yfir Hrólf. Möndull var nær staddr, ok brá undir belgnum, svâ hann fyldi af eitrinu; hann hljóp með belginn at Sörla síðnef, ok steypti í andlit honum, svâ hann fèll dauðr. Grímr varð þá at manni, en þó hafði hann drepit 9 menn með eitrinu. Grímr hljóp þá at dvergnum, ok vildi taka hann; en Möndull vildi þess eigi bíða, ok fór í jörð niðr, þar sem hann var kominn. Grímr fór ok niðr eptir honum, svâ saman lauk jörðina fyrir ofan höfuð þeim. Hrólfr gengr nú fram hart,

ok höggr til beggja handa, urðu þeir lèttir fyrir honum, fèll nú hverr um þveran annan; aungum þurfti hann at gefa meir enn eitt högg; gaf sá hverr dauðann fyrir lífit, er hann náði sverðinu til, ok báðar hans hendr voru blóðgaðar til axlar upp, bauð nú flestum hans framgánga ótta, var orrostan mjök mannskæð í báða armana. Þvínæst sáu nokkurir menn frá orrostunni, at 15 skip[1] róa at landi, sem mest geta. Þau lögðu í lægi, gekk mart lið frá skipunum ok mjök vígligt; tveir menn voru hèr mestir vexti, ok höfðu grímur fyrir andliti. Þeir gengu þegar til orrostu með Hrólfi, ok kvomu mjök í opna skjöldu Eireki konúngi, ok gerðist mikit flótta roð í liði hans, voru grímumenn ákafastir, ok hjuggu bæði ótt ok títt; var nú svâ aköf orrostan, at hún var aldri fyrr þvílík. Þar mátti sjá margan skjöld klofinn ok sterkan hjálm brotinn ok brynjur slitnar ok margan mikilsháttar mann lágt liggja. Engi lèt sèr þar annars víti at varnaði verða. Þar var skotit spjótum, gaflokum[2], flettiskeptum, handsöxum ok mörgum öðrum skotvopnum. Hrólfr sækir nú fram at skjaldborginni, ok varð þar hörð viðtaka. Grímr ægir kemr þá aptr til orrostunnar, ok var mjök ófrýnligr, drap hann þá hvern, er fyrir honum varð; í móti honum komu þeir Birgir ok Torfi ok báðir grímumenn, ok sóttu at honum allir með miklu kappi, ok

[1]) *hèr byrjar C aptr.* [2]) gaflaukum, *C.*

komu þeir aungu sári á hann, greiddi hann þeim mörg högg ok stór, urðu þeir bæði sárir ok móðir. Þetta var allt jafnsnemma, at Stefnir mætti Svala, ok hjó til hans með sverði; þat högg kom í skjöldinn, ok tók af þat, er nam, ok í sundr merkisstaungina. Svalr[1] hjó í móti, ok klauf í sundr allan skjöldinn, en Stefnir varð ekki sár; hann hjó til Svals, ok kom utan á hjálminn, ok rendi af barðit, ok niðr á öxlina, ok tók í sundr axlarbeinit ok inn í búkinn, ok fèkk hann bana; var nú merki Eireks konúngs í gras fallit. Þetta sèr Brynjólfr, ok sækir nú í móti Stefni mjök illiligr ásýndar; hann var tenntr sem villigöltr; hann höggr til Stefnis, ok hvorr til annars, ok beit ekki á Vefreyjunaut, beit ok ekki sverð Stefnis á Brynjólf. Þeir hjuggust lengi, ok varð Stefnir mjök móðr, þar til er sverðit gekk sundr undir hjöltunum. Þá rann Stefnir undir Brynjólf, en hann tok í móti mjök sterkliga. Brynjólfr beit í öxl Stefnis, ok klypti holdit burt af beininu svâ mikit, sem hann fèkk yfir ginit, þvíat eigi tóku tennr hans ígegnum kápuna. Stefnir varð við karlmannliga, ok þreif hendi í munn Brynjólfs, ok reif allt út at eyra, var hann þá mjök ókyssiligr, glímdu þeir svâ lengi, at ýmsir hörfuðu, þar til at Brynjólfr fèll á bak aptr um Sval; spenti hann þá báðum höndum hrygg Stefnis svâ fast, at

[1]) Svalr, Svala, *allstaðar* C.

hann mátti sèr hvergi víkja, varð hann andlitinu at forða, sem hann mátti, at Brynjólfr biti hann eigi. Nú er frá Hrólfi at segja, hann sækir at skjaldborginni með miklum grimmleik, fèkk hann þar mörg högg ok lög ok mikla atsókn, því þar var allt it hraustasta mannval Eireks konúngs, hefði hann þar fengit mörg sár ok mikinn skaða, ef eigi hefði kápan hlíft honum ok herklæðin. Þá drap Hrólfr einn sjötigi riddara; Hrólfr rauf þá alla skjaldborgina; Eirekr konúngr varðist vel ok kænliga, hann kallar hárri röddu á Grím ægi, ok bað hann duga sèr ok hlífa nú aungu. En er Grímr heyrði þat, skundar hann þángat. Hann hafði þá drepit Torfa ok Birgi, ok særða grímumennina, en annan til ólífis, hafði hann verit stundum flugdreki, en stundum ormr, göltr ok griðúngr eðr önnur skaðsamlig skrípi, þau er mönnum eru meinsamligust; ok er Hrólfr sèr hann, þá mælti hann: enn muntu sökkva þèr í jörð niðr, sem í gær, er við fundust, nú far þú híngat, Ægir! ok berst við mik! ef þú þorir, þar til er annarhvorr okkar fellr. Grímr sagði: þat skaltu finna, at ek er hèr kominn, ok hjó til Hrólfs, en Hrólfr í móti; þar mátti sjá stór högg ok ákafa sókn, er hvorr veitti öðrum, en aldri hjuggu þeir svá stórt, at nokkut biti. Þeirra atgángr var svâ harðr, at allir stukku frá,

þeir er í nánd voru, en svâ hrökk eldrinn úr vopnunum, er þau mættust, at alla vega sundraði af. Enn mikli grímumaðr mætti Eireki konúngi, ok var þeirra atgángr mjök harðr; Eirekr konúngr hafði skjöldinn á þeirri hendi, er sár var, en hjó með hinni bæði mart ok stórt, því hann var hinn mesti kappi. Svâ endaði þeirra viðskipti, at grímumaðr klauf af konúngi allan skjöldinn; eptir þat hjó hann báða fætr undan Eireki konúngi, ok drap hann; síðan lèt hann líf sitt með mikilli hreysti; brast þá flótti í liðinu, ok flýði hverr, sem mátti, tókst nú mannfallit á nýan leik, er víkíngar ráku flóttann drengiliga. Þeir Hrólfr ok Grímr hörfuðu úr fylkíngunni, ok börðust með miklu kappi, þar til er Hrólfr skoraði sundr mæki Gríms í miðju með Hreggviðarnaut. Grímr hljóp þá á Hrólf sterkliga; varð Hrólfr þá at kasta sverðinu, ok tók á móti. Grímr hamaðist þá, svâ hann óð jörðina til knjá, en Hrólfr barst undan, ok varð at forða sèr við föllum. Grímr spjó stundum eitri, stundum eldi á Hrólf, svâ þat hefði hans bani orðit, ef eigi hefði kápan fyrir verit, eða blaka sú, er Möndull gaf honum, var hans andi svâ heitr, at hann þóttist náliga brenna í gegnum Vefreyjunaut ok herklæðin; kramdi Grímr hold af beinum, þar sem hann tók til; aldri þóttist Hrólfr í meiri mannraun komit hafa; þat sá hann at hann mundi springa af

mæði, ef þeir ættist tveir við lengi, ok svâ spyrndu þeir sterkliga til, at afgekk gras ok svörðr af jörðinni, þar er þeir gengu. Hann sèr, hvar Möndull kemr hlaupandi; hann þrífr eitt sverð, er lá á vellinum, ok höggr báðum höndum á fót Gríms, en ekki beit heldr enn í stein kæmi. Möndull hleypr aptr til valsins, ok finnr Hreggviðarnaut; hann bregðr hráka sínum á eggina, ok dregr sverðit þángat, er þeir glímdu, því hann fèkk þat eigi borit nè reitt fyrir þúnga sakir; getr hann þá dregit sverðit aptan at kálfunum á Grími, svâ sundr tóku sinarnar á fótunum, þá fèll Grímr. Dvergr mælti: haltu, Hrólfr! svâ hann verði ekki laus. Grímr brauzt um fast, ok sótti í jörð niðr, en Hrólfr hèlt honum eptir megni; þá mælti hann: mikil lukka fylgir þèr, Hrólfr! ok muntu frægr verða af drápi mínu ok stórvirkjum þeim, er þú hefir unnit í Garðaríki; haugr mun orpinn eptir mik, ok settr við sjó fram, ok mun þeim öllum vís dauði, er þar taka fyrst land, þeir af hafi koma til. Margar gildrur hefi ek sett þèr til dauða, því mèr sagði laungum hugr um þat, er nú er framkomit. Ek sendi Vilhjálm til þín, at svikja þik; en þèr var lengra líf lagit. Nú hefðir þú mik ekki yfirunnit, ef eigi hefði sjá óhappadvergr þar í tilstilli um verit. Möndull hljóp þá upp, ok stakk digru kefli í munn Gríms, svâ at fast stóð. Möndull mælti þá: ef Grímr

hefði nú mátt mæla lengra, þá hefði hann svâ fyrirmælt þèr ok fleirum öðrum, at þú hefðir morknat sundr, ok orðit at öngu nema dupti, ok skaltu drepa hann skjótt ok leggja sverðit fyrir brjóst honum, en aflima eigi, því þat verðr allt at eitrormum, er af honum er höggvit, skal ok enginn fyrir hans sjónum verða, meðan hann deyr, því þat er þess bani. Hrólfr tók nú Hreggviðarnaut, ok lagði fyrir brjóst Grími, svâ út gekk um bakit, en dvergr tók skjöld einn, ok lagði fyrir ásjónu, en þótt þat megi ólíkligt þikja, þá segir svâ, at hann drafnaði[1] í sundr sem snjór í eldi, ok varð at dupti einu; lèt Grímr svâ líf sitt með hræðiligum fjörbrotum ok hörðu handakasti[2], en Hrólfr lá ofan á honum, þar til hann er dauðr; hèlt Hrólfi þá mjök við ómegi af umfángi því, er hann hafði haft við Grím ægi. Sá hinn mikli grímumaðr snèri aptr til valsins, þegar hann hafði litla stund rekit flóttann, kom hann þar at, er þeir Stefnir ok Brynjólfr lágu, svâ sem fyrr var frá sagt, vill hann þá duga Stefni, ok leysti hendr Brynjólfs af honum, en þat fèkk hann eigi gert fyrr, enn hann braut af honum sèrhvern fingrinn, lömdu þeir hann síðan með keppum í hel; var Stefnir svâ stirðr orðinn af hans handagángi, at varla mátti hann einsaman gánga með öðrum mönnum. Var þessi nú hin mikla orrosta enduð, ok hafði þar orðit svâ mikit mannfall,

[1]) bráðnaði, *C.* [2]) andakasti, *C.*

at menn vissu varla þvílíkt, ok lágu dauðir mannabúkar um alla völlu, svâ þykt at eigi mátti um jörðina gánga, fyrir því mikla valfalli; hafði þó fleira fallit af Eireki konúngi. Hrólfr ok Stefnir höfðu látit allt lið sitt fyrir utan átta hundruð manna, er eptir lifðu, ok var þat flest sárt; skorti þar nú ekki vopn nè væna gripi, er dauðir menn höfðu átt; gekk Hrólfr ok Stefnir nú til herbúða sinna, ok batt Möndull dvergr sár manna, ok lofuðu allir hans kunnáttu ok dugnað; sagði Möndull, at þat hefði verit hans bani, ef Grímr hefði náð honum, þá hann steypti sèr niðr í jörðina: naut ek þá þess, segir hann, at fleiri voru mínir vinir enn hans þar fyrir. Grímumaðr fór til skipa sinna um kveldit með sínu liði, ok tjölduðu þeir sèr herbúðir; tóku nú hvârirtveggju á sik náðir, ok þótti flestum mál hvíldar. Lið þat, er undan komst, ok Eireki konúngi hafði fylgt, flýðu til borgarinnar, ok hèldu sik þar.

34. Um nóttina, er menn voru sofnaðir, gengu þeir Hrólfr ok Stefnir til herbúða skipamanna, ok svófu þeir allir með herklæðum sínum; tók Hrólfr þá knífinn ok beltit, þat er Hreggviðr gaf honum, ok batt við spjótskapt grímumanns, ok mælti: þenna grip gef ek formanni liðs þessa, ok þar með þakkar ek honum sína drengiliga þjónustu ok liðveizlu, þikist ek skyldugr at gera honum allan þann góða, sem ek má veita honum, ok hann vill

af mèr þiggja; enginn svaraði þeim, gengu þeir nú til búða sinna, ok svófu af nóttina. Um morgun árla gekk Hrólfr til borgarinnar með lið sitt; kom þar ok grímumaðr með sitt lið[1]; þíngaði Hrólfr þá við borgarmenn, ok játaði þeim griðum, ef þeir vildi borgina uppgefa; taka þeir nú þann kost, gengu þeir Hrólfr í borgina með öllu liði sínu, ok skutu á húsþíngi, ok kvað Hrólfr upp á þínginu, at þeir voru þar komnir af hendi Íngigerðar konúngsdóttur, at vinna hennar ríki aptr af hennar óvinum, ok hún væri nú í Danmörk heil ok vel til reiða; urðu landsmenn við þessi tíðindi mjök glaðir, ok þóttust undir hennar vald þjóna vildu, gengu þeir Hrólfr nú til halla, ok settust til drykkju með mikilli gleði; tók hinn ókunni maðr þá af sèr grímuna; kendi Hrólfr ok Stefnir þá, at þar var kominn Hrafn, er fyrr var í Jótlandi, ok Hrólfr gaf klæðin; segir hann þeim tíðindi þau, er gerzt höfðu í Danmörk, fall Þorgnýs jarls, ok þat at hann hefði þar atborit. Urðu þeir Hrólfr ok Stefnir hljóðir við þessi tíðindi, ok þökkuðu honum mikiliga fyrir sína liðveizlu. Hrafn segist hafa ætlat, at þeir mundi hafa orðit seinir til þeirra enn fyrra dag: voru þèr góðs frá mèr makligir fyrir lífgjöfina ok klæðin endr fyrir löngu, er þið gáfuð mèr, en Krákr, bróðir minn, fèll ígær fyrir Grím ægi, ok þiki mèr þat enn mesti skaði,

[1]) ok hafði hann beltit góða yzt yfir klæðum sínum, *b. v. C.*

þótt ek verði svâ búit at hafa. Skildu þeir nú talit, voru þeir þar þá nótt í góðum fagnaði. Um morgun eptir lètu þeir Hrólfr [hreinsa völlu[1], ok skiptu herfángi með sínum mönnum; voru þar reistir þrír haugar mjök stórir: setti Hrólfr Sturlaug, föður sinn, í einn ok Krák, bróður Hrafns, ok alla þá vildustu kappa, er fallit höfðu af þeirra liði; var í þann haug borit gull, ok silfr ok góð vopn, ok vel um búit; í annan haug var settr Eirekr konúngr, Brynjólfr ok Þórðr ok þeirra vildarmenn; í þriðja var settr Grímr ægir við sjó fram, þar sízt þótti von at skip mundi koma at, en almúgi var þar dysjaðr, er fallit hafði. Setti Hrólfr nú stjórnarmenn yfir allt ríkit, til þess er konúngsdóttir kæmi til, en dvergr tók orlof af Hrólfi, ok þakkaði hann honum sína fylgð, ok gaf honum þá hluti, er hann vildi hafa. Gyða, systir Eireks konúngs, hvarf burt úr Garðaríki, ok var þat geta sumra manna, at Möndull mundi hafa haft hana burt með sèr. Eptir þat bjuggust þeir Hrólfr til heimferðar, ok hèldu burt úr Garðaríki, ok lèttu eigi fyrr, enn þeir komu til Danmerkr í Arós. [Þann stað hafði Þorgnýr mest eflt[2]; gekk Björn móti þeim með miklum fagnaði, ok allr landslýðr. Júngfrúrnar urðu fegnar þeirra aptrkomu; þakkaði Íngigerðr þeim sína framgöngu. Björn hafði geymt þær í einu

---

[1]) reyfa valinn, *C.* [2]) þar sem Þorgnýr jarl hafði haft atsetu, *C.*

jarðhúsi, síðan jarlinn fèll; sagði Íngigerðr nú einarðliga, at hún vildi öngvan mann eiga nema Hrólf Sturlaugsson, því hann hefði mestu um kostat, föður síns at hefna; hefir hann nú mist föður sinn ok bróður ok aðra vini ok frændr, en komit sjálfr í mestan háska; mæltu þessu öngvir í móti; gjörði Björn þeim nú sæmiliga veizlu, ok drukku erfi Þorgnýs jarls.

35. Einn dag at veizlunni stóð Hrafn upp, ok beiddi sèr hljóðs, ok mælti: þakkir vil ek gera yðr, Hrólfr ok Stefnir! fyrir þann heiðr ok velgerníng, er þið hafið til mín gert, bæði nú ok fyrri, er ek var hèr, vil ek nú kunngera yðr mitt nafn ok ætterni: Konúngr einn hèt Játgerr, ok rèð fyrir einu konúngsríki í Englandi, ok hafði atsetu í borg þeirri, er Víncestr heitir; hann átti tvo sonu ok eina dóttur; hèt hinn ellri son hans Haraldr, en annar Sigurðr; Álfhildr hèt dóttir hans. Ek er sá sami Haraldr, en Sigurðr, bróðir minn, fèll í Garðaríki, sem þèr vissuð, ok er móðurkyn okkart hèr í Danmörk. En þá er ek var 15 ára, en bróðir minn 13, var faðir minn svikinn af frænda sínum, er Heinrekr hèt, ok er hann mikill kappi ok óeirumaðr; lèt hann síðan taka sik til konúngs, ok heldr síðan ríkinu, en við bræðr komumst með nauðum undan; ok fengum komit Álfhildi til geymslu í borg þá, er Brandifurða heitir, ok hefir hún þar verit síðan, en við bræðr höf-

um farit huldu höfði um ýmsi lönd, ok nefnt okkr Krák ok Hrafn, höfum við fengit lið þetta ok skip hjá ýmsum höfðíngjum með styrk frænda okkara; hefir Heinrekr mikinn styrk af Skotlandi, því hann á dóttur Melans jarls úr Móraði, ok mikill vin höfuðkonúngsins, er Dúngall heitir; við hann er kennt Dúngalsbær, því hann hefir þann stað byggja látit. Nú vil ek þess biðja yðr, Hrólfr ok Stefnir! at þið veitið mèr lið ok styrk, at ek mætti föður míns hefna ok mína föðurleifð aptr vinna. Hrólfr sagði: allan þann styrk ok fylgi skal ek þèr veita, er ek má, ok eigi fyrr við skilja, en þú hefir þitt ríki aptr unnit ok þína harma rekit, eðr at öðrum kosti skal ek láta lífit. Stefnir talaði ok slíkt hit sama. Haraldr þakkaði þeim orð ok góðvilja. Þegar eptir veizluna bjuggust þeir til ferðar, ok völdu með sèr allt hit fræknasta lið, er fá kunni. Þeir settu Björn ráðgjafa eptir til landsgæzlu, ok fleiri ríkismenn með honum, en áðr þeir fóru, hafði Haraldr upp orð sín, ok bað Þóru, systur Stefnis; var Hrólfr þetta flytjandi ok fleiri tignarmenn aðrir; fór þat fram at Haraldr fèkk hennar, ok skyldi hún í festum sitja, til þess þeir kæmi aptr. Eptir þat sigldu þeir af Jótlandi, ok höfðu 30 skipa ok öll vel búin. Þeir lèttu sinni ferð eigi fyrr, enn þeir kvomu vestr til Englands við ey þá, er Lindisey heitir; þar lögðu þeir í

lægi, ok lágu þar nokkura daga, ok biðu byrjar, því þeir vildu eigi þar herja.

36. Svâ er sagt, at með Heinreki konúngi var sá maðr, er Annis hèt; hann var gamall at aldri, en nýr ok forn at ilsku ok fjölkýngi; hann hafði fóstrat Heinrek ok verit jafnan hans ráðuneyti. Annis hafði sagt konúngi fyrir mánuði, at Haraldr ok Hrólfr mundi þar koma með mikit lið, ok hvat þeir ætluðust fyrir; sagði Annis þá kappa mikla Hrólf ok Stefni, ok nú mundi ráða við þurfa: er þat mitt ráð, at senda til Skotlands til Melans jarls, mágs þíns, ok hann komi til liðs við þik; þú skalt ok gera boð til Dúngals konúngs, at hann sendi þèr lið; ok þegar Hrólfr kemr við land, skaltu senda þeim mann, at hasla þeim völl, ok bjóða þeim til orrostu, mega þeir þá ok herja at rèttum víkíngalögum; orrostustaðinn skal setja við Ásatún norðr frá Kanaskógum, þar er landslæg mest, ok verst flótta við at koma, en í skóginum skaltu vera láta helmíng liðs vors, til þess at þeir veiti þeim bakslettur, ok koma þeim í opna skjöldu; skulum vèr þá kríngja um þá, ok láta öngvan með lífi burtkomast. Sýndist konúngi þetta gott ráð, ok lèt svâ meðfara, sem Annis sagði fyrir. Kom Melans jarl af Skotlandi með mikit lið, var þat ok frítt lið, er Dúngall konúngr hafði sent Heinreki konúngi, voru þar fyrir liði berserkir tveir, hèt einn Ámon, en annar Hjálmr;

voru þeir miklir fyrir sèr at afli ok harðfengi; hafði Heinrekr nú óflýjanda hèr. Komu nú sendimenn hans til Lindiseyjar, ok sögðu þeim Hrólfi, at þeim var haslaðr völlr, ok til orrostu búit við Ásatún. Sýndist þat sumum óráðligt at fara með jafnlítit lið upp í megin landsins, svå sem þar var mikit fjölmenni fyrir; hèldu þeir til þess staðar, er í Skorsteini heitir, ok lètu þar eptir skip sín, ok bjuggu sik þá til landgöngu, ok lèttu eigi fyrr, enn þeir kvomu við Ásatún. Var Heinrekr konúngr þar fyrir ok Melans jarl með óflýjanda hèr, en í skóginum voru þeir Ámon ok Hjálmar með mikit lið, ok vissu þeir Hrólfr ekki til þess. Voru nú skipaðar fylkíngar: Heinrekr konúngr setti þrjár fylkíngar, var hann sjálfr í miðri fylkíngu, en Melans jarl í annarri; í þríðju fylkíng var greifi sá, er Engilbert hèt, ok var hinn mesti kappi; með honum var sá maðr, er Rauðam hèt, ok var bæði mikill ok sterkr ok fullhugi hinn mesti; voru merki borin fyrir þeim öllum. Annis var ekki í orrostu. Haraldr vildi fylkja í móti Heinrek konúngi, en Stefnir mót Melans jarl; Hrólfr fylkti mót Rauðam ok Engilbert; var eptir þat í lúðra blásit, ok knúðust hvårirtveggju til framgöngu með ópi ok eggjan. Tókst þar fyrst skothríð, en síðan in harðasta höggorrosta, ok gengu hvårirtveggju vel fram; Skotar ok Englismenn voru fyrst mjök ákafir, en Danir tóku vel við ok

snarpliga. Þeir Engilbert ok Rauðam mættu Hrólfi þegar í fyrstu, þá orrostan festist, ok sóttu at honum báðir senn, en hann varðist vel ok drengiliga; var hann í herklæðum sínum ok utan yfir í Vefreyjunaut. Þeir voru bæðir fimir ok sterkir, Rauðam ok Engilbert, ok kom Hrólfr aldri staðhöggi á þá, en klauf hann af þeim allar hlífar. Varð Hrólfr mjök móðr, en ekki festi vopn á honum fyrir hlífar sakir; hann var nú ákafliga reiðr; honum varð þat fyrir, at hann kastaði sverðinu, en rann undir Engilbert greifa með svå miklu skjótræði, at hann hóf greifann upp yfir höfuð sèr, ok færði hann á höfðinu niðr, svå hálsbeinit gekk í sundr. Í því hjó Rauðam báðum höndum á hrygg Hrólfi, svå sverðit gekk sundr undir hjöltunum, vildi hann þá hafa gripit Hreggviðarnaut; Hrólfr[1] hljóp á hann, ok lèt hann kenna afls munar, ok hnepti hann undir sik, ok setti knè fyrir brjóst honum, svå hart at inngengu brîngspalirnar, lètu Rauðam ok Engilbert svå líf sitt, ok þóttu þeir verit hafa enir mestu hreystimenn. Hrólfr tekr nú Hreggviðarnaut, ok höggr til beggja handa, þótti þeim Skotum hann mjök sárbeittr, ok hopuðu heldr undan. Hrólfr mat eigi muninn, eptir þeim at fara, ok drap hvern, er fyrir honum varð. Danir urðu þess brátt varir, at þeim bitu eigi vopn-

[1]) *hèr byrjar annat brot af B.*

in, þótt þeir hjuggu þrátt til, sem eigi voru hlífar fyrir, ok var líka sem þeir berði með lurkum, utan Hreggviðarnautr beit, sem í vatn brygði, hafði þat ok enginn deyft getat utan Grímr ægir, svâ at menn vissi til þess dæmi; fèllu nú meir Danir enn Englismenn. Þessunæst heyrðu þeir lúðrablástr ok heróp, hlupu þá berserkirnir fram úr skóginum með miklu liði, ok komu þeim Hrólfi í opna skjöldu, gerðu þeir harða atgöngu, ok fèllu nú Danir undvörpum. Hrólfr bað sína menn snúast á móti ok horfast at bökum; fór hann ok með merki sínu í móti berserkjunum, varð nú allhörð orrosta. Stefnir átti vopnaskipti við Melans jarl, ok var þat harðr samgángr, því hann var mikill kappi, en sverð Stefnis beit ekki. Þeir Ámon ok Hjálmar kvomu nú í móti Hrólfi; þeir hjuggu til hans báðir, en hann hafði fyrir sèr skjöldinn, ok bar af sèr drengiliga. Hrólfr sveipaði sverðinu til Hjálmars, ok kom á lærit fyrir ofan mjöðmina, ok þar undan fótinn, ok dó hann eptir lítinn tíma. Annis kom þá fram, hann hafði skjöld fyrir sèr stóran sem hurð, en lítit sax í annarri hendi; hann lagði saxinu á miðjum merkismanni Hrólfs, svâ þegar gekk í gegnum, fèll þá merkit á jörð. Dönum bitu nú vopnin, þegar Annis var framkominn; dugði nú hverr, sem mátti, fèll nú mart af hvârumtveggjum, en þó fleira af Dönum. Hrólfr vildi

nú hefna merkismanns síns, ok hjó til Annis[1], höggit kom í miðjan skjöldinn, ok klofnaði hann niðr at mundriða, stóð þá sverðit fast, en Annis hèlt svâ sterkliga, at hvergi bifaðist skjöldrinn; en Hrólfr vildi þá sleppa sverðinu, var þess eigi kostr, því báðar hans hendr voru fastar við meðalkaflann. Annis bað þá Skotana at skripta Hrólfi, því nú hefir vargrinn í stilli gengit, gerðu þeir nú svâ, at þeir þyrptust at Hrólfi mjök margir, aðrir hjuggu eðr börðu hann, bæði var hann grjóti grýttr ok öxum höggvinn ok kylfum lamdr, grettist Hrólfr ekki nú hagliga, ok brauzt um fast með hörðum fótaspyrníngum, varð hann þó eigi laus. Nú er frá Stefni at segja, at hann barðist við Melant[2] jarl, tók nú at bíta sverðit; hann hjó til jarlsins af öllu afli ofan í hjálminn. Þat högg varð svâ mikit, at hann klauf hjálminn ok höfuðit ok búkinn allan brynjaðan niðr í gegnum, svâ í jörðu nam staðar; höfðu þeir nú lengi barizt. Stefnir undraðist nú, at hann sèr ekki merki Hrólfs nè sjalfan hann, ok leitar eptir honum, þar til hann sá, hversu hann var staddr, at þeir sóttu at höggva undan honum fætrnar; skundar hann nú at duga honum, ok kemr at Annis óvörum, ok höggr með sverðinu framan á hjálmbarðit, ok þat í sundr, ok þar með alla ásjónuna, ok báðar hendrnar í ölbogabótunum;

[1]) Amons, *B.* [2]) Melans, *B.*

sníddi Annis nú ófimliga, varð Hrólfr nú laus, ok var eigi gott fyrir honum at verða, ok snèri þá at Ámon, ok hjó til hans með báðum höndum; sverðit kom í skjöldinn, ok tók í sundr, en blóðrefillinn reist brjóstit ok kviðinn, svâ út fèllu iðrinn, ok fèll Ámon dauðr til jarðar. Hrólfr var þá svâ reiðr, at hann eirði aungu; hann hjó ákafliga sem hendrnar fengu tíðast reitt sverðit, en 3 eðr fjórir fèllu fyrir hverju hans höggi. Því var líkast til at jafna um mannfallit, sem þá er ákafligast þrýtr [kurfl af stofni[1], er menn gera til kola. Stefnir gerði ok slíkt hitt sama, fèllu nú svâ skjótt Englismenn, at mörgum hundruðum gegndi. Þeir Heinrekr konúngr ok Haraldr höfðu fundizt öndverðliga í orrostunni, ok höfðu barizt allan daginn, voru þeir bæði sárir ok móðir, en Haraldr þó meir. Hrólfr sèr nú þeirra viðreign; hann hafði þá fjórum[2] sinnum gengit aptr ok fram í gegnum fylkíngar Heinreks konúngs, hann veðr þá at konúngi, ok höggr á hrygg honum, svâ hann fèll í tvo hluti dauðr til jarðar. En er Skotar ok Englismenn sjá konúng sinn fallinn, flýði hverr, sem fætr hafði, ok því kom við, en hinir ráku flóttann, ok drápu hvern, er þeir náðu, ok eigi gekk til griða. Hrólfr rak lángt flóttann, þurfti sá enginn griða, er hann náði sverði til, ok fèll mikill fjöldi í flóttanum. Snèru Danir þá

1) kurl af knakki, C. 2) 5, B; sjö, C.

aptr, ok flettu valinn, ok tóku þar mikit herfáng. Annis var fángaðr í orrostunni, ok lèt Hrólfr eykr spretta honum í sundr, ok lauk svâ hans æfi. Hrólfr var sár mikit, bæði á höndum ok fótum, [en víða um búkinn blár ok lerkaðr[1] af stórum höggum, þótt eigi hefði bitit. Fóru þeir Haraldr nú til Vincestuborgar[2], ok var hún uppgefin fyrir þeim, ok gekk allt landsfólk glaðliga til handa Haraldi; var hann nú til konúngs tekinn yfir allt þat ríki, sem faðir hans hafði átt, þakkaði hann þeim Hrólfi ok Stefni, sem vert var, sína fylgð ok framgöngu[3]. Skotar þeir, er undan komust, fóru á fund Dúngals[4], ok sögðu honum sínar ófarir, ok mannskaða, ok at Hrólfr var líkari tröllum enn mönnum fyrir afls sakir ok vaxtar. Líkaði Dúngal[5] mjök illa mannskaði sá, hann hafði fengit, ok varð þó svâbúit at hafa.

37. Þeir Hrólfr ok Stefnir sátu nú um kyrt með Haraldi, þat er eptir var vetrarins; lèt Haraldr sækja Álfhildi, systur sína, [til Brandfurðaborgar, ok fór hún[6] með góðu föruneyti ok sæmiligri fylgð; varð Haraldr feginn systur sinni, ok svâ hvârt þeirra öðru, var hún en fríðasta júngfrú, ok vel at atburðum, sem konúngsbarni byrjaði. Stefni rann skjótt ástarhugr til hennar, ok gekk á tal við hana, ok virtist hún honum bæði vitr ok hæversk-

---

1) hamlaðr, *C.* 2) Vínkestr, C. 3) *frá* [ *v. í B.* 4) Dúngaðar konúngs, *B.* 5) honum, *B.* 6) *v. í B.*

lig; hafði Stefnir þá uppi bónorð til hennar, en hún svarar því vel, ok veik því mjök til bróður síns; var þat auðsótt við Harald, því honum var Stefnir kunnigr at góðum drengskap ok mikilli hreysti; fór þat fram, at Stefnir fastnaði Álfhildi, ok greiddi Haraldr út mund hennar í gulli ok góðum gripum. Bjuggust þeir nú allir, þegar voraði aptr til Danmerkr, ok hlóðu skipin með malt, mjöð ok vín ok dýrum klæðum ok öllum þeim varníngi, er dýrmætastr[1] var í Danmörk, ok fá kunni í í Englandi, hèldu síðan aptr til Danmerkr, ok var Álfhildr með þeim; varð allt fólk í Jótlandi fegit þeirra aptrkvomu, tóku júngfrúrnar vel við þeim ok Björn ráðgjafi. Fór Álfhildr til þeirra Íngigerðar ok Þóru, ok var nú mikill fagnaðr með þeim öllum saman, lètu þeir nú ryðja skip sín, ok efna til ágætrar veizlu með öllum sínum beztum tilföngum, er í Danmörk mátti fá eðr nálægum löndum; var þar enginn hlutr tilsparaðr um hallir ok húsbúníng [ok alla hluti, þá er mátti fá á Norðrlöndum[2]; voru til þessarar veizlu boðnir burgeysar ok hirðmenn, greifar ok jarlar, með hertugum ok konúngum ok öllum öðrum mikilsháttar mönnum; voru flestir tignarmenn at þessi veizlu, er í voru Danmörk; ok at öllum samanskipuðum ok þángat komnum, var mönnum í sæti skipat, ok þèntu þar kurteisir júnkerar

[1]) torigætastr, *B.* [2]) öltól eðr aðra hluti, er at Norðrlöndum voru at fá eðr með peníngum at kaupast, *C.*

[ok hæverskir hofmenn[1]. Þar voru frambornir alskonar rèttir með hinum dýrustum jurtum, [allra handa dýra hold ok fugla af hreinum ok hjörtum ok vænum villisvínum, gæs ok rjúpr[2] með pipruðum páfuglum; eigi vantaði þar hinn dýrasta drykk, ál[3] ok enskan mjöð með vildasta víni, píment ok klaret; ok at brullaupinu settu ok veizlunni svâ skipaðri[4], mátti heyra alskonar strengleika, hörpur ok gigjur, simphón ok salteríum; þar voru bumbur barðar[5] ok pípur blásnar, með alskyns listiligum leikum, er líkaminn mátti við gleðjast. Eptir þat voru júngfrúrnar innleiddar með sínum skrautligum skara ok skemtiligum kvenna fjölda. Leiddu tveir tignarmenn hverja þeirra, er brúðgumarnir áttu at eiga; var yfir þeim borit [á steindum stöngum[6] klæði[7], hvat er skyggja skyldi þeirra bjarta búnað ok fögru ferð, til þess er þær voru í sæti komnar; var þá klæðit burttekit, bar þá eigi lit af lit, hörund ok hár skínanda ok gull glóanda með gimsteinum beranda. Sýndust þá öllum Álfhildr ok Þóra fölvar á lit hjá Íngigerði. Var nú veizla hin virðuligasta, ok at þessari veizlu gekk Hrólfr at eiga Íngigerði, en Stefnir Álfhildi, Haraldr Þóru. Þessi veizla var 7 nætr standandi með sama sætt ok skipan verandi,

[1]) *v. í B.* [2]) trönur, *C.* [3]) kal, *C.* [4]) *þat undanfarna frá* | *v. í B.* [5]) ok trumbur, *b. v. C.* [6]) *v. í B.* [7]) þat er sikladi heitir, *b. v. C.*

sem ek er nú greinandi með heiðr ok prís endandi; brúðgumar með góðum gjöfum alla tignarmenn reifandi ok þeim sína þarkvomu þakkandi, en hverr til sinna heimkynna farandi, þeirra ráð sem ok mikilmensku lofandi, ok allir með vináttu skiljandi. Tókust nú með þeim góðar ástir. Var Haraldr konúngr ekki lengi í Danmörk, áðr hann bjóst heim til Englands. Skildi hann við Stefni, mág sinn, ok Hrólf með vináttu, ok fór síðan í ríkí sitt, var Þóra drottníng með honum, ok settust um kyrt; áttu þau börn saman, þótt þau sè eigi nefnd. England er kallat gagnauðigast[1] land af Vestrlöndum, því þar er blásinn allr[2] málmr, [ok þar fellr hveiti ok vín[3], ok allskonar sæði má þar hafa; [eru þar ok klæði gerð ok margháttaðir vefir meir enn í öðrum stöðum[4]. Lundúnaborg er þar[5] höfuðstaðr ok Kantaraberg[6], þar er Skarðaborg[7] ok [Helsíngjaborg, Vincestr[8] ok margir aðrir staðir ok borgir, er hèr eru eigi nefndir. Stefnir var gefit jarlsnafn yfir allt Jótland, ok sat hann optast í Rípum. [Danmörk er[9] mjök sundrlaus, ok[10] er [þar Jótland mestr hluti ríkis[11]. Þat liggr et syðra með hafinu; Jótlandssíða er

1) *þannig B, C*; gagnauðigt, *A.* 2) allskonar, *C.* 3) *v. í B.* 4) *v. í B.* 5) mestr, *b. v. B.* 6) Kantarabyrgi, *B*; Krutaborg, *C.* 7) Skannaborg, *C.* 8) Brandfurða, York ok Vincèstr, *B*; Homíngaborg, Brandfurðuborg, Jork ok Vincèstr, *C.* 9) mikit ríki ok, *b. v. C.* 10) *v. í B.* 11) *þannig C*; Jótland ...st ríki, *B*; þat við Jótland mestr hluti, *A.*

kölluð [vestan frá hafinu[1] Vandilskaga ok suðr til Rípa. I Jótlandi eru margir höfuðstaðir; syðst[2] í Heiðabæ, annar í Rípum, þriði í Árósi, fjórði í Vebjörgum; þar taka Danir konúng sinn. Limafjörðr er á Jótlandi; hann gengr af norðri til suðrs, en í innanverðum firðinum gengr Haraldseið vestr til hafsins; þar lèt Haraldr konúngr Sigurðarson draga yfir skip sín, þá hann fór undan ófriði Sveins konúngs[3]. Fyrir vestan Limafjörð liggr Vandilsskagi; honum víkr til norðrættar, í Jörúngi er þar höfuðstaðr. Milli Jótlands ok Fjóna[4] gengr inn Álfasund[5]. A Fjóni er höfuðstaðr í Óðinsey. Milli Fjóna ok Sjálands gengr Beltissund. I Sjálandi er höfuðstaðr í Róiskeldu[6]. Fyrir norðan Sjáland gengr inn Eyrarsund, ok þar fyrir norðan Skáney; þar er höfuðstaðr [í Lundum[7]. Milli Jótlands ok Skáneyjar liggja mörg stór eylönd, þar er Sámsey, Álsey, Láland[8], Lángaland[9]; Borgundarhólmr liggr austr í hafit[10]. Höfðu Skjöldúngar í þenna tíma þetta ríki, en þó höfðu aðrir konúngar ok jarlar ekki minna ríki at ráða enn þeir í Danmörk, þótt Skjöldúngar bæri hærri tign fyrir sakir nafns ok ættar[11].

[1]) í vestr frá, *B*. [2]) enn fyrsti er, *B*; hinn synnsti, *C*. [3]) Ulfssonar, *b. v. B, C*. [4]) Fjóns, *hin*. [5]) Meðalfararsund, *C*. [6]) *þannig C*; Rinskeldu, *A*. [7]) *v. í. C*; Lundi, *eitthvert*. [8]) er í Þórslund, *b. v. C*. [9]) Mun, Falstr, *b. v. C*. [10]) frá Skáney, *b. v. C*. [11]) *það undanfarna frá*, í Jörúngi, *v. í B*.

38. Svâ er hèr sagt, at Stefnir jarl muni ekki lánglífr verit hafa, ok ætti ekki barn, svâ úr barnæsku kæmist. Þeir Hrólfr ok Stefnir skildust með mikilli vináttu, ok hèldu sínum fèlagskap, meðan þeir lifðu báðir. Ekki er þess getit, at Hrólfr kæmi til Hríngaríkis síðan. En þat er sagt, at þát sumar fór Haraldr vestr til Englands. Sigldi Hrólfr af Danmörk austr til Hólmgarða með 10 skipum, ok Íngigerðr með honum; var Hrólfr þar til konúngs tekinn yfir allt Garðaríki með ráði konúngsdóttur ok annarra ríkismanna. Þriðjúngr Garðaríkis er kallaðr Kænugarðar[1], þat liggr með fjallgarði þeim, er skilr Jötunheima ok Hólmgarðaríki, [þar er ok Ermland[2] ok fleiri önnur[3] smáríki[4]. Hrólfr stýrði nú ríki sínu með mikilli virðíng; var hann bæði vitr ok stjórnsamr, þorðu aungvir höfðíngjar á hann at herja, sakir hans frægðar ok hreysti. Unnust þau mikit Hrólfr ok Íngigerðr, ok áttu þau mörg börn. Hreggviðr hèt son þeirra, ok var mikill[5] fyrir sèr, hann fór í hernað í Austrveg, ok ekki aptr síðan. Þat er fróðra manna sögn, at annar sonr Hrólfs hafi verit Ólafr konúngr í Danmörk, er Helgi enn frækni herjaði á, en Hró-

---

[1]) Kænugarðr, *B* [2]) ok Lifland, *b. v. C.* [3]) þat eru mörg, *B.* [4]) í Hólmgarðaborg er mest atsetr Garðakonúngs, þat er nú (allt *C,*) kallat Nógarðar (ok Rúðzaland, *C,*) *b. v. B, C.* [5]) *hèr endar B öldúngis.*

mundr Greipsson veitti Ólafi, sem segir í sögu hans, ok drap Helga; ok þær Dagný ok Dagbjört væri dætr Hrólfs, er græddu Hrómund, en þat er eigi ritat, hvårt þær voru börn Íngigerðar eðr eigi. Þriði son Hrólfs hèt Hörðr, faðir Kára, föður[1] Hörða-Knúts. Þat er sagt, at Hrólfr yrði gamall maðr, en eigi er þat greint, hvårt hann var sóttdauðr eðr með vopnum veginn. Nú þótt þessi saga þiki eigi samhljóða verða öðrum sögum, þeim er atgánga þessu máli um manna nöfn ok atburði, hvat er hverr vann eða gerði með frægð eðr vizku[2], fjólkýngi eðr svikum, eðr hvar höfðíngjarnir ríktu, þá er þat líkligast, at þeir, er skrifat hafa ok samsett þessi tíðindi, muni eitthvert hafa fyrir sèr haft, annathvårt forn kvæði eðr fróðra manna sögn. Munu þær ok fár eðr aungvar fornra manna sögur, at menn vili með eiðum sanna, at svâ hafi verit, sem sagðar eru, þvíat flestar verða orðum auknar, verða ok eigi öll orð ok atvik greind í sumum stöðum, því flest er seinna enn segir. Stendr því bezt at lasta eigi eðr kalla lygð fróðra manna sagnir, nema hann kunni með meirum líkindum at segja eðr orðfæriligar fram at bera, hafa ok forn kvæði ok frásagnir meir verit framsett til stundligrar gleði enn ævinligs átrúnaðar, verðr ok fátt svâ ólíkliga sagt, at eigi finnist sönn

[1]) *b. v. C.* [2]) *hèr endar C.*

dæmi til, at annat hafi svâ orðit, þat er ok sannliga ritat, at guð hefir lánat heiðnum mönnum, einn veg sem kristnum, vit ok skilníng um jarðliga hluti, þar með frábæriligan frækleik, auðæfi ok ágæta skapan. Nú verðr hèr endir á þessu máli frá Hrólfi Sturlaugssyni ok hans afreksverkum; hafi hverr þökk, er hlýðir, ok sèr gerir skemtan af, en hinir ógleði, er ángrast við, ok ekki verðr at gamni. Amen.

---

# Sagan af Eigli einhenda ok Asmundi berserkjabana[1].

HERTRYGGR hefir konúngr heitit, hann rèð fyrir austr í Rússía; þat er mikit land ok fjölbygt, ok liggr milli Húnalands ok Garðaríkis. Hann var kvongaðr; hann átti 2 dætr, hèt hvortveggi Hildr; þær voru vænar ok vel skapi farnar, ok voru sæmiliga uppfæddar; konúngr unni mikit dætrum sínum. Einn tíma bar þat til tíðinda, at konúngr fór á dýraveiðar, en hin eldri Hildr á hnotskóg, ok konur hennar; hún var kölluð Brynhildr, kom þat til þess, at hún vandist við riddara íþróttir. Nú sem þær búast heim úr skóginum, kemr eitt mikit dýr, þat hjassi[2] heitir, fram at þeim. Þat var mikit vexti ok grimt; þat á lengstan aldr af dýrum, ok er þat fornmæli, at sá, sem gamall er, sè aldraðr sem einn hjassi; þat er skapt sem glatúns hundr, ok eyru svâ stór, at þau nema jörð. En er þær sáu dýrit, hljóp síns vegar hver, en dýrit greip konúngsdóttur, ok hljóp í skóginn;

[1]) *þannig afskriftirnir;* hèr byrjar sögu af Eigli ok Asmundi fóstbræðrum, *S; v. í hin.* [2]) *þannig hin;* hjasi *allstaðar, A.*

en konurnar sögðu heim þessi tíðindi; varð konúngr mjök hryggr, ok lætr leita, ok finnst hún hvergi, kemr engi sá, at honum kunni þar til at segja; dofnar hèr yfir sem annat, ok líðr til jóla.

2. Á jólum hèlt konúngr veizlu dýrliga. Hildr hin ýngri nam hannyrðir, ok sat í skemmu, ok var hún Bekkhildr kölluð; hún var vitr; hinn fyrsta dag jóla sendir konúngr eptir dóttur sinni, ok nú býr hún sik ok sínar skemmumeyjar, ok gánga út á strætit, ok fylgðu þeim sæmiligir hofmenn. En er þær voru komnar fyrir grasgarð mikinn, heyrðu þær gný mikinn, ok sáu fljúga einn ógrligan gamm. Sýndust þeim hans vængir breiðast út yfir borgina, ok kemr mikit myrkr, en þessi gammr tók konúngsdóttur, ok flýgr burt með hana, en laust til bana tvo hennar þjónustumenn, en allir urðu ógrliga hræddir; kvomu þessi tíðindi nú í höllina, ok varð konúngr dapr mjök. Hann mælti: seint vill frá hefja um þann mannskaða, sem vèr fáum, kann ek eigi at skilja, hverjar óvættir á munu liggja, því skal þau mín orð mega bera, at hverr, sem þat vill vinna til minna dætra, at leita eptir þeim, þá skal sá, sem þær finnr, eiga þær ok þriðjúng míns ríkis, en ef þær finnast dauðar, skal sá hafa hinn bezta jarlsdóm í mínu ríki ok þá giptíng, sem hann vill; en margir sögðu, at mikit væri útgefit,

enda væri til mikils at vinna. Líða nú jólin, ok ferr hverr heim til síns heimilis, ok þikir mörgum mikils verð þessi tíðindi. Líðr nú vetrinn ok sumarit eptir, ok áliðnu hausti bar þat til tíðinda, at þar kom skip eitt lítit vexti, en allt gulli búit fyrir ofan sjó; þar voru á 30 manna ok þjónustumenn at auki. Konúngr var fyrir í höfninni; þeir gengu fyrir konúng, ok kvöddu hann; hann tók vel kveðju þeirra, ok spurði, hverir þeir væri, en sá kveðst Ásmundr heita, ok kallaðr berserkjabani, er fyrir þeim var. Hversu gamall maðr ertu? sagði konúngr. Sextán vetra, sagði Ásmundr, þik hefi ek gildastan sèð, sagði konúngr, á þeim aldri, eðr hvaðan ertu atkominn? Úr hernaði, sagði Ásmundr, en nú er komit at vetri, ok viljum vèr hafa hèr friðland í vetr, skortir oss eigi fè at leggja fyrir vora menn; konúngr segir þat til reiðu. Lætr Ásmundr færa faung sín af skipi, ok var þeim fengit sæmiligt herbergi at geyma sitt góts, en optast drakk Ásmundr í konúngs höll; hugnaðist Ásmundi þar vel ok hans mönnum.

3. Þá er Ásmundr hafði verit þar mánuð, var þat einn dag, at konúngr sat yfir drykkju, at menn kvomu í höllina átján saman allir mjök sárir. Sá hèt Rögnvaldr, er fyrir þeim var, landvarnarmaðr konúngs. Hann kvaddi konúng; konúngr tók vel kveðju hans, ok spurði, hverr hann hefir svâ harðliga leikit. Maðr er einn kom-

inn í land yðvart, sagði Rögnvaldr, sá heitir Egill, hann er illr viðreignar; hann rænti land yðvart, ok fór ek til móts við hann, ok hafði ek 5 skip velskipuð, en Egill hafði eitt skip, ok á 30 manna; þottumst ek hafa ráð hans í hendi mèr, en svâ skildu við, at ek kom á flótta, ok voru drepnir menn mínir allir utan þessir; en Egill þessi hefir aðra hönd, ok er kallaðr Egill einhendi, ok vinnr hann meira sigr með þeirri, sem af er; er þar búit um eitt sverð, ok er þat dverga smíði, ok er því læst at fyrir ofan úlflið, en hans högg standast aungvir menn. Gekk Rögnvaldr þá til sætis, ok datt dauðr niðr. Konúngr mælti: eigi má ek þat þola, at þín sè óhefnt. Ásmundr svarar: svâ mætta ek helzt launa yðr gott yfirlæti, at finna Egil þenna. Þat vil ek gjarna, sagði konúngr, ok hafið svâ mikit lið, sem þèr vilið. Ekki er ek vanr at auka liði við jafnmarga menn, sagði Ásmundr, en ef Egill hefir meira lið, þá munu landsmenn[1] veita oss.

4. Ásmundr fór nú til móts við Egil, ok bað sína menn róa vopnaða at þeim; Egill var ekki varbúinn, ok spurði, hverr þar gerði svâ gildan atróðr; Ásmundr segir til sín: ok á ek við þik erindi. Lát heyra þau, sagði Egill. Ek vil skipta við þik vopnum, sagði Ásmundr, ok gefa sverð mót öxum. Ei viljum vèr þess synja, sagði Egill, eðr er mikit fè á skipum

[1]) yðrir menn, *C.*

yðrum. Ásmundr sagði eigi vera; viljum vèr afla þar nokkurs, sem þèr eruð, eðr hverju vill þèr bæta konúngi fyrir rán. Ekki erum vèr vanir, sagði Egill, at leggja penínga fyrir, þótt sveinar taki sèr slátrsauði. Þá munu vèr eptirleita, sagði Ásmundr, því at konúngr sendi mik eptir höfði þínu. Hann vill þik þá feigan, sagði Egill, ok gjörumst heldr fóstbræðr, ok drepum konúng, ok gaungum at eiga dætr hans. Eigi eru þær lausar fyrir, sagði Ásmundr, því at þær hafa verit stolnar frá honum. Þat er skaði, ef menn okkrir drepast niðr, sagði Egill, ok berjumst tveir heldr. Ásmundr kveðst þess albúinn; þeir gánga nú á land, ok reyndu sínar íþróttir, ok var nær um með liðsmönnum þeirra, ok um kveldit settust þeir í samdrykkju, ok svófu af um nóttina. En um morguninn tóku þeir Ásmundr ok Egill vopn sín, ok börðust sterkliga, ok þrimr skjöldum spilti hvorr fyrir öðrum; var þá sól í fullu suðri. Egill mælti þá: viltu eiga leik þenna lengr? Eigi er enn mikit umþreytt, sagði Ásmundr, ok eigi mun konúngi þikkja rekit sitt erindi, ef við hættum svâ búit. Þú munt ráða, sagði Egill. Hversu gamall maðr ertu, sagði Ásmundr; átján vetra, sagði Egill. Nú tak vopn þín, ef þú vilt lengr lifa, sagði Ásmundr; berjast þeir nú öðru sinni, ok sýnist nú sem þeim sè dauðinn vís, sem til er höggit; ok sem sól er komin í útsuðr, mælti Egill: betra ætla ek okkr at

hætta þessum leik. Hræðsla gengr þèr til þess, sagði Ásmundr; hann hafði þá fengit eitt sár. Ver þik nú þá, sagði Egill; sóttust þeir þá í þriðja sinn, átti Ásmundr þá ekki annat at gjöra enn hlífa sèr, ok fengit hafði hann nú þrjú sár; sèr hann nú, at eigi mun svâ búit duga, kastar nú sverðinu, ok hleypr á Egil, verðr honum nú bág höndin, ok berast þeir víða um völlinn, en svâ kemr, at Egill fellr, hafði hvorr slitit hjálminn af öðrum. Eigi nenni ek, sagði Ásmundr, at bíta sundr í þèr barkann, er sverð mitt er fjarri. Sá er þèr nú beztr, sagði Egill. Þat mun nú voga verða, sagði Ásmundr; hljóp hann þá eptir sverði sínu, ok hljóp at Egli, en hann lá svâ kyrr, sem hár hans væri skorit. Ásmundr mælti: aungum manni ertu líkr, Egill! stattu nú upp, ok vil ek nú boð þat, er þú hefir áðr boðit mèr, at vera þinn fóstbróðir. Mikit þiki mèr fyrir því, sagði Egill, á ek þá at launa þèr lífgjöf. Eigi mun ek drepa þik, sagði Ásmundr, en þat vil ek, at þú farir með mèr til konúngs; kvomu þá menn þeirra beggja, ok báðu þá sættast, takast þeir nú í hendr, ok sverjast í fóstbræðralag eptir fornum sið.

5. Þeir búa nú ferð sína, ok koma til Tryggva[1] konúngs. Ásmundr kvaddi konúng, en hann tók honum vel, ok spurði, hvort hann hefði fundit Egil hinn einhenda; Ásmundr kveðst hann fundit hafa: ok hefi ek ei sèð

[1]) Hertryggs, C.

vaskara mann, ok vill hann nú gánga í stað Rögnvalds, ok við báðir, at verja land þitt. Ef þú villt selja mèr trú þína, sagði konúngr, at þið gángið í hans stað, þá mun ek taka sætt af yðr. Ásmundr kveðst þat gjöra vilja, var Egill þá tilkallaðr, ok gjörðust þeir Ásmundr landvarnarmenn konúngs, ok sátu þar um veturinn. At jólum hafði konúngr vinaboð, ok jóladag hinn fyrsta spurði konúngr eptir, hvort nokkur væri sá þar kominn, at honum kynni at segja, hvat orðit mundi af dætrum hans, en þat kunni enginn at segja; lýsti konúngr þá þeim skilmála, sem hann hafði ágjört. Egill sagði: þat væri röskum mönnum gott til fjár at vinna. Eptir jólin fór hverr til síns heimilis. Þegar hávetri var liðit, settu þeir Egill ok Ásmundr skip sitt á sjó, ok völdu á fjóra menn ok tuttugu, en sá hèt Víglog[1], sem þeir settu fyrir þá, sem eptir voru, en þeir sögðust mundu leita konúngsdætranna, ok eigi aptr koma, fyrr enn þær fyndist annathvort lífs eðr dauðar. Sigldu þeir nú í haf, ok vissu aldri, hvert þeir skyldu fara, könnuðu þeir eyjar ok útsker ok fjallbygðir, ok fór svâ allt sumarit; en at vetri voru þeir komnir norðr at Jötunheimum, ok lögðu þeir þar undir skóg einn, ok bjuggust þar um, ok settu upp skip sitt; sögðu þeir sínum mönnum, at þeir skyldu þar dveljast um vetrinn: skulu við Egill, sagði Ásmundr,

1) Víglogi, C.

kanna land þetta, en ef við komum eigi aptr at sumri, þá skulu þèr fara, hvert sem yðr lystir. Gánga þeir nú á mörkina, ok skjóta dýr ok fugla til matar sèr, voru þeir á mörkum, svâ at mánuðum skipti, ok fengu stundum aungvan mat. Eitt sinn kvomu þeir í dal einn; á ein var þar, ok eyrar slèttar, en upp yfir skógr ok hamrar; þar sáu þeir mart geitfè ok feita hafra, ráku þeir saman fèit, ok tóku einn feitan hafr, ok sögðust skyldu skera hann, ok þvínæst heyra þeir kvæklat upp yfir sik; stukku þá burt allar geiturnar, ok varð þeim laus hafrinn. Þeir sáu kvikindi uppi í hömrunum, þat var meira á þverveginn enn hæðina; þat var svâ hvelt sem bjalla, ok spurði, hverr svâ djarfir væri, at stela vildu hafri drottníngarinnar. Ásmundr mælti: hver ertu hin fagra [ok hin bólfimliga[1], eðr hvar ræðr drottníng þín? Skinnnefja heiti ek, sagði hún, en móðir mín Arinnefja; hún er drottníng hèr í Jötunheimum, ok býr skamt burt hèðan, mættu þið finna hana heldrenn stela. Sat segir þú þat, sagði Ásmundr, tók hann þá fíngrgull, ok gaf Skinnnefju. Eigi þori ek at þiggja, sagði hún, at þèr, [því ek veit, at móðir mín segði, at þat sè hvílutollr minn[2]. Eigi er ek vanr at taka aptr þat, sem ek gef, sagði Ásmundr, en þiggja munu við, at þú umgángir okkr greiða.

1) v. í C. 2) v. í C.

Síðan fór hún heim undan, ok finnr móður sína. Kerlíng spurði, því hún væri svâ sein? Hún kveðst hafa fundit tvo menn beinaþurfa: ok gaf annar þeirra mèr gull, ok bað mik vísa þeim til gistíngar. Því þáttu gull, sagði hún? Ek ætlaða hjá þèr til launa, sagði Skinnnefja. Því bað þú þá ekki híngat fara, sagði kerlíng? Ek vissa eigi, hversu þèr var um þat gefit, sagði hún. Bjóð þeim híngat! sagði kerlíng. Skinnnefja hljóp þegar, ok mælti: móðir mín bað ykkr koma til sín, skulu þið vera lèttir af tíðindum, mun hún á flestu kunna grein at gjöra. Nú finna þeir kerlíngu. Hún spurði þá at nafni; þeir sögðu et sanna til. Kerlíng var starsýn á Egil. Þeir sögðust ei hafa etit mat á 7 dögum. Kerlíng var at at renna mjólk; hún átti 50 geita, ok mjólkuðu sem kýr. Hún átti ketil stóran, ok tók hann alla mjólkina. Hún átti hveitiakr stóran, tók hún þar svâ mikit mjöl, at hún gjörði hvern dag graut í katlinum, ok höfðu þær þat til viðrlífis. Þú, Skinnnefja! sagði hún, tak hrís, ok gjör eld brenniligan; [mun eigi of vel plagat[1], þótt þeir eti grautinn, Skinnnefja! hèr í flýti; en kerlíng bað þá [herða á þat fyrst[2], sem til væri[3]; kom þar fram dýra hold ok fugla. Kerlíng mælti: verum eigi hljóð, þóat eigi verði svâ vel plagat, sem vera skyldi, mun

[1]) munu eigi of vel gestirnir, C. [2]) hrífa á því, C. [3]) kerlíng dúkaði borð, ok bjó til lagliga, *b. v. S.*

lángt, áðr enn grautrinn er búinn, ok seg þú æfisögu þína, Ásmundr! en þá skal Egill viðtaka, en þá mun ek skemta til borðprýði af því, sem yfir mik hefir borit, og forvitnar mik at vita, hverrar ættar þið eruð, eðr hvat undir ferðum ykkrum býr.

6. Ásmundr tók þá til orða: Óttar hèt konúngr, hann rèð fyrir Hálogalandi; Sigríðr hèt drottníng hans, dóttir Óttars jarls af Jótlandi í Danmörk. Þau áttu einn son, sá hèt Ásmundr; hann var mikill vexti, vandist hann við íþróttir, ok þá hann var 12 vetra, þótti hann afbera öllum þeim, sem þar voru; hèlt hann marga leiksveina. Eitt sinn, er þeir voru á skóg riðnir, fann Ásmundr einn hèra; hann slepti hundum sínum til hans; hèrinn hljóp undan, ok gátu hundarnir ekki fráit hann. Ásmundr gaf ekki fyrr upp, enn hestrinn fèll af mæði, hljóp hann þá, ok elti dýrit með hundunum; lauk svâ at hèrinn steypti sèr ofan fyrir sjófarhamra. Ásmundr snèri þá til hestsins, ok fann hann eigi, var þá komit kveld; svaf Ásmundr af um nóttina, en at morgni var komin þoka svâ myrk, at hann vissi eigi, hvar hann var kominn, 3 daga viltist hann á skóginum. Þá sá hann mann gánga á móti sèr mikinn ok fríðan í skarlats kyrtli, en hárit gult sem silki. Eigi þóttist Ásmundr vænna mann sèð hafa; heilsar nú hvorr öðrum; Ásmundr

spurði hann af nafni. Hann kveðst Aran[1] heita, sonr Roðíans konúngs af Tattaría[2]: hefi ek verit í hernaði. Hversu gamall ertu? sagði Ásmundr; 12 vetra, sagði Aran; þar munu ekki fleiri þínir líkar, sagði Ásmundr. Engum var ek þar líkr, sagði Aran, ok því strengða ek þess heit, at koma eigi aptr, fyrr enn ek hefða fundit annan minn líka at aldri ok íþróttum. Nú hefi ek frètt til eins manns, er Ásmundr heitir, son konúngs af Hálogalandi, eðr kanntu nokkut at segja mèr til hans, því mèr er sagt, at þar muni skamt vera á milli. Þann mann þekki ek gjörla, sagði Ásmundr, ok talar hann nú við þik. Þá gengr at óskum, sagði Aran, ok megun við nu prófa okkra fimleika. Ásmundr kveðst þess búinn. Síðan frömdu þeir allar íþróttir, þær úngum mönnum voru tíðar í þær mundir, ok voru þeir svâ jafnir, at ekki mátti á millum sjá. Síðast tóku þeir fáng, ok voru harðar sviptíngar með þeim, ok mátti eigi mun gjöra, hvorr sterkari var, ok skildu svâ, at þeir voru báðir móðir. Þá talaði Aran til Ásmundar: ekki skulu við vopnaskipti prófa, því þat verðr skaði okkar beggja, vil ek at við sverjumst í fóstbræðralag, at hvorr skal annars hefna, ok eiga fè saman, fengit ok ófengit; þat fylgir ok svardaga þeirra, at hvorr, sem lengr lifir, skyldi láta verpa haug eptir annan, ok láta þar í svâ mikit

[1]) Azan, *alstaðar* C.; Aron, S. [2]) Tartaría, S.

fè, sem þeim þætti sóma; síðan skal sá, sem lengr lifir, sitja hjá hinum dauða 3 nætr í haugi, ok fara síðan burt, ef hann vildi; vökva sèr síðan blóð, ok lètu renna saman, hèldu menn þat þá eiða. Aran bauð honum nú at fara til skipa með sèr, ok sjá sinn fararblóma; en með því at Ásmundr var þá í Bretlandi með Óttari jarli, móðurföður sínum, þá lèt hann Aran ráða.

7. Þeir fara nú til skipa Arans, ok voru þau 10 lángskip með góðum drengjum skipuð. Aran gaf Ásmundi helmíng liðs ok skipa; Ásmundr bað at þeir mundu sigla til Hálogalands, ok vildi hann hafa þaðan sitt lið ok skip. Aran sagðist fyrst vilja sigla til síns lands, ok koma svâ til Hálogalands, ok at landsmenn mætti sjá, at þeir væri ekki stafkarlar. Ásmundr bað hann ráða; sigldu þeir síðan í haf, ok gaf þeim vel byri. Ásmundr spurði, hvort Róðían konúngr ætti fleira barna; Aran sagði, at hann ætti son, er Herrauðr hèt, við dóttur konúngs af Húnalandi: er hann bæði vaskr maðr ok vinsæll, ok stendr hann til ríkis í Húnalandi. Faðir minn á bræðr 2, heitir annar Hrærekr, en annar Siggeir, þeir eru berserkir ok illir viðreignar, ok ekki þokkasælir af landsmönnum; konúngr hefir mikit traust á þeim, því at þeir gjöra þat, er hann vill; þeir liggja í hernaði ok færa konúngi gersimar. Er nú eigi getit um þeirra

ferð, fyrr enn þeir koma við hafnir Róðíans konúngs, þar sáu þeir fljóta 12 herskip ok 2 dreka, svâ væna at aungva sáu þeir slíka. Þar voru komnir bræðr tveir utan af Blökumannalandi, hèt annar Bolabjörn, en annar Vísinn[1]; Gormr[2] jarl hèt faðir þeirra; þeir höfðu drepit Róðían konúng, ok eytt víða landit, ok gjört mikit hervirki. En er þeir fóstbræðr verða þessa varir, þá lètu þeir kveða við lúðra; en þegar landsmenn vurðu varir, at Aran var kominn, dreif at honum múgr ok margmenni. Víkíngar drifu til skipa, ok tókst bæði harðr bardagi ok mannskæðr, ok var þat lánga stund, at eigi mátti millum sjá. Aran hljóp á skip til Bolabjarnar, ok ruddist um fast, ok hrökk allt undan honum. Bolabjörn rèðst mót honum. Aran hjó til hans í beran skallann, ok stökk sverðit sundr undir hjöltunum. Bolabjörn hjó í mót í skjöldinn Arans, ok klauf hann at endilaungu, ok fèkk Aran sár mikit á bríngunа. Stokklaust atkeri lá á þilfarinu, ok greip Aran þat upp, ok rak í höfuð Bolabirni, svâ fljót[3] sökk, ok kipti Aran honum út af borðinu, ok sökk hann til grunna. Vísinn hljóp á skip til Arans, ok skaut at honum 2 kesjum í senn. Aran skaut skildi fyrir aðra, ok hljóp hún í gegnum skjöldinn, ok í handlegg Arans fyrir framan olbogann, svâ at í beini stóð; aðra kesj-

[1]) Vísingramaðr, *alstaðar*, *S.* [2]) Gromr, *C.* [3]) flýt, *A.*

una tók Aran á lopti, ok skaut aptr á Vísin, ok hæfði í ginit á honum, svâ út gekk um hnakkann, ok upp á mitt skaptit. Spjótit hljóp í siglutrèð, svâ lángt gekk uppá fjöðrina, ok hèkk Vísinn þar dauðr. Eptir þat gáfust víkíngar upp, en Aran lèt höggva alla fyrir borð; gengu síðan í borgina, ok fögnuðu landsmenn Aran, ok voru bundin sár þeirra; en síðan er Aran gefit konúngsnafn; lýsti hann þá skildaga þeirra Ásmundar, ok gaf honum allt hálft við sik. En er þeir höfðu eigi fullan mánuð heima verit, þá varð Aran bráðdauðr einn dag, er hann gekk í höll sína, var þá búit um lík hans eptir þeirra sið. Ásmundr lèt verpa haug eptir hann, ok setti hjá honum hest hans með söðli ok beizli, merki ok öll herklæði, hauk ok hund; Aran sat á stóli í öllum herklæðum. Ásmundr lèt færa stól sinn í hauginn, ok settist þará; haugrinn var þá byrgðr. En hinu fyrstu nótt reis Aran af stólinum, ok drap haukinn ok hundinn, ok át hvorttveggja. Aðra nótt stóð Aran upp, ok drap hestinn, ok sunðraði, ok tók á tannagángi miklum, ok át hestinn, svâ blóð fèll um kjapta honum; bauð hann Ásmundi til matar með sèr. Hinu þriðju nótt tók Ásmund at syfja, varð hann þá eigi fyrr var við, enn Aran greip í eyrun á honum, ok sleit þau af honum bæði. Ásmundr brá þá saxi, ok hjó höfuð af Aran, tok hann síðan eld, ok brendi Aran at ösku, ok gekk síðan til festar;

var hann þá uppdreginn, en haugrinn byrgðr, ok hafði Ásmundr með sèr þat fè, sem lagt var í hauginn.

8. Litlu síðar hafði Ásmundr þíng við landsmenn, ok spurði, hvat þeir vildu halda af því, sem þeir Aran höfðu samanbundit; en menn lögðu þar misjafnt til; þeir menn, er Aran hafði gefit Ásmundi, vildu honum atfylgja. Þessu næst varð þeim litit til hafs, ok sáu menn þá sigla skip at landi, ok voru þar komnir (þeir) bræðr, berserkirnir Hrærekr ok Siggeir, ok hugðu allir íllt til þess. Ásmundr bauð þeim sína forstöðu, en aungvir voru til at rísa á mót þeim. Fór Ásmundr til skipa sinna við sína menn. En er berserkirnir vissu þau tíðindi, sem þar voru orðin, kölluðu þeir sèr land allt. Ásmundr sagði þeim einkamál þeirra Arans, ok kallaði sèr hálft land; berserkirnir báðu hann burtverða, ef hann vildi halda lífinu; Ásmundr bauð einvígi hvorum, sem vildi, ok lægi þar land undir, en þeir grenjuðu í móti, ok báðu menn sína vopnast, ok (tókst) þá bardagi með þeim, hafði Ásmundr lið minna, en landsmenn þorðu honum eigi lið at veita; fèllu menn Ásmundar allir, ok varð hann handtekinn, var þá komit at kveldi; urðu þeir á þat sáttir, at um morguninn skyldi höggva hann á haug Arans, ok gefa hann Óðni til sigrs sèr; var hann þá bundinn við vindásinn, en menn fóru allir til

lands, ok svófu af um nóttina í herbúðum, ok bundu sár sín. Þeir bræðr láu í litlu tjaldi skamt frá herbúðunum, ok fátt manna með þeim. Nu er at segja frá Ásmundi, at hann sat upp við vindásinn; hann sá járnloku eina, er framstóð úr vindásnum, þar hafði komit í högg mikit, ok reis á röndinni úfr hvass, þar gnèri Asmundr við strengnum, ok skarst hann í sundr, því járnit var hvast; var Ásmundr þá laus; braut hann nú fjöturin af fótum sèr. Vindr stóð á land; Ásmundr hjó strenginn, ok rak skipit upp at skóginum, ok því næst var Ásmundr á landi; kom honum nú í hug, at glettast nokkut við berserkina, áðr hann færi í skóginn, ferr hann nú til tjalds þess, sem þeir svófu inni, ok fellir á þá tjaldit; þeir spruttu upp, sem inni voru, ok varð þeim ógreið útgángan, þvíat tjaldit flæktist fyrir þeim. Ásmundr hjó í höfuð Hræreki, ok klauf niðr í jaxla; Siggeir komst ut, ok vildi hlaupa í skóginn; Ásmundr hljóp eptir honum; Siggeir drap fæti, en Ásmundr hjó eptir honum á hrygginn, fyrir neðan þat, sem hann var mjóstr, ok tók hann þar sundr. Síðan fór Ásmundr í skóginn; drepit hafði hann 10 menn með berserkjunum. Menn leituðu hans, ok fundu hann eigi, en áðr enn (dagrinn) var úti, kom Herrauðr konúngsson með 20 skipum, ok urðu honum allir fegnir. Spurt hafði hann öll þau tíðindi, sem þar höfðu orðit, en síðan átti hann þíng við landsmenn, ok lýsti sinni eigu á landinu, ok

beiddist viðtöku, en enginn mælti á mót, ok var hann til konúngs tekinn yfir allt landit; en menn þeir, sem fylgt höfðu berserkjunum, voru burtreknir, en Herrauðr tók fè þeirra. Þá kom Ásmundr á fund Herrauðs, hann kvaddi konúng; Herrauðr spurði, hvat manna hann væri; hann sagði til hitt sanna; hann spurði, hvort hann hefði drepit berserkina; hann kvað þat satt vera; því fórtu þá á minn fund? sagði hann; ek sá mèraungan betra, sagði Ásmundr, en ek þóttumst þá drepa fleski í kál þitt; fór ek því á þinn fund, at ek vissa, at mèr mundi eigi tjá, at forðast þik, ok vil ek nú vita minn hlut, hverr vera skal; mun ek verja mik, meðan ek get, ef ek á lífi at forða, en þiggja betri kosti, ef boðnir eru. Frètt hef ek ummæli ykkur Arans, sagði Herrauðr, ok ætla ek vel fallit, at taka þik í bróður stað, þvíat miklar meinvettir þótti mèr afráðnar, er berserkirnir voru drepnir. Síðan var Ásmundr með Herrauð, ok kom þeim vel saman; þvínæst bað Ásmundr hann fá sèr skip, ok vill fara í hernað, ok Herrauðr bað hann velja bæði skip ok menn, svâ marga sem ek vilda, ok bað hann sitja hjá sèr þeim stundum, sem hann vildi. Ásmundr valdi 30 manna af liði hans, ok hafði eitt skip; skildu þeir með vináttu, ok lofuðu, at þeir skyldu bræðr hittast, hvar sem þeir fyndust; kölluðu þeir hann nú Ásmund berserkjabana, ok endast þar nú mín saga, at ek er þessi sami Ásmundr. Mikil þiki mer saga þín, sagði kerlíng, eðr

hvat líðr nú grautnum, genta? Nú er komin á vella, sagði Skinnnefja; lángt mun þá, áðr enn búinn er, sagði drottníng, eðr hvat segir þú til, Egill?

9. Þat er upphaf minnar sögu, sagði Egill, at Hríngr hèt konúngr; hann rèð fyrir Smálöndum; Íngibjörg hèt kona hans; hún var dóttir Bjarkmars[1] jarls af Gautlandi; þau áttu 2 börn; Egill hèt son þeirra, en Æsa dóttir; Egill ógs upp með hirð föður síns, þar til at hann var 12 vetra gamall; hann var mikill fyrir sèr, ok óstýrilátr, kappsamr ok ódæll; hann lagði lag sitt við drengi, ok lagðist út á skóga, at skjóta dýr ok fugla. Vatn mikit var í skóginum, ok voru þarí eyjar margar. Þar fóru þeir Egill á sund jafnan, þvíat þeir vöndu sik mjök við íþróttir; eitt sinn ræddi Egill um við þá, hverr lengst mundi geta lagizt í vatnit, þvíat svâ var lángr vegrinn í þá ey, sem first var landi, at hana sá eigi, utan þeir gengi upp í há trè til. Nú leggjast þeir á vatnit, ok voru saman 30, skyldi þar hverr eptir vera, sem hann treysti sèr eigi lengra at fara, leggjast þeir nú um vatnit, ok voru sum sundin breið mjök. Egill var fljótastr á sundinu, ok gat engi fylgt honum, ok er þeir voru lángt frá landi komnir, þá kom þoka svâ myrk, at engi sá annan, ok gjörði þá vind kaldan; viltust þeir nú á sundinu, ok eigi vissi Egill,

[1]) Bjarkmars *alstaðar C*; Bjarmars, *S*.

hvat af sínum mönnum varð, hvarflaði hann nú um vatnit tvö dægr, kom hann þá at landi, ok var svâ máttdreginn, at hann varð at skríða á land, ok reitti hann á sik mosa, ok lá þar um nóttina; en at morgni var honum nokkut hitnat, kom þá úr mörkinni risi einn mikill; hann tók Egill upp undir hönd sèr, ok mælti: þat er vel, Egill, at við höfum hèr fundizt, eru 2 kostir við þik af minni hendi, annathvort, at ek drep þik, elligar hitt, at þú geymir geita minna, svâ lengi sem ek lifi, ok sverìr mèr þarat eið. Egill dvaldi þat eigi, því þá var úr vöndu at ráða; fóru þeir nú margar dagleiðir, ok þar til er þeir kvomu til hellis, er jötuninn átti fyrir at ráða. Jötuninn átti hundrað hafra ok margt geitfè annat, lèt hann þat standa á niðrlögum sínum, at þeir skyldu aldri færri vera. Egill tók við fjárgeymslu, ok voru geitrnar óspakar, fór svâ fram lengi. En er Egill hafði þar verit 12 mánaði, þá hljóp hann burt eitt sinn, en er jötuninn var varr þess, fór hann eptir honum, þvíat hann var svâ margvís, at hann rakti spor líka svâ sem á fönnu. Jötuninn fann hann í helli einum, hafði hann nú fjóra daga á burt verit. Jötun sagði, at hann hafði verr gjört, enn hann átti skilit: skaltu nú, sagði hann, hafa þat, sem þèr er verra. Síðan tok hann 2 steina, ok vógu hálfvætt báðir, þar voru fastar við járnhespur; hann læsti þær at fótum

Egils, ok sagði at hann skyldi þetta draga. Þetta erfiði átti Egill 7 vetr, en jötuninn var svâ varr um sik, at hann sá aldri færi sitt á, at drepa hann.

10, Þat var eitt sinn, at Egill fór at leita geita sinna; hann fann einn kött í skóginum; Egill gat náð kettinum, ok hafði heim með sèr, kom hann nú seint heim um kveldit. Þá var fallinn fölski á eldinn. Jötun spurði, því hann hefði svâ seint heim komit, en Egill sagðist eigi vera lètt búinn til gángsins, en kvað geitrnar víða rasa. Mik undrar, sagði jötun, at þú finnr þat, sem þú leitar at í myrkrinu. Því valda gullaugu mín, sagði Egill. Áttu önnur augu, enn þau sem ek hefi sèð? sagði jötun. Á ek víst, sagði Egill. Sýn mèr, sagði jötun, gersimar þessar. Ræntu mik þeim þá eigi, sagði Egill. Mèr mun eigi gagn at þeim, sagði jötun. Aungum gagnast þau, sagði Egill, nema ek búi um. Síðan fletti Egill upp staknum, sá jötuninn þá í glyrnur kettinum innar yfir eldinn, ok var sem stjörnur skini. Þetta eru fagrir gripir, sagði jötun, eðr viltu selja mèr augun? Þá er ek verr birgr eptir, sagði Egill, en ef þu vilt gefa mèr frelsi ok leysa af mèr fjötrana, þá mun ek selja þèr augun. Muntu koma þeim svâ til lags, sagði jötun, at mèr verði gagn at? Við þat mun ek leita, sagði Egill, en sinasárt mun þèr þikja, sagði Egill, at þola atgjörðirnar,

þvíat spretta verðr til hatt hörmunum, ok búa þar um, sem þau skulu liggja; skaltu þau ávalt burt taka, þá er lýsir, ok eigi innsetja, fyrr enn dimmt er, ok mun ek binda þik hèr við súluna. Þá muntu drepa mik, sagði jötun, ok er þat níðíngsverk. Þat skal ek eigi gjöra, sagði Egill. Þessu kaupa þeir; tekr jötun nú af honum hespurnar. Nú hefir þú vel gjört, sagði Egill, enda vil ek nú því heita þèr, at ek skal þèr þjóna, meðan þú lifir. Síðan bindr Egill jötuninn, ok tók einn tvíángaðan flein, ok rekr í bæði augun á jötuninum, svâ þau liggja útá kinnarbeinunum. Við þat varð jötun svâ íllt, at hann brá svâ hart við, at hann sleit af sèr öll böndin, ok fálmaði til Egils, ok reif af sèr[1] alla yfirhöfnina. Nú ertu gæfulaus, sagði Egill, þar fèllu gullaugun ofan í eldinn, ok nýtr þeirra nú hvorgi okkar. Illa hefir þú mik dárat', sagði jötun, skaltu hèr nú inni svelta, ok aldri út komast. Hljóp jötun þá í dyrnar, ok lætr þær aptr sterkliga. Þikist Egill nú illa staddr, er hann nú svâ 4 nætr í hellinum, at hann fær aungan mat, þvíat jötuninn geymir at hellinum. Þat verðr nú hans ráð, at hann drepr hinn stærsta hafrinn, ok flær af honum belg, ok ferr í sjálfr, ok saumar at sèr sem þraungvast. Hinn fjórða morgin rekr hann hafrana til dyranna; jötuninn hafði spennt

[1]) honum, C.

þumalfíngrinum upp undir bergit, ok tók þá hinn minnsti ofaná þressköldinn, ok áttu hafrarnir at renna í greipr honum, ok [hlammaði mjök við á hellis gólfinu[1]. Jötun mælti: vind veit nú á, at brakar í klaufum á kjappa mínum; renna nú hafrarnir út milli handa honum. Egill fór seinast, ok heyrði ekki klaufagáng hans. Hægt hokrar þú nú, Hornskeggi! sagði jötun, ok heldr þykkr um bógana; tók hann þá í lagðana tveim höndum, en Egill brá við svâ hart, at rifnaði hafrstakan, ok varð hann laus. Nauztu nú þess, at ek var blindr, sagði jötun, ok er þat illa, at við skulum svâ skilja, at þú hafir þess aungar menjar, svâ lengi sem þú hefir þjónat, ok þigg hèr nú gullhríng. Þat var mikil gersemi. Eigli sýndist fagr hríngrinn, ok seildist í móti, en er jötun fann, at hann tók í hrínginn, þá kipti hann at sèr, ok hjó til Egils, ok af honum eyrat hit hægra, naut Egill þess, at jötun var blindr. Egill hjó af jötun hendina hægri, ok náði hríngnum. Nú skal ek halda orð mín, sagði Egill, ok drepa þik ekki, skaltu lifa við harmkvæli, ok sè sá þinn dagr verstr, er síðast kemr yfir þik; skildi þar með þeim, ok fór Egill í burtu, lá hann úti á skógum. En er hann kom fram úr skóginum, voru fyrir honum víkíngaskip nokkur, hèt sá Borgar, er fyrir þeim rèð. Egill gekk í lið með þeim, ok reyndist hinn vaskasti maðr; voru

1) slettust fitjarnar um hellisgólfit, C.

þeir í hernaði um sumarit. Þeir börðust í Svíaskerjum við berserk þann, er Glammaðr hèt, hann átti kjörvopn einn brunþvara[1], ok mátti kjósa mann fyrir, þegar hann vissi nafn hans; en þegar í öndverðum bardaganum hljóp Glammaðr á skip til Borgars, ok lagði brynþvaranum í gegnum hann. Egill var nær staddr, ok hafði brotit spjót sitt af skapti. Hann reiddi upp spjótskaptsbrotit, ok rak við eyra Glammað, svå hann fauk útbyrðis, ok sökk Glammaðr ok brynþvarinn, ok kom eigi upp síðan. Víkíngar gáfust nú upp; gjöra þeir nú Egil höfðíngja sinn, ok valdi hann af þeim tólf (menn ok 20); herjaði hann síðan í Austrveg, ok bar margt til tíðinda í hans hernaði.

11. Eina nótt lá Egill í höfn nokkurri, ok gaf honum ekki at sigla; hann gekk á land einnsaman; hann kom í eitt rjóðr í skóginum; hann sá þar á hól einum jötun mikinn ok eina flagðkonu, þau drógust um einn gullhríng, ok varð hún orkuvana fyrir honum, ok fór hann hrakliga með hana, ok mátti þar sjá viðrlita mikil sköp, því hún var stuttklædd; hún loddi á hrínginum eptir magni. Egill hjó til jötunsins, ok kom á öxlina; jötuninn snarast þá við, ok rendi sverðit ofan eptir handleggnum, ok tók or aflvöðvann, ok var þat svå mikit stykki, at einn maðr mundi eigi meira lypta. Jötun

[1]) brynþvara, *C.*

hjó til Egils, ok kom á höndina við úlfliðinn, ok tók af, fèll á jörð bæði höndin ok sverðit; jötun bjóst til at veita högg annat, sá Egill þá ekki annan sinn kost enn at flýja; elti jötun hann at skóginum, ok skildi þar með þeim, ok komst Egill undan í skóginn, kom hann nú svâ til sinna manna, at eptir var hönd hans; sigldu þeir þá í burt þaðan. Egill fèkk mikinn verk í höndina, en er 2 nætr voru liðnar, kom hann í höfn eina, ok lágu þar um nóttina, gat Egill þá ekki borit af sèr verkinn, stóð hann þá upp úr sænginni, ok gekk Egill uppá skóginn, kom hann þá at læk einum, þótti honum þat helzt frói, at hafa höndina niðri í læknum, ok láta strauminn leika um sárit. Þvínæst sá Egill út úr einum steini hvar kom eitt dvergsbarn, þat sótti vatn í skjólu; Egill tók fíngrgull af hendi sèr með tönnunum, ok lèt reka í skjóluna fyrir barnit, en þat hljóp inn í steininn. Litlu síðar kom dvergrinn út, ok spurði, hvar maðr væri, er glatt hefði barn sitt; Egill sagði til sín, ok sagði sèr (lítt skulu) gull, meðan hann væri þannin farandi. Þat er íllt at vita, (sagði) dvergrinn, ok far með mèr inní steininn! Egill gjörði svâ, tók dvergrinn þá at binda um stúfinn, ok tók úr verk allan, ok var gróinn um morguninn, tók dvergrinn þá at smíða honum eitt sverð, en uppfrá hjöltunum gjörði hann fal svâ lángan[1], at upp tók yfir

[1]) *þannig* C; digran, *A.*

olboganum, mátti þar spenna at, ok var svâ hægt at höggva með því sverði, sem heil væri höndin. Dvergrinn gaf honum marga góða gripi, ok skildu þeir með vináttu; fór Egill þá til sinna manna; ok er nú saga (mín úti svâ), sagði Egill, at ek er þessi hinn sami Egill, sem nú hefi ek frá sagt um stund. Í miklar þrautir þiki mèr þú komit hafa, sagði drottníng[1], eðr hvat líðr nú grautnum genta? Ek ætla, at hann sè full velgdr, sagði hún, en þó er hann svâ heitr, at hann er aungum manni ætr, meðan hann er slíkr. Þat mun nærri fara, sagði drottníng, at hann sè kólnaðr, er ek hafi sagt mín æfintýri, þvíat ekki hefir margt yfir mik drifit.

12. Öskrauðr hèt jötun, sagði hún, hann var kominn úr Jötunheimum; Kúla hèt drottníng hans; bræðr hans voru þeir Gautr ok Hildir; faðir minn Öskrauðr ok móðir mín áttu 18 dætr, ok var ek ýngst af þeim, ok var þat allra manna mál, at ek væri vænst af þeim. Faðir minn ok móðir tóku sótt saman bæði, ok voru þau tyrfð[2] ok tröllum gefin, en við systr tókum allt silfr ok gull, en þeir Gautr ok Hildir áttu landit, ok urðu þeir lítt ásáttir. Faðir minn hafði átt 3 kostgripi; þat var horn, tafl ok gullhríngr; þeir bræðr tóku hornit ok taflit af oss systrum, en hríngnum gátum við haldit, ok (var) þat góðr gripr. Systr mínar vildu

[1]) kerlíng, C. [2]) trylld, C.

bjóða yfir mik, ok varð ek ein at þjóna allt, ok ef ek mælti á móti, þá börðu þær á mèr, þóttumst ek þá eigi mega við vera; hèt ek þá á Þór, at gefa honum hafr þann, er hann vildi velja, en hann skyldi jafna með oss systrum. Þór kom til vor, hann lagðist með systur minni hinni elztu, ok lá hjá henni um nóttina, en þær systr öfunduðu hana, ok drápu hana um morguninn. Svâ gjörði Þór við allar systr mínar, at hann lá þær allar, ok voru allar drepnar, en þat kunni hver þeirra at mæla við aðra, ef nokkurri yrði þess auðit at eiga barn við Þór, at þat skyldi hvorki vaxa nè vel dafna. Síðan lá Þór hjá mèr, ok gjörði mèr stúlku þessa, sem nú megið þið hèr sjá, ok hefir þat hrinit á henni, sem þær báðu henni, því at hún er nú alin minni, enn þá er hún kom til. Þór gaf mèr allan arfinn eptir (þær) systr, hefir hann ávalt verit mèr í liðsinni síðan; tók ek þá undir mik alla peníngana; sótti mik nú svâ mikil ergi, at ek þóttumst eigi mannlaus lifa mega. Hríngr hèt son konúngs af Smálöndum; hann einn sá ek svâ af mönnum, at mèr leizt vel á, gjörða ek þá ferð mína til móts við hann, en hann var þá farinn til Gautlands at biðja Íngibjargar, dóttur Bjarkmars jarls, flytta ek þá ferðinni, ok kom ek til Gautlands, var Hríngr konúngsson at drekka þá sitt brullaup, ok kom ek, þá er brúðina skyldi innleiða, lögðumst ek þá niðr [á stræt-

it[1], ok ætlaða ek gjöra henni nokkur vèlindi, en hún sá mik fyrr, ok spyrndi sínum fótum við mèr, ok braut í mèr báða lærleggina; var hún síðan leidd í höll ok sett í sæti sitt. Ek kom inní höllina, ok varð ek at einni flugu, ok fór ek upp undir hennar klæði, ok ætlaða ek at rífa hana á hol á náranum; hún þekti mik þegar, ok keyrir knífskapt sitt á síðu mèr, ok braut í mèr 3 rifin, ok var mèr til þess annast at fara í burtu. Líðr nú á daginn, ok var brúðrin til sængr leidd, en þvínæst var brúðguminn útleiddr, tók ek hann þá í fáng mèr, ok þóttumst ek hlaupa fram á sjófarhamra, ok ætlaða ek at drekkja honum, svâ engi skyldi mega njóta hans; en þá er ek þóttumst sleppa honum ofan fyrir hamrana, þá varð eigi betr enn svâ, at ek kastaði honum þá upp yfir fortjaldit, ok kom hann niðr í sængina hjá brúðinni, en ek var fángin griðalaus, ok mátta ek þá hvergi undan komast, skylda ek þá leysa líf mitt, ok skylda ek fara í undirheima, ok sækja 3 kostgripi: skikkju þá, sem eigi mætti í eldi brenna, ok horn þat, er aldregi yrði allt af drukkit, ok tafl þat, sem sjálft lèki sèr, þegar nokkur lèki annars vegar.

13. Nú fór ek í undirheima, ok fann ek Snía[2] konúng, ok gaf ek honum 60 hafra ok pund gulls, ok keypta ek svâ hornit; en

[1]) fyrir fætr henni, *C.* [2]) *þannig eðr* Svía, *A*; þar, *C*; myrkranna, *S.*

drottníngu hans var búinn eitrdrykkr í [tólftunna bikar[1], ok drakk ek þat fyrir hennar skuld, ok hefi ek síðan haft nokkurn lítinn brjóstsviða. Þaðan fór ek í Lúkanus fjall, þar fann ek 3 konur, ef svâ skyldi kalla, þvíat ek var barn hjá þeim at vexti, þær höfðu taflit at geyma; ek gat náð því hálfu frá þeim, en þær söknuðu, ok fundu mik, ok báðu mik leggja aptr taflit, en ek sagðist þat eigi gjöra, ok bað ek eina þeirra af mèr taka, ok leggja þar undir taflit, en ek byrði mína af gulli, þótti þeim þat ekki ofrefli; hljóp þá ein á mik, ok greip í mitt hár, ok reif af mèr öðrumegin reikar[2], ok þar með alla vángafylluna ok eyrat hit vinstra, varð hún mèr harðtæk; ek stóð eigi fyrir, ok rak ek fíngrna í augun á henni, ok krækti ek þau bæði úr henni, snèra ek henni þá til sveiflu, ok festi hún fótinn í bjargrifu, ok sleit ek hana úr augaköllunum, ok skildi svâ með okkr. Önnur hljóp nú at mèr, ok rak hnefann á nasir mèr, ok braut í mèr nefit, ok þikir þat nokkur lítil lýti á mèr síðan, ok þar fylgðu með 3 tennrnar, en ek greip í brjóstin á henni, ok reif ek þau bæði af henni niðr at brínguteinum, þar fylgði ok með magállinn. Síðan hljóp at mèr hin þriðja, ok var sú minnst fyrir sèr, ætlaða ek at stínga úr henni augun, sem hinni fyrri, en hún beit af mèr 2 fíngrna, lèk ek henni þá hælkrók[3], ok feldi

[1]) merkrstaupi, *C.* [2]) reika, *C.* [3]) *þannig C*; hærkrók, *A.*

hana bak aptr; hún bað mik þá miskunnar, en ek sagða at hún fengi ekki líf, utan hún fengi mèr allt taflit, en hún dvaldi þess ekki, lèt ek hana þá upp standa, ok gaf hún mèr at skilnaði eitt gler, ok þat með þeirri náttúru, at hverr, sem í þat lítr, má vera þeim líkr, sem ek vil, en ef mik lystir, þá má ek þann verða láta blindan, sem í lítr. Fór ek nú niðr í undirdjúp, at sækja skikkjuna, fann ek þá höfðíngja myrkranna, en er hann sá mik, mælti hann til samfara við mik, þótti mèr sem þat mundi Óðinn vera, þvíat hann var einsýnn; bað hann mik eiga skikkjuna, ef ek vilda þat tilvinna, at sækja hana þángat, sem hún væri, var þángat at hlaupa yfir eitt mikit bál; lá ek fyrst hjá Óðin, ok hljóp ek síðan yfir bálit, ok fèkk ek skikkjuna, ok er ek síðan skinnlaus um allan kroppinn. Fór ek við svâ búit heim aptr; fann ek þau Hríng ok Íngibjörgu, ok færða ek þeim gripina, ok skildu vèr eigi fyrr, enn ek svór at hefna þessa aldri; fór ek þá heim eigi erindi feginn, ok skal ek muna þá hina gauzku menn, meðan ek má lifa; en frá smáleikum þeim, sem ek hefi átt við bræðr mína, mun ek síðar segja; eðr hvat líðr nú grautnum genta[1]? Ek ætla, at hann sè nú hófliga heitr, sagði hún; ber hann híngat þá, sagði kerlíng. Síðan luku þau máltíð sinni, ok var þeim fóstbræðrum fengin sæng, ok svófu af um nóttina.

[1]) *þannig C*; genga, *A*.

14. Um morguninn vöknuðu þeir bræðr snemma, kom kerlíng þá til þeirra, ok spurðu þeir, hversu framorðit væri, en hún sagði, at þeir mættu þar dveljast um daginn. Stóðu þeir þá upp, ok klæddu sik, ok var kerlíng hin beinasta í öllu; fóru þeir þá til borða, hafði kerlíng nú mungát ok góða matgjörð; spurði kerlíng nú, hvert þeir ætluðu at fara, eðr hvert erindi þeir ætti; þeir sögðu henni nú öll sín erindi, ok spurðu hana, hvort hún kynni aungva grein á at gjöra, hvat orðit væri af dætrum Tryggva konúngs. Eigi veit ek, sagði hún, hvert ykkr verðr um auðit at ná þeim, en þat mun ek fyrst segja ykkr, at eptir andlát Öskrauðs jötuns, þá urðu þeir bræðr ekki ásáttir, hverr konúngr skyldi vera; þóttust báðir tilkomnir, kom þeim ásamt með, at sá skyldi konúngr verða, sem ágætari konúngsdóttur gæti fengit ok hagari, ok fór Gautr heiman fyrri, ok tók Hildi hina eldri, dóttur Hertryggva konúngs, en Hildir fór seinna, ok tók Bekkhildi, ok eru þær nú báðar hèr í Jötunheimum, en eigi veit ek nú, hvort þær liggja lausar fyrir, en nú í vetr á jólum á at vera brullaup þeirra, ok eiga þá öll tröll saman at koma, ok dæma, hvor þeirra systra hagari er. Mikit batnar nú um, sagði Ásmundr, þegar við vitum, hvar þær eru niðrkomnar, ok væri mikit undir um, ef þú værir í liðsinni með okkr. Svâ at eins er frændsemi vor góð,

sagði hún, at ek á þeim lítit gott upp at unna, ef eigi nyti meir manndygðar minnar enn tilverknaðar þeirra, en hèr munu þið hvílast í dag, ok mun ek sýna ykkr fèhirðslur mínar. Þeir lètu vel yfir því; en þá borð voru ofan tekin, leiddi kerlíng þá í afhelli mikinn, voru þar miklar fjárhirðslur, ok lauk hún þeim upp, ok voru þar í margir góðir gripir ok fásènir, þótti þeim þat gott á at líta. Þvínæst tók kerlíng upp eitt eski; hún lauk því upp, ok kendi þar góðan ilm at. Þar þekti Egill hönd sína, ok þat gull, sem á henni átti at vera, sýndist honum höndin heit, ok rauk af, ok þöfta[1] æðarnar. Kerlíng mælti: þikist þú nokkut, Egill! þekkja höndina; at vísu, sagði Egill, ok kenni ek gull þetta, er móðir mín gaf mèr, eðr hversu komstu at hendinni. Segja má ek þèr þat, sagði kerlíng; Gautr, bróðir minn, kom til mín, ok falaði at (mèr) gullhrínginn hinn góða, sem ek vilda eigi selja honum, en nokkuru síðar, er dóttir mín fór til geita, kom hann at henni, ok gaf henni þann drykk, at hún æpti einatt, ok skyldi aldri huggast mega, fyrr enn ek færða henni hrínginn þángat á hólinn, sem hún lá, en þá ek kom með hrínginn, kom Gautr þar, ok vildi taka af mèr hrínginn, en ek spornaða við, ok urðu með okkr sviptíngar miklar, en er viðlá, at ek munda missa hríng-

[1]) þaufta, *A*; þofta, *C*.

inn, kom maðr úr skóginum, ok sýndist mèr þèr líkr, Egill! ok hjó jötun mikit högg, en jötun hjó af honum höndina, en síðan hlupu þeir til skógar, en ek tók upp höndina, ok hef ek geymt hana síðan, ok lagða ek hjá lífsgrös, svâ hún mátti ekki deyja, þiki mèr bera saman með okkr, Egill! at þú munir þessi maðr verit hafa; eðr muntu voga, at ek vekja upp undina, ok ber ek mik at græða við höndina? Mèr þikir litlu til tína, sagði Egill. Síðan tók hún falinn af Eigli, ok deyfir höndina, ok varð Eigli ekki sárt við, at hún skar af framan. Síðan lagði hún yfir lífsgrös, ok sveipaði um silki, ok hèlt at allan daginn, fann Egill þá, at líf færðist í. Síðan lagði kerlíng hann í sæng, ok sagði at þeir skyldu þar dveljast, þar at hann væri gróinn; en at liðnum þremr nóttum var Egill gróinn, ok var honum eigi ómjúkari höndin, enn þá hún var heil, en svâ var, sem rauðr þráðr lægi um; spurðu þeir þá kerlíng, hver ráð hún leggi til með þeim, en hún segir, at þeir skyldu þar bíða brullaups: er hèðan skamt fylgjumaðr minn, er Skröggr heitir, ok ef vèr ynnum nokkut á við þá bræðr, þætti mèr vel til standa, at við nytum þess; líðr nú til jóla.

15. Þar er nú til at taka, at þeir bræðr, Gautr ok Hildir, láta þíng stefna, kom þar til fólk um alla Jötunheima, þar var ok Skröggr, þvíat hann var lögmaðr tröllanna, ok voru

nú þángat leiddar konúngsdætrnar, ok gersimar þær, sem þær höfðu gjörfar. Brynhildr hafði gjört eitt klæði; þat var með þeirri náttúru, at þat mátti líða í lopti, ok þar niðr koma sem vildi; mátti þar færa á mikla byrði. Bekkhildr hafði gjört eina skyrtu, ok festi ekki vopn á, ok eigi mátti sá á sundi mæðast, er í henni var. Nú er í orð lagt, hvor þeirra systra hagari væri, var þá lagit í dóm allra trölla, en þau urðu eigi ásátt, ok dæmdu undir Skrögg lögmann, en hann lagði sinn úrskurð á, at Brynhildr væri fríðari, ok á klæðinu væri meiri hagleikr: ok því skal Gautr konúngr vera, ok eiga Brynhildi, en hálfu landi skyldi stýra hvorr; sleit nú með því þínginu. Buðu þeir bræðr þá höfðíngjunum í brullaup sín, ok þeim sem mest mark var at. Kemr Skröggr nú heim, ok sagði kerlíng, hvat dæmt hafði verit á þínginu, ok nær brullaupin eiga at vera. Síðan voru þau lengi á tali, ok sagði hún honum, at hún vill veita þeim bræðrum; biðr hann svâ búast við um fjölmenni ok aðra hluti; en Skröggr kvað svâ vera skyldu. En móti því brullaupin skyldu vera, býst kerlíng heiman, ok þeir fóstbræðr með henni; skal annar heita Fjalar, en annar Frosti. Kerlíng lèt þá líta í glerit, ok sýndust þeir þá svâ stórir, at þeir voru tröllum líkir, en miklu voru þeir fríðari enn aðrir menn. Hún fèkk þeim sæmilig klæði, ok fara þau nú, ok

koma þar sem þeir bræðr rèðu fyrir; þat hèt á Gjallandibrú, sátu þeir þá við drykkju. Kerlíng gekk í hellinn, en leit til annars; hún gekk fyrir Gaut, ok kvaddi hann vel; hann tók kveðju hennar, ok mælti: hèr er nýtt at komit, at þú gengr híngat á vorar náðir; hún svarar: þat stendr eigi svâ af sèr, sem vant er; með oss hefir verit fæð nokkur hèr til, ok dyl ek eigi, at ek sè þess valdandi, sè ek nú, Gautr frændi! at gæfan styðr þik, ok hefir þú nú fengit ágætt kvonfáng, ok nú vil ek tilleggja af mínum mun, þat sem vor hefir áðr í millum farit; vil ek nú gefa þèr hrínginn góða, sómir hann vel konu þinni í bekkjargjöf, ok með vináttu mína, heyrir þat okkrar frændsemi, at við skiptumst góðu við. Gautr sagðist þess þakkir kunna: eðr hvar hefir þú fengit menn þessa hinu vænu; hún sagði, at þeir væru synir Dumbs[1] konúngs úr Dumbshafi[2]: ok munu slíkir menn varla finnast í Jötunheimum, ef hæversku þarf at reyna, hef ek ætlat þá til at þjóna í brullaupi þínu. Tekr hún nú hrínginn, ok fèkk Gaut, en hann þakkaði henni, ok skal hún þjóna í brullaupinu, ok öllu skyldi svâ haga, sem þeir Fjalar ok Frosti vildi vera láta, ok voru þeim fengnir lyklar at öllum fèhirðslum. Þvínæst koma boðsmenn, ok verðr þar fjölmenni mikit, skipaði kerlíng fyrir, ok varð þat at standa, sem hún talaði. Skröggr lögmaðr var þar fremstr

[1]) Soll, *C*; Dugans, *S*. [2]) Dúnslandi, *S*.

virðíngamanna. Kerlíng sagði þeim systrum í hljóði, hverir þeir menn voru, er með henni fóru: megi þið vera glaðar. Urðu þær nú kátar, því þær hugðu íllt til ráðahagsins, en jötun þótti mikit batna, þegar þær voru kátar, ok þökkuðu þat frændkonu sinni ok sinn umgáng. En er fólki var[1] niðrskipat, ok brúðgumarnir niðrsettir, þá voru brúðirnar innleiddar, skorti þá eigi skjarkala ok galaskap[2], er flögðin höfðu. Skröggr lögmaðr sat á annan bekk ok bændasveitin með honum, en Gautr ok Hildir á annan ok þeirra menn. Arinnefja sat hjá brúðum, ok hafði allan setníng á þeirra háttum, ok margar aðrar stórskornar konur. Fjalar ok Frosti skenktu brúðunum, ok skorti eigi áfengan drykk; líðr nú á kveldit, ok gjörast menn drukknir. Þá stendr Arinnefja upp, ok kallar til sín lögmanninn ok þá fóstbræðr, ok segir, at þeir skulu bera inn bekkjargjafir. Voru þá innborin klæðit ok skyrtan, tafl þat hit góða, er bræðr höfðu átt, ok hríngrinn hinn góði, er kerlíng hafði átt, ok margar gersimar aðrar. Skröggr lögmaðr afhenti bekkjargjafirnar, en kerlíng tók við, ok geymdi. Tók hún þá klæðit, ok breiddi niðr á völlinn, ok lèt þar uppá góðgripina, setti hún þar til Skinnnefju, dóttur sína, at bera þángat gull ok silfr, en hún gekk í hellinn, ok biðr Frosta gánga með sèr, koma þau

1) *hèr byrjar B.* 2) galasamlig læti, *B.*

nú þar, sem þau skyldu liggja, Gautr ok Brynhildr; segir hún honum, at þar með hans sængrstokki skal hann finna sverð þat hit góða, er Gautr átti, segir at ekki vopn biti á hann annat; en Fjalar[1] ok Hildir munu fara í annan stað, ok sagði, at þeir munu svâ við mega búast, sem þeir komi í mannraun mikla. Síðan ferr kerlíng inn í hellinn, ok kallar, at brúðunum væri mál til sængr. Taka þeir Fjalar ok Frosti í hendr brúðunum, ok leiða þær út, ok setja þær niðr á klæðit; síðan les kerlíng upp klæðit, en fær dóttur sinni glerit, ok biðr hana gánga til hellisdyra, ok bera glerit yfir hvern mann, sem útgengr, en þær líða upp í lopt með klæðit, ok allt þat sem á var. Nú kemr mikill dansleikr í hellinn, er brúðgumana skal útleiða.

16. Þrjár[2] voru dyr á hellinum, ok var Skröggr lögmaðr fyrir einum með sína sveit, en Skinnnefja var fyrir þeim dyrum, sem almúginn skyldi útgánga; bruðgumarnir voru leiddir um hinar þriðju; þar úti fyrir var sinn afhellir til hvorrar handar, ok skyldu þeir þar hvíla; voru þeir vel tjaldaðir. Nú er þeir skyldu útgánga, fór í sinn helli hvorr, gánga þeir Egill ok Hildir í annan; Egill gekk fyrir; en er Hildir gekk inn, snèrist Egill aptr ímót honum, ok greip í hár honum, ok reiddi upp saxit, er hann hafði við sik, ok ætlar at höggva á hálsinn, en

[1]) Jökull, *C.* [2]) *þannig B, C*: þrjáð, *A.*

Hildir kippir honum svå snart, at hann hrapar á hellisbergit, ok sprakk á honum ennit, ok var þat sár mikit, ok blæddi mjök. Saxit kom á nef jötuns, ok tók af nefit, ok var þat svâ mikit stykki, ok þat var nóg klyf, komst Hildir nú út, ok sagðist vera svikinn; heyra þetta tröllin, þau sem í hellinum vóru, ok hlaupa út, ok varð þeim eigi greiðfært um þær dyr, sem Skröggr lögmaðr var fyrir, því hann drap hvern, sem út vildi, en Skinnnefja var fyrir öðrum dyrunum með glerit, ok setti hvern blindan, sem þat leit, hvarfla þeir aptr ok fram, [ok fátu hvergi[1], ok var þá at heyra óp mikit ok gný. Heyrir Gautr nú þat, ok þikist vita, hvat um er, en er hann kemr í sitt hús, sèr hann, at brúðrin er eigi þar, hleypr hann þá at sænginni, ok vill taka sverð sitt, ok misti hann þess. Ásmundr reiðir upp sverðit, ok hjó til Gauts, ok gáði eigi at hellirinn var lágr, ok kom sverðit í hellisbergit, ok beit þat bjargit, en blóðrefillinn kom á brún Gauts, reist niðr í augat, ok niðr allt kinnbeinit ok viðbeinit, ok reist niðr alla bringuna, ok tók sundr rifin. Gautr komst út, ok fèkk einn stein stóran, ok kastaði til Ásmundar, ok kom fyrir brjóst honum, svâ hann fèll. Gautr vildi hlaupa at honum, en iðrin flæktist um fætr honum, ok fèll hann dauðr niðr. Ásmundr

1) *þannig A, C*; *máske* sátu.

stóð upp, ok leitar at Eigli, kom hann þar, sem þeir gengust at; blóð rann í augu Eigli af sári því, sem hann hafði fengit, ok varð hann þó sýnt orkuvana. Ásmundr greip undan Hildi báða fætrna, en Egill hèlt í höfuðit, ok brutu þeir hann úr hálshliðunum, ok urðu þat hans æfilok. En síðan fara þeir þángat, sem Skröggr lögmaðr var, hafði hann drepit níutigi trölla, en þau báðu griða, sem eptir voru, en þau, sem eptir voru, ok þar vildu útgánga, sem Skinnnefja var fyrir, gengu fyrir hamra, ok drápu sik. Voru þeir þar um nóttina, ok kom Arinnefja til þeirra. Um morguninn tóku þeir fè úr hellinum, ok rentu öllu, ok fóru síðan heim með kerlíngu, ok voru þær systr þar fyrir, ok urðu þær fegnar þeim. Sátu þeir þar um vetrinn í góðu yfirlæti; en um vorit bjuggust þeir í burt, at finna menn sína, en at skilnaði gáfu þeir Arinnefju ok Skrögg lögmanni Jötunheima, ok skildu þau með vináttu; höfðu þeir í burtu þær gersimar allar, sem áðr voru greindar. Síðan fóru þeir móts við menn sína, ok kvomu til þeirra í síðustu viku vetrar, ok urðu með þeim fagnafundir miklir, en þegar byr gaf, sigldu þeir í haf, ok lèttu eigi fyrr, enn þeir fundu Tryggva konúng.

16. Tryggvi konúngr fagnaði þeim vel ok dætrum sínum. Þeir færðu konúngi margar gersimar, ok sögðu honum allt hitt sannasta af ferðum sínum. Þakkaði konúngr þeim margfalliga sína ferð. Litlu síðar lèt konúngr

stefna þíng, ok á því þíngi lýsti konúngr fyrir mönnum þeim einkamálum, sem hann hafði lofat þeim, sem fyndi dætr hans, nema þeir vildu annat heldr, þá vill hann launa þeim í gulli ok silfri, en þeir svöruðu báðir senn, at þeir vildu þær eiga, ef þat væri þeirra vili, en þær þóttust þeim lífgjöf launa eiga, ok sögðu at eigi mundu þær aðra menn kjósa, ef þeirra væri kostr, ok urðu þær endalyktir, at Egill fèkk Bekkhildi, en Ásmundr Brynhildi; lèt konúngr nú búast við brullaupi, en Egill kveðst fyrst vilja finna föður sinn, ef hann lifði, ok vita, til hvers hann mátti ætla um ríki þat, sem hann þóttist eiga, en Ásmundr sagðist vilja fara austr í Tattaría, at bjóða Herrauð, fóstbróður sínum, í sitt brullaup. Var nú ákveðin brullaupsstefna, ok nær þeir skulu aptr koma; er eigi annars getit, enn þeim tækist þessi ferð vel. En er Egill kom til Gautlands, fór hann á fund föður síns, ok brást hann ókunnigr við, því hann hugði hann laungu dauðan. Sagði hann nú föður sínum allt, hve farit hafði, ok áðr hefir sagt verit, ok sýndi honum örit á hendi sinni, þar sem hún hafði verit afhöggin, ok svâ sverð þat, sem dvergrinn hafði gjört honum, ok falrinn var á; lètu þeir Regin dverg gjöra nú á þat meðalkafla, ok var þat góðr gripr. Egill bauð nú föður sínum til brullaupsins, ok fóru þeir ok móðir Egils ok systir.

En er þau komu á fund Tryggva konúngs, voru þeir Herrauðr ok Ásmundr þar komnir. Konúngr fagnar þeim nú öllum vel, ok var eigi lángt at bíða, áðr þar reis upp sæmilig veizla; mátti þar heyra margskonar hljóðfæri, ok sjá margan hofmann, var þar ok engi hlutr sparaðr af þeim beztum faungum, sem fást máttu í þeim löndum. At þessari veizlu höfðu menn þat til skemtunar, at þeir Egill ok Ásmúndr sögðu frá ferðum sínum, ok til sanninda um sögu þeirra segir svâ, at þær voru þar báðar Skinnefja ok Arinnefja, ok sönnuðu sögu þeirra, ok þekti Íngibjörg drottníng Arinnefju, ok sættust þær þá heilum sáttum; stóð veizlan yfir fullan mánuð. En at liðinni veizlunni fór hverr til síns heimelis, ok voru mönnum valdar sæmiligar gjafir. Egill gaf Herrauð skyrtuna, þá sem Bekkhildr hafði gjört, en Ásmundr gaf honum hrínginn kerlíngarnaut, ok sverð þat sem Gautr hafði átt. Tryggvi konúngr var þá maðr gamall, ok bað hann Egil þar sitja, kveðst hann ekki lengi mundu lifa þaðan af. Egill kveðst fyrst verða at fara heim til Gautlands, en koma aptr innan 12 mánaða, lofaði konúngr honum þat. Ásmundr bað Herrauð fara með sèr til Hálogalands, ok veitti Herrauðr honum þat. Arinnefja fór heim aptr í Jötunheima, ok gaf Íngibjörg drottníng henni smjörtrog svâ mikit, sem hún gat lypt,

ok sagði hún, at sá gripr mundi torgætr þikkja í Jötunheimum, en Ásmundr gaf henni 2 galtarflikki, ok voru þau svâ þúng, at þau vogu skippund. Þótti kerlíng þessir gripir betri, enn þótt þeir hefði gefit henni byrði sína af gulli; skildu þau með vináttu.

17. Því næst fóru þeir Ásmundr ok Herrauðr á skip, ok höfðu þeir dreka þá hina góðu, sem þeir höfðu átt, Vísinn ok Bolabjörn; er eigi getit at um þeirra ferð, fyrr enn þeir koma norðr á Hálogaland, ok er landsmenn sáu dreka þessa, þá sagðist Óttar konúngr vita, at þessir menn mundu lángt at komnir; en þegar þeir voru landfastir, slógu þeir tjöldum. Ásmundr gekk á fund föður síns við tólfta mann; hann kvaddi konúng virðuliga; konúngr þekti hann eigi, en móðir hans þekti hann, þegar hún sá hann, ok hvarf til hans. Óttar spurði, hverr sá maðr væri, er hún lèti svâ líkliga[1] við, en Ásmundr sagði til hitt sanna; reis þar nu upp ágæt veizla, ok sátu þar mánuð í miklum fagnaði, ok sögðu konúngi frá ferðum sínum, ok þótti konúngi þeim vel hafa tiltekizt ok gæfusamliga. Sagði Herrauðr þá Ásmundi, at hann vildi, at þeir sigldi austr til Gautlands, at biðja Æsu[2], dóttur Hríngs konúngs; Ásmundi þótti þat vel stofnat. En þegar þeim gaf byr, sigldu þeir austr í Gautland, ok fagnar Egill þeim vel; ok þeir Hríngr konúngr; hafði Herrauðr þá uppi orð

[1]) kunnliga, *B*, *C*. [2]) Asu, *B*, *C*, *S*.

sín, ok bað Æsu, ok var þeim málum vel svarat, ok var hún honum gipt með sæmiligri heimanfylgju, var þegar drukkit brullaup þeirra, ok fór þat vel fram. En at þeirri veizlu liðinni, þá sigldu þeir Egill ok Herrauðr í Austrveg, en Ásmundr skyldi hafa vald yfir Gautlandi, þegar Hríngs konúngs misti við. En þá þeir komu í Tattaría, þá var Tryggvi konúngr andaðr, ok var Egill þar til konúngs tekinn, ok bjuggu þau Bekkhildr þar síðan, en Herrauðr settist at ríki sínu síðan, ok kvomu þeir ekki norðr híngat síðan. Ásmundr fór heim til Hálogalands, ok stýrir hann þar lengi. Ármóðr[1] hèt son hans; hann átti Eðnýju[2], dóttur Hákonar[3] konúngs Hámundarsonar úr Danmörk[4], ok er þaðan mikil ætt komin. Þenna Ármóð drap Starkaðr hinn gamli í laugu, ok var þat hitt síðasta óskapaverk hans. Brynhildr lifði ekki lengi, ok giptist Ásmundr síðan, ok fèkk dóttur Soðdáns[5] konúngs af Serklandi, ok átti at sækja brullaup sitt á einu skipi, þvíat þeir vildu svíkja hann, ok lèt Ásmundr þá gjöra skip þat, er Gnoð hèt, ok hefir þat skip stærst gjört verit, svâ menn viti fyrir norðan Grikklandshaf. Af því skipi tók Ásmundr nafn, ok var kallaðr Gnoðar-Ásmundr, ok þikir hann hafa verit mestr af fornkonúngum þeim, sem ekki stýrðu þjóðlöndum. Hann tapaðist við Hlèssey, ok

---

1) Aulmóðr, *B*; Ögmundr. *C*. 2) Oddnyju, *B*, *C*. 3) Haka, *B*, *S*. 4) Svíþjóð, *S*. 5) Soldáns, *C*, *S*.

með honum meir enn þrjár þusundir manna, ok segja menn, at Óðinn legði hann með geiri í gegnum, þá hann hljóp fyrir borð, en Gnoð sökk til grunna með öllum farmi sínum, ok hefir síðan engi hlutr fundizt af henni, ok aungu því, sem þar var á, ok lúkum vèr þar þessi sögu[1].

---

1) fyrir því at bókfellit mínkar, en blikkit þykknar, augun þýngjast, túngan trènar, höndin mæðist, penninn sljófgast, ok bila öll ritfærin; hafi þeir þökk, er skrifat hafa, ok svâ sá er las, ok þeir, er til hlýddu, ok sá, er þessa sögu hefir fyrst samansett, amen! *b. v. C.*

# Sörla saga sterka.

Í þann tíma sem Hálfdán konúngr Brönufóstri stýrði Svíþjóð [hinni köldu, er hann vann af Agnari hinum auðga[1], en setti Astro[2], mág sinn, yfir England, ok gjörði hann hertoga þar yfir, rèði sá konúngr Upplöndum[3], er Erlíngr hèt[4]; hann stýrði þriðjúngi Noregs, en Haraldr konúngr Valdimarsson tveim hlutum ríkis. Erlíngr konúngr þótti höfðíngi mikill ok stórauðigr, því hann hafði lengi verit með Knúti konúngi hinum ríka, ok hafði öðlazt af honum mikin auð, fè ok góða gripi. Drottníng konúngs hèt Dagný, komin af Æsum[5]; með henni átti hann tvo sonu, ok eina dóttur, er Íngibjörg hèt. Konúngr lèt gjöra henni eina höll með sterkum steinmúr, ok vel vönduðum skíðgarði. Þar settist konúngsdóttir með mikin skara hinna fríðustu meyja ok herligra hofþènara. Sá eldri son konúngs hèt Sigvaldi, en hinn ýngri Sörli; þeir voru báðir hinir gjörfugligustu menn ok vel at íþróttum búnir; en þó hèlt konúngr meir

---

1) *v. í B.* 2) Kasto, *alstaðar, B*; Astu, *D.* 3) í Noregi, *b. v. D.* 4) hann var kominn af Oðin konúngi, *b. v. D.* 5) miklum ættum, *B.*

til Sörla enn Sigvalda, því hann var maðr fríðari sýnum, en svâ rammr at afli, at honum komst enginn til jafns um allan Noreg, ok þótt enn lengra væri leitat. Konúngr fèkk honum einn [mann, sem hann menta skyldi[1], hann hèt Karmon; hann kendi Sörla konúngssyni allar listir, þær sem einn karlmann mátti framast prýða; ok er Sörli var 15[2] ára gamall, var hann í flestum listum vel lærðr, ok svâ rammr at afli, at sá var enginn maðr í Noreg, at hann þyrfti við nema aðra hönd sína í senn, bæði til vopnaviðskipta, ok allra annarra íþrótta; en svâ var hann þúngr fyrir vaxtar[3] sakir, at enginn hestr bar hann nema hálfan dag, svâ at eigi springi þeir af mæði; var hann því Sörli hinn sterki kallaðr.

2. Einn dag mælti konúngsson við föður sinn: svâ lízt mer, sagði hann, at lítill frami muni þat fyrir mèr, at liggja heima hèr hjá yðr sem múnkr í klaustri [eðr mær til kosta[4]; því sè yðr kunnigt, at þegar í stað vil ek úr landi halda með 5 skip ok margt vaskra manna, skal ok Karmon, fóstri minn, fylgja mèr með svâ mikin farargreiða, sem þörf gjörist. Ok er konúngsson endaði sína ræðu, mælti konúngr: þetta allt, sem þèr umbiðið, skal gjarnan yðr veitt vera. Fèkk hann nú syni sínum 5 skip, ok margan velvaskan dreng. Karmon, fóstri Sörla, var í ferð með honum;

[1]) meistara, *B.* [2]) 14, *B.* [3]) afls, *B*, *C.* [4]) *v. í B.*

kvaddi Sörli föður sinn ok alla borgarmenn, áðr hann færi í burt; hèlt síðan úr landi, ok hafði sigr í hverri orrostu, er hann til ætlaði[1]. Ok er mjök var á sumar liðit, hafði konúngsson fengit 8 skip, öll vel hlaðin með gull ok dýrmæta gripi, ok allt hvat er kjósa mundi, hafði hann ok fengit fjölda röskra manna; vill nú konúngsson því aptrsnúa til Noregs, tóku þeir sèr stefnu rètta leið til austrs, ok undu upp hvert segl við húna, er á var skipunum. Ok er þeir höfðu svâ siglt í nokkur dægr, laust á fyrir þeim svâ mikilli þoku, at enginn sá neitt til rèttrar leiðar; gekk þetta svâ nú í nokkra daga, at enginn vissi, hvat þeir halda mundu, ok um síðir þóttust þeir vita, at þeir væru at landi nokkru komnir; spurði þá konúngsson, hvort nokkur sinna manna vissi skil á, hvar þeir væru atkomnir, en enginn var sá, sem frá kunni greina; bað konúngsson þá kasta atkeri ok búa um skipin, kveðst þar dvelja vilja, þar til þeir sæu sèr færi burtferðar. Var nú svâ gert, sem konúngsson sagði fyrir; ok er þat var albúit, kvaðst Sörli á land gánga vilja, ok vita, ef þeir kynni at líta mannabygðir; gekk konúngsson nú á land við 12ta mann; veðr var allblítt, sáu þeir, at landit var mjök skógi

[1]) ok er nú konúngsson kominn með sinn her allt út í Afffrika, *b. v. B.*

vaxit; þeir gengu áfram, þángat til þeir komu í nánd fjallshlíð einni, nam konúngsson þar staðar í einu rjóðri, ok menn hans, ok hafði eigi nema sverð sitt. Í þessu bili sjá þeir 12 menn stefna á móti sèr, forkunnar stóra, ok ólíka öðrum menskum mönnnm; svartir voru þeir ok illigir ásýndum, ekkert hár á höfði, brýrnar hèngu allt á nef niðr, augun gul sem í ketti, en tennrnar sem kalt járn; þeir höfðu allir járnrenda skildi ok stórar stengur, stáli spengðar[1]. Ok er þeir litu konúngsson ok hans menn, tóku þeir allir at hrína mjök grimmiliga, ok eggjandi hvorr annan, en konúngsson bað menn sína eigi bligðast við þetta, heldr verða við vaskliga; ok gengu nú hvorir ímót öðrum. En sem konúngsson mætti þessum miklu Blámönnum, sló í hinn sterkasta bardaga með stórri atsókn, svâ at allt þótti sundrbresta, nam hvert þeirra högg staðar í jörðu, ok eigi leið lángt, áðr konúngssonar menn voru allir fallnir, en hann sjálfr svâ ákafliga móðr, at honum hèlt við spreng; sóttu þá Blámenn at honum með mikilli eggjan ok ólmligum hljóðum ok öskri, en hann varðist vel ok drengiliga, ok hljóp í lopt upp yfir þeirra stóru högg; þar með skipti hann í höggum sverði ok skildi, ok greip þat ymsum höndum, er honum sýndist, ok sáu þeir lítt við því, stýfði[2] hann nú af þeim

[1]) slegnar, *B*. [2]) skífði, *B*, *C*, *D*.

hendr ok fætr, brynjur ok búka, svâ at engin þeirra hlíf dugði þeim meir enn brunnit hálmstrá, ok svâ lèk hann við þá, sem león við sauði; ok eigi lètti hann fyrr, enn hann hafði alla þá af dögum ráðit, var hann þá orðinn ákafliga móðr, en lítt sár; ok er þetta var afstaðit, sem nú var sagt, settist konúngsson niðr í rjóðrinu, ok lèt sèr renna mæði um stundarsakir, hyggr nú til skipa at gánga.

3. Þessu næst heyrir hann dunr ok dýnki stóra mjök nærri sèr, ok fýsir nú at vita, hverju slíkt gegnir; gengr hann nú nokkut lengra fram á skóginn með fjallshlíðinni, þartil er hann kemr at helli stórum; hann lítr nú um gluggann, er var á hellinum, ok sèr um hann allan; lítr hann einn hræðiligan jötun liggja í sinni rekkju. Aldrei hafði konúngsson sèð stærri mann; hans búkr tók beggja veggja á milli með svâ herfiligri ásýnd ok óskapligri, at konúngsson undraðist þat stórliga; hann sá þar ok eina kerlíngu heldr stórmannliga, hún stóð við þverpall einn, ok var at brytja þar niðr mannakjöt ok hrossa, ok var harla stórvirk at þessu. Síðan heyrði konúngsson, at kerlíng mælti við karl sinn, ok nefndi hann Skrímnir, á þessa leið: nú eru eigi, sagði hún, matvæli meiri í helli okkrum, en nú hefi ek búit til máltíðar. Skrímnir kvað slíkt eigi ólíkligt, ok sagði þat vel endzt hafa: ok þat skaltu vita, sagði hann, at, þó ek liggi nú lágt, skal enn

þá nokkut fyrirverða, nær piltar okkar koma heim í kveld, þvíat nú eru hèr skip at landi komin, eigi færri enn 8, ok er þat at mínum vilja, þvíat ek gjörði þeim megnan vind með þoku, svâ at þeir skyldu híngat villast, ok skulu þeir allir helju gista, áðr enn þessi dagr er á enda. Kerlíng gladdist mjök við þetta, ok gekk síðan í einn afhelli. Nú sprettr konúngsson upp af hellisglugganum, ok gengr í hellirinn; berr hann nú sitt spjót í hægri hendi, en sverðit í vinstri, ok leggr síðan spjótinu báðum höndum í kvið risans, svâ at útgekk oddrinn um bakit; í öðru lagi eðr sinni leggr konúngsson báðum höndum sverði sínu í kjapt risans; en risinn, er hann fèkk lagit, brauzt um með öskri ok ólmligum hljóðum, þartil er sængin brotnaði, en risinn steyptist á gólf niðr með stórum umbrotum; ok í þessu bili kemr kerlíng aptr í hellirinn, ok sèr nú, hvat um er, grípr hún þá eina bitrliga skálm, bregðr henni síðan, ok höggr framan at konúngssyni, svâ at hún klauf allan hans skjöld at endilaungu, ok nam oddrinn brjóstit, svâ at í beini stóð, höggr hún þá hvort högg at öðru, svâ at konúngsson hopaði á hæl við sèrhvert, ella hefði hann dauða beðit, ok svâ ákafliga fast fylgði hún sèr, at því ólmari var hún, er hún sótti lengr; var hún með belli ok háum hljóðum, svâ eldr þótti brenna úr augum hennar ok kjapti; ok svâ mikil ógn stóð konúngssyni af óvin þessum,

at eigi þorði hann í móti at sjá þeim eldliga anda, er af hennar kjapti gaus, ok eigi gat hann staðizt þau ógnarligu hljóð, sem hún hafði; sèr nú konúngsson eina gjá í hellisgólfinu, svâ djúpa, at hann hyggr þeim dauða búinn, er þar í fellr, er hann nú svâ sem kominn á gjáarbarminn, ok hyggr, at skessan muni vilja bægja sèr í gjána, snarar hann nú sínu sverði, ok hleypr undir tröllkonuna; en hún þreif í mót allgrimmliga, ok rak klærnar allt inn at beini, komu nú í með þeim harðar sviptíngar, ok hrakti hún konúngsson um hellirinn; en þóat hún væri mjök tryld at afli, þá gat hún þó aldrei komit honum af fótunum, hafði konúngsson náð hryggspennu á henni, ok sá nú eigi annat vísara fyrir, enn bæði skyldu þau í gjána falla, stè þá tröllkonan í gólfit allt til knjánna, ok togaði konúngsson at sèr, svâ at hann kom nú öngri hreysti[1] við, numu þá hælar hennar við gjáarbarminn, ok hljóp Sörli nú í fáng henni, svâ hart, at bæði duttu þau í gjána, svâ þau komu djúpt niðr, ok numu staðar við stall einn, er í var gjánni, varð Sörli nú efri. Kerlíng hafði læst sína aðra hönd í hári konúngssonar, en aðra í hans brjósti, ok með því henni varð ósvipt við biltuna, þá slepti hún þeirri höndinni, er hún hèlt í hárit með, tók Sörli þá báðum höndum fyrir kverk-

[1]) vörn, *B.*

ar henni, ok dró eigi af, lèt hann nú knè fylgja kviði, dró þá allt megn úr henni, svâ hún tók til at biðja sèr griða, ok mælti: gef mèr grið, konúngsson! ok skal ek allt tilvinna, þat er þú vilt at ek gjöri, uppá þat ek haldi lífinu; en konúngsson kvað þat fjærri fara, at hann lèti hana lifa, ok sagði hana í þessari gjá skyldi deyja án allrar dvalar hitt snarasta, en hún bað sèr á marga vega lífsins, sem hún kunni. En um síðir mælti Sörli: á þat mun ek hætta, at þú haldir lífi þínu með slíkum skilmála, at þú sækir mèr herklæði svâ góð, at aldrei kunni neitt sverð á þeim festa, ok sverð þat er eins bíti stál sem stein, ok þat skaltu gjört hafa innan mánaðar, fylgja skal hèr með ok liðsemd þín, nær sem ek vil ok með kann þurfa. Kerlíng mælti: allt skal þetta gjört, sem þèr biðið, ok öllu tilkosta, at endt verði. Lèt konúngsson hana þá uppstanda, ok gengu nú bæði um hellirinn; beiddi hún þá, at hann liðsinnti sèr at koma karlinum dauða í gjána, ok þat veitti hann henni, ok er því starfi var lokit, lèt kerlíng einn hlemm yfir gjáarmunnann. Síðan leiddi hún konúngsson til sængr, ok þótti honum sú sæng svâ vel tilreidd, sem einum konúngssyni mundi vel hæfa at sofa. Tók nú kerlíng eitt horn, ok bað hann af því drekka, ok svâ gjörði hann, þóttist hann þá lítt kenna meina, ok sofnaði skjótt.

4. En at morgni, er konúngsson vaknar,

litast hann innar um hellirinn, ok þikist nú sjá þar nægð auðæfa, hugsar nú með sèr, at eigi muni meiri ríkdómr í Arabíaríki í einum stað samankomit, enn nú sá hann; kom þá kerlíng at sænginni, ok mælti: hversu hefir yðr, konúngsson! sofnazt í helli mínum þessa nótt? Hann svarar: ærna vel; spyrr hann þá kerlíng at, hvert land þetta sè, er hann er á kominn; en hún segir honum: þetta sè Bláland, ok því stjórni sá konúngr, er heitir Estroval hinn mikli, einn hinn mildasti[1] herra í þessum parti heimsins; en mitt nafn er Mána, sagði hún, höfum við Skrímnir minn haldit helli þennan í 40[2] ár, ok æ nokkut til matfánga orðit, þvíat á hverju ári höfum við seitt híngat 3 skip með mönnum, höfum við ok einnin bygðir rændar hestum, úlföldum ok ösnum allra mest, þarmeð höfum við ok töfrat híngat marga góða gripi frá ymsum herrum, ok get ek nú, sagði hún, sýnt yðr hèr til nokkur merki. Sörli kvað hana kunna sèr margt at greina, klæddist hann síðan skjótt; en er hann var klæddr, settist hann undir borð, ok bar kerlíng fram dýrliga fæðu með allskonar ilmandi drykk; dúkar voru þar af pelli ok purpura, en ker ok skálir af gulli með gimsteinum sett. Ok er Sörli hafði etit ok drukkit, sem hann lysti, leiddi kerlíng hann í afhelli einn, ok sýndi honum þar stóra nægð gulls ok gimsteina,

[1]) voldngasti, *B.* [2]) 80, *B.*

ok þar af gaf hún honum eitt tafl af gulli gjört, ok þóttist hann aldrei þvílíkt sèð hafa annat; skikkju gaf hún honum hlaðbúna í skaut niðr, ok gullhríng einn, sem at var samanskrúfaðr í 9 stöðum, ok mælti: berir þú þennan hríng á þinni hendi, munt þú hvorki á sjó nè landi villast mega. Þá mælti Sörli: aldrei þáði ek slíka gjöf fyrr af nokkrum manni; ok þakkaði henni nú gripina með fögrum orðum ok mörgum. Síðan bjóst hann til burtferðar, ok fylgði hún honum lángt á leið. Þá mælti kerlíng: far þú nú vel! ok gjör annathvort, at þú bíð hèr við land, þar til ek hefi gripina útvegat, ella at þú halt heim til Noregs, ok vitja svâ híngat aptr, nær þèr sýnist. Konúngsson kveðst svâ gjöra mundi; hèllt nú konúngsson aptr til sinna manna, ok urðu honum allir fegnir, en kerlíng fór heim til hellis síns; innti þá Sörli mönnum sínum allt af sinni ferð, ok spyrr Karmon, fóstra sinn, hvat honum þikir ráðligast þarum, at hann hèldi þegar heim til Noregs, eðr bíði þar við land, til þess kerlíng hefði gripina útvegat; en honum þótti bezt fallit, at hann dvaldist þar um mánuð næstan, til þess er kerlíng hefði gripina útvegat, ok leið nú svâ þessi tími, fram til þess at konúngsson hugði at vitja gripanna.

5. Einn dag í allblíðu veðri kvaddi

Sörli konúngsson með sèr 12 menn, ok hugði nú at finna kerlíngu at máli; gengu þeir allir ásamt, til þess at þeir fundu hellirinn, gekk konúngsson þá inn fyrstr; ok er hann kemr inn um dyrnar, heyrir hann brak mikit í hellinum ok skarkala, svâ honum þótti sem allt lèki á þræði, þat er var í nánd; ok þvínæst sèr hann, hvar tvær flagðkonur eru at glíma með stórum atgángi, ok reif hvor af annarri hár ok klæði, svâ báðar voru þær alblóðigar; þikist hann nú kenna, at önnur þeirra er Mána flagðit, vinkona hans, ok þat þóttist hann sjá fyrir víst, at hún mundi hinn lægra hlut úr bítum bera, ok at hún væri nærri því at þrotum komin af mæði, var ok víða klipit hold hennar frá beinum, bregðr Sörli þá sverði sínu hitt skjótasta, ok býðr sínum mönnum at veita lið Mánu; höggr hann framan at skessunni á brjóstit, svâ at í beini stóð; við þetta ólmaðist hún svâ mjök, at hún setti sínar klær fyrir brjóst Mánu, ok við þat fellr Mána í óvit niðr, greip tröllkonan þá einn ás; ok lamdi með honum alla menn konúngssonar til dauðs í einu höggi; en konúngsson höggr tveim höndum á vánga skessunnar, svâ aftók alla vángafylluna, ok hljóp þar útaf sverðit, svâ at þat tók sundr í miðju ás þann, er hún varðist með; við þetta ólmast hún, ok setr sínar klær fyrir brjóst Sörla, svâ hann fellr við í óvit, ok í því kom Mána á fætr aptr, ok rèðst í móti skessunni, raknar

þá Sörli við, ok lagði sínu sverði í kvið skessunnar, svâ útgekk oddrinn um bakit, ok varð þat hennar bani, varð nú Mána harðla fegin, ok þakkaði konúngssyni mörgum fögrum orðum liðveizluna[1], bað kerlíng hann þá með sèr gánga, ok kvað honum mál þikja mundi at sjá gripina.

6. Síðan tók kerlíng upp herklæði ok sverð bitrligt. Þessi herklæði, sagði hún, sótti ek út á Serkland til Maskaberts keisara, ok þau bar forðum hinn mikli kappi Pantíparus[2], sem eptir Agamemnon keisara[3] stýrði Grikklandi, eru þau svâ góð, at aldrei mun nokkut sverð á þeim festa, hvar sem þú framkemr undir menskra manna eðr trölla höndum, ok enginn vætta mun svâ heitt eitri spýa eðr eldi, at þeim granda kunni; en sverðit bítr allt eins stál sem strá. Konúngsson tók nú við gripunum, ok þakkaði henni með mörgum orðum þessa útvegu, leiddi

1) ok drón síðan kerlíngu í gjána, var konúngsson mjök stirðr; gekk hann nú til sængr, ok svaf af um nóttina. 6 kap. At morni spyrr konúngsson Mánu, hver sú hafi verit, sem við hana hafi leik átt, en hún kvað þat hafa verit systur sína af Tröllakjöl úr Mundíafjöllum; er þat efni til deilu okkar, at við erfðum einn gullhríng eptir föður okkar, en fyrir þat at ek var eldri, náði ek hríngnum fyrr, ok hefi ek honum síðan haldit með styrk Skrímnis, karls míns; þó hefir hún mik jafnan áklagat, en hefir þó aldri alvarliga sik í frammi haft, fyrr enn Skrímnir var dauðr, en nú hefir þú með frægð þinni ok hreysti leyst mik úr þessum vanda, *b. v. B.* 2) Pandarus, *B.* 3) konúng, *B.*

kerlìng hann út með sæmiligum gjöfum, ok skildu þau með vináttu, stè konúngsson þegar á skip, ok sigldi hitt beinasta, sem byr gaf, heim til Noregs, hitti hann þar föður sinn heilan á hófi, ok alla vini sína; sagði þá Sörli allt hitt sanna af sínum ferðum, ok þeim frægðum er hann vann á Blálandi. Sat konúngsson nú heima hjá föður sínum um vetrinn, ok bar eigi neitt til frètta.

7. Nú víkr sögunni til Haralds konúngs Valdimarssonar, er stýrði tveim hlutum Noregs, á móts við Erlíng konúng, sem fyrr er umgetit, at einn dag, sem hann sat við drykkjuborð, gengu 12 menn í höllina, ok kvöddu konúng snjöllu máli, svâ mælandi: tveir bræðr eru hèr komnir við land þitt, utan allt af Morlandi, með 12 þúsundir manna vaskra til stríðs, annar þeirra bræðra heitir Garðar, en annar Tófi; vill nú Garðar festa dóttur þína Steinvöru, ok er þat allra manna mál, at aldrei fái hún vaskara mann; gef nú, herra konúngr! skjótt svar til ræðu minnar! sagði sá, sem frambar erindin. Konúngr svarar: fyrr skal hverr maðr hèr í Noregi dauðr at velli hníga, enn ek gefi svâ leiðu trölli ok mögnuðum berserk dóttur mína, ok seg þú þeim bræðrum, at ek muni koma til móts við þá strax at morgni með allan minn stríðsafla. Sendimenn gengu nú til tjalda, ok kunngjörðu þeim bræðrum sín erindislok. En Haraldr

konúngr lèt herboð uppskera, ok bað hvern mann koma til móts við sik, er skildi kynni at valda; fèkk konúngr vel 4 þúsundir[1] stríðsmanna, hèlt konúngr nú útaf borginni með allan þennan her móti þeim bræðrum. En er þeir urðu slíks varir, hèldu þeir þegar á móti með allan sinn her, ok slóu nú saman fylkíngarnar; urðu þar skjót umskipti, ok er þat fljótast af at segja, at þeir bræðr eyddu svâ fljótt liði konúngs, at fátt stóð eptir lífs af hans hermönnum; en sem konúngr sèr þetta, bíðr hann sínum mönnum, sem eptir eru, at snúa heim til borgarinnar, hafði hann þá eigi meira enn 3 þúsundir[2], ok hleypti konúngr undan með þetta lið í borgina, en þeir bræðr eltu flóttann allt at borgarportum, ok lauk svâ stríðinu.

8. Haraldr konúngr hèlt nú ráðstefnu við lið sitt, hvat til bragðs skyldi taka í þeim vanda ok nauðsynjum, er þeim voru nú at höndum komnar, en þat gjörðist á þeirra stefnu, at öllum þótti ráðligast vera, at sendt væri til Upplandaríkis; ok gjörð orð [með skrifligum boðskap[3] Erlíngi konúngi ok sonum hans, svâ þeir kæmi þeim til hjálpar, með svâ miklum her er þeir kynni til at fá hitt snarasta; ok var nú þetta staðfest. Sendi konúngr nú 12 menn til Upplandaríkis; tókst þeim vel ferðin, ok báru

[1]) 12 þ., *B*, 40 þ., *C*, *D*. [2]) 3 hundruð ok 30, *B*. [3]) *v.* í *B*, *D*.

þeim feðgum bréfin[1], en þeir brugðu við skjótt, er þeir fengu þennan boðskap, ok hèldu af stað frá Upplöndum[2], ok lèttu eigi fyrr, enn þeir fundu Harald konúng; urðu nú fyrir þeim blíðar kveðjur, ok bjuggust þegar ásamt allir til bardaga, riðu síðan útaf borginni í móti þeim bræðrum[3], en þeir bræðr komu senn í móti þeim frá herbúðum sínum með Blámenn ok bansettar hetjur. Einn maðr í liði þeirra bræðra hèt Loðinn, hann bar merki þeirra, hann var af Polen[4], stór var hann sem risi, ok ólíkr öllum mönnum fyrir sakir afls ok illiligrar ásýndar; hans spjót var sex[5] álna á lengð, en þriggja spanna á digurð; hann reið einum fíl, ok lamdi með sinni staung bæði menn ok hesta, svâ öllum stóð af þessum óvin mikill ótti; ganaði hann lángt undan hernum, ok var orðinn 15 manna bani, áðr enn fylkíngar komu saman. En er Sörli sá þetta, reið hann þángat at, sem Loðinn var fyrir, ok lagði til hans með sinni staung, vegr hann síðan Loðin upp, ok snarar honum úr söðlinum meir enn 15 fet, svâ brotnaði í honum hvert bein; en sem þeir bræðr líta, at Loðinn fellr, tóku þeir til ákafliga at ólmast með því æði,

---

1) boð, *B.* 2) með 18 hundruð manna, *b. v. B.* 3) í annan fylkíngar arm gekk fram Erlíngr konúngr, son hins mikla Astromenus hertuga; hann var úr Naumudal austan úr Noregi, þar næst Sigvaldi, son hans; en í annan fylkíngar arm var Haraldr konúngr, en Sörli hinn sterki gekk fram undir merki, allr stáli klæddr til handa ok fóta, *b. v. B.* 4) Falster, *B.* 5) 12, *B*; 5, *C*; 15, *D.*

at menn hugðu eigi annat, enn þeir ólmir væri orðnir[1], ok ríðr Tófi þá þar at, sem Sigvaldi konúngsson var fyrir, ok hyggr, at hann skyldi sitt líf láta; en í þessari svipan kemr at Sörli hinn sterki, ok höggr til Tófa, en þetta var sem ógjört, því eigi beit á hans bansettan búk meir enn á stein kæmi, ok nú stíga þeir báðir af sínum hestum, ok gángast at knáliga, svâ at hvorgi sparði annan, hafði Tófi brögð í frammi á ymsa vega, ok óð nú jörðina allt til knjánna sem blautan snjó, en Sörli stóð öll brögð hans af sèr hreystiliga; þá mælti Sörli: þat hugði ek at sögnum, at öngvir í heiminum mundi meiri menn enn þeir af Affríka, en nú lízt mèr þat lygar, ok hitt mesta drafl, ef þú hefir eigi meira þrótt, enn nú hefir þú í frammi látit, svâ mikill garpr sem þú þikist vera; ok við þetta hamaðist Tófi, sem mest hann kunni. Þá mælti Sörli: þú, hitt blauða fól ok hin fordæmda fýla! skalt nú þat reyna, hvat vèr norskir veitum slíkum gestum, sem þú ert, svâ þá þurfi síðr at lánga til fundar við oss; þreif Sörli þá í eyra á Tófa, ok reif í burt af honum alla vángafylluna ok skeggit

[1]) *B b. auk meira þessu við:* Ríðr nú Garðar at, þar sem Haraldr konúngr er fyrir. — Nú kemr at Tjörfi hinn finnski, hann var konúngsins rentumeistari, ok höggr til Garðars á vángann, ok af eyrat með vángafyllinni ok skegginu, ok á öxlina, svâ at í beini stóð, skein nú hera jaxla hans sem eina hamargjá. Nú snèrist Garðar við Tjörfa, ok klýfr hann sundr í miðju, í þessu kemr at Siggeir, svenskr maðr at ætt, hann var konúngsins kanseler, hann hjó til Garðars þvert um herðarnar, en Garðar snèrist við, ok klauf Siggeir at endilaungu.

allt niðr at bríngu, varð Tófi þá mjök ófríðr ásýndar, brást hann þá í dreka líkíng, af því hann var mjök hamramaðr, ok blès nú framan at Sörla svâ miklu eitri, at undrum gegndi með svartri svælu, en Sörli hjó í þessu drekann sundr, ok lèt Tófi þar líf sitt; fèll Sörli þá í óvit fyrir hans umbrotum ok eitrsblæstri; en er Garðar sèr sinn bróður at velli hníga, varð hann ofrmáta tryltr, ok reið nu þar at, sem Erlíngr konúngr var fyrir, leggr hann þá til konúngs sínu spjóti, ok snarar honum úr söðlinum meir enn 20 fet[1], svâ at 3 rifin brotnuðu í annarri síðu konúngs. I þessu raknar Sörli við, ok er hann sèr föður sinn feldan, reið hann þángat at, sem Garðar var fyrir, ok höggr til hans sínu sverði, svâ at hann klauf höfuðit ok búkinn allt at söðli niðr, ok fèll Garðar þá dauðr af hestinum; ráku þeir nú þegar flóttann bræðr, Sörli ok Sigvaldi, ok drápu hvern, er þeir náðu, svâ at fátt eitt komst með lífi á burt.

9. Síðan hvurfu þeir aptr til valsins, ok lètu kanna valinn; voru þá heim færðir til borgarinnar konúngarnir Haraldr ok Erlíngr, ok þat sárra manna, er græðandi var, ok var þeim öllum græðsla fengin, urðu þeir brátt heilir sárra sinna konúngarnir Haraldr ok Erlíngr, ok var þá þegar tilbúin ágæt veizla öllu stórmenni; þakkaði konúngr þeim feðgum frægiligt fylgi, þó einna mest Sörla hinum sterka, þótti þá eigi á Norðrlöndum vera frægri maðr

[1]) *hèr v. blað í C.*

enn Sörli. Haraldr konúngr mælti til Sörla: hver laun villð þèr nú af oss kjósa fyrir yðra liðveizlu, sem þèr hafið oss sýnt, því ef vèr hefðum eigi yðar vaskleiks atnotit, mundi Norvegr allr úr hendi oss; skal nú yðr þat kunngjöra, at öngvan hlut veit ek þann í minni eigu, er yðr skal ofgóðr vera, hvers sem óska vilduð; var þat allra manna mál, at konúngr mundi vilja gipta Sörla dóttur sína, ef hann vildi hana kjósa, en Sörli svaraði máli konúngs á þessa leið: herra konúngr! sagði hann, eigi em ek svâ naumlátr, sem þræll þurfandi, at ek vill mútur taka á afli mínu, [þætti oss heldr meiri sómi, at vor frægð mætti sem víðast útborin verða, heldr enn þiggja gjafir af yðr hèr fyrir, þat (er) í fjarlægar álfr færast mætti[1]. Eptir þetta var lokit veizlunni, ok hèldu allir höfðíngjar á burt, hverr til síns heimkynnis; fór Erlíngr ok synir hans til Upplandaríkis, ok voru áðr með sæmiligum gjöfum útleiddir af Haraldi konúngi; ok sat nú Sörli um kyrt þenna vetr.

10. En er vora tók, lèt Sörli búa til skip sín, ok lýsti því yfir, at hann vildi í hernað halda um sumarit[2]; sigldi hann síðan burt af Noregi, var Karmon, fóstri hans, með honum sem fyrr; herjaði Sörli nú um vestrátt[3] [veraldar, ok[4] helzt um Affríkam allt út

[1]) heldr þætti oss þat meiri list, at frægð vor aukist, svâ margir mætti þat fregna, heldr enn þiggja fègjafir af yðr, *B*, *D*. [2]) hafði hann 4 skip úr landi ok 60 manna, *b. v. B*. [3]) *þannig B*; Eystrasalt, *A*, *D*. [4]) *v. í D*: fyrst um Frísland ok síðan, *b. v. B*.

at Rauðahafi; fènuðust honum margir góðir gripir á sjó ok landi, hafði hann nú fengit tólf[1] skip, öll hlaðin með gull ok dýrmæta gripi, ok valit fólk hitt vaskasta. En er mjök var áliðit sumarit, vildi konúngsson heim aptr snúa til Noregs. Þat var eitt kveld mjök seint, at þeir komu við Morland hitt eystra, þar tók Sörli[2] strandhögg mikit, herjaði á borgir og kauptún, ok rænti slíku, er fyrir varð, en hjó til bana hvern, er fyrir stóð; þar tók Sórli konúngsson tólf[3] menn ok tvo bræðr, er hètu Börkr ok Bölverkr, þeir voru hin mestu illmenni ok einnin hamramir mjök. Þaðan hèlt Sörli konúngsson til Danmerkr ok allt at Eyrarsundi; köstuðu þeir þá atkerum, ok láu af um nóttina.

11. En at morgni, er menn vakna á skipum konúngssonar, sjá þeir inn á sundinu lengra liggja sjö[4] skip, ok þar í er svâ listiliga skrautligr dreki, at hans líka þóttust þeir aldrei fyrr sèð hafa, hvorki at stærð nè búnaði; allr var hann stáli sleginn, ok gulli laugaðr[5] fyrir ofan sjómál, þarmeð stafnar[6] hans útskornir með miklum meistaradóm, ok prýddir hinu skærasta gulli, ok víða svâ í skurðinn silfri smelt, hann var ok fagrliga steindr ok málaðr með allskonar ýmisligum litarhætti, grænum ok hvítum, gulum ok

1) 7, *B.* 2) *hèr byrjar aptr C.* 3) 4 hundruð, *B.* 4) 8, *C.* 5) lagðr, *B, D*; rendr, *C.* 6) ok veðrvitar, *b. v. B.*

bláum, bleikum ok svörtum. Á þessum fríða knör stóð maðr við siglu, mikill at vexti ok aldraðr at líta; hann var í kápu þeirri, er öll var hlöðum búin, sverð hafði hann í hendi bjart ok bitrligt; ok er Sörli nálgaðist drekann, heilsar hann uppá þenna mikla mann, ok spyrr: hverr er þessi hinn stolti maðr, er fyrir þessum stóra dreka ræðr, er svâ fram brunar með mikilli prýði ok pragt, at öngvan hefi ek slíkan fyrr sèð? Hinn mikli maðr, er á drekanum stóð, mælti: þessi mun einn sá vera, at eigi mun þik óttast, nè hræddr vera fyrir þèr eða þrælum þínum, er þèr fylgja, ok mun ek yðr lítit fleira segja. Sörli mælti: þat þikjumst ek heyra, at þèr þikizt ofgóðir til at mæla við oss, en hverr sem þú ert, munum vèr þora at sjá yðr, áðr enn úti er, en þat er helzt minn grunr, at þetta muni vera Hálfdán konúngr Brönufóstri Hríngsson af Svíþjóð hinni köldu, hverja þú vannst af Ágnari hinum auðga, föðurbróður mínum, en gjörðir hann at slá[1], ætti mèr því eigi at þikja kosta vant við þik, vil ek nú bjóða yðr þann kost, at gefa á mitt vald þennan góða dreka, ok þèr farið svâ, hvert þèr villð. Hálfdán konúngr mælti: lengi höfum vèr þessum dreka stýrt, ok hefir hann ætíð happsamr verit, hefir mèr ok opt meira fyrir hann boðizt, enn gefa hann á burt fyrir öngva muni,

[1]) *þannig A, C*; ná, *B, D*.

ok þótt ek hafi land unnit af föðurfrænda þínum, muntu svâbúit hafa verða. Var þá konúngr æfareiðr vorðinn, ok gekk hann þá aptr ok fram um drekann, bauð hann mönnum sínum, at þeir hitt snarasta byggist til orrostu móti þessum þrjótum, ok dræpi þá hitt fyrsta, var þá mikit hark á drekanum, ok var skotit fyrst [stórum ásum[1] ok grjóti, flettiskeptum ok örvum, gaflokum ok öxum, [kesjum ok pálstöfum[2] ok allrahanda vopnum; varð nú mikit mannfall, ok leið eigi lengi, áðr öll skip Sörla voru eydd ok í sundr brotin, utan þat eitt er hann sjálfr stýrði, en Hálfdán konúngr hafði mist 3. Einn var sá maðr með Hálfdáni konúngi, er Þórir hèt hinn sterki, hann var sonr Þorviðs jarls, ok var 15 vetra at aldri, en þó hitt mesta mannval ok fullhugi, svâ at enginn var hans jafníngi at hreysti ok drengskap um allt Svíaveldi. Nú er at segja frá Sörla, at þegar hann sèr at eigi mátti svâbúit standa, þá hleypr hann uppá drekann, er minnst varði, ok þeir Börkr ok Bölverkr með honum, komust upp í öðrum stað enn Sörli, ok börðust þar nú allir drengiliga, eptir því sem hverr hafði þrek til ok karlmensku, hjó Sörli ok lagði hvern sem fyrirstóð, ok þyrmdi öngvum, en þeir Börkr ok Bölverkr gengu með öðru borði, þar sem Þórir var fyrir. Hálfdán konúngr Brönufóstri

[1]) stórbyssum, *einasta í B.* [2]) kastmöl, *B.*

sèr nú þetta, at þeir eru uppkomnir á drekann, æðir hann nú fram móti Sörla, ok höggvast þeir í ákafa, mátti þar sjá bæði mörg högg ok stór, gekk þat svâ lángan tíma, at hvorgi þeirra hopaði á hæl hitt minnsta fyrir öðrum, en þó kom heldr svâ um síðir, at Hálfdán konúngr tók at mæðast, því at hann var maðr mjök mikiliga gamall, en Sörli var því listugri til höggorrostunnar, sem hann sóttist lengr; tók nú at berast föll[1] á Hálfdán konúng, svâ hann hörfaði aptr at lyptíngunni, ok var nær því sem at þrotum kominn af mæði. Þá mælti Sörli: þigg nú grið, Hálfdán konúngr! ok sættumst við, vil ek þat eiga undir drengskap yðrum, hverja sæmd þèr villð mèr gjöra. Konúngr mælti: nú finn ek með þèr gjörla bleyðuhug, ok mun þik nú hræðsla standa sem fleiri norska frændr þína, ok skaltu svâ viðbúast, at þar ek hefi aldrei gèð mitt lægt við nokkurn mann, þá mun svâ enn vera við þik. Sörli mælti: þú munt, konúngr! ráða verða, en þó segi ek þèr griðin vís. Síðan tóku þeir enn aptr at berjast í annat sinn svâ ákafliga, at hvorgi sparði annan, ok var þat lánga hríð; en svâ fór sem fyrr at konúngr hopaði, ok var þvínær sem kominn at aptara stafni drekans, ok sigraði hann þá svâ mikilliga mæði, at valla mátti hann halda sverðinu. Þá mælti Sörli: enn býð ek þèr grið, konúngr! ok sætt-

[1]) *þannig A, C*; sár, *B*.

umst við, vil ek þat eiga undir drengskap yðrum, hverja sæmd þèr vilið við mik auka. Hálfdán konúngr mælti: fordæmdr verði sá, sem þiggr nokkur þín boð, ok fyrr skal ek lífit láta með hreysti ok drengskap, enn ek gánga at þessum þínum boðum. Þá mælti Sörli, ok kvað hann öngrar æru verðan af sèr upp frá þessu, hjó hann þá svâ hart ok títt, at konúngr kom öngri vörn við fyrir mæði sakir, til þess at sverðit hraut úr hendi hans, henti Sörli þat þegar á lopti, ok lagði því ígegnum konúng; hafði Hálfdán konúngr aldrei fengit sár nè knèsig af nokkrum manni. Lèt konúngr þar líf sitt með góðan orðstýr.

12. Nú er at greina frá Þóri sterka, at hann hjó niðr menn Sörla, sem hrátt hrís væri, svâ at öllum var dauðinn vís, er eigi hopaði á hæl fyrir honum; nú sèr Börkr þetta, riðst nú fram, (ok höggr til) Þóris, sem mest hann kann; en er Þórir sèr vísan dauða sinn, hleypr hann í lopt upp aptr á bak yfir slána, ok kom þar niðr í sverðit, ok varð þar fast; varð Berki seint um, at ná aptr sverðinu; en er Þórir sèr þat, greip hann upp mikit trè, er hjá honum var, ok laust því í höfuð á Berki, svâ hausinn brotnaði; laut nú Þórir við höggit, ok í því hjó Bölverkr um þverar herðar honum, svâ Þórir var nær sem fallinn, en eigi beit á hans brynju. Nú snèrist Þórir við Bölverki, greip sinni hendi um hvorn fót á honum, ok sleingði hon-

um niðr, svâ hausinn brotnaði í smá mola; var þá svâ margt lið Sörla komit á drekann, at Þórir sá sitt óvænna, ok at hann mundi brátt ofrliði borinn verða, ok þarmeð sèr hann Hálfdán konúng fallinn, tók hann þá þat ráð, at hann hljóp fyrir borð á drekanum, ok syndti hitt beinasta til lands, [þess er rèð fyrir Sigurðr, sá er lengi hafði fylgt Hálfdáni konúngi Brönufóstra, ok tók hann við honum allvel[1]. En eptir bardagan tók Sörli drekann á sitt vald, ok alla þá gripi er Hálfdán konúngr hafði átta, sigldi hann nú heim til Noregs, ok hitti brátt föður sinn, frændr ok vini heila á hófi, ok varð þar fagnaðarfundr; innir þá Sörli konúngsson allt hitt ljósasta af sínum ferðum, ok þótti mörgum honum mikil frægð aukizt hafa í þessarri ferð, girntust þá sem flestir at sjá drekann Skrauta, var þat allra manna mál, at eigi mundi finnast betra eðr vegligra skip, hvorki at stærð nè búnaði.

13. Eitt sinn var þat at þeir gengu á tal feðgar, Erlíngr konúngr ok Sörli; þá mælti Erlíngr konúngr, at svâ mætti Sörli við búast, sem at brátt mundi honum ófriðar von af þeim bræðrum Hálfdánarsonum, er fregnuðu líflát föður síns. Var nú skjótt viðbrugðit, ok söfnuðu þeir feðgar liði um allan Noreg, gjörðu þeir ok Haraldi konúngi orð, at hann sendi þeim nokkurn liðsafla. Ok er þessu var öllu ráðit,

[1]) *v. í B.*

höfðu þeir sterkan vara á sèr dag ok nótt, ok væntu á hverri stundu ófriðar.

14. Hins er nú at geta þessu næst, at Þórir sterki komst til lands, [sem fyrr var frásagt[1], hitti Sigurð konúng, ok inti honum allt hitt sanna um fráfall Hálfdánar konúngs; þótti þeim öllum stirðar frèttir, ok þó einna mest Sigurði konúngi. Dvaldist Þórir þar eigi lengi, áðr konúngr fèkk honum skip ok menn til Svíaríkis; sigldi Þórir þá hitt beinasta til Svíþjóðar, ok tók höfn nærri borginni Litidorum[2], er þá var höfuðstaðr ríkisins. Hálfdán konúngr átti þar tvo syni; hèt annar Högni, en annar Sigmundr; dóttur átti hann, sem Marsibil hèt sem móðir hennar. En er Þórir hitti menn at máli, fregnar hann at Högni er sigldr úr landi til Astro, hertogans af Englandi; gengr nú Þórir heim til hallarinnar, ok síðan inn fyrir Sigmund konúngsson, þareð hann sat með höfðíngjum öllum ok vildislýð, kveðr þá Þórir konúngsson, en hann spyrr þegar frètta, ok hvort at Hálfdán konúngr væri með heilu ok höldnu aptrkominn, en Þórir svarar máli hans svâ: mikil ok ill tíðindi er nú at greina af vorum ferðum; fráfall Hálfdánar konúngs, föður

1) á Eyrarsundi hitt beinsta til lands, lètti hann eigi, fyrr enn hann kom til Danmerkr; en því ríki stýrði Sigurðr, er lengi hafði áðr fylgt Hálfdáni konúngi; þat ríki var erfðaland Hálfdánar konúngs, ok hafði hann sett Sigurð, fóstbróður sinn, þar yfir, ok gjört hann þar at konúngi; Þórir lètti eigi sinni ferð, fyrr enn hann hitti, *B.* 2) *þannig A, C, D; v. í B.*

yðvars, rán ok missir drekans Skrauta ok allra konúngsins dýrgripa. Innir nú Þórir allt hitt sanna frá, hversu at Hálfdán konúngr var feldr af Sörla hinum sterka, ok allir hans menn deyddir; brá öllum mjök lítt við þessi tíðindi, ok allrahelzt drottníngu, því at hún fèkk hvort ómegin eptir annat, til þess at hún sprakk af harmi; varð nú enn meiri sorg enn áðr; var hún heygð at fornum sið virðugliga, ok erfi drukkit eptir þau, bæði konúng ok drottníngu, var þar mörgum innanlands höfðíngjum tilboðit. Ok at afrunninni hinni mestu ókætinni ok harminum eptir þau konúng ok drottníngu, þá hèlt Sigmundr konúngsson ráðstefnu um þat, hvat tækiligast væri í slíku tilfelli, sem nú var þeim á höndum; en öllum þótti ráðligast, at sendt væri brèf með boðskap á fund Högna ok hertugans Astro til Englands sem skjótast. Var nú svâ gjört, fóru sendimenn sína leið, ok sigldu til Englands, tókst þeim vel ferðin, ok báru brèfin þeim Högna ok hertuganum. En er Högni fèkk tíðindin, lèt hann sitt skip hitt snarasta tilbúa, ok bað hertugann eptirkoma með svâ mikinn her, sem mest hann kynni til at fá. Játaði hertuginn því brátt, at svâ vera skyldi.

15. En áðr enn Högni skyldi til skips gánga, fór hann at hitta drottníngu Marsibil, er átti Astro hertuga, ok innir henni allt um

fráfall Hálfdánar konúngs, föður þeirra; en er hún heyrði þat, varð hún svâ reið ok sorgbitin, at hún fèll í óvit hvort at öðru; en er hún vitkaðist ok raknaði við, bað hún þángat kalla hertugann, ok kom hann jafnsnart á hennar fund, tók hún þá til máls, ok sagði: glöggt þikjumst ek þat sjá, at hvorugum ykkar Högna finnst mikit til um fráfall föður míns, ok er þat auðsèð, at allr dugr mun úr ykkr vera, at vekja hefndir eptir hann, ok sú skömm mun uppi vera, á meðan Norðrlönd byggjast, ok í allra minnum höfð at aldatali, at Hálfdán konúngr hafi eptir sik látit svâ dygðarlausar liddur, ok leiðar geitur, sem þèr eruð, er allt kunnið hræðast sem hinn blauðasti hèri, ok væri þat nær mínu skapi, at þèr fengjuð mèr vopn ok herklæði, ok mundi þá aldrei kunna miðr at fara, enn yðr ferr nú öllum hans vandabundnum, mætti þat svâ verða, at öllum yðr mundi þat til óendanligrar skammar ok svívirðu snúast, svâ lengi sem lifðuð, ok sem meira, þó um er vert, eptir dauðann, ok væri þá betra með sæmd at vera fallinn fyrir vopnum óvina sinna. Ok er henni var runnin hin mesta reiði, stóð hún upp, tók hertugann í fáng sèr, ok lagði hendrnar um háls honum grátandi, ok mælti: virð þú til elsku mína ok manndóm sjálfs þíns, at þú hefnir föður míns á þeim ljóta ok leiða þýarsyni, sem hann hefir af dögum ráðit. Þá mælti Högni:

vertu dæl, systir! þvíat svâ skulum vèr hefndir vekja eptir föður vorn, at þèr skal vel líka. Hún mælti: helzt treysti ek þèr, bróðir! hèr til, at þèr muni bezt fara hèr um af náúngum vorum. Eptir þetta kvaddi Högni hertugann ok systur sína, ok sigldi heim til Svíaríkis; dró hann nú saman múg ok margmenni, ok síðan mælti Högni: ek mun á burt verða hèðan[1], ok vita, hvat ek kann finna til Sörla hins sterka, því eigi mun hann vísari vera í Noregi enn annarstaðar, en Sigmundr, bróðir minn, skal hafa hèr landstjórn, ok halda stríð við hann, kunni hann híngat vitja, með styrk Þóris sterka, ok annarra höfðíngja, ok vera við honum búnir nótt sem dag, ef hann kann hèr at at bera, en ek mun hitt snarasta aptrkoma, er færi gefst. Öllum þótti þetta bezt fallit vera, sem Högni mælti fyrir, sigldi hann nú burt af Svíþjóð, ok hèldu hitt beinasta undir Noreg.

16. Hins er nú at geta, at Sörli konúngsson sat heima hjá föður sínum í Upplandaríki, ok höfðu þeir feðgar samandregit ógrynni hers. Einn dag mælti Sörli konúngsson við föður sinn: nú vil ek, sagði hann, hèðan burtsigla til Svíþjóðar, ok leita um sættir við þá bræðr, ef kostr er á, en þèr skuluð hèr eptir vera með helmíng liðsins, ásamt

[1]) með þriðjúng liðsins, *b*, *v*. *B*.

Haraldi konúngi ok Sigvalda, mínum bróður, en drekinn Skrauti skal útskipaðr liggja til varnar hèr fyrir staðnum; öllum þótti þetta ráðligt. Eptir svâ talat sigldi Sörli konúngsson hinn sterki burt af Noregi austr fyrir land, ok allt at eynni Mostur[1]; sú ey er lukt hömrum stórum, ok skógi vaxin, sigldi millum landsins ok eyjarinnar. En í þeim sama púnkt[2] sigldi Högni konúngsson framanvert við eyna, ok fórust svâ hjá, at hvorugir hittu aðra; sigldi Sörli beint at Svíaríki, ok tók höfn nærri borginni[3], ok lèt hann þar reisa herbúðir sínar. Nú er hins at geta, at Högni konúngsson sigldi beint undir Noreg, gaf þeim vel byri, ok komu við land at höfnum þeim, er láu í nánd Upplandaríki, ok er þeir nálguðust, litu þeir þar fyrir sèr liggja 40 skip, ok sáu þeir þar ok kendu drekann Skrauta; kom þá reiði ok grimd í hjarta á Högna, ok mælti hann síðan: auðsèð er þat nú, at heima mun vera Sörli hinn sterki, því at hèr kenni ek drekann Skrauta, bað Högni [þá skjótt[4] leggja at skipunum; ok svà var gjört. Sá maðr, er yfir var settr drekann, hèt Ívar, [hann var af Finmörk austan[5], einn góðr riddari. Þá mælti Högni: þèr, hinir leiðu þrælar! skuluð þat vita, at ek býð tvo kosti,

[1]) Monstr, *rángt*, *D.* [2]) þat s. sinn, *B.* [3]) höfuðborginni, *B.* [4]) festa rauða skjöldu við rá hverja, lagði nú skjótt til hafnar, ok bauð sínum mönnum at, *B.* [5]) *v. í B.*

annar er sá, at þèr gefið á mitt vald þennan góða dreka, en sa annar, ef þèr vilið eigi þennan, at þèr verið þá fè ok fjör, meðan þrek tilvinnst fyrir oss. Ívar[1] svaraði hans máli, ok sagði þat öngva von at hann uppgæfi drekann. Við þetta varð Högni æfareiðr, tókst nú at skömmum fresti með þeim hinn snarpasti bardagi, ok var þá eigi at sökum at spyrja; eggjaði þá Högni sína menn til atsóknar, ok mælti við einn sinna manna, er Svalr hèt[2]: þat hugða ek, at þú mundir vera góðr riddari, en nú vill mèr eigi þat reynast. Svalr mælti: ef enginn þinna manna, konúngsson! gengr tæpiligar fram enn ek, þá má ek makliga sneipu líða; ok í þessu hljóp Högni fyrstr uppá drekann, ok með honum Svalr, hjó Högni þá ok lagði hvern sem fyrir stóð, ok þyrmdi aungvum, en Svalr gekk með öðru borði, kom Ívar þá ímóti Sval, ok höggr til hans, svâ at Svalr fèll flatr niðr, ok blóð rann ákaft af munni hans ok vitum. Þá mælti Ívar: segðu heim til Svíþjóðar, þá þú kemr þar, at þú hafir hitt oss Norska fyrir, ok vil ek nú þó bæta þèr, ef þèr þikir eigi duga. Þá mælti Svalr: lítt veiztu þat, löðrmenni[3]! hvort við erum skildir at svâbúnu eðr eigi; spratt nú Svalr fimliga[4] á fætr, greip sinni hendi um hvorn fót Ívari, ok

[1]) norski, *b v. B.* [2]) hann var hallenzkr ok góðr riddari, *b. v. B.* [3]) loddari, *B.* [4]) *hèr v. blað í C.*

[slengði honum niðr[1], svâ hausinn brotnaði í smátt. Þá mælti Svalr: svâ plögum vèr Svenskir at gjöra refunum, nær þeir gánga í gildruna, ok hlægir mik þat, at eigi munir þú frèttir heimsegja Erlíngi konúngi. En er Ívar var fallinn, hafði Högni gagnrudt drekann, ok var þetta allt jafnsnart í senn, gengu nú allir á hönd Högna, sem eptir voru, tók Högni þá drekann á sitt vald, sigldi síðan heim til hafnar, ok lèt nú þegar reisa herbúðir sínar skamt frá borginni Erlíngs konúngs.

17. En at morgni komanda, er lítt var ljóst, sendi Högni 12 menn til hallarinnar, ok var Svalr fyrir liði þeirra, bað Högni at þeir segðu þeim Sörla hinum sterka ok Erlíngi konúngi, föður hans, at hann biði þeim bardaga þegar samstundis; fóru nú sendimenn, ok lètta eigi fyrr, enn þeir koma í höllina, þareð Erlíngr konúngr inni sat með öllum sínum höfðíngjum ok lendum lýð; heilsar Svalr uppá konúng, ok mælti svâ: Högni, sonr Hálfdánar konúngs, hefir oss híngat sendt, ok lætr kunngjöra þèr, konúngr! at hann býðr Sörla hinum sterka bardaga, ef hann er hèr innanlands, ella sjálfum þèr, ef hann er eigi heima, ok vill nú Högni hefna á ykkr feðgum makligra svívirðínga, uggir mik eigi muni ykkr betr fara, enn þeim leiðu þrælum, er verja skyldu land þitt ok drekann Skrauta, hverir fljótt fèllu fyrir oss, sem ragar

[1]) slò við farstokkinn, D.

skógargeitr; lítast mèr þínir menn, konúngr! heldr huglausir vera, ok heldr hendtir til at þjóna hèr í höll þinni, heldr enn bardaga halda við vaska stríðsmenn, þá af Kúrlandi[1] ok Köldu-Svíþjóð, því er þat mitt hitt bezta ráð, at þú gefir þik fánginn ok allt þitt ríki á vald Högna undir þá miskun, sem honum þikir þú makligr til vera at þiggja. Þá mælti Erlíngr konúngr: eigi var lukkan fráhorfin Högna, er hann náði einum þvílíkum, sem þú ert, þvíat mörgum mundi miðr fara at flytja erindi herra síns enn þèr, skrafar þú eigi hug úr oss Norskum með stóryrðum þínum ok drembilæti, væri þat makligast, ek lèti heingja þik á gálga fyrir djörfúng þína, ok kendi þèr svâ, at leika eigi þvílíkt við fleiri. Svalr mælti: eigi er ek hræddr um þat, eðr fyrir því, þótt framkomi, mundi þín þá at illu meir ok framar getit verða, enn annarra höfðíngja allra, sem þú síðr grið gæfir sendimönnum. Erlíngr konúngr mælti: gakk burt, ok seg Högna, at vèr munum koma til móts við hann. Gekk Svalr þá úr borginni, ok hitti Högna at máli, greindi hann honum þá inniliga frá viðræðum þeirra Erlíngs konúngs; en eptir þat at Svalr var í burt úr höllinni, árnuðu honum allir ílls, þeir er eptir voru.

18. Nú sem Högni hafði þetta heyrt, sem nú var frásagt, klæddist hann skyrtu einni, er engin járn kunnu á at bíta, ok spenti sik sverði því, er Sigrljómi hèt, ok forðum átti Hrólfr

[1]) Kýrlandi, *B.*

konúngr kraki. Síðan kvaddi Högni allan sinn her til orrostu, ok stóð nú fremst sinna manna; kom nú Erlíngr konúngr úr borginni með allan sinn her, ásamt Haraldi konúngi ok Sigvalda, syni sínum. Maðr sá, er merkit bar fyrir Erlíngi konúngi, hèt Sverrir[1], hann var af Finnmörk austan, góðr riddari. Högni reið nú fram í fylkíngar Noregs manna, hjó ok lagði hvern er fyrir varð, ok þyrmdi öngvum; ok í þessari svipan mætti hann Sverri, merkismanni Erlíngs konúngs, ok hjó til hans með sínu sverði, en Sverrir brást í jörð niðr, ríðr nú Högni um þverar fylkíngar, ok fellir hvorn um annan. En sem hann er ákafastr at höggva niðr liðit, kemr svâ mikit león upp úr jörðunni, at öllum stóð felmtr af ógn þeirri, snèrist leónit þá brátt í móti Högna, ok laust sínum hala á hest hans, svâ hart at Högni hraut lángt í burt ok í einn skógarrunna. Nú spratt Högni fljótt ok fimliga á fætr, ok höggr í móti dýrinu, en þat var sem ógjört, því eigi beit hitt minnsta á leónit, ok tók þat við hverju hans lagi[2]. Nú snarar Högni sínu sverði, ræðr í móti dýrinu, ok sviptast nú harðliga, svâ at allt gekk úr lagi, þat sem fyrir varð, jafnvel eikrnar af stofnunum; stóð þessi glíma um heilar 3 stundir, neytti þá konúngsson orku ok ílls kraptar, tók dýrit upp á bríngu sèr, ok sleingði því niðr við einn eikar-

[1]) Sviphald, *alstaðar B*; Svanr, *D.* [2]) með kjaptinum, *b. v. B, D.*

stofn, svâ at í sundr fór í því hryggrinn, en við þetta spýr dýrit eitri með ógrligum frýsíngum ok dimmri svælu, en skyrtunnar dugnaðr hlífði konúngssyni, at hann sakaði ekki, en þó leið hann í ómegin ofan á leónit. Erlíngr konúngr sèr nú þetta, ok ríðr þángat, sem Högni lá, ok hjó þvert um herðar hans þrjú högg, en eigi at heldr beit á hann sverðit. Nú sem konúngr verðr þessa vís, at eigi bíta hann vopn, þá kallar hann á einn sinna manna, er Gellir[1] hèt, ok bað hann ljósta Högna til dauðs með kylfu sinni[2]; en er Svalr sèr Erlíng konúng standa yfir Högna með nöktu sverði, þá setti hann hest sinn á skeið, sem mest mátti hann, reið at Erlíngi konúngi, lagði til hans sínu spjóti, er minnst varði, ok snaraði konúngi úr söðlinum meir en 40 fet, svâ at brotnaði í honum hvert bein. Nú snèrist Gellir í móti Sval, hefir upp kylfuna, ok vildi ljósta hann til dauðs; sèr Svalr þá vísan bana sinn, ef ákæmi, hljóp hann því úr söðlinum aptr á bak, ok kom kylfan á hestinn, svâ at í sundr gekk hryggrinn. Nú ræðr Svalr á Gelli, ok sviptast þeir harðliga, þartil er Gellir fèll til jarðar. Þá mælti Gellir: nú vildi ek fóstra mín kæmi. Þvínæst fann Svalr, at kipt var í herðar honum heldr óþyrmiliga á bak aptr, svâ nú varð Svalr undir,

[1]) hinn færiski, *b. v. B.* [2]) óð nú Gellir fram með gadda-kylfu slegna, ok hugði nú þetta at gera, *b. v. B.*

en Gellir ofaná, ok hugði nú Gellir, at Svalr skyldi lífit láta. Í þessu raknar Högni við, grípr sverð sitt, ok höggr Gelli sundr í miðju, komst Svalr á fætr við þetta, þótt hann leik stirðr væri; en er Högni laut við höggit, hjó Haraldr konúngr þvert um herðar á honum, svâ Högni var nær sem fallinn. Nú snèrist Högni við, reiðir upp sverðit, ok höggr til Haralds konúngs, svâ at hann klauf hann allt at söðli niðr. Síðan reið Högni þángat at, sem Sigvaldi var fyrir, ok setti sverðit á háls honum, svâ aftók höfuðit, var nú fátt eptir orðit af þeim Norsku[1], en þeir, sem eptir stóðu, flýðu allir í borgina, ok intu drottníngu allt um fráfall konúnganna ok Sigvalda; var nú svâ mikil sorg í borginni, at enginn gáði hvorki svefns nè matar at neyta.

19. At morgni eptir orrostuna, sem lítt var ljóst, bjóst Högni í borgina með öllu liði sínu, gekk hann fyrst í höll konúngsins, ok fann þar öngvan mann inni, utan tilkomulausa þræla, frètti Högni þá at, hvar drottníng væri, en þeir sögðu hana gengna í höll dóttur sinnar. En er þeir Högni hugðu þángat at vitja, ok þeir voru komnir at þeim skíðgarði, er var í kríng skemmuna, laust á svâ mikilli þoku, at enginn sá annan, ok fundu þeir hvorgi skíðgarðinn nè skemmuna, fetuðu þeir þá hvergi;

[1]) Valdimar Haraldsson bað sèr griða, hann var þà 14 vetra, hvat hann ok fèkk, *b. v. B.*

en um síðir varð svâ mikil móða fyrir hernum, at margir duttu þar ofaní á kaf, ok svömluðu þar svâ innanum þá nótt alla með stórum erfiðismunum; varð þeim torsótt at klyfrast neðan þá hamra, er tveimmegin voru móðunnar; gekk þetta allt til dags. En sem dagaði, sjá menn öngva móðu, ok höfðu þeir verit at klórast neðan skíðgarðinn allt um kríng, þar þeir hugðu hamra vera, duttu svâ þar ofan fyrir, ok gátu eigi atgjört. Ok er þeir sáu slíkt óefni í hafa orðit, bauð Högni at brjóta portin, ok ná hurðinni af hjörunum; en er þat var gjört, gánga þeir Högni í skemmuna, ok er þeir komu þar, sáu þeir öngvan mann, tók þá flesta at stansa af slíku. Lèt Högni þá uppbrjóta allar fèhirðslur, ok taka þaðan gull ok silfr ok dýrlig klæði, fór hann síðan á[1] burt með öllu liði sínu; ok er þeir voru skamt komnir mjök, verðr Högna aptrlitit, ok sèr á múrnum standa konu ófríða ok mjök aldraða ásýndum, ok hjá henni eina jómfrú, svâ fagra ok dægiliga ásýndum, at Högna fèll vel til geðs hennar prýði. Þá mælti Högni til Svals: hvor grunar þik at þessi sè hin fagra, sem þar stendr hjá þeirri ljótu kerlíngu á múrnum? Svalr mælti: þat mun vera dóttir Erlíngs konúngs Íngibjörg, ok fóstra hennar, ok munu um brögð búa við þik, ok vilja oss feiga. Högni mælti: aptr skulum vèr hverfa, ok ná þeirri

[1]) *hèr byrjar B aptr.*

hinni fögru mey. Svalr mælti: eigi má svâ vera, herra! þvíat í nótt fengum vèr hrakníng með stórum erfiðismunum, en nú munum vèr fá dauðann vísan, ef við aptrsnúum. Högni bað þá, at Svalr ráða skyldi. Riðu þeir nú til tjalda, ok skipta öllum sínum herbúðum. Síðan stigu þeir á skip, lètu frá landi, ok sigldu burt af Noregi sínum skipaflota, voru þau 50[1] at tölu með drekanum Skrauta. Sigldu þeir nú beinleiðis hægan byr, allt til þess þeir komu til Svíaveldis.

20. Hins er nú at geta, er áðr var frá horfit, at Sörli konúngsson kom í Svíaríki, tók hann höfn nærri borginni, ok lèt reisa þar sínar herbúðir. Hann hafði í sínu liði margt vaskra manna. Tveir bræðr voru með honum finnskir, hèt annar þeirra Falr, en annar Fróðel; þeir voru báðir vel mentir í kýngikröptum öllum ok forneskju, svâ at, nær þeim sýndist, voru þeir aðra stund í jörðu; en svâ þótti mönnum, sem ör flýgi af hverjum þeirra fíngri, ok fyrir hverri ör maðr til dauða kjörinn. Með Sörla voru þeir þrír bræðr aðrir, sem aldrei höfðu mæðzt nè sigrazt í neinni orrostu; þeir hètu Amundi[2], Austmundr[3] ok Arnljótr gauzki[4]; en er þeir höfðu sínar herbúðir sett, konúngsson ok hans menn, sendir hann 12 menn til hallarinnar, ok var Sverrir formaðr ferðarinn-

[1]) 31, *B.* [2]) Ofiðas hinn norski, Amundi austmaðr; *B.* [3]) Austmaðr, *D*, *v. í B.* [4]) Alljótr gusti, *D*; Ljótr gauzki, *B.*

ar. Ok er sendimenn innkomu í höllina, þar er Sigmundr sat með sínum höfðíngjum, þá mælti Sverrir: Sörli hinn sterki, son konúngsins af Noregi, hefir oss híngat sendt, ok lætr þèr kunngjöra, at hann bíðr þèr sátt ok sæmd fyrir konúnginn Hálfdán, föður þinn, ok þat allt fè er konúngr átti, þarmeð vináttu sína, ok fóstbræðralag, ok alla þá sæmd er hann kann frekast at veita ykkr bræðrum. Ok er Sigmundr heyrði þessi orð ok boð, þá varð hann óðr ok ær, með ákafri grimd ok forsugu hjarta, ok mælti svâ: pakkið yðr skjótt hèðan, ok innið þat þessum níðíngi, er þèr eruð frá sendir, at hann skal höggvinn verða fyrir hund ok hrafn, ok síðan á eldi brennast, bæði hann ok allr hans her. Sverrir mælti: eigi mun Sörli hræðast þessar hótanir. Sigmundr mælti: verið skjótt burt frá augum mínum, þèr leiðu þrælar! ok innið slíkt Sörla, at hann á öngrar vægðar von af oss, ok skal hann fordæmdr fá maklig laun sinna skammarligra hryðjuverka, þau sem fæsta skal eptirlánga. Gekk Sverrir nú burt, ok innir Sörla allt af viðræðu þeirra Sigmundar, svâ sem tilbar, ok kveðr öngra sátta framar von vera meðal þeirra. Eptir þetta svâ talat býr Sörli hinn sterki allan sinn her til orrostu; en þeir Sigmundr ok Þórir sterki þeystu sitt lið allt útaf borginni, ok var nú hitt mesta heróp gjört af hvorutveggjum, með miklum lúðraþyt ok trumbuhljóðum. Ok

er fylkíngar komu saman, hjó Sörli ok lagði hvern, sem fyrir stóð, ok rauf hann fylkíngu Sigmundar mörgum sinnum bæði um þvert ok at endilaungu. En er Sigmundr konúngsson sá þat, hugði hann at rètta við fylkíngararminn, ok reið nú fram ákafliga, mætti þá í hernum þeim bræðrum Fal ok Fróðel, ok sá hann þeir drápu svâ liðit niðr, at undrum gegndi; vildi nú Sigmundr hefna sinna manna, reiddi upp sverðit, ok hjó til Fróðels, en hann brast í jörð niðr við höggit, náði Sigmundr þá til hans í því, ok vildi hann upptoga, kom þá Falr at í þessu, neðan úr jörðunni, á bak til við Sigmund, ok lagði hann neðan í kviðin undir brynjuna, svâ at þat varð hans bani; fèll nú Sigvaldi dauðr niðr, ok fór þar allr hans ofsi. En er Þórir hinn sterki leit þetta, ok sá at eigi mundi tjá at berjast lengr við Sörla, þá flýði hann aptr í borgina, með þat fátt liðs, er eptir var orðit.

21. En er Sörli sá þat, færði hann sínar herbúðir nær borginni, ok gengu nú at með oddi ok egg, at brjóta múrinn, en Þórir ok hans menn báru út á þá af múrnum vellanda bik ok brennistein, svâ at Sörli fèkk þar af mikit mannspèll, lèt hann þá aptr upptaka sínar herbúðir, ok færa þær lengra í burt frá borginni, þángat er fyrst höfðu þær staðit.

22. Nú sem þetta var tíðinda, kemr her-

toginn Astro af Englandi með óflýandi her á mörgum skipum, ok tókst nú af nýju hin snarpasta orrosta með þeim Sörla konúngssyni, fèll þá svâ liðit niðr af hvorutveggjum, sem hrátt hrís, nær þat er í skógi kvistat. Reið nú Sörli hinn sterki fram ákafliga, ok feldi lið á báðar hendr, ok slíkt hitt sama hertoginn Asro aptr í mót, stóð sú orrosta í næstu tvo daga, svâ ósýnt þótti, hvorir sigra mundu.

23. Ok er hinn þriði dagr kom, sáu menn mörg skip af hafinu sigla, ok þángat at landi stefna; þau voru öll velbúin, en þó bar eitt lángt af öllum öðrum, þar þóttust menn kenna drekann Skrauta, ok gátu menn þá til, at þetta mundi (vera) ferð Högna Hálfdánar sonar Brönufóstra. En er Sörli vissi þetta, brá honum svâ nokkut við, ok mælti: nú munu þau umskipti nokkur vera orðin í Noregi, er oss munu enn eigi opinber, því ek kenni hèr drekann Skrauta, ok mun þá enn eigi enduð deila vor á meðal; skulum vèr fyrr falla með hreysti, enn vèr ragir reynumst. Allir hètu konúngssyni hèr um góðu, at honum fylgja skyldu, ok eigi við hann skilja, fyrr enn dauðinn skildi þá; bar nú þessi skip brátt at landi, ok lagði Högni drekanum á góða höfn sem næst borginni, ok svâ gjörðu allir skipstjórnarmenn. Lèt nú Högni atkerum kasta í grunn sæfar, ok eptir þat lèt

hann tjalda sínu gullofnu silkitjaldi, ok gekk þar inn síðan með öllum sínum vildustu mönnum; drukku þeir þar, ok voru glaðir. Nú er þeir sjá þetta, hertoginn Astro ok Þórir sterki, at Högni er við land kominn, ok þeir þektu þat gjörla, at drekinn Skrauti var fyrir landi, þá urðu þeir mjök glaðir við komu hans. Riðu nú til herbúða Högna, ok varð þar mikill fagnaðarfundr meðal þeirra allra; innir nú Þórir Högna allt frá viðskiptum þeirra Sörla ok Sigmundar, bróður hans, ok svâ um boð þau, er Sörli bauð Sigmundi. Högni hlýddi á þetta, ok lagði fátt til. Eptir þat gengu þeir allir með liðit heim til borgarinnar, ok drukku listiliga í þrjá daga hina næstu í höllinni, ok voru glaðir ok kátir.

24. En þá hinn fjórði dagr kom, sendi Högni 12 menn til herbúða Sörla, ok bað hann viðbúinn vera, at mæta sèr, ok hetja enn á nýju orrostu, kvað nú þennan dag enda skyldi verða á þeirra máli. En er Sörli heyrði þetta, kvaðst hann í stað til reiðu vera, ok eigi dvelja skyldi. Fylktu þá þegar hvorutveggju sínu liði, ok varð nú hörð orrosta ok grimmilig; ok með því at flest var manna fallit af liði Sörla, þá hallaðist brátt á hann bardaginn, en fátt var lið hans á fæti eptir. Þórir sterki reið þá þar at, sem fyrir var Karmon, fóstri Sörla, ok veitti honum bana; en er Sörli sá þat, varð hann æfarreiðr, ok hleypti sínum hesti eptir Þóri, ok

hugði hann skyldi bana hljóta, eðr sjálfr sitt líf láta, ok er þat sèr Högni, mælti hann: þat mun nú ráð, Sörli! at við reynum með okkr, þvíat eigi mun seinna betra. Sörli lèzt þess albúinn vera.

25. Reið nú hvorr þeirra svâ hart í móti öðrum, at hestarnir beggja voru nær sem fallnir, ok hjuggu þeir nú sundr hvor annars hest í bógunum, en hvorgi kom sári á annan, þvíat herklæðin hlífðu þeim svâ ágæta vel, ok var þat lengi at þeir hjuggust þannin, ok hvorugan var at áfrýja um vörn ok sókn. Nú sèr Sörli, at eigi muni tjá, at skipta lengr höggum við Högna, snarar hann þá sverðinu lángt frá sèr í burt, ok ræðr þegar á Högna, en hann grípr í mót af öllu afli, ok sviptast þeir nú harðliga, þurfti þá eigi at sóknum at spyrja, hirti þá hvorgi friðar nè griða annan biðja, ok var þeirra atgángr hinn grimmiligasti, svâ at öngvir þóttust slíkar sviptíngar sèð hafa fyrr millum tveggja menskra manna. Nú lítr Sörli einn lækjarfarveg mjök djúpan þar skamt frá sèr, ok hyggr at Högni skuli þar í falla, kippir nú Högna at sèr sem harðfengiligast, er þeir nálguðust skurðinn. En er Högni sèr, hvat hann muni áformat hafa, þá hleypr hann sem harðast í fáng honum, er hann mátti, varð nú meira kastit á Sörla, enn hann átti til von, ok fellr hann þá öfugr á bak aptr, ok hleypr nú Högni á hann ofan,

ok lætr knè fylgja kviði. Þá mælti Högni: fjærri mèr er nú sverðit Sigrljómi, er ek þess helzt viðþarf, ok mun þat þikja illa atunnit, ef ek bít þik á barkann, sem tröll gjöra, ok ef svâ er, sem sagt er, at þú sèrt manna hugaðastr, ok fullhugi kallaðr, þá ligðu hèr nú kyrr, ok bíð mín, á meðan ek tek sverðit! Stóð Högni þá upp, ok gekk þángat, sem sverðit lá, en Sörli lá kyrr sem áðr. Sèr nú Högni þat, at hvergi dignaði hjarta Sörla við þetta, ok mælti hann þá: eigi á ek, Sörli! stórrar svívirðíngar á þèr at hefna, ok kalla ek nærri jafn teflt með okkr, skaltu nú þiggja af mèr líf, ef þú vilt, ok skalt þat mest íríkja, at þú bauðst þrisvar líf föður mínum, en þótt hann eigi þín boð þiggja vildi, ok var þèr þat vorkun á, þótt svâ lenti með ykkr, sem forlögin höfðu fyrirhugat; fór þèr ok allvell í boðum þínum við Sigmund, bróður minn, en þótt hann eigi þekkjast vildi, býð ek því þèr nú hèr á ofan vináttu mína ok fóstbræðralag, ok gef þú mèr svör í móti boðum mínum, hversu þèr líkar þetta. Sörli mælti: enginn mundi mèr slíkt boðit hafa, ok mun mèr sæmd vera í, at þiggja þessi boð af slíkum manni, sem ek hygg þik vera muni; ok eptir þetta lèt Högni hann upp standa. Sættust þeir þá sín á milli heilum sáttum, gengu þeir nú þar til, sem hertoginn Astro ok Þórir sterki voru, ok sætti Högni Sörla hinn sterka við báða þá, svâ at nú líkaði hvorutveggjum

betr enn áðr. Hèr eptir gengu þeir allir saman heim til hallarinnar, ok drukku nú glaðir ok kátir í marga daga hina *næstu*, svâ at öll styrjöld var á burt horfin.

26. Síðan sigldu þeir af Svíþjóð á burt, ok komu til Englands, gaf þeim vel byri, ok komust með heilu ok höldnu þángat hitt fyrsta. Ok er Högni hittir at máli systur sína, drottníngu Marsibil, segir hann henni allt frâ viðskiptum þeirra Sörla hins sterka, ok svâ þat með, at nú eru þeir sáttir, ok fóstbræðr orðnir. En er hún heyrði þat, varð hún svâ full harms ok reiði, at enginn fèkk hana stilta; lèt hún þá, at aldrei mundi hún til friðs verða upp frá þeim degi, fyrr enn Sörli væri af dögum ráðinn, ella hann skyldi í sundr drafna, ok aldrei frið hafa. Sörli heyrði nú þetta, þareð hann sat, ok mælti nú þetta með sjálfum sèr hljótt, svâ enginn heyrði: þat vilda ek nú, at Mána kerlíng, vinkona mín, væri komin at stilla ofsa þinn; ok eptir þat gekk Sörli þángat at, sem drottníng sat, ok lagði höfuð í knè henni, mælti hann þá: svâ er nú komit, drottníng! at hèr máttu fá at líta Sörla hinn sterka er menn kalla, ok gjör nú til við hann, hvat þèr líkar. En sem drottníng sá hann, rènaði henni öll reiði, ok varð með öllu orðfall. Síðan sætti Högni Sörla við drottníngu, systur sína, ok var nú drukkit listugt vín, ok

leikar framdir með kurt ok hæfersku í hina næstu þrjá daga. En at liðinni veizlunni, sigldu þeir burt til Noregs, ok sóttu þángat þær Íngibjörgu ok Steinvöru, konungsdætrnar Erlíngs ok Haralds Valdimarssonar; sigldu síðan af Noregi aptr, ok heim til Svíaríkis með öllu sínu föruneyti; var þá haldin veizla dýrlig, ok at boði gengit. Fèkk Högni þá Íngibjargar, systur Sörla, en Sörli fèkk hans systur aptr í mót, ok er hún eigi nefnd, en Þórir sterki fèkk Steinvarar, dóttur Haralds konúngs Valdimarssonar. Voru þessi brullaup öll haldin í einu, með gleði ok góðum fagnaði, ok allskonar listiligri skemtan, er þá var tíð mönnum í því landi. Ok at endaðri veizlunni, hèlt Sörli aptr heim til Noregs, ok gjörðist þar konúngr yfir, en Högni gjörðist konúngr yfir Svíaríki, ok stýrði því allt til dauðadags; gjörði hann Þóri sterka at jarli þar í ríkinu. Þeir Högni ok Sörli slitu aldrei sína vináttu, meðan þeir lifðu báðir, ok er eigi getit þar um, hvort þeim hafi barna auðit orðit, eðr eigi, eptir sik. Lýkr hèr nú sögunni af Sörla hinum sterka ok hans miklu afreksverkum, með svâ sögðu niðrlagi ok endalykt.

# Sagan af Hjálmtèr ok Ölver.

1. Þessi saga byrjast af einum ágætum konúngi, er Yngi hèt, hann var velbúinn maðr at öllum íþróttum, meiri ok mektugri, vænni ok vitrari, stærri ok sterkari enn hverr annar maðr í veröldinni honum samtíða. Hann lá í hernaði fyrra lut æfi sinnar, ok vann undir sik mörg konúngaríki[1]. Hann átti at ráða fyrir Mannheimum, hvert er var öllum löndum meira ok gagnauðugra. Konúngr átti ágæta drottníng, er Marsibil hèt, hún var dóttir Margaríus[2] konúngs af Sýría[3]; hún var prýdd öllum kvennligum listum? þeim varð sonar auðit, er Hjálmtèr[4] hèt; hann var vænn, stór ok sterkr, ok fimr við allar íþróttir, þegar á únga aldri. Konúngr lèt kenna honum allar mentir, þær sem úngum mönnum var títt at læra. Einn jarl var í ríki konúngs, er Herrauðr hèt, hann kunni allar listir, sem þá voru tíðar, klókskap ok vitrleika hafði hann yfir hvern mann. Hann var hinn æðsti vin konúngs.

---

[1]) ok voru honum skattgildir, *b. v. C.* [2]) Margatus, *C.* [3]) Syrie, *C.* [4]) Hjálmtjer, *C*; Hjálmþjèr, *P.*

Hann átti einn son, úngan ok vænan, er Ölver hèt; jarl kendi honum allar íþróttir; hann hafði 30 leiksveina, ok reið á skóg dagliga, at skjóta dýr ok fugla; liðu svâ tímar, at Ölvir var 15 vetra, var hann þá mannastærstr ok sterkastr, ok bar af hverjum manni tafl, sund ok í turniment at ríða. Þat var eitt sumar at Yngi konúngr lèt búa veizlu með allri makt, er fá kunni; þángat var boðit jarlinum ok syni hans ok mörgu stórmenni, ok var veizla hin bezta. Þat var einn dag, er konúngr ok jarl sátu undir borðum, ok voru glaðir, þá mælti konúngr: þat vil ek, jarl[1]! at þú takir við syni mínum til fóstrs. Jarl bað hann ráða. En at liðinni veizlunni gaf konúngr þeim feðgum góðar gjafir; fór Hjálmtèr nú með jarli, ok nam allar þær listir, sem Herrauðr kunni. Þat var sagt, at kært væri með þeim Hjálmtèr ok Ölver, en jarl skipaði honum at þèna Hjálmtèr í öllu, ok vægja fyrir honum, ok svâ gjörði Ölver.

2. En er 3 vetr voru liðnir, sendir konúngr eptir syni sínum. Hjálmtèr gekk fyrir jarl, ok mælti: þess vil ek biðja þik, at þú látir Ölver fara með mèr. Jarl bað Ölver því ráða. Þeir gjörðu nú svâ. Jarl var sjálfr í ferðinni með þeim. Konúngr hafði veizlu búna, hann tók við jarli ok syni sínum með allri vegsemd; en á þriðja degi veizlunnar var útboðin turniment á völlu, þá sem nær láu borg-

[1]) fóstbróðir, C.

inni; þar var margt hoffólk samankomit. Hjálmtèr reið fram á milli þeirra, leggjandi sinni staung til beggja handa, kastandi mörgum riddara til jarðar[1], ok var enginn svâ röskr eða ríkilátr, mikill eða mektugr, at honum þyrði í móti at ríða. Ölver sèr þetta, ok hafði hann áðr margan riddara af sínum hesti felt, ríðr hann sem snarligast at Hjálmtèr, ok hvorr á móti öðrum, ok mátti þar sjá væna atreið, á flugskjótum hestum; leggja þeir nú hvorr í annars skjöld með miklu afli, gekk svâ lengi, þar til at Hjálmtèr reiddist, ok keyrir nú hestinn[2] sporum, ok ríðr at Ölver, leggjandi sinni staung mitt í skjöldinn; en Ölver sat svâ fast, at sundr gekk hryggr hestsins, en Ölver kom standandi niðr; fóru síðan heim til borgar, ok voru allir kátir. En er Herrauðr jarl býst heim, gekk hann at Hjalmtèr ok Ölver, syni sínum, ok kvað, at eitt mundi yfir þá ganga: vil ek at þið sverìzt í fóstbræðralag, svâ at ykkar vinfengi haldist. Hjálmtèr kveðst þat vilja, síðan gjörðu þeir svâ; fór jarl nú heim. Eptir þat lèt Hjalmtèr afla at smíðum, gjörði hann sèr einn kastala út í skógi, ok sem hann var gjörr, fór hann þángat með hunðrat riddara. Hann bað þess sína menn, at þeir skyldi læsa kastalann[3], þá hann sæti inni. Litlu síðar tók drottníng sótt, ok andaðist; var haugr gjörr, ok hún í

[1]) farandi sem björn í sauðaduni, *b. v. C.* [2]) ersit, *C.* [3]) kastalanum, *C.*

sett; þetta var konúnginum mikill harmr ok öllum öðrum. Hjálmtèr lèt þá veizlu gjöra eptir móður sína, en eptir erfit gaf hann öllum góðar gjafir. Var hann optast í ríkinu, en reið á skóg, at skemta sèr. Konúngr lèt setja stól á haug drottníngar, sat hann þar nætr ok daga, sorg ok harm berandi fyrir drottníngar missir. Þat bar til einn dag, sem sólin var fagrliga skínandi, en konúngr hugsar marga luti með miklum harmi, sèr hann son sinn gángandi með mörgum öðrum hofflýð, fagrliga prýddum. Hjálmtèr gekk fyrir föður sinn, ok heilsar honum blíðliga, ok mælti: skulu þèr hèr lengi sitja eðr þreyja eptir yðar drottníngu; er slíkt ókonúngliga gjört, vil ek heldr halda í burt af ríkinu, með yðar styrk, ok fá yðr drottníngarefni, ok sækja með oddi ok eggjum, ef eigi vill öðruvísi fást. Konúngr svaraði aungvu. Hjálmtèr stóð lengi fyrir föður sínum, ok gekk í burt síðan, mjök reiðr.

3. Liðu nú lángir tímar, þar til at þat bar til einn dag snemma í björtu sólskini, at konúnginum varð litit til sjóarins. Hann sèr einn lítinn bát bruna at landi, hann var sem gull álits. Konúngr íhugar mjök þessa sýn; tveir menn voru á skipinu. Konúngr reikr ofan til strandar með mikilli sturlan ok áhyggju, hugsandi, hversu veröldin mætti brigðul vera. Hann sá mann einn gánga, hann bar konu

eina á hendi sèr forkunnar væna, svå at konúngr þóttist aungva slíka sèð hafa at allri kurteisi ok skörugleik, ok rann honum þegar mikill ástarhugr til hennar, ok heilsar henni. Hún tók kveðju hans. Konúngr frètti hana at nafni, ok at tíðindum. Ek heiti Lúða, segir hún, en nóg eru yðr tíðindi at segja, herra! Lúcartus[1], minn eiginn konúngr, er rèð fyrir borginni Bóósía[2], var helsleginn í sínu eigin ríki af konúnginum af Serklandi, sem Núdus[3] heitir, hann er hverjum manni meiri ok sterkari ok at allri atgjörfi umfram hvern mann í þeirri álfu heimsins. Hann hefir með sèr allra handa lýð, Blámenn ok tröll ok berserki ok risa[4] ok dverga ok annat fýtonsandafólk; því mætti enginn menskr maðr í móti honum standa ok hans arma lýð, drápu þeir konúnginn, en tóku borgina í sitt vald, en vildu hafa nauðgat mèr til eiginorðs við sik, en ek vildi eigi. Næstu nótt eptirfarandi komst ek leyniliga í burt úr minni skemmu, ok þræl sá er hèr stendr, voru við til sjóar gángandi, ok híngat í yðar ríki flýjandi, ok er ek nu komin á yðar náð[5], þó með því móti, at ek vil yðar eiginkona vera, en eigi frilla. Konúngr segir: hèr hefir mjök lukkuliga at borizt, því mín drottníng deyði fyrir skömmu, ok munum við gjöra þetta at góðu ráði, ok

[1]) Lúcratus *C*, *P*. [2]) Bóecía, *C*. [3]) Rúdus, *P*. [4]) *v. í P.*
[5]) ok vald, *b. v. C.*

gaungum heim til hallar. Hún játar þessu. Gánga þau nú heim, ok var við brúðkaupi búizt, ok gekk þat fram með heiðri. Ekki var Hjálmtèr at veizlunni. Þótti mörgum í ríkinu frúin stórlynd ok ráðgjörn. Leið eigi lángt, áðr enn maðr hvarf hverja nátt, ok þótti þetta mörgum kynligt. Þræl þann, sem drottníng hafði þángat flutt, lèt hún geyma svín, hann var stór ok sterkr sem tröll. ok fríðr sýnum; leið nú svâ fram í ríkinu lánga tíma.

4. Þat var einn dag, er konúngr spásèrar úti, at Hjálmtèr, son hans, kom til móts við hann með sínum sveinum, ok heilsar föður sínum. Konúngr tók vel kveðju hans. Hjálmtèr mælti: til þess er ek hèr kominn, herra! at ek vil, þèr fáið mèr 5 skip með vopnum ok mönnum til bardaga vel búna, vil ek úr landi fara, at afla mèr fjár ok frægðar, ok vil ek, þetta sè allt búit innan mánaðar. Þetta vil ek gjarnan gjöra, minn kæri son! segir konúngrinn. Var nú þíng stefnt, ok þángat boðit múg ok margmenni. Bað konúngr nú son sinn at velja sèr svâ marga menn, sem hann vildi hafa, ok svâ skip ok fè. Hjálmtèr gjörir nú svâ, ok velr fimm hundruð liðs, allt úngt fólk. Ok sem þetta var sýslat, stígr Hjálmtèr á skip, ok Ölver, með öllum sínum mönnum, ok sigla í haf, ok verðr þeim gott til fjár, því þeir brytja niðr Blámenn ok berserki, en láta friðmenn alla í náðum. Síð um haustit koma þeir við ey eina, ok lendtu

í einum leynivog, þat var síð um kveld, þar var skógi vaxit ok hömrum[1]. Þeir gengu á land, Hjálmtèr ok Ölver, ok upp í mörkina á eina hæð; þar sáu þeir skipaflota mikinn öðrumegin undir eyjunni, ok dreka einn mjök stórann ok vænan, ok þarmeð 15 lángskip, ok eitt tjald var mikit á landi, ok rauk þar mjök. Hjálmtèr mælti: hverir munu þessir vera, sem sik halda svâ ríkugliga, ok vil ek fara ok finna þá, ok vita hverir eru. Gjör svâ! segir Ölver. Þeir hlóðu sik nú næfrum, ok tóku sèr lurka í hendr, ok stumruðu fram at tjöldunum. Þar var reykr mikill; þeir settust í dyrnar. Þeir báðu þá úr dyrunum gánga, sem inni voru. Hinir sögðust þat eigi mega fyrir kulda sakir: en hvat heitir höfðíngi, er fyrir þessum skipastól ræðr? Þið spyrizt heimskuliga, segja hinir, eðr hafið þèr svâ í fjarska fæddir verit, at þèr hafið aungva fregn haft af okkar ágætum húsbónda, hann heitir Kollr, en hans bróðir Tóki; þeir eru mestir ágætismenn at öllu[2], þeir hafa legit í víkíngu, síðan þeir voru 12 vetra, bæði vetr ok sumar; allar skepnur eru við þá hræddar; bæði konúnga ok jarla hafa þeir undir sik lagt með herskildi, ok þeirra ríki; en nú skildu þeir í sumar, hèlt Tóki til Englands, en höfðínginn Kollr er nú hèr kominn; höfum vèr nú verit í hálfan mánuð í þessarri höfn. Vel hafi þið skemt, segja þeir. Síðan

[1]) bygt, *b. v. C.* [2]) atgjörfi, *b. v. C.*

gengu þeir aptr til skipa sinna, ok segja sínum mönnum allt, hvat þeir höfðu fregnat; skulum vèr, segir Hjálmtèr, viðbúníng veita í nótt, ok bera fjárhlut vorn á land, en grjót á skip, ok veita víkíngum röskligan atróðr á morgun; þeir gjöra nú svâ. En er morgnaði, ok sól rann upp[1], róa þeir at skipunum, ok gjöra harða grjóthríð á skip víkínga, ok vakna þeir við vondan draum. Þeir fóstbræðr höfðu unnit 5 skip af víkíngum, áðr en þeir voru herklæddir. Kollr spyrr, hverr svâ ófæliliga færi at þeim: skulu þèr hèr at vísu viðnám fá. Hjálmtèr segir til sín. Tókst nú hörð orrosta, hafði Kollr harðsnúit lið ok margt, gánga hvorutveggju vel fram, ok fellr margt lið af báðum, en þó fleira af liði Kolls, því þeir fóstbræðr kvistuðu þá niðr sem hráviði, en þó leið eigi lángt, áðr enn þeir Hjálmtèr ok Ölver höfðu mist sín fjögur skip, ok fólkit með; höfðu þeir þá ok drepit hvert mannsbarn á skipum Kolls, utan þat sem flýði til hans á drekann. Þá mælti Ölver: bezt er okkr, stallbróðir! at prófa, hvort við komustum ekki á drekann til Kolls. Þat skal vera, segir Hjálmtèr; þeir gjöra svâ, ok komast á drekann, ok svâ hvorr at öðrum; tókst nú enn at nýju harðr bardagi; fellr nu hvorr um annan, þar til þeir finnast Hjálmtèr ok Kollr, ok höggr þegar hvorr til annars með bitrligum sverðum, þar til at höggnar eru

[1]) *á viðu*, C.

hlífar af hvorutveggjum. Hjálmtèr hugsar nú með sèr, at svâ búit má eigi lengr standa, reiðir upp sverðit, ok höggr á hálsinn, svâ aftók höfuðit. Síðan bauð hann þeim, sem eptir lifðu, at vinna sèr trúnaðareiða; þeir játuðu því. Þar fengu þeir mikit fè í gulli ok gersimum; hèldu síðan heim til Mannheima í ríki feðra sinna, ok sátu í kastalanum um vetrinn.

5. At vordögum hèldu þeir í hernað, ok höfðu 10 skip ok drekann Kollsnaut. Þeir herjuðu víða um sumarit, ok varð lítit til fjár. En er þeir fóru heimleiðis, láu þeir eitt kveld í einum leynivog; þeir sáu sigla inn á voginn dreka einn stóran ok með honum 30 skip. Þeir lögðu inn á voginn[1] heldr gildliga, ok kasta akkerum. Maðr stóð við siglu á drekanum, stór ok illr yfirlits, ok kvað vísu:

Hverir eru skálkar,
er skipum ráða,
heldr harðsnúnir,
happalausir?
Vèr skulum lýði
lífi ræna,
ok með oss öllum
auði skipta.

Hjálmtèr heyrði, ok kvað:

Hjálmtèr heiti ek,
hverr spyrr at því,
seggr hinn svartleiti

[1]) lægit, C.

á sædýri?
Drepa skulum drengi,
en dýrgripi eignast,
fúll fallsari,
ella flý í burtu.

Tóki svarar: ertu sá Hjálmtèr, sem drapst bróður minn Koll í fyrra sumar? Sá er maðrinn sami, segir Hjálmtèr. Þat er vel við höfum fundizt, segir Tóki. Ekki lasta ek þat, þú lofar svâ mjök, segir Hjálmtèr. Grið skulu standa til morguns, segir Tóki. Svâ skal vera, segir Hjálmtèr, þeir taka nú á sik náðir. En er vígljóst var, tóku þeir til bardaga með skotum ok grjóti, en þegar því linti, tóku þeir til vopna, ok börðust drengiliga; skorti þar eigi stórhögg, sem hvorir veittu öðrum, þóttust þeir fóstbræðr aungva kappa hafa slíka fyrri fundit, sem þessir voru, fèll nú hvorr um annan; börðust þeir þann dag til kvelds, ok var friðskildi uppi haldit; voru 3 skip eptir af skipum þeirra fóstbræðra, en 4 skip Tóka; leið svâ nóttin. En at komanda morgni taka þeir til bardaga; gekk Tóki röskliga fram, ok vo til beggja handa; hann hafði stóran arngeir ok sterkan í hendi, drap hann á lítilli stundu 30 menn. Þetta sèr Ölver, ok hleypr á drekann með mikilli grimd, ok ruddist fast um, ok drepr hvorn um þveran annan, þar til hann mætir Tóka, ok höggr til hans í skjöldinn, ok klýfr hann niðr í gegnum. Tóki spennir tveim höndum arngeirinn, ok

leggr í gegnum skjöld Ölvers, ok svâ í gegnum báða handleggina, ok kastar honum í lopt upp, ok fleygir honum niðr á þiljurnar, svâ hann lá í óviti. I því kemr Hjálmtèr at, ok höggr á höndina Tóka, svâ af tók, ok datt arngeirinn[1] niðr. Víkr Tóki nú undan, ok steypir sèr fyrir borð í sjóinn. Hjálmtèr hleypr eptir honum, syndir Tóki undan hart ok röskliga, en Hjálmtèr eptir, þar til at Tóki mæddist; dró þá saman með þeim, rèð Hjálmtèr þegar á hann, ok komu nú í með þeim harðar sviptíngar ok laung köf, því hvorr færði annan til grunna, þar til at Tóka mæddi blóðrás, og gekk Hjálmtèr af honum dauðum; kom síðan aptr til skipa sinna, fögnuðu hans menn honum vel, ok þóttust hann úr helju heimtan hafa. Bindr Hjálmtèr nú sár Ölvers. Þeir fengu þar mikit góts í fásènum gripum, gulli ok gæðum ok gersimum. Innan fárra daga halda þeir heimleiðis, stýrði Hjálmtèr drekanum Kollsnaut, en Ölver Tókanaut, ok sátu í kastalanum um vetrinn.

6. At sumri komanda halda þeir í hernað, ok herja víða, ok verðr gott til fjár. En er áleið sumarit, koma þeir at einu landi, þar sáu þeir vænar borgir ok fagra kastala ok konúngs atsetu. Konúngr sendi nú menn ofan til strandar, ok býðr þeim heim til veizlu; þeir játa því. Komu sendimenn aptr, ok segja konúngi; var þá viðbuizt með öllum kosti. Konúngr átti

[1]) atgeirinn, C.

sèr eina dóttur, er Díana hèt, hún kunni allar bókligar listir. En at ákveðnum tíma gengu þeir fóstbræðr heim til hallar með 2 hundruð manns, en sumir voru eptir við skip. Konúngr gekk á móti þeim með fríðri fylgð, ok fylgir þeim til hallar; settist konúngr í hásæti, en Hjálmtèr ok Ölver útífrá; var veizla hin bezta, ok menn kátir. En er leið at kveldi, gengu menn til svefns, ok sváfu af um nóttina. En at morgni gengu menn til drykkju, var konúngr hinn glaðasti, ok allir í höllinni[1]. Nú sendir konúngr eptir dóttur sinni, ok kemr hún með sínum kvennaskara; leikarar slóu hörpur, gýgjur, simfón, salteríum ok allrahanda hljóðfæri; er þá mikill prís ok gleði í höllinni. Júngfrúin gekk nú fyrir sinn föður, ok heilsar honum, ok öllum öðrum útífrá; júngfrúin var glöð við alla. Hjálmtèr ok Ölver sögðu konúngi margt frá ferðum sínum, ok lofaði hann mjök þeirra frækleik. Þau töluðust margt[2] við, Hjálmtèr ok jungfrú Díana, gekk svâ þessi dagr til kvelds. Hinn þriðja dag var hin sæmiligasta veizla með margskonar skemtan. Síðan voru borð upptekin, gekk konúngr út, ok spásèrar, en Hjálmtèr ok Ölver til skemmu konúngsdóttur. Hún tók þeim blíðliga, ok býðr Hjálmtèr at tefla; og svâ gjöra þau; en Ölver skemti sèr við skemmumeyjarnar; þær

1) sýngandi cantílenur ok fögur kvæði, *b. v, C.* 2) margar kátýnur, *C.*

voru 30; þángat gengu þeir hvern dag; líðr svâ [nokkurn tíma[1]. Þat var einn blíðan veðrdag, at sólin var skínandi um borgir ok kastala, sáu þeir at fjöldi skipa hèldu at landi, ok lögðu til hafnar, ok báru tjöld á land, ok reisa sínar herbúðir. Þeir sáu nú hundrat manns frá ströndu gánga, ok þángat sem konúngr var; þeir Hjálmtèr ok Ölver voru nær konúnginum. Þessir menn gengu fyrir konúnginn, ok talar einn af þeim svâ: konúngsson af hinu mikla Serklandi, er Núdus[2] heitir, sendir yðr, herra! sína kveðju; honum er sagt at þèr eigið væna dóttur, hann vill fá hennar með heiðr ok æru, en ef þèr villið ekki gipta honum júngfrúna, býðr hann yðr til bardaga, at þriggja nátta fresti. Væntir mik at þèr missið þá með lítinn heiðr yðar dóttur ok ríki ok lífit með; er yðr eigi ráð at hætta til þess, ok látið hann heldr fá sinn vilja. Konúngr svarar: seg þat aptr þínum herra, at ek gipti honum ekki dóttur mína, skal ek koma með þann her, er ek fæ til, á þessa völlu at ákveðnum degi. Gengu sendimenn í burt, ok sögðu konúngssyni, hvar komit var. Lætr konúngr nú skera upp herör um allt sitt ríki, ok býðr til sín múg ok margmenni; kom þar ógrynni hers, var viðbúníngr (veittr) af hvorutveggjum.

7. At ákveðnum tíma fylkja hvorutveggju

[1]) margir dagar, C. [2]) Rúdus, P.

liði sínu til orrostu, ok þar eptir voru lúðrar þeyttir, ok síga saman fylkíngar með ópi ok eggjan; flugu fyrst allskonar skotvopn svâ hart, at þar af varð gnýr mikill; særðust sumir, en sumir fengu bana. Eptir þat biðr konúngr Hjálmtèr ok Ölver at slá upp heróp, ok geisast svâ á þá með höggorrostu. Þeir fóstbræðr voru á sínum hestum ok með þeim mikil riddarasveit, báðir þeir höfðu bitrlig spjót sèr í hendi, ok slá upp heróp, ok hlaupa svâ fram á þá. Tókst orrosta hin snarpasta, ok svâ hart gánga þeir fram, Hjálmtèr ok Ölver ok þeirra menn, at fylkíng konúngssonar bognar fyrir, ok fèll í þeirri svipan margt manna af konúngssyni, sèr hann at hans fylkíngar eru á bak gengnar, en lið hans margt fallit; fylltist hann mikillrar reiði, ok kallar á sína menn, berserki ok Blámenn, ok biðr þá í móti snúa konúnginum ok hans arma lýð, biðr þá eigi hræðast. Þeir gjöra svâ, ok gánga fast fram, með ópi mikla ok illum látum; kemr á þá berserksgángr, höggva ok leggja, berja ok bíta[1] konúngsins hirð til beggja handa, ok gánga í gegnum fylkíngar, flýr margt undan þeim af konúngsmönnum fyrir hræðslu sakir. Þetta líta þeir Hjálmtèr ok Ölver, at konúngsmenn flýja, en sumir eru drepnir. Þeir snúa mót þessu illþýði, ok var þar mikill atgángr; en

[1]) beysta, C.

svâ lýkr, at þeir drepa alla Blámenn ok berserki konúngssonar, en rètta aptr fylkíngararminn. Þetta sèr Núdus konúngsson, at hans hetjur eru fallnar í strá niðr, ok atferð þeirra Hjálmtèrs ok Ölvers, ok hugsar at hann muni þar koma í fulla raun, en þó treystir hann vel sínu afli ok hamíngju, því gjörir hann at keyra hest sinn með sporum, ok ríðr mót Hjálmtèr; ok sem hann sèr, hversu þessi ríkiláti konúngsson ríðr sem fugl fljúgi, þikkist hann skilja, at hann vill á hans fund, því býr hann sik hraðliga á móti honum, ok skekr sitt spjót grimmliga, ok keyrir hestinn sporum, ok ríðr móti konúngssyni, ok lagði hvorr í annars skjöld. En svâ sátu þeir fast, at hvorgi bifaðist í sínum söðli, en báðar stengrnar brotnuðu, ok flugu brotin aptr fyrir höfuð þeim. Þeir taka nú til sverða sinna, ok höggva nú hvorr til annars með miklu afli ok fimleika; en sökum þeirra ógrligu bresta, sem urðu af þeirra höggum, æddust hestarnir undir þeim, svâ þeir máttu eigi höggum viðkoma; stigu af sínum hestum, ok fengu sínum skjaldsveinum, ok gengu saman, ok börðust svâ ákafliga, at við himin var at sjá lauf af hjálmum þeirra, ok partar af skjöldum þeirra, en sverðin sýndust fjögur a lopti. Enginn þóttist sèð hafa fræki-

ligra einvígi[1] af tveimr mönnum; ok svâ lengi börðust þeir, at öllum þótti undr, at þeir voru eigi sprúngnir fyrir laungu af mæði. Hjálmtèr leiddist, at svâ stæði lengr, at engin umskipti yrði þeirra í milli, því reiddi hann sverðit með miklu afli ok reiði; en sakir þess at skjöldrinn var allr höggvinn á konúngssyni, fèkk hann eigi hlífum við komit; kemr því höggit í hjálminn, svâ hann klofnaði, ok brynjan ok búkrinn, svâ at í beltisstað nam; fèll Núdus dauðr til jarðar. Lofuðu allir Hjálmtèr fyrir þau afreksverk, sem hann hafði þar unnit í sinni framgaungu, mest konúngr sjálfr. Nú flýr allr herinn til skipa, ok sigldu í burtu, en konúngr ok hans menn fengu þar góts mikit. Síðan snýr allr lýðr heim til hallar, ok var mjök kátr; var veizla hin bezta, ok ekki sparat, hvat sem búkrinn kunni at beiða. Gekk Hjálmtèr ok Ölver til skemmu konúngsdóttur; hún tók þeim blíðliga, ok bað þá sitja. Hjálmtèr sagðist vilja halda heim. Hún gengr í burt, ok kemr aptr, ok mælti: hèr er eitt tjald, Hjálmtèr! er ek vil gefa þèr; sú náttúra fylgir því, at þèr má ekkert granda, á meðan þú ert í tjaldinu, þat er allt með gulli gjört ok gimsteinum sett. Hann þakkaði júngfrúnni, ok myntist við hana, hún grèt sárliga. Gekk Hjálmtèr til skipa, ok var konúngr þar fyrir; gaf hann þeim fóstbræðrum

[1]) nè afbragðsligra, *b. v. C.*

góðar gjafir, ok mæltu til vináttu með sèr, ok skildust með kærleik, ok stigu síðan á skip, ok hèldu heim, ok sátu í kastala sínum um vetrinn. Ekki hafði Hjálmtèr sèð enn stjúpmóður sína.

8. Þat var einn morgun, er konúngr ok drottníng láu í sæng sinni, hún mælti: herra! segir hún, áttu aungvan erfíngja? á ek hann, segir konúngr, ok heldr einn kastala á skógi. Því skal hann eigi heima vera? segir drottníng. Ekki vill hann í vorri höll drekka, segir konúngr, en þó berr hann listir ok prýði af öllum mönnum. Sjá verð ek hann, segir drottníng; þau hættu talinu. Þat bar til einn dag, at frúin skipaði öllum sínum meyjum út á skóg, at henta sèr epli ok aldin; þær gjörðu svâ. En drottníng fór einsömul til skógar, eigi fyrr lèttandi, enn hún kom at kastalanum, ok gekk inn at læstum lokum. Hjálmtèr sat at borðum ok hans hofflýðr, hann sá konuna inngánga, ok þóttist kenna at annarra manna frásögn stjúpmóður sína[1], ok heilsar henni blíðliga, ok setr hana í knè sèr. Hún tók því vel, lítandi til hans með blíðri ásjónu, ok svâ til hans talandi: minn sæti son! hvat veldr því, at þú vilt eigi heima vera með þínum föður? er þar þó skemtiligra at sitja enn hèr fjærri öðrum mönnum. Hjálmtèr mælti: meir berr þartil æska minn enn illvili. Hún mælti:

[1]) hann sprang þegar fram yfir borðit. *b. v. C.*

mikit er sagt af þinni list ok prýði, ok vel væri sú kona gipt, er slíkan ætti. Hann kvað þat eigi vera. En er þau töluðust við, gingu allir úr kastalanum, einneigin Ölver þó síðast. Drottníng mælti þá: hvernin lýst þèr á mik, er ek ekki hreinlig[1], kvennlig ok kurteis? Vel víst, segir Hjálmtèr. Hún mælti: hví mun mèr svâ hamíngjuhjólit valt orðit hafa? betr hefði okkr saman verit hent, úngum ok til allrar náttúru skapfeldligum, ok, minn kæri! þat má ek þèr satt segja, at þinn faðir hefir mèr ekki enn spilt, því hann er maðr örvasa ok náttúrulaus[2] til allra hvílubragða, en ek hefi mjök breyskt líf, ok mikla nattúru í mínum kvennligum limum, ok er þat mikit tjón veröldinni, at svâ lystugr líkami skal spenna svâ gamlan mann, sem þinn faðir er, ok mega eigi blómgast heiminum til upphalds, mættu við heldr okkar úngu líkami saman tempra, eptir náttúrligri holdsins girnd, svâ þar mætti fagrligr ávöxtr útaf frjóðgast, en við mættum skjótt gjöra ráð fyrir þeim gamla karli, svâ hann gjöri oss aungva skapraun. Hjálmtèr mælti: er þèr þetta alvara? segir hann. At vísu, segir hún. Þat ætlaði ek, segir hann, at þú mundir ill, en aldri svâ svívirðilig, sem nú veit ek þú ert. Hann hratt henni fram fyrir borðit, ok sló á hennar nasir, svâ blóð fèll um hana alla. Hún mælti: við skulum finnast í annat sinn. Hann

[1]) *v. í C.* [2]) ok sèrliga sindaufr, *b. v. C.*

kvað hana því eigi fagna skyldu; sökk hún þar niðr í jörðina, sem hún var komin. Litlu síðar komu menn í kastalann. Hjálmtèr var þá svâ reiðr, at hann mátti við aungvan mæla. Ölver gekk þá at honum, ok bað hann eigi reiðan vera, hefir stjúpa þín þessu ollat. Hjálmtèr segir þat satt vera.

9. Einn dag vill Hjálmtèr ríða á skóg, ok Ölver með honum, en sem þeir riðu um skóginn, sáu þeir hind eina stóra ok væna, ok ríða þar eptir, en hún leitar undan; þeir hleypa þar til þeir sprengja bæði essin. Þá hlaupa þeir báðir eptir dýrinu, ok urðu skjótt móðir, ok kasta af sèr klæðum, nema skyrtum ok línbrókum. Síðan dró upp skýflóka mikinn af útnorðri með regni ok krapa; gekk þat allt til nætr, gjörði þá frost mikit með kulda ok hríð, voru þeir þá komnir í fjallshlíð eina. Ölver mælti: kalt þikki mer gjörast, fóstbróðir! Hjálmtèr bað hann eigi æðru mæla, var þá lángt af nótt. Litlu síðar varp af illviðrinu, voru þeir þá komnir at helli stórum. Ölver mælti: mjök er ek af mèr kominn. Hjálmtèr segir: hèr munum við láta fyrirberast. Þeir gengu inn undir hellisbergit, þeir sáu einn stóran jötun sitja við elds glór; reykr var mikill í hellinum; eitt kvikindi sat við eldinn, ok kló jötninum með kömbum[1], en hann ýtir höfðinu á móti, ok skældi sik allan, hann mælti: Skinnhúfa! far þú út, ok gæt glöggliga at, ok gengðu ræðu

[1]) ulfarkömbum. C.

minni, ok vit, hvort þú sèr til nokkra nýlenda, þikki mèr þeir menn seint koma, sem systir mín lofaði mèr, at koma skyldu í kveld, því ek vil skjótt fara til náða, gjörist ek heldr kveldsvæfr. Hún fór út, ok sá þá fóstbræðr, hún brá yfir þá hendi sinni, ok bað þá verða at hönum[1] tveim, ok fljúga upp í hellirinn. Litlu síðar fór hún inn. Jötuninn mælti: sástu nokkut til nýlenda, fóstra? segir hann. Fjærri er því, segir hún[2]. Síðan leggst hann niðr, ok hrýtr hátt. Skinnhúfa mælti við hanana: verði þið nú at mönnum aptr; þá varð þat. Hjálmtèr mælti: þèr eigum vèr lífgjöf at þakka ok launa. Hvat viltu nú athafast? segir hún; drepa jötuninn, segir hann, ok lúka svâ stjúpmóður minni sendiförina, þá sem hún hefir sendt okkr híngat til hans. Hraustr maðr ertu, Hjálmtèr! segir hún. Þau fara nú innar í hellirinn. Sverð hèkk yfir sæng jötunsins, búit allt með gulli. Hún mælti: ekkert sverð bítr á hann, nema þetta. Hjálmtèr gat náð undir klótit á því, ok rann þat þegar úr sliðrum, en Skinnhúfa henti þat, ok mælti: heppin varð ek oss, en ek mun vita, hvort hann sefr. Hún tók trè mikit, ok lamdi um sængina, hún mælti: þat vil ek, Hjálmtèr! at þú stigir uppá stokkinn, ok leggir djarfliga á hann, ok stökk síðan upp yfir sængina. Hjálmtèr gjörir svâ, ok leggr til jötunsins, ok

1) haukum, *C.* 2) Svík þú mik eigi, segir hann; svâ mun ek gjöra, segir hún, *b. v. C.*

hleypr á klótinn, svâ at í beðinu stóð. Jötuninn mælti; sveikstu mik nú, Skinnhúfa? sprettr hann upp úr sænginni, ok lætr nú sópa til greipurnar um hellirinn; litlu síðar dó hann. Hjálmtèr tók sverðit, ok leizt vel á. Skinnhúfa mælti: ekki skaltu eiga þetta sverð, Ölver skal þat eiga, en láttu þá eigi lítit í standa, ef þú sèr betra sverð, því svâ berr þat af öðrum sverðum, sem þú af öðrum konúngasonum. Hún gaf þeim marga fásèna gripi, ok bað þá nefna sik, ef þeir þyrfti lítils liðsinnis við. Síðan fóru þeir heim, ok urðu allir þeim fegnir.

10. Um vorit halda þeir í hernað, ok drepa niðr Blamenn ok berserki, ok fá mikit góts í skipum, klæðum, gulli ok silfri; en at hausti halda þeir heimleiðis [með ógn fjár[1]; þeir komu at ey einni síð um kveld, hún var skógi vaxin; þeir tjalda þar á landi, ok hlutuðust um vöku; hlaut Hjálmtèr at vaka. En er þeir voru sofnaðir, gekk hann frá tjaldinu á hæð eina, ok stóð hann þar lengi, ok sást um. Hann heyrði mikin gný með stórum brestum í skóginum, svâ at eikrnar bifuðust. Litlu síðar kom fram úr mörk eitt fingálp[2] mikit ok gildligt, þat hafði hrossrófu, hófa ok fax mikit, augun voru hvít, en munnrinn mikill, ok hendr stórar; brand hafði hún í hendi sèr vænan, svâ aungvan hafði hann slíkan sèð. Hún gekk at honum, en hann stóð

[1]) *v. í C.* [2]) fingálkn, *C.*

fyrir, hann hugsar, at sèr skuli eigi orðfall verða, ok kvað vísu:

Hvor er sú dóttir,
er drjúgt um nætr
flöktir ok flanar
með fíls hala?
ólík þikkir mèr þú
öðrum vífum,
eðr hvaðan kom
hundvís mær?

Hún svarar, ok kvað vísu:

Vargeysa ek heiti,
heyr þú, hilmis[1] son!
viltu, at sjálf ek
þèr í sinni sè?
allra þinna
tel ek þik þurfa mun
vil ok týra
trúrra vina.

Hann kvað:

Hræðilig muntu þikja
hölda mengi[2],
þó þú oss [sèrt
í sinni frá þessu[3];
aungvan vorn seggja
þú þó[4] svíkja munt
vösk[5] vinkona
[vor hin harðleita[6].

---

[1]) vísirs, *C.* [2]) liði, *C.* [3]) í sinni sitir, *C.* [4]) *v. í C.*
[5]) *þannig B, C*; rösk, *P*; völsk, *A.* [6]) munt harðleit, *C.*

Hún mælti: eigi mun ek heldr svíkja mína vini, enn þú þína, má ek ok vera þèr í sinni, þó ek fari ekki með þèr. Hann mælti: áttu brand þann, er þú ferr með? At vísu, segir hún. Viltu selja mèr hann? segir hann. Með aungvu móti, segir hún. Skal ek með aungvu móti fá hann? segir Hjálmtèr. Ekki skal þat þó, karlmaðr! segir hún: þú skalt kyssa mik, segir hún; ok varð henni ljóð at munni:

Sæk þú Snarvendil,
sigr mun honum fylgja,
hoskr, ef þú, hilmir! vilt
þèr í hendi bera;
koss vil ek af þèr
klènan þiggja,
þá muntu mimmúng
mèr úr hendi fá.

Eigi vil ek kyssa trjónu þína, segir Hjálmtèr, því kannske ek verði fastr við þik. Hætta verðr þú á þat, segir hún, en ráð þó sjálfr; hann snýr í burt frá henni. Nú kemr honum í hug, hvat Skinnhúfa hafði sagt, ok víkr aptr, ok kvað vísu:

Kanstu mjúkligar,
mær hin harðleita!
leika at hrækerti
enn höldar aðrir sex;
sel þú mèr sárligan[1]
sveif[2] orms dýnu,

[1]) sárloga, C. [2]) sveyps, C.

fús er ek fljóð at kyssa,
ferr sem má jöfri.

Hún mælti: þá verðr þú[1] at hlaupa á háls mèr, í því ek kasta upp brandinum, en ef [þú efar þik[2], þá er þat þinn bani. Hún kastar nú upp sverðinu; í því hleypr hann á háls henni, ok kysti hana, en hún henti sverðit fyrir aptan bak honum. Hún rèttir nú at honum brandinn, ok kvað vísu:

Sel ek þèr Snarvendil,
sigr mun honum fylgja,
jöfur hinn stórráði!
um þína aldrdaga,
snúist þín æfi
æ til sigrs ok gæfu,
hvar sem þú heim kannar,
hugr er í kóngs barni.

Ok enn kvað hún:

Vertu eigi svâ ær, maðr!
at þú Ölver grandir
vertu honum heill hilmir,
hann er þèr hollr fylkir;
láttu eigi illmæli
æða lund þína,
vel þèr vini tryggva,
vert þeim hollr drottinn!

Eru engin álögá brandinum? segir hann. Eigi nein, segir hún, en þó mun ek nú áleggja: þat fyrsta víg, er þú vilt vega, skaltu þat

[1]) at rèttu, b. v. C. [2]) á þik kemr, C.

hvorgi fá hrært, en í annat sinn skal þat ekki bíta, gángi þèr nú allt til sigrs ok tíma, ok nefndu mik, ef þú þarft lítils við, ok heim muntu nú ætla. Hann kvað svâ vera: ok legg mèr ráð, hvern mann ek skal hafa af hirð föður míns at sumri. Hún kvað svâ vera skyldu: en mjök ólíkt mun þat þikkja úngum píkum, at ek kunni ráð nokkut, eðr hinn æðsti konúngsson beiði mik ráðs, en þó mun þèr þetta framgengt[1] verða. Heima muntu í vetr vera, en at vordögum skaltu gánga fyrir föður þinn, ok biðja hann liðs; hann mun svara, at hann hafi fátt liðs aflags; biðtu hann at fá þèr einn mann, en hann mun Björn fèhirðir[2] undan skilja, en hvern muntu kjósa? Hann kveðst föður sinn hafa vilja. Ekki skaltu hann hafa, segir hún; varð henni þá ljóð á munni:

Kjóstu þann þræl
af þengils liði,
sem gefr svínum soð,
mun þèr ei maðr duga[3]
af mildíngs hirð,
ef þèr glapvígr gjörist.

Síðan skildu þau. Ölvir vaknar, ok sèr at Hjálmtèr er burt, hann klæðist, ok þrífr saxit, ok gekk frá tjaldinu; hann sá, hvar Hjálmtèr gekk mjök reiðr; hann hóf upp brandinn, en hann varð svâ þúngr, at hann fèll niðr

[1]) örugt, *C.* [2]) *v. í C.* [3]) nægjast, *C.*

fyrir fætr honum. Ölver gekk í móti honum blíðliga, ok myntist við hann, ok mælti: slíkt gjöra nætrferðir þínar, fóstbróðir! Hjálmtèr mælti: þökk mína hafðu, Vargeysa! enn varstu mèr holl í ráðum. Um morguninn halda þeir heim, ok sátu í kastalanum um vetrinn.

11. At vordögum býr Hjálmtèr sinn skipaflota, ok gekk síðan fyrir föður sinn, ok bað hann fá sèr menn nokkra. Konúngr kveðst eigi til hafa. Hjálmtèr mælti: fá mèr einn mann af hirð þinni. Haf þú hvern, sem þú vilt, nema Björn! sagði konúngr. Hjálmtèr gekk til svína[1], ok sá þar mann liggja, mikinn ok stóran ok furðuliga sterkligan, í loðkápu. Hjálmtèr stakk á hann spjótskapti, ok mælti: stattu upp, þræll! Hann liggr eigi at síðr. Hjálmtèr lèt koma við hann skaptit í annat sinn. Hann settist þá upp, ok mælti: mun eigi vera, sem mèr sýnist, at þetta sè konúngsson? Hjálmtèr mælti, ok bað hann upp standa, ok fara með sèr; gjöra skal ek þèr kost á því, segir hann, ek vil einn öllu ráða, en þú aungvu. Hjálmtèr mælti: þat vinn ek eigi til nokkurs manns, eða hvat heitir þú? Hann mælti: því skalt þú ráða, en Hörðr heiti ek. Hjálmtèr gekk í burt. Hann kom at einum bekk, ok sá þar Vargeysu standa; honum kom í hug, hvat hún hafði mælt. Hann gekk aptr, ok mælti: stattu

[1]) svínahúss, *C.*

upp, þræll! ok gakk með mèr, ok ráð einn öllu! Hann segir: ek mun til skipa gánga, en þú munt finna stjúpu þína. Hjálmtèr gekk heim at höllinni, hann sá þá stjúpu sína gánga á móti sèr; honum leizt hún ekki frýnilig, hún var þá bæði ljót ok leiðinlig yfirlits, ok ófögr í ásjónu. Hún mælti: vel er þat, Hjálmtèr! at við höfum fundizt. Hann kveðst þat eigi lasta kunna. Hún segir: nú skal launa þèr pústrinn, er þú gafst mèr fyrir laungu; þat legg ek á þik, at þú skalt hvergi kyrr þola, hvorki nótt nè dag, fyrr enn þú sèr Hervöru Hundíngsdóttur, nema á skipum þínum ok í tjaldi. Hjálmtèr mælti: ekki skaltu fleira á mik leggja, því kjaptr þinn skal opinn standa, en þat þikir mèr einskis vert at þreyja eptir einà konúngsdóttur. Hamrar háir standa niðr við skipalægit; þar skaltu ástíga, sínum fæti á hvorn hamarinn, en fjórir þrælar föður míns skulu kinda eld undir þèr, en við ekkert skaltu lifa, nema þat sem hrafnar færa þèr, þar til ek kem aptr. Síðan gekk hann til skipa; var þá bryggjum kippt; hann hafði fimm skip úr landi, ok skipuð völdum drengjum, ok halda síðan burt. Fyrstu máltíð bað Hjálmtèr Hörð at sitja hjá sèr. Hann kveðst þat eigi vilja: einsaman vil ek mat eiga, en sofa í rekkjugólfi þínu. Hjálmtèr bað hann ráða.

12. Halda þeir nú víða um sumarit, ok varð þeim gott til fjár, en fengu sjó stóran ok

storma mikla. En um haustit komu þeir at stóru landi[1], þar var fjörðr mikill ok fjöll stór. Hörðr mælti: hèr munum vèr á landi sofa. Hjálmtèr mælti í móti. Hörðr kveðst ráða vilja; var svâ gjört; voru tjöld á land borin. Hjálmtèr segir: illa skal við þá gjöra, sem á skipum eru. Eigi skal þat, segir Hörðr. Hann gekk út á skipin, ok bað menn gjöra sik lystuga, ok gaf þeim vín at drekka; sinn grip gaf hann hverjum þeirra; urðu þeir skjótt drukknir. Hörðr tók mat ok öl, ok gekk á land. Hjálmtèr gekk í burt úr tjaldinu, er þeir voru sofnaðir, fram með sjónum. Fjall mikit (ok) ógnahátt stóð við sjóinn, en í miðju fjallinu leit hann standa tröllkonu stórskorna, hún hafði gullofinn dúk á knjám sèr, ok kemdi sèr með gullkambi. Brunnr var niðr við sjóinn; hún tók hendi sinni í hann, ok þvoði með hár sitt. Hjálmtèr kvað vísu:

Hvert er þat bákn,
í bjargi sitr,
ok sèr af konúngs . . . ?
öngva veit ek
ámátligri
alda fyrir jörð ofan.

Hún greiddi hárit frá augum sèr, ok varð reið við orð hans, ok kvað:

Illa kveðr þú til mín,
því muntu hinn úngi

[1]) ok gekk mjök á skipin, *b. v. C.*

fyrstr hafðr á seiði
af seggjum þínum;
með gullofnum dúki
má sjá hin hoska mær
þerra sína ljósa lokka.

Illa er sá dúkr kominn, er þitt hár þerrar, ok at þínum glyrnum gengr, segir Hjálmtèr, ok kvað:

Þik mun snerta
Snarvendill fyrr,
enn þú á seið alla
setlr kóngsarfa;
hendr muntu missa
ok hátt æpa,
svá munum skilja,
skauð hitt aumasta!

Hún segir hann margt orð tala svívirðiliga; væri hitt tilheyriligra mannligum manni, at hafa aðra viðleitni við únga stúlku ok hreinliga, enn tala illa, þikki mèr þú efniligr maðr, en mèr væri forvitni á, at prófa úngan mann, ok missa minn meydóm, ok láta handtèra mik um mittit. Hún seildist nú hendinni í brunninn. Hjálmtèr brá sverðinu, ok hjó af henni hendina í úlfliðnum. Hún rak upp skræk mikinn, ok leit í stúfinn, ok mælti: lítit framaverk er þetta einum ágætum konúngssyni, at leynast at mèr, en þat hlæir mik, at

hefnt muni þessa verks, ok mun eigi lángt til. Hún kvað:

Víst gleðr mik eitt,
þó þú vitir eigi,
jöfur hinn óngdjarfi!
hvat um er at vera,
munu systr mínar
at ná gjöra
útá herskipum
alla menn þína.

Hjálmtèr sá á sjóinn, ok sá níu tröllkonur, svâ stórar ok illúðligar at aungvar þóttist hann sèð hafa þeim líkar; þær höfðu rifit í sundr öll skipin, en drepit alla mennina ok borit góts allt á land, ok voru eigi litlar í starfinu; þær höfðu heyrt öll orð þeirra Hjálmtèrs ok Ýmu; þær hètu svâ: Hergunn, Hremsa, Nál ok Nefja, Runa[1] ok Trana, Greip ok Glyrna, Margerðr hin níunda, hún hafði krippu stóra, ok bar hana hærra enn höfuðit. Hún hafði eitt auga, ok stóð þat í miðju enni, ok var kella ekki frýnilig yfirlits; hún gekk fyrir þeim systrum, hún hafði nef ok klær af járni, ok tvær tennr álnar lángar, ok stóðu fram úr kjapti hennar, en vörin hin neðri tók niðr á brínguna. Þat sá Hjálmtèr, at hún mundi mega gefa gildan koss, ef hún kynni svâ fyrir sik at koma vörinni, sem hún var stór til. Þær voru stutt klæddar, píkurnar, ok göptu kjöptunum, en skóku höf-

[1]) Raun, *C.*

uðin. Hjálmtèr hugsaði, at sèr mundi eigi svâbúit duga, ok gekk úr fjallinu, ok fyrir tjalddyrnar[1]. Þær gánga síðan at tjaldinu. Hjálmtèr hugsar, at hann má eigi við þeim öllum; hann kvað vísu:

Vak þú, Ölver!
ef viltu víf sjá,
þú ert kossmildr
við konur harla;
[hèr býða þín
Hundíngs meyjar[2],
hverf þú við,
ef þèr hugr dugir!

Ölver kvað:

Hvat skal kals þetta,
hvat þarftu mèr bregða,
kóngr! um kvennsemi,
kátr um miðnætti;
en hverja hýsnöppu
sem (þú) á heiðum finnr
viltu þèr í sinni
sèu allar[3].

---

1) þá kvað Hergunn vísu:

Tólum ek treysti,
at tala við höfðíngja,
þó munum vèr lítit
þat til vega hörfa;

skulum til skála
skunda gaungu,
ok menn mildíngs
merkja á seiði, *b. v. C.*

2) heyrðu, hranann býðr þèr Hundíngs meyja; *C.* 3) munu mèr nú of fáar þikja, *b. v. C.*

Hörðr mælti: stöndum upp, nokkurs mun Hjálmtèr nú umvert þikkja. Hergunn kvað,

Heldr upp hrömmum:
hèr máttu, jöfur! líta
hendr Hergunnar,
hef ek negl óskorna,
rifna mun þín ólpa,
ef við, jöfur! finnumst,
þèr skal eigi kyrt klappa,
konúngr hinn suðræni!

Hann kvað:

Gakk þú framar hóti,
fyrr enn þú á seið dragir
þennan þjóðkonúng,
þú ert flagðit ferligasta[1];
ettu fram hrömmum[2],
ef þú afli treystir,
drós hin dulrífa!
en ek mun dverga smíði.

I því komu þeir út; Margerðr ræðr þegar á Ölver, en hann tekr fast á móti. Hún kvað:

Illa leikr þú, Ölver!
eigi ertu hæfr vífum,
má eigi fáng festa
á fylkir velbornum,
eggjar eru eitr blandnar,
æfr er döglíngr,
oddar alblóðgir
eigi munu vèr sigrast.

[1]) hrausta, *C.* [2]) járnhrömmum, *C.*

Hörðr barðist við systrnar sjö, þær vorú full-fimar, ok höfðu stórar skálmir, hvor þeirra, ok sóttu ákaft at honum. Hann varðist drengiliga, ok þar kom um síðir, at hann drap þær allar, enda var hann þá mjök móðr. Hjálmtèr átti mjök harðan leik við Hergunni, hafði hún vænt sax í hendi, ok varðist vel. Hann þóttist aldrei í meiri mannraun komit hafa, sakir mjúkleika hennar, því hvar sem hann hjó til hennar, kom jafnan á saxit, þar til at hún mæddist; bárust þá sár á hana, svâ hún flakti öll í sundr af sárum. Hún kallar þá hátt upp, ok kvað:

Hvar ertu, Margerðr!
mær öflugasta,
vinnr þú sigr lítinn
á siklíngs liði;
hryggr er hálflestr[1],
en herðar brotnar,
sterkr er stafnbúi,
stökkva mun því verða.

Þær bregða við hart, ok hleypr hver, sem meira mátti, ok stigu mjök stórum, en Hörðr eptir upp undir fjallit. Hergunn snèri þá í móti honum; hann hjó til hennar, svâ afhraut höfuðit. Högg þú allra manna armastr, sagði Margerðr, mína systur! Skamt mun þèr til slíks, segir Hörðr; hann slæmdi til hennar með sverðinu, ok tók hana sundr í miðju; veik hann

[1]) hálflaminn, C.

aptr til tjaldsins. Þeir Hjálmtèr ok Ölver voru komnir inní tjaldit, ok sváfu. Hörðr gekk til sjóar, ok safnar saman skipviðum; þar af gjörði hann hús lítit ok fagurt, þar sem mest skýldu björgin; þángat bar hann mat ok öl ok öll þeirra faung[1]. Síðan gekk hann aptr til þeirra. Standa þeir fóstbræðr upp síðan, ok gánga þeir fram með sjónum. Hjálmtèr sá hús upp undir bjarginu, hann mælti: hús er þarna. Hörðr svarar: mun hún ekki þar Hervör, sem þú þreyir eptir? Þeir gánga í húsit, þar var sæng ein, ok tafl á stóli, ok könnur ok ker með. Hörðr gaf þeim at drekka, en þá er þá varði sem minnst, gekk hann út, ok skeldi húsinu í lás. Hjálmtèr mælti: sveikstu mik nú, Hörðr! ok er íllt at eiga þræl at einka vin. Hann vildi höggva upp húsit, en sverðit beit eigi heldr, enn hann hyggi í stein. Sátu þeir þar um kyrt, glaðir ok kátir.

13. Þat er frá Hörði at segja, at hann gekk fram með sjónum, hann sá einn stein stóran í fjörunni, ok gat í. Hann litast um, ok sèr, hvar risi einn ógnarligr kom fram á bjargit, ok var eigi sveinsligr yfirlits, því aungvan þóttist hann slíkan sèð hafa, sakir stórskorins höfuðs. Hann hafði há staung í hendi, ok fram úr flein tvíeggjaðan[2], fjögra álna lángan, hann tók niðr at fjörunni, þá hann stóð á bjarginu. Jötuninn mælti: hvar er kögrbörn þau, sem

[1]) þíng, *C.* [2]) tvíángaðan, *C.*

drepit hafa dætr mínar? gángi þeir nú fram, ef þeir þora, því slíkt eru hin mestu níðíngsverk, svâ úngar sem þær voru, því sú var elzt sem var 12 vetra. Hèr em ek kominn, segir Hörðr, ok drap ek þær dætr þínar, ok voru þær heldr miklar fyrir sèr, en ek vil leita[1] trausts til þín. Risinn mælti: vel sè þèr, vinr! ok vert vel kominn, ok far híngat! Hörðr mælti: þat get ek með öngvu móti, mèr hefir ávalt íllt verit, en nú batnar lítit um, síðan í vor at ek fór í[2] sjóinn með þeim fóstbræðrum; rèttu heldr til mín staung þína, ok mun ek taka þar í. Risinn mælti: þat má ek vel gjöra, því þau ein skip hafa hèr komit, at ek hefi rekit flein í gegnum þau, ok dregit þau svâ upp at mèr, ok mun ek rètta staungina ofan at þèr. Hörðr tók í, sem hann gat. En á meðan þeir höfðu viðtalazt, hafði hann reyrt sik við steininn með kaðli. Jötuninn rikti á mjök fast. Hörðr mælti: tak þú á fastara ok betr, fèlagi! ekki er ek alllèttr. Jötuninn reiddist, ok rak fleininn niðr í bjargit, ok rykkir svâ fast til, at hann sökk í hamarinn allt at bróklinda, en Herði var við því búit, at hann mundi slitna í sundr bein frá beini. Risinn mælti: þú ert þúngr jafn lítill. Vanhertr ertu þá, segir Hörðr. Jötuninn herðir sik því meir, ok brauzt um, þar til at upplosnar steininn, sá sem Hörðr hafði reyrt sik

[1]) halds ok, *b. v. C.* [2]) á, *C.*

við, ok hóf hann frá jörðu eigi minna enn sex faðma; í því slapp af fleininum, en jötuninn datt á bak aptr, en Hörðr ofan með steininum, ok lá hann lengi í óviti. En er hann raknaði við, sagði hann: miklu ósterkari ertu, enn ek meinti, jafnstór, ok kannt lítit, er þú kemr mèr eigi upp á bjargit; hafðu mín ráð, ok gakk niðr í tóna í bjargit, ok lút vel áfram, ok teig þik sem mest. Risinn lèt at þessu ginnast, ok ferr ofan í tóna, ok teigir hálsinn, en rèttir staungina ofan fyrir. Hörðr tók í staungina, ok kipti risanum ofan fyrir bjargit, svâ brotnaði í honum hvert bein, en Hörðr leysti sik, ok rann þegar upp bjargit, ok kom at hellir stórum, þar var Yma fyrir; ok fèll til fóta honum; hann gaf henni líf. Þar var hann um vetrinn í hellirnum. Þar var nóg gull ok silfr[1], er jötuninn hafði átt. En at vori komanda, tók hann þar hríng mætan ok skikkju ok sjóð stóran með gulli. Ymu gaf hann hellirinn ok góts allt. Hún bað hann nefna sik, ef hann þyrfti liðs við. Hörðr gekk þaðan, ok lauk upp húsinu; Hjálmtèr varð honum feginn. Eigi hafði hann munat til Hervarar á þeim vetri. Skip hafði Hörðr gjört þeim um vetrinn; þeir lètu þá í haf, skipit fór jafnhart í móti vindi sem undan.

14. Um haustit komu þeir at landi stóru. Hjálmtèr mælti: hèr vil ek á land gánga.

[1]) ok klæði góð, *b. v. C.*

Hörðr kvað svå vera skyldi, þar sáu þeir hallir stórar; Hjálmtèr mælti: þetta munu vera hallir Hundíngja konúngs. Þú segir satt, segir Hörðr. Þeir gengu upp at höllinni; hún var gjör með steinum. Í einum stað sáu þeir hús eitt gjört með rauða gulli. Hjálmtèr segir: þetta mun vera turn Hervarar[1]. Hörðr kvað svâ vera mundi. Þeir gengu undir turninn; þar sáu þeir sitja mey svâ væna, at aungva höfðu þeir slíka sèð, hár hennar var gulli líkt, en ásjánan hvít sem snjór, en holdit var skært sem lilja, augun fögur sem karbúnkulus, en kinnr líka sem rósa. Hörðr gekk at henni, ok kvað vísu:

Hver ertu þrifnust fljóða,
hýrlunduð með kinn fagra,
ok ljósgult lokka frón;
ekkert vífa
ek leit hæverskligra
[fædt við foldar þröm[2].

Hún kvað:

Hervör ek heiti,
Hundíngja dóttir,
minn föður röskvan
ef þú rèðir líta;
líf þitt án dvöl
þú láta mundir,
ef þú gengir
gegn döglíngi.

---

1) Herborgar, C. 2) fyrir jörð ofan, C.

Ok enn kvað hún:

Allt ferr eptir einu
er margs vita frægra
veita vinum listir
[ok val á tafni fæða[1];
fyrr skyldir þú hánga
á háum gálga,
enn í glaum tíum[2],
gaktu eigi framar hóti!

Hörðr mælti:

Hinn hyggjustóri:
því hrekr þú mik
Hervör í orðum;
væri heldr nær[3]
vífi skæru[4],
at vera hoskum dreng
holl í ráðum.

Hörðr mælti þá til Hjálmtèrs: maðr, muntu sýna list þína við Hervöru, ok blíðka hana í orðum þínum. Hörðr fèkk honum gripi þá, sem hann tók úr hellirnum, ok segir, hann skyldi fá henni þá. Hjálmtèr fær henni öll þessi gersemi, en hún varð glöð við, ok þakkar honum forkunnar vel, ok kveðst honum dugnað veita skyldu, ok segir honum frá mörgu, hvernin þar var háttr á einu ok öðru[5] hjá föður hennar, ok öllum vandræðum sem þar væri at forðast. Þegar

---

[1]) af Nistils fólki, (fálka *P*), *C*, P. [2]) tigum, *C*. [3]) *v. í C.*
[4]) skærra, *C*. [5]) sem þar var verk, *b. v. C.*

faðir minn veit, segir hún, at þú hefir mik fundit, þá vill hann þik feigan, því hann verðr alls vís af fýtonsanda innblæstri; en hún kveðst honum ráð leggja mundu, sem hún kynni, en nú skaltu senn, segir hún, gánga fyrir föður minn djarfliga, ok kveðja hann kurteisliga; hann mun taka þèr vel ok spyrja þik margs, en þú skalt vel ok vitrliga úrleysa. Ráðgjafa á hann mjök stóran ok illúðligan, er Hástigi heitir, hann er stór sem risi, en máttugr sem tröll, hann veit allar ráðagjörðir konúngsins; hann er svartr sem jörð, með hárlausan haus ok glitrauð augu, fúll ok fláráðr; ekki er Hástigi betri at reyna, enn hann er at yfirlitum. Hún kvað vísu:

I höll skaltu gánga,
ok hilmir lúta,
ok kveðja kurteisliga
konúng hinn stórráða;
láttu eigi æðru
á þèr finna,
þótt þú í höll lítir
háa stórgarpa.

Bið þú konúng veturvistar, en hann mun svara þèr, sem hann vill. En er þú hefir mælt, sem þèr líkar, þá gaktu til bekkjar hirðmanna, ok vert eigi fèspar!
Hún kvað vísu:

Gef þú auð, jöfur!
ef þú ör þikkist,
þáðu gull gumnar,

ok gjörast þèr vel hollir;
en ef maðr metnast,
við mildíngs síðu,
sýn leiðum þitt lyndi,
ok láttu hann sneipu hljóta.

Hjálmtèr gekk til fèlaga sinna, ok síðan til hallar, ok gánga inn. Hörðr dvaldist eptir í hallar dyrum, en þeir gengu fyrir konúnginn. Hjálmtèr kvað vísu:

Heill sittu, Hundíngi!
hef ek aungvan þèr
æðra hitt
undir heims skauti;
ferr þín frægð
um fègjafir,
því kom ek híngat
hilmis at vitja.

Konúngr tók kveðju hans, ok kvað vísu:

Hverr er sá kominn
úr Mannheimum,
úngr at aldri,
oss at kveðja?
berr þú, hinn úngi!
örnfrán[1] augu,
mun ek við brögðum
búast mega.

Hjálmtèr kvað:

Hjálmtèr ek heiti,
hirði ek fátt segja

[1]) örn framar, P.

fylkir framvísum
á fyrsta kveldi;
hirði[1] ek ei hvarfla
á hallargólfi,
seg mèr til sætis!
sonr er ek grams Ýnga.

Konúngr mælti: frètta mun ek fleira þurfa áðr, ok kvað vísu:

Hverr er sá hoski
er hjálm ok gjörð stýrir,
sterkr ok stórmannligr
stendr þèr á hlið aðra?
glöggra máttu greina mèr
frá görpum þínum
þá veit ek gjör,
hvar gestum skal skipa.

Hjálmtèr kvað:

Ölver hann heitir,
er aldrei hræðist
eld nè eggjar
eðr hergengi;
borinn sem buðlúngr
þeir beztir eru,
mætri enn mildíngar[2],
minn er fóstbróðir.

Vel er frá manni sagt, segir konúngr, ok kvað vísu:

Hverr er sá gaur,
sem í gáttum stendr,

[1]) vil, *C.* [2]) mildúngr, *B*, *C.*

ok rís röskliga
við rótakylfu;
gnapir með hettu,
ok hyggr at gumna mengi,
lítt er skúmr sá
at skapi mínu.

Hjálmtèr kvað vísu:

Hörðr hann heitir
hefir fátt prýði,
velr um vopn sjaldan,
vill ei skart þiggja;
öldúnga einnin
ekki hræðist
maðr mjök snarligr,
met ek hann mikils.

Konúngr kvað vísu:

Lítt honum sæmir
hjá seggja liði,
þeim er í guðvefum,
glóa allir;
sitl hann yzt
af seggjum mínum,
skal honum veita vel
með vorum þegnum.

Eigi munu þèr því ráða, segir Hjálmtèr, ok munum vèr annathvort sitja allir, eða enginn vor. Slíkt eru mikil undr, segir konúngr. Hjálmtèr bað konúng veturvistar. Konúngr segir þeim til reiðu drykk ok vist: en til muntu vinna lítit þrekverk; horn tvö skaltu sækja á kálf

minn, vil ek af þeim drekka átta dag jóla, ella muntu missa lífit. Þetta á mikils at kosta, segir Hjálmtèr, eða hvert á þessa kálfs at leita? Segðu þèr þat sjálfr, segir konúngr. Hjálmtèr mælti: herra! skipa oss fyrst sæti. Konúngr segir svâ skyldi vera, ok kvað vísu:

Harðr muntu heima,
þú hyggst öllu ráða
oss í hjá
í höllum vorum;
hefir þú brand hvassan,
brynju ok hjálm vænan
ok fofnisbýngi aðra,
en set þik aptr af því.

Hjálmtèr kvað:

Úngr var ek heima,
ok öllu skipaði
skatna liði
at skapi mínu;
gegndi þat fullvel
fylkis sveinum,
brögnum vel bornum,
ok buðlúngsliði.

Konúngr leit til Hástiga, ok kvað vísu:

Statt upp, Hástigi!
ok gef rúm gestum,
furðu farmóðum
ok frekum í ræðu;
mik hafa ei öðlíngar
áðr heim sóttan,

Þeir mèr sýnzt hafa
með svinnra bragði.

Hástigi leit til konúngs mjök óhýrliga, ok kvað vísu:

Hefir þú fyrr úr sæti
mèr eigi boðit
upp at standa
fyrir ókunnum;
en feigð mun vondslig
vísir granda,
hánga skyldu hinir
á hinn hæsta gálga;
þeir munu þik svíkja,
þat segi ek fyrir gjörla.

Konúngr leit til hans reiðugliga, ok kvað vísu:

Ertu[1] illr gestum?
opt hefir þú hölda,
þá mik heimsóttu
til heljar færða;
gakk á bekk annan,
garpr meinhugaðr,
hnýttr hinn harðleiti!
hraðr[2] á borð annat.

Hástigi stóð upp, ok gekk um þvera höllina, ok settistniðr. Hjálmtèr gekk til sætis, ok þurfti tveggja manna rúm, en Ölver þriggja; Hörðr var jafnmikill, sem þeir báðir fóstbræðr; var þeim þó sætit nóg, sem Hástigi hafði áðr ísetit. Litlu síðar tekr Hörðr sjóð fullan með gull, ok

[1]) Ei ertu, *C.* [2]) er, *b. v. C.*

gefr til beggja handa; ok er hann hafði öllum gefit í höllinni nema Hástiga, var gullhríngr einn eptir. Hann gaut augum til hríngsins. Hörðr sá þat, ok rètti at honum, en hann seildist í móti. Hörðr stakk trè í hrínginn, ok þat sama kefli setti Hörðr framan á tennr Hástiga, en hann sá óglöggt til, því sólin skein á gluggana, en keflit kemr á tennr Hástiga, svâ hann deitr þegar á bak aptr með allmiklum hljóðum, ok hnúskar óhægiliga[1] höfðinu, en sessunautar hans hlóu at honum, [en hann[2] rumdi fast; um síðir raknar hann við[3], skýtr hann augunum[4], ok mælti: sleginn var ek, sveinar! þeir báðu hann þegja. Í því rèttir Hörðr at honum hrínginn í annat sinn, en hann tók þá við hríngnum, ok geymdi. Hörðr mælti: opt hefir hundr, þat hafna sessunautar. Þeir sögðu um Hástiga: makliga var nú leikin mannfýlan. Konúngr skipar þeim eitt lopthús vænt, at sofa í. Konúngr spyrr Hjálmtèr margs, en hann leysti vel úr öllu, því Hörðr hafði frætt hann á mörgum hlutum, því hann kunni af öllum löndum at segja. Jafnan var Hjálmtèr í skemmu konúngsdóttur, ok tefldi við hana; hún var öllum kvennmannligum listum prýdd, hún kunni ok allar stjörnulistir ok steinaíþróttir.

---

[1]) óhagliga, *C*, *P*. [2]) er hann skar allólagliga höfðinu ok, *C*. [3]) er verr var, *b*. *v*. *C*. [4]) en skér grefurnar, *b*. *v*. *C*.

15. Þat var einn dag, at Hjálmtèr sat nær konúngsdóttur, ok tefldi við hana. Hervör spurði Hjálmtèr, hvat hann ætti til vetrvistar at vinna. Hann kvaðst eiga at sækja kálf einn. Hvort áttir þú þann at sækja? segir hún. Konúngr vildi mèr þar aungva grein á gjöra, segir hann. Enginn kálfr er þetta, segir hún, heldr er þat gamall uxi, níræðr at aldri, hann etr fènað, en drepr menn ok hesta, því hann er hverju dýri grimmari; hann hefir drepit alla þá menn, sem eptir honum hafa farit, ok föður minn hafa beðit vetrvistar. Þat er hitt mesta blótnaut, ok fæðist mest á mannaholdi; hljóð hefir hann hvellt ok digurt, svâ enginn maðr stenzt; þat er í einum garði, háum ok sterkum, midt hèr á landinu; hann má eigi laus vera, því þá brýtr hann niðr borgir ok kastala, ok vinnr mikinn skaða á mönnum ok fènaði; öll kvikindi eru hrædd við þetta arma naut. Þau lintu talinu, ok gekk Hjálmtèr heim í lopt sitt, ok sagði þeim kompánum sínum, hvat konúngsdóttir hafði honum sagt; leið svâ vetrinn fram til jóla. En tveim nóttum fyrir hinn fyrsta jóladag stóð Hörðr upp úr sæng sinni, svâ at þeir fóstbræðr vissu ekki til. Hann tók sax Ölvers, ok gekk út síðan, ok til skógar, þarsem stórar brautir lágu; gekk hann svâ lengi um nóttina, þar til at brautirnar kvísluðust. Hann hugsar mjök um sinn hag,

hvernin gánga mundi; reikar hann forntroðinn götustig í þykkva mörk, ok eigi fyrr lèttandi, enn hann kemr fram á annes eitt[1] fagurt yfirlits; hann sèr þar garð háan, gjörðan með múrsteina; þángat gengr hann, ok hefir kylfu 12 álna lánga með stórum göddum ok laungum ok fleinn fram úr; hann seildist upp jafnhátt garðinum með henni; hann gengr með garðinum nokkra stund, ok berr allstaðar jafnhátt. Hann sèr, at eigi muni svâ búit standa mega, því tekr hann kaðal, ok bindr um einn stein stóran, ok kastar inn yfir garðinn, ok les sik svâ upp á garðinn; en uxinn lá á vellinum fyrir innan, ok hafði snúit um allri jörðinni, hann hrýtr ok sefr ok sníðir[2] illa, svâ Hörðr þóttist eigi vita, nær enn hann mundi hrjóta inn at garðinum fyrir nasalátum gradda[3], ok sá, at þat mundi margan hafa til bana leitt; því leysir hann steininn úr festinni, ok fleygir honum á stað, ok kom hann á síðu nautsins. Hann vaknar við með æslalátum, springandi þegar á stað, ok skundar alla vega, ok dregr veðrit af manninum, ok hleypr at garðinum, þar sem Hörðr var fyrir; hann vill eigi lengr bíða, ok reiðir upp gaddakylfuna, ok rekr í hausinn á bola, svâ at allir sukku gaddarnir, en hann hristist við, ok skekr höfuðit, ok lèt ólmliga, svâ at Hörðr misti

[1]) vítt ok, *C.* [2]) striðir, *C.* [3]) gridda, *C.*

kylfuna, ok hraut hún lángt á völlinn, en uxinn skopar nú skeið at garðinum, ok flensar túngunni eptir Hörði, ok dró hann at sèr; hann fær eigi annat ráð, enn hann kastar sèr flötum ofan á milli hornanna á uxanum, ok spenti höndunum niðr um hálsinn, en boli brauzt um fast, heimskliga hlaupandi aptr ok fram um garðinn með hræðiligum hljóðum, berjandi fótunum, ok hristandi hausinn; vissi Hörðr at þat mundi sinn bani, ef hann ditti ofan; verðr þat um síðir, at boli mæddist af miklu umfángi ok blóðrás; hann hleypr at garðinum með illum látum, ok kemr upp framfótunum á garðinn. Í því leggr Hörðr með saxinu undir bóginn, svâ at í hjartanu stóð; brauzt uxinn um, þar til hann dó, ok hafði hann þá brotit mikit hlið á garðinn í sínum fjörbrotum. Hörðr fló uxann með öllum leðrum, ok fylgðu hornin húðinni. Hörðr leggr hana á bak sèr, ok bar heim, ok fleygir henni niðr fyrir loptsdyrnar. Hjálmtèr vaknar við dýnkinn, ok sprettr á fætr; í því kom Hörðr inn, ok varð Hjálmtèr honum allshugar feginn. Hörðr var heldr skapstyggr, ok bað Hjálmtèr útgánga. Hann gjörir svâ, ok sèr húðina. Hörðr mælti: taktu upp húðina, því þú þikkist vera sterkr nóg. Hjálmtèr tók til húðarinnar af öllu sínu afli, ok gat hvergi hrært hana úr stað. Hörðr segir, at hann mundi í fram króka leggja þurfa, ef duga skyldi. Hjálmtèr segir, fram vera komin sín mesta

aflraun. Þat mæli ek nú um, segir Hörðr, at þú takir við afli okkar Ölvers beggja, nema úr minnstum fíngrum okkrum, þá þú gengr fyrir konúnginn í dag, ok hann sitr yfir sínum borðum, ok berr inn húðina á lófa þínum. Þetta verðr svâ, sem Hörðr mælti: gengr Hjálmtèr fyrir konúnginn; ok voru allir í höllinni við hann hræddir; hann kastar húðinni uppá borðit fyrir konúng svâ hart, at þat brotnar í sundr í tvâ hluti, ok gekk í burt síðan. Tóku þeir aptr afl sitt, Hörðr ok Ölver. Konúngr bað Hástiga bera á burt húðina, en hann tók sjálfr af hornin. Hástiga gjörði svâ, ok veitti honum hitt versta, ok gekk mjök hokinn í knjáliðum; vár tekit borð annat. Þeir fóstbræðr gengu báðir í höllina, ok var veizla hin bezta, ok drukku allir af hornunum um jólin.

16. Einn dag spyrr konúngr Hjálmtèr, hvort hann vill aungva skemtan hafa; hann bað konúng ráða. Þá muntu glíma við pilt minn á morgun, segir konúngr. Hjálmtèr bað hann gjöra, sem hann vildi. En at morgni dags standa þeir upp kompánar, ok gánga fyrir konúng. Þá var fram leiddr Blámaðr furðuliga stór, svartr ok digr[1] sem naut; at öllu var hann ámátligr. Konúngr mælti: hèr er nú kominn piltrinn, Hjálmtèr! Hörðr sagði: við þenna svein skal ek glíma, þvíat vèr höf-

[1]) *þannig C*; dejúgr, *hin.*

um eina nafnbót báðir, at við erum þrælar. Ekki fór Hörðr af loðkápu sinni. Síðan ráðast þeir á með stórum fángbrögðum ok hörðum hnykkíngum, er hvorr veitti öðrum með hnefahöggum ok kinnskotum, klóri ok kreistíngum; gekk þetta lengi dags. Þóttist konúngr ok þeir sem í höllinni voru aungvan atgáng slíkan sèð hafa. Stólpi einn lágr stóð í höllinni; þángat bar Blámaðrinn Hörð, en hann snèrist við glímumannliga, ok fær neðritökin. Við þessu sá Blámaðrinn ekki, hann þreif hann upp á bríngu sína, ok brá honum magabragð, ok rak hann niðr á stólpann[1], svâ hart at hryggrinn brotnaði, en Blámaðrinn öskraði ekki vel, lèt Hörðr fylgja knè kviði með fúlmannligum kverkatökum, ok kreisti hann til dauðs. Við þetta varð konúngr mjök reiðr, en allir aðrir þökkuðu Herði. Var hinn dauði útdreginn. Konúngr segir: mikinn skaða hefir þú mèr gjört ok mínu ríki í drápi þessa manns, því skulum við toga geitstöku[2] um eld hèr í höllinni á morgun, ella sá sem ek skipa til. Þèr munuð ráða vilja, herra! segir Hörðr, því mèr líkar hverr sem er.

17. Um morguninn eptir árla gengu þeir til hallar; þar var gjört bál mikit. Litlu síðar kemr konúngr ok mælti: Hástiga fæ ek til, at stíma við þik, Hörðr! Vel er þat, segir hann, at við skulum reyna skinndráttinn, ok

[1]) stobbanum, *C.* [2]) geiti, *C.*

bú þik til, Hástigi! segir Hörðr. Hann fór af öllum sínum klæðum, en ekki fór Hörðr af loðkápu sinni. Þeim var fenginn í hendr svörðr allsterkr; koma þá í á ök stór ok miklar sviptíngar, ok voru uppi á þeim ýmsir endar, kiptu þeir snart í sundr sverðinum á milli sín, bað konúngr at sækja uxahúðina ok fá þeim. Tóku þeir þá á með öllu afli ok voru hnykkíngar ramligar, svâ ýmsum var búit at hrjóta fram á bálit; var Hástigi sterkari, en Hörðr heppnari ok mjúkari. Konúngr mælti: lítt er átekit, Hástigi, er þú lætr barn þetta svâ lengi streitast á móti þèr[1]. Þat mun eigi lengi vera, segir Hástigi, ef ek herði mik til fulls. En á meðan þeir töluðust við, konúngr ok Hástigi, tók Hjálmtèr sverðit ok saxit, ok stakk niðr fyrir fætr Herði, ok sá þat enginn, því loðkápan skútti fram yfir. Hástigi tók þá í svâ fast, at Herði var eigi annat búit, enn hann mundi tumba fram á eldinn; þóttist Hörðr aldrei í þvílíkar hnippíngar komit hafa, var svâ átekit af báðum, at öllum í höllinni þótti mikil undr gegna, at þeir voru eigi af mæði sprúngnir, ok hvat þeir þola af sínum mikla atgángi ok sterkum átökum. Hörðr segir þá til Hástiga: bústu nú við, því ek mun nú herða mik, ok skaltu eigi lengi lifa. Svâ mun ek gjöra, segir Hástigi. Hörðr tók þá til með öllu afli, ok kipti Hástiga fram á bálit, ok

[1]) ok eigi hæira enn uppris, *b. v. C.*

fleigði húðinni ofaná hann, ok hljóp sjálfr ofan á bakit á honum, ok gekk síðan til bekkjar. Konúngr bað taka manninn af eldinum. Hástigi var mjök brunninn. Konúngr var reiðr mjök, en þótti sèr þó mikit at kenna.

18. Um kveldit gekk konúngr snemma til sængr, ok voru slökt ljós öll ok eldr í borginni. Hjálmtèr kveðst til sængr vilja; Hörðr brá Snarvendli, ok lýsti af honum sem ljósi. Gengu þeir í loptit, ok sáu umbúníng nýkominn í[1] sængina. Þat var stokkr ok sverðsegg bitrlig, einn mjór strengr var í endanum stokksins. Hörðr mælti: ekki skulum vèr niðrleggjast, því sá hefir ætlat oss bráðan bana, sem hèr hefir umbúit. Þeir lögðust niðr á gólfit, ok sofnuðu þeir skjótt, en Hörðr hraut fast, ok lèt sem hann svæfi. Litlu síðar heyrði hann, at maðr gekk úti hjá loptinu, ok þreif í strenginn, ok kipti niðr stokknum, ok tók sverðseggin í sundr öll sængrklæðin. Þeir brutust um mikiliga. Þar næst var fjölum úrkipt, ok kom inn höfuð mjök stórskorit, sá þrífr í sængina. Þá höggr Hörðr þann í sundr í miðju, ok dettr út hvorutveggju hlutrinn, leggjast þeir niðr. En um morguninn var konúngi sagt, at Hástigi var dauðr fyrir svik þau, sem hann hafði gjört við Hjálmtèr, gaf konúngr sèr fátt um; leið svå vetrinn.

19. En er þrjár nætr voru til sumars, þá

[1]) yfir, *C.*

fann Hjálmtèr Hervöru. Hún mælti: muntu nokkut vera lengr hjá föður mínum? nei, segir Hjálmtèr. Hún sagði: í kveld skaltu gánga fyrir hann, ok þakka honum vetrvistina, þvíat hann sefr 6 dægr fyrir sumar, ok verðr þá alls víst í jörðu ok á, ok ekki má honum þá neitt óvart koma; vil ek at þú siglir á burt á morgun snemma, því honum er ekki vel til þín. Hann þakkar henni sín góð orð ok ráð, ok skildu þau talit. En um kveldit gekk Hjálmtèr fyrir konúnginn, ok þakkar honum vetrvistina: skal ek þína frægð ok rausn bera á öll lönd. Konúngr mælti: þetta eru ráð Hervarar, dóttur minnar, verðum við nú svâ búit at skilja, get ek ekki at sinni atgjört. Sváfu menn af um nóttina; en um morguninn árla, bað Hjálmtèr alla menn vel lifa; hann bað Hervöru með sèr fara, en hún kvaðst þat eigi vilja: því þat er bani yðar, vil ek heldr láta mitt líf, því faðir minn vægir aungum manni[1], hvorki vinum nè frændum. Hjálmtèr bað hana vel lifa, en hún bað hann vel fara, ok allan heiðr njóta ok æru, ok fèll hún í óvit við þeirra skilnað. En er Hjálmtèr ok Ölver komu til skips, segir Hörðr: ekki hef ek heilsat Hervöru. Hann tók svarðreip mikit, ok gekk heim, ok kastar því um turninn Hervarar, ok berr svâ allt ofan til skipa, ok á sitt skip. Þeir fóstbræðr voru á öðru skipi. Hjálmtèr spyrr Hörð, hvat hann

1) fyrst er hann vaknar, *b. v. C.*

bæri? hèr fer ek með Hervöru, segir hann, fyrir utan vilja föður hennar, frænda ok vina, mun hún nú með mèr fara; vill hún skjótt hafa þinn fund. Slíkt er vitrliga farit, segir Hjálmtèr, ok röskliga hefir þú af fyrri mönnum gjörníng þennan. Hjálmtèr fór á skip til Hervarar; hún stóð upp í móti honum, ok talar til hans blíðliga, ok mælti: ertu enn eigi á stað kominn, vinr? segir hún. Ekki enn, kæra jómfrú! segir hann, ok vil ek at þèr gángið á mitt skip. Gjarnan, segir hún, en mikinn skaða hafi þèr gjört föður mínum, at þið takið mik í burt utan hans vilja, en þó vil ek heldr með yðr fara enn vera eptir. Þá kom snart blásandi byr, sigla þeir í haf; en sem þeir sáu ekki til landa, tók af byrinn, ok rak þá um hafit með straumum í 4 dægr, en hitt fimta dægrit stóðu skipin kyrr. Hervör mælti: faðir minn ræðr veðráttu þessarri, ok svå því at skipin standa kyrr, mun hann nú vaknaðr, ok eigi allfátt dreymt hafa, veit hann nú allar yðar fyrirætlanir, ok at þèr hafið mik í burt tekit, ok munu þèr hafa nógar raunir, hversu þèr hafið gjört.

20. Lítlu síðar sáu þeir, hvar einn stór hrosshvalr lagðist með miklum boðaföllum[1], ok ógrligum látum at þeim. Hörðr mælti: þar er sú skepna, at mèr er minnst um, ok ek má eigi sjá; verði þið nú, fóstbræðr! nokkurs styrks

[1]) fossafullum, *C.*

við at njóta, ok eigi megi þið nefna mik, á meðan hann er hèr, því þá dey ek. Síðan leggst hann niðr í kel. Þeir þöktu hann klæðum. Síðan sáu þeir skeljúng renna undan skipi þeirra, ok at hvalnum mjök snarliga, ok ræðr þegar á hann, komu þar í kafferðir stórar. Litlu síðar sáu þeir renna undan skipi Hervarar vögnu[1] eina væna ok fagra, hún rèð þegar á hvalinn, voru þá sviptíngar miklar, ok harðar árásir, er hvorir veittu öðrum, varð skeljúngrinn ok vagnan skjótt móð, því hvalrinn var þúngr ok sterkr, en kastaði þeim af sèr, svå at þau komu fjærri niðr á sjónum. Hjálmtèr þóttist þá sjá fyrir, at þessi illa skepna muni þau skjótt yfirvinna; þá mælti hann: hvat mun mèr í annat sinn meiri þörf Skinnhúfu ok Vargeysu enn nú, at þær komi oss at hjálpa. En er hann hafði þetta mælt, sá hann fljúga tvo gamma, þeir höfðu járnnef ok klær; þeir settust á hrosshvalinn, ok kroppuðu eigi miskunsamliga, þvíat stórar þjósir tóku þeir af hans vondum kroppi; hann veitti miklar árásir í móti. Þeir rifu ok slitu hvalinn, sem þeir gátu. Þá bar þá at skipunum, ok fengu þau áföll stór. Hjálmtèr sá, at allar þessar skepnur lètu undan illhvelinu, hann tók brandinn, ok mælti: fyrr skal ek missa þik, enn ek hjálpi eigi þessum skepnum; skaut þegar brandinum niðr í gegnum hausinn á hvalnum. Ölver sá þetta, ok skaut

[1]) vegnu, *P.*

saxinu, ok kom þat í annat augat á hvalnum[1]. Við þetta dapraðist heldr hvalrinn, ok vissi varla, hvernin hann skyldi láta, ok velti sèr á ýmsar síður, ok beit ok reif, hvat sem hann kom við, en blóðit rann sem lækir niðr af gömmunum, því þeir flöktu allir sundr af sárum, ok svâ skeljúngrinn ok vagnan; varð þat um síðir, at hvalnum dapráðist sundit[2], ok sökk hann til gruns, en gammarnir flugu í burtu mjök yfirkomnir, svâ blóð rann undan hverri þeirra fjöðr; þeir flugu seint ok lágt. Hjálmtèr gekk þar til, sem Hörðr lá, ok sá at hann var votr. Hörðr mælti: er dauðr hvalrinn? Hjálmtèr segir hann horfinn: hef ek þar mist brand minn, en Ölver saxit. Hèr er hvorttveggja, segir Hörðr, ok er mikit atgjört, at Hundíngja konúngr er af dögum ráðinn. Þeir þakka honum lífgjöf, at hann hafði þeim bjargat úr slíkum háska, sem þeir voru íkomnir. Hörðr mælti: kom til Hervarar, því nú mun þurfa þíns dugnaðar. Hjálmtèr stökk á skip til hennar, hún lá þá í óviti, ok mjök til reika. Hjálmtèr dreypti á hana víni, ok raknaði hún skjótt við. Síðan rann á byr, ok vinda þeir upp segl; ok voru skipin þá laus, ok sigldu um allt sumarit.

21. Nú er leið at hausti, komu þeir at einu stóru landi ok ágætu, þat var með stórum

---

1) ok þat fór sem hitt fyrra, *b. v. C.* 2) ok síðan rifu þau hann til dauða, *b. v. C.*

borgum ok fögrum ökrum, miklum ok fögrum skógi, ok með allrahanda dýrum ok fuglum; ekkert land þóttust þeir fóstbræðr þvílíkt sèð hafa, nè spurn af hafa haft. Þeir spurðu Hörð, hvat land þat væri. Hann kveðst þat eigi vita: en hèr munum vèr á land gánga. Hjálmtèr kveðst þat eigi vilja, en Hörðr segist ráða mundi. Skutu þeir bryggjum á land, ok gánga svâ á þat. Hörðr mælti: kanna skulum vèr land þetta. Hjálmtèr sagði: Hervör skal með oss fara, því hana vil ek eigi eptir skilja. Hörðr kvað þat eigi vera skyldu: vil ek ráða, því vèr munum ekki lángt fara. Þeir gánga allan þann dag, en at kveldi koma þeir at húsi einu litlu ok vænu. Hörðr lýkr upp húsinu, var þar sæng ein ok kostr nógr ok öl. Um kveldit talar Hörðr þá fleira, enn hann var vanr, ok mælti: undarliga brá mèr við, er ek kom í hús þetta; leggjast þeir niðr ok sofa fast, en um morguninn sem Hjálmtèr vaknar, lá Hörðr, en því var ekki vant. Hjálmtèr segir við Ölver, at hann skyldi sofa í náðum; liðr svâ á daginn. Þá gekk Hjálmtèr at Herði, ok tók á honum, ok bað hann vakna. Hjálmtèr fann, at hann var dauðr, ok fèll hann á bak aptr í sængina, ok spratt honum blóð undan hverjum nagli, ok úr nösum. Ölver spyrr, hvat honum væri. Hjálmtèr gat lengi aungvu svarat, en um síðir sagði hann, at Hörðr sè dauðr. Ölver mælti: þat veit trú mín, ef þú værir ekki minn fóst-

bróðir, skyldir þú skjótt deyja. Hjálmtèr kvað vísu:

Berum við á baki
brodda fram keyri,
launum svâ líf honum,
látum hann eigi eptir;
heygjum Hörð hvergi,
fyrr enn heim komum,
gröfum hann heima
hallarveggjum undir.

Kjóstu nú, Ölver! hvort þú vilt bera kylfu hans ok kápu, eðr hann sjálfan. Ölver kveðst kylfuna bera vilja. Hjálmtèr flettir hann loðkápunni, en hann var undir í rauðum skallats kyrtli, ok hafði silfrbelti um sik, en gullhlað um enni. Hjálmtèr mælti: sjá þú nú, Ölver! at þetta er konúngsson framar enn hvorr okkar, en eigi þræll sem við höfum lengi ætlat; leggr hann þá Hörð á bak sèr, honum þótti hann lèttr. Gánga þeir þann dag til kvelds, ok komu at öðru húsi, ok fengu þar góðar náðir; fór svâ tvo daga. Hinn þriðja dag tók Ölver til orða: ekki ber ek lengr kápuna nè kylfuna, því full lúinn er ek af þessarri byrði, en þat þó meira at þú berr svâ lengi dauðan mann eptir þèr; mun þetta verk uppi vera, á meðan heimrinn stendr. Þú talar mikil æðruorð, segir Hjálmtèr, ok fá mèr hvorttveggja. Ölver gjörir svâ; gánga þeir til kvelds, ok koma at húsi hinu þriðja. Hjálmtèr lèt Hörð

í rekkjugólf sitt um kveldit. Ekki hafði Hjálmtèr sofit, síðan Hörðr dó. Hann vakir, sem hann var vanr; utan í móti morgunsári[1] rann á hann svefnhöfgi. En er Hjálmtèr vaknar, var Hörðr í burt, varð honum þá eigi betra við, enn í fyrra sinni, ok þá mælti Hjálmtèr: aldrei verð ek glaðr upp frá þessum degi, fyrr enn ek finn Hörð. Þeir stóðu upp, ok gánga leið sína, þángat til þeir koma fram á völlu eina fagra ok væna. Þeir sáu borg stóra ok harla væna, alla gagnskorna ok rent gulli ok silfri í skurðina; hún var fagrliga múruð með rauðum steinum, blám, gulum, grænum, hvítum ok svartum; hennar turnar voru háir ok þaktir með gulli. Þeir gengu til hallar, ok inn í höllina, ok fyrir konúnginn. Ölver heilsar honum, en Hjálmtèr þagði. Konúngr tók vel kveðju hans, ok bað at taka stól ok setja frammi fyrir sèr; þeir settust niðr; þat sáu þeir, at höllin var öll skipuð af sæmiligu fólki. Konúngr bað þá at vera káta ok glaða eptir mikla mæði. Hjálmtèr át hvorki nè drakk, hann var stundum bleikr, stundum rauðr sem blóð. Litlu síðar lukust upp hurðir hallarinnar, ok þegar gengu þar inn 30 meyjar, tvær báru þó lángt af öðrum, var önnur þó miklu vænni, þóttist Ölver aungva slíka sèð hafa at allri sköpun ok fegurð. Fyrir þeim var básúnat með allrahanda hljóðfærum;

[1]) *þannig*; morguns árit,

var þá mikil gleði í þeirri höll. Jomfrúrnar gánga fyrir konúnginn, ok kalla hann bróður sinn, ok settust niðr. Ölver sá, at Hjálmtèr roðnaði mjök, ok dró Snarvendil úr sliðrum, ok lagði niðr undir stólinn. Konúngr leit til Hjálmtèrs, ok kvað vísu:

Hvað er þèr, Hjálmtèr!
hefir þú lit brugðit,
stórt er þèr í hug,
þú starir á mik laungum.

Hjálmtèr tók undir, ok kvað hálfa vísuna:

Hvarf hinn hugprúði
Hörðr úr för minni,
greitt ertu líkr honum
gái ek ei því drekka.

Konúngr reiddist, ok kvað vísu:

Lægast mun sæmd þín,
ef líkr skal ek vera
aumum illþræli,
er ekki prýðir;
ragr í hverja taug,
nema reiða mat svínum,
halr hinn hrafnsvarti
í hræfar skrúði.

Hjálmtèr vill þá þreifa til sverðsins, ok var þat í burtu. Hjálmtèr kvað:

Burt er Snarvendill
úr sliðrum horfinn,
má ek eigi víg vekja,
veldr því Ölver;

hefna mundi ek Harðar,
ef hann hèr væri,
ok rjóða minn mæki
í manna blóði.

Eptir þat gekk önnur mærin at Ölver, ok kvað vísu:

Sax hefir þú, Ölver!
slík eru vâpn færri
bana veitti bendli[1]
barst þat úr helli;
brá ek hilmis sonum
í hana líki,
forðaði ykkar fjörvi
fegri er ek nú hóti.

Ölver mælti: satt segir þú, júngfrú! Hann tók meyjuna, ok setti í knè sèr. Litlu síðar gekk önnur júngfrúin at Hjálmtèr, ok kvað:

Keyptir þu Snarvendil
með kossi einum,
var þat verð lítit
vel frá ek mèr kæmi;
ör mundir þú af auði,
ef optar svâ fengir
jöfur hinn ógrounddjarfi
ok einka heppni.

Hjálmtèr lèt sem hann heyrði ekki, ok þagði. Hún gekk aptr til sætis sins. En er konúngr sèr þetta, gekk hann undan borðum, ok tók

[1]) beðn, C.

horn eitt, ok rendi á víni, ok gekk at Hjálmtèr, ok kvað vísu:

Tak hèr við horni,
er þèr Hörðr færir,
gef nú ró reiði,
ok ræðum þá síðan!
þú hefir oss hjálpat,
en vèr yðr bjargat,
öllum úr ánauðum,
yndis vèr njótum.

Hjálmtèr stóð þá upp í móti Hörði, ok myntist hvorr við annan; var þar fagnaðarfundr, var þá drukkit fagnaðaröl, ok hin bezta veizla.

22. Þat var einn dag veizlunnar, at konúngr sat í sínu hásæti, ok þeir fóstbræðr næst honum, en júngfrurnar á stóli framan fyrir honum; voru þá allir glaðir með orðum fögrum, ölværð ok gleði, gamni ok allskonar skemtan. Hjálmtèr spurði hina fríðari júngfrúna at heiti, eða hvert hennar faðerni væri. Hún kveðst Álsól[1] heita: er minn faðir látinn, er hèr stýrði landi, en bróðir minn tók ríki eptir hann, sem Hörðr hefir nefnzt, en hann heitir Hríngr; Hildisif heitir systir mín, en land þetta heitir Arabía; kann bróðir minn at segja yðr slíkt frá vorum forlögum, ætt ok uppvexti. Skildu þau svå talit. Biðr þá Hjálmtèr Hríng at greina sèr gjörr þat, sem

[1]) Alfsól, C.

hún hafði honum sagt. Hríngr konúngr kveðst þat gjarnan gjöra vilja[1]. Konúngr hefr svâ sitt mál: þat vil ek yðr kunngjöra, at minn faðir hèt Ptólómeus[2], ok stýrði hèr ríki; hann átti drottníngu harla væna, ok við henni átti konúngr oss þrjú syskin; liðu svâ lángir tímar, þar til móðir vor tók sótt ok andaðist, var haugr orpinn yfir hana; þráði konúngr mjök eptir drottníngu sína. Konúngr átti sèr ráðgjafa trúan ok dyggvan, hann gekk einn dag fyrir konúng, ok kveðst vilja leita honum at kvânfángi, ok því játar konúngr. Ráðgjafinn ferr, ok kemr aptr at hausti, er þá drottníngarefnit í för með honum, hún hèt Lúða; er þegar brúðkaup gjört; leizt öllum vel á þessa konu; ekki vildu vèr syskin sitja brúðkaupit; gekk veizlan vel fram. Leið eigi lángt, áðr enn þeim þótti drottníng ill, bæði í skapmunum ok orðum, en í gjörníngum verst; rèð hún skjótt föður mínum bana, því henni þótti hann gamall, en hún úng ok lystug; vildi hún síðan mik átt hafa, en ek vildi ekki hennar ljótum vilja samþykkja. Lagði hún síðan á mik, at ek skyldi þræll sýnast, svartr ok illúðligr, ok aldrei skylda ek mat mega eta, nema á miðju gólfi, ok aldrei úr þessum álögum komast, nema nokkur konúngsson vinni þat til mín, at láta mik öllu ráða, ok

[1]) er nú á hljótt ok tvist í höllinni, *b. v. C.* [2]) Tolomeus, *C.*

bera mik á baki sèr þrjá daga dauðan; nú hefir þú þetta hvorttveggja gjört. Þat eitt lagði hún á mik til líknar, at ek mætti gjöra, hvat sem ek vildi orkat hafa, ok aldrei skyldi mèr aflafátt verða, ok alla hluti yfirvinna, þat sem fyrir mik væri lagt. Á Álsólu, systur mína, lagði hún, at hún skyldi verða at fingálpi[1], ok aldrei úr sínum álögum komast, nema nokkur konúngsson vildi kyssa hana. Þá fèkk fóstra mín henni Snarvendil, var hún hann at henda ýmist með munni eðr höndum. En Hildisif skyldi sýnast at öllum yfirlitum sem tröllkona, ok vera nær bróður hennar. Hann átti bygð í einum helli stórum, ok skyldi hann ekkert grand mega gjöra henni. Hún átti ekki fyrr at komast úr sínum álögum, enn hann væri drepinn með því sama sverði, sem hèkk yfir sæng hans; var þat svâ margt, segir hann, bæði fleira ok verra af henni. En eptir þetta fór hún í burt með mik, ok er þessi hin sama þín stjúpmóðir; er nú enduð mín æfisaga. Hjálmtèr þakkaði honum þá góða skemtun; varð þá allt fólk gladt. Eptir þetta hóf Hjálmtèr upp orð sín, ok biðr Álsólar sèr til handa; fýsti konúngr þess mjök. Ölver bað ok svâ Hildisifar, ok var þetta afráðit. Hèr eptir vilja þeir Hjálmtèr ok Ölver heim halda, fèkk konúngr þeim 20 skip, ok lèttu eigi fyrr, enn þeir komu at Mannheimum. En er Hjálmtèr leit stjúpu

[1]) fingálkni, C.

sína, fèll hún niðr í eldinn; en faðir hans varð honum allshugar feginn; sat Hjálmtèr þar nokkra stund. Hann bauð föður sínum til brúðkaups síns, ok þá konúngr þat. Sigldu þeir á hundrað skipum til Arabía; en at þeim þar komnum gekk Hríngr í móti þeim, ok leiddi þá til hallar með miklum prís ok skemtan. Gekk hann þá at eiga Hervöru, ok voru þessi þrjú brúðkaup setin með miklum mannfagnaði; ok at þeim enduðum voru allir með ágætum gjöfum útleiddir; ok fór svâ hverr til síns heimilis. En þeir Hríngr konúngr, Hjálmtèr ok Ölver mæltu til stöðugrar vináttu með sèr, ok gefr hvorr öðrum góðar gjafir, ok skilja með því. Siglir Hjálmtèr þá heim til Mannheima, stýrði hann því ríki eptir föður sinn. Ölver sezt ok at þeim ríkjum, sem faðir hans hafði at stýra. Hjálmtèr matti hann til alls, ok þótti vera hinn mesti afreksmaðr. Hjálmtèr átti tvo sonu við drottníngu sinni, hèt hinn eldri Íngi, en hinn ýngri Hlöðver; hafði konúngr síðan margar orrostur, ok hafði í öllum sigr, stóð honum enginn á sporði. Ölver styrkti hann í öllum mannraunum. En eptir Hjálmtèr tók Íngi, sonr hans, ríkit, en Hlöðver var hernaðarmaðr mikill; hann bar Snarvendil eptir föður sinn. Ölver átti ok son, hverr eð Rauðr[1] hèt; hann lagðist í hernað

[1]) Herrauðr, *C*, *P*.

með Hlöðver; urðu þeir miklir kappar, ok er margt fólk komit frá þeim; unnu þeir undir sik mörg konúngaríki; ok lúkum vèr hèr sögu Hjálmtèrs, Ölvers, Hríngs ok Hervarar[1].

[1]) ok samdi sá, er vel kunni ok vel vildi, *b. v. C.*

## Hèr hefst sagan af Hálfdáni Eysteinssyni.

1. Þrandr hefir konúngr heitit; við hann er kendr Þrándheimr í Noregi; hann var sonr Semíngs konúngs, sonar Óðins, er rèð fyrir Hálogalandi. Semíngr átti Naumu, er Naumudalr er viðkendr. Þrándr var mikill höfðíngi; hans kona hèt Dagmær, systir Svanhvítar, er Hrómundr Gripsson átti; þeirra son hèt Eysteinn, en annar Eirekr hinn víðförli, er fann Ódáinsakr; hans móðir er ekki nefnd. Eysteinn giptist, ok fèkk dóttur Sigurðar hjartar, er Ása hèt; hennar móðir var Áslaug, dóttir Sigurðar orms-í-auga; Eysteinn fèkk með henni Finnmörk ok Valdres, Þotn ok Haðaland; hann var ríkr ok stjórnsamr; þau áttu son, er Hálfdán hèt; hann var ok stjórnsamr ok stiltr vel, ok fríðr sýnum, ok vandist snemma við allar íþróttir, þær sem karlmann mátti fríða, ok betra var at hafa enn missa; hann var vinfastr ok trúlyndr ok vinavandr, gleðimaðr mikill, svâ at alla gleði mátti við hann eiga; en ef honum mislíkaði,

þá var hann þúnglyndr ok lángrækr, en eigi mjök bráðskapaðr. Hann óx upp með föður sínum, þar til hann var 15 vetra gamall, þá tók móðir hans sótt, ok andaðist; þótti konúngi þat mikill skaði, ok öllum öðrum, ok var hennar útferð sæmiliga búin; konúngr undi lítt í ríki sínu þaðan í frá, ok fór hann í hernað hvert sumar. Maðr er nefndr Svipr; hann var ríkr bóndi ok meðallagi vinsæll; hann átti þrjá sonu: einn hèt Úlfkell, ok var kallaðr Snillíngr; hann var mikill ójafnaðarmaðr, ok eigi mjök vitr; hann var í hernaði með Eysteini konúngi, ok hafði 5 skip sinna vegna; konúngr hèlt mikit af honum. Annar son Svips hèt Úlfar, hann var ráðgjafi konúngs; hann var vinsæll maðr ok trúlyndr, ok þótti hann allstaðar bæta til bæði fyrir konúngi ok öðrum. Úlfr hèt hinn ýngsti son Svips; hann var kallaðr Úlfr hinn illi; hann herjaði um Eystrasalt ok um Bjarmaland; hann hafði mikla ræníngjasveit, ok var allóvinsæll. Eitt sumar herjaði Eysteinn konúngr í Austrveginn; Úlfkell snillíngr var þá með honum, ok Hálfdán, son konúngs; þeir höfðu 30 skipa vel skipuð, en Úlfar, bróðir Úlfkels, hafði vald yfir ríki Eysteins konúngs, meðan hann var í hernaðinum.

2. Í þenna tíma rèð fyrir Aldeigjuborg konúngr sá, sem Hergeir hèt; hann var við aldr; Ísgerðr hèt kona hans; hún var dóttir

Hlöðvers konúngs af Gautlandi. Bræðr hennar voru þeir Sigmundr, er var stafnbúi Haralds konúngs hins hárfagra, ok Oddr skrauti, faðir Gull-Þóris, er getr í Landnámabók á Íslandi. Þau áttu eina dóttur, er Íngigerðr hèt; hún var allra meyja fríðust, ok svâ stór vexti, sem karlmaðr; flestir hlutir voru henni vel gefnir; hún var at fóstri með jarli þeim, er Skúli hèt, hann rèð fyrir Álaborg ok jarlsríki því, sem þar lá til; hann var sagðr bróðir Heimess, fóstra Brynhildar Buðladóttur, er getr í sögu Ragnars konúngs loðbrókar. Skúli var kappi mikill ok manna vitrastr. Kolr hèt maðr, hann var þræll Skúla; hann var mikill maðr, ok svâ sterkr at hann hafði 12 karla afl til hvers, sem hann gekk. Þat mátti kalla, at hann hefði mest ráð með jarlinum; hann var honum dyggr. Dóttur átti hann sèr, sú hèt Íngigerðr, ok var allra meyja fríðust ok mjök lík Íngigerði konúngsdóttur, bæði á vöxt ok yfirlit, en eigi var náttúra þeirra lík, þvíat Íngigerðr konúngsdóttir var vel siðuð, en nafna hennar var hin mesta fála, en þó var hún vel mennt, þvíat konúngsdóttir hafði kennt henni hannyrðir, ok var hún iðuliga í skemmu hennar. Skúli jarl unni mikit fóstru sinni; eigi var Skúli kvongaðr; íþróttamaðr var hann svâ mikill, at engi maðr komst til jafns við hann.

3. Eysteinn konúngr er nú kominn fyrir Aldeigjuborg með her sinn; Hergeir konúngr

var fáliðaðr fyrir; Eysteinn konúngr gekk at borginni með liði sinu; Hergeir konúngr varði vel ok drengiliga, en þó var hann eigi við bardaga búinn, ok urðu þær málalyktir, at Hergeir konúngr fèll ok mestr hluti liðs hans. En þegar konúngr var fallinn, bauð Eysteinn konúngr grið öllum þeim, sem eptir voru; gafst þá upp bardaginn, ok gengu þeir til griða, sem eptir voru; lèt konúngr þá hreinsa borgina. Síðan lèt hann leiða drottníngu fyrir sik; en hún var í hörðu skapi. Konúngr horfði á hana um stund, ok mælti síðan: vorkunn er þat, sagði hann, at þèr liggi í miklu rúmi þau tíðindi, sem hèr hafa orðit öll saman, en bætr liggja til alls, ok vil ek nú vera þèr í bónda stað, ok er eigi vanfenginn maðr á mót honum, því hann var gamall. Engi lýti voru honum at elli sinni, sagði drottníng, en þat uggir mik, hvort ek verð þeim trú, sem hann hefir drepit. Nú er um tvo kosti, sagði konúngr, sá annar at ek mun taka þik frillutaki, ok heldst þat slíka stund, sem auðit verðr, hinn annar at þú giptist mèr, ok gef ríkit allt í mitt vald, ok skal ek gjöra þinn sóma mikinn, ok óttumst ek eigi, at svik þín muni mèr at bana verða, [þá ek skal deyja[1]. Drottníng segir: þat mun sannast hitt fornkveðna, at hörð verða óyndisúrræðin, ok mun ek þann kjósa, at eiga þik; konúngr segir sèr þat nær

[1]) *v. í B.*

skapi; síðan var þetta mál til lykta snúit, ok tókust þessi ráð, ok er allt seinna enn segir.

4. En þessu næst kallar konúngr saman alla sína menn; hann mælti þá til Úlfkels snillíngs ok Hálfdánar, sonar síns: svâ er mál með vexti, sagði hann, at Skúli jarl ræðr fyrir norðr í Álaborg; þar er á fóstri með honum Íngigerðr, dóttir Hergeirs konúngs; Skúli er kappi mikill, ok er oss von at hann muni koma á hendr oss með her, því skulu þið fara austr ámót honum, ok leggja landit undir ykkr, en færa mèr *konúngsdóttur*, ok ef þið getið unnit landit, þá skal Úlfkell vera þar jarl fyrir drengiliga fylgð, er hann hefir mèr (veitt), ok skal ek fá honum sæmiligt kvonfáng; en Hálfdán skal eiga Íngigerði, ef honum hugnast þat ráð. Þeir bjuggu nú her sinn, Úlfkell ok Hálfdán, ok lètta eigi fyrr, enn þeir koma til Álaborgar.

5. Skúli jarl hafði nú frètt þau tíðindi, sem gjörzt höfðu í Aldeigjuborg, ok því safnar hann at sèr liði miklu; ok er liðit var samankomit, tók Skúli sótt mikla; hafði hann þá sanna frètt af her þeirra Úlfkels ok Hálfdánar. Hann mælti þá við Kol: þat vil ek, sagði Skúli, at þú gjörist höfðíngi fyrir liðinu, tak þú upp merki mitt ok klæði, ok skal ek fá þèr jarldóm, ok skal ek gipta þèr Íngigerði, fóstru mína, ef þú fær sigr; Kolr kveðst þess albúinn. Sagði Skúli nú fyrir mönn-

um, hversu breyta skyldu; hugðu liðsmenn[1] eigi annat, enn Skúli mundi þat vera, sem Kolr var. Hann ferr nú með liðit á móti þeim Hálfdán ok Úlfkel. Skúli jarl lá í þorpi einu, ok var honum nú heldr í aptrbáta. Íngigerðr konúngsdóttir kallar nöfnu sína Íngigerði Kolsdóttur til sín, ok mælti til hennar: ek vil at þú takir við trúnaði mínum, sagði hún, ok látir aungan vita, meðan þú lifir; þú skalt taka við klæðum mínum, því við erum mjök líkar, skaltu kallast dóttir Hergeirs konúngs, en ek taka við þínum klæðum, ok fara á flótta með öðrum ambáttum, ok skaltu þenna trúnað aldri láta uppi, á meðan við lifum báðar, en ef þeir sigrast, sem til eru komnir, þá mun Hálfdán konúngsson biðja þín, ok ertu þá fullgipt, en elligar Úlfkell, ok er þá góðr, hvorr sem upp kemr; hún kveðst þetta gjarna vilja, ok fór þetta fram. Nú koma þeir Hálfdán ok Úlfkell at með sinn her; Kolr lætr lúka upp borginni, ok gengr út með allan sinn her, tekst þar bardagi, ok stendr hann með mikilli mannhættu; Kolr var bæði sterkr ok stórhöggr, ok hugðu allir þar Skúla jarl vera, ok gekk hann í gegnum fylkíngar þeirra. Herbjörn hèt frændi Skúla jarls, hann hafði fylkíng ímót Hálfdáni, ok voru þeirra skipti all hraustlig; en svâ lauk með þeim, at Herbjörn fèll, brast þá flótti í liði þeirra.

[1]) landsmenn, C.

Hálfdán rak flóttann allt til skógar. Nú er at segja frá viðskiptum þeirra Úlfkels ok Kols; hafði Kolr þá drepit margan mann; Snæúlfr hèt merkismaðr Úlfkels; hann bar djarfliga fram merkit, ok barðist drengiliga; þeir mættust nú, Kolr ok Úlfkell, ok voru þeirra viðskipti all hraustlig, ok börðust þeir svâ lengi, at engi skakkaði með þeim, ok hjuggust af þeim allar hlífar; Kolr hjó þá mikit högg til Úlfkels, þat kom á hjálminn utarliga, ok tók af, þat er nam, ok var þat fjórðúngrinn, ok þar með eyrat hitt vinstra, ok var höggit svâ mikit, at Úlfkell fèll, en Snæúlfr kom þá at, ok hjó til Kols, ok kom á andlitit, ok tók af nefit ok báðar varirnar ok hökuna, ok fèllu tennrnar niðr í gras. Kolr stóð eigi kyrr, þóat hann hefði fengit sárit, hjó hann til Snæúlfs á hálsinn, svâ af tók höfuðit; Úlfkell var þá á fætr kominn, ok lagði til Kols fyrir brjóstit, svâ út gekk um herðarnar, fèll hann þá dauðr niðr; brast þá flótti í liði þeirra, Úlfkell rak flóttann, en Hálfdán snèri aptr; hann sèr, hvar 2 menn gengu, þat var karl ok kerlíng, mælti hann mál af þeim, ok spurðu þau, hversu bardaginn hefði gengit, en þeir sögðu af hitt ljósasta, ok síðan skildu þeir; karl var svâ stirðr, at hann lá á herðum kerlíngu, ok drögnuðu þau svâ til skógar. Hálfdán spurði menn sína, við hvern þeir hefði talat, en þeir kvoðu þat stafkarl veslugan.

At fá verðr of vanliga hugat, sagði hann, þar er sá karl, er mèr er aptrsjá at, ok betr væri drepinn; en þeir kvoðu þat níðíngs verk; var hann þá kominn í skóginn, ok tjáði þá eigi eptir þeim at leita[1]. Ríðr Hálfdán nú heim til borgarinnar, var Úlfkell þá kominn í borgina, ok gekk at skemmu þeirri, er Íngigerðr var í, var hún þá leidd fyrir hann. Hún mælti þá til Úlfkels: þú hefir nú unnit mikinn sigr, sagði hún, drepit höfðíngja borgarinnar. Nú ef þèr eruð rèttir hermenn, þá munu þèr eigi níðast á mèr, eðr þeim mönnum öðrum er hèr eru höfðíngjalausir, ok láta mik ná at finna mína móður. Úlfkell sagði: þat skal satt vera, en þat sem vèr höfum afgjört, skulum vèr góðu bæta, bæði þèr ok þinni móður, ef þú vilt vera oss trú, holl, hlýðin ok eptirlát, ok þú varðist eigi við oss. Svâ er nú komit mínu máli, sagði hún, at ek ætla metnaðrinn hafi lítit at gjöra. Þeir hètu henni góðu þar um, ok voru þá loknar upp fjárhirðslur; tóku þeir gull ok silfr, ok þat annat er þá lysti, en gáfu grið mönnum öllum; síðan var veittr umbúníngr þeim dauðu, ok var búit virðugliga um leiði Skúla jarls, er Kolr var reyndar; lögðu þeir síðan land allt undir sik, ok bjuggust síðan móts við Eystein konúng, ok var Íngigerðr í ferð með þeim.

[1]) *hèr vantar blað í A, og er uppfyllíngin tekin úr D.*

6. Nú frèttir konúngr heimkomu þeirra, ok hversu mikinn sigr þeir höfðu fengit, fagnar hann þeim sæmiliga, ok skemtu þeir honum frá ferðum sínum; þakkar konúngr þeim vel, ok spyrr Hálfdán eptir, hversu honum lízt á konúngsdóttur, en hann kveðst eigi mjök kvennskygn, en segir þó, at hún væri væn kona. Íngigerðr var nú komin í höll til drottníngar, ok fagnar hún henni vel, en þó með minni blíðu, enn margr ætlaði. Þá lèt konúngr senda eptir þeim mæðgum; en er þær komu fyrir hann, mælti hún til Ísgerðar drottníngar: nú er hèr komin dóttir þín, sagði hún, ok vil ek nú með yðru ráði allan sóma gjöra bæði þèr ok henni, vili Hálfdán mínum ráðum fara fram, þá vil ek at hann fái hennar, ef hennar vili fellr þar til ok þín, drottníng! Svâ er hún viti borin, sagði drottníng, at hún má sjálf hafa ráð fyrir sèr ok svör um slík mál. Þá mælti Hálfdán: ekki hefi ek mjök huglagt at kvænast svâbúit, hefik ok ekki margar konúngadætr sèð, ok vel þiki mèr sá giptr, sem Íngigerði á, ok eggjandi vil ek þess vera, at þèr sjáið gott ráð fyrir henni. Þá mælti Úlfkell: lengi hefi ek yðr, herra! þjónat, ok vænti ek af yðr góðs, ok þætti mèr mikill sómi, ef þèr vilduð gipta mèr þessa mey, hefi ek ok nokkut talat við hana áðr, ok hefir hún engi fjærtæki haft um þessi mál. Konúngr spyrr nú Íngigerði, hversu

henni væri um þat gefit, en hún kvað hann mestu umráða, ef móðir hennar vildi, ok legði eigi móti: ok síðan vill þèr, konúngr! auka nokkra nafnbót við Úlfkel. En konúngr spurði drottníngu, hversu henni væri umgefit. Hún kvað sèr þat bezt líka, at hann sæi fyrir, sem honum líkar. Eptir þetta gipti konúngr Úlfkeli Íngigerði, ok gaf honum jarlsnafn ok Álaborg til forráða, ok þat ríki sem þar lá til, ok var þá drukkit brullaup þeirra; ok síðan fór Úlfkell til Álaborgar, ok tók undir sik ríkit, ok gjörðist þar höfðíngi yfir, ok galt konúngi skatt, ok fór svâ lengi fram, ok tókust upp ástir með þeim Íngigerði.

7. Eysteinn konúngr sitr í sínu ríki; hann unni mikit Ísgerði dróttníngu. Hún lèt sèr alla hluti kvennmannliga verða til hans, ok liða nú svâ þrír vetrar. Þat bar til eitt sinn, at kaupskip mikit sigldi austan fyrir Bálagarðs síðu í stóru veðri; þat skip hvarf, ok fannst ekki mannsbarn af, ok ætluðu menn at stórviðri mundi hafa brotit þetta sama skip. En eptir um haustit var þat einn dag, at tveir menn komu til hirðar, þeir voru miklir vexti, en eigi vel klæddir; ekki sáu menn gjörla í andlit þeim, því at þeir höfðu síða höttu. Þeir gengu fyrir konúng, ok kvöddu hann virðugliga, þvíat hann var optast blíðr í máli. Hann spurði, hvat manna þeir væri. Þeir sögðust báðir Grímar heita, ok vera ættaðir utan af

Rússía ok hafa mist penínga sína í skipreika. Þeir báðu konúng vetrvistar. Konúngr spurði drottníngu, hvat henni þætti ráð um, en hún sagði hann mundi sjálfr ráða slíku, en kvað þó marga vetrtaksmenn misjafnt gefast: er mèr þá ekki af at kenna, ef ek legg ekki til. Konúngr kvað hana jafnan litlu skipta sèr um ráðagjörðirnar: nenni ek ekki at vísa þeim frá mat, þar þeir voru svâ lángt atkomnir; var þeim nú skipat sæti þarsem mætast gestir ok hirðmenn. Þeir voru fáskiptnir við menn, en komu sèr við alla vel. Grímr hinn eldri var stór maðr vexti, at fáir voru hans líkar, hann var sterkr ok fimr við alla leika, ok var opt at leikum með konúngsmönnum í skotbakka ok at knattleiki; hann fór vel með afli sínu, ok lèk á aungvan, en var eigi aflvana, ef leitat var á hann. Grímr hinn ýngri var mjúkr í leikum öllum, fimr við skot, en prófaði lítt aflraunir, en skaut allra manna bezt af handboga eðr lásboga[1], en tefldi svâ vel, at engi komst til jafns við hann. Hálfdán konúngsson lagði opt leik sinn við hann, bæði tafl ok skotfimi, en svâ mikla vörð hèlt hann á þeim Grímunum, at aungva nótt sváfu þeir svâ, at hann vekti eigi, ok hefði eigi vitund af þeim, ok leið svâ fram vetrinn at jólum.

8. Þat var einn dag í jólum, at menn

[1]) *hèr endar C.*

lèku knattleik fyrir konúnginum; hann sat á stóli, en drottníngin á öðrum. Grímarnir voru at leiknum, ok gat enginn leikit til jafns við hinn stærra Grím nema Hálfdán konúngsson. Aldrei höfðu Grímar talat orð við drottníngu á þeim vetri. Einusinni sló Grímr hinn eldri út knöttinn, ok átti Grímr ýngri at sækja. Knöttrinn rann allt upp at stól drottníngar. Grímr gruflar eptir knöttinum, en þá hann rèttist upp, talaði hann nokkur orð í eyra drottníngunni, en hún brá nokkut lit við. Á móti dagverðardrykkju gafst upp leikrinn, tóku menn þá til drykkju. Konúngr veitti kappsamliga um daginn, ok fèll hverr maðr sofinn í sínu sæti niðr, sá sem eigi færði sik sjálfr til sængr. Konúngr drakk lengi um kveldit; drottníng sat hjá honum; konúngr spurði, hvat Grímr hefði talat við hana, en hún kveðst eigi hafa hent reiður á því. Konúngr sagði, at hún vildi flestar sagnir hjá sèr geyma, ok um fátt sèr vísbendíng gjöra. Drottníng bað hann vera sem varastan um sik, gekk hún þá burt. Grímar voru þá sofnaðir; gekk þá konúngr at sofa ok Hálfdán, son hans, með honum; en er þeir komu til skemmunnar, var drottníng eigi þar. Konúngr lagðist í sængina í klæðum sínum, ok lagði sverð sitt fyrir framan sik. Herbergissveinarnir dróu upp skriðljósin, en Hálfdán gekk inn í höll, ok láu Grímar þar ok sváfu. Hálfdán sá, at Grímr hinn minni hafði dregit

af sèr glófann, ok var höndin ber; aungva mannshönd þóttist hann slíka sèð hafa fyrir fegurðar sakir, þar fylgði gull, ok svâ vænt at eigi þóttist hann slíkt sèð hafa fyrr, mest fyrir sakir steins þess sem í því var, ok hann skildi eigi, hvorrar náttúru hann var. Hann lokkar nú gullit af fíngrinum, ok lèt í glófann, en síðan bað hann draga upp ljósin, ok settist hann niðr hjá Grímunum, var þá myrkt hitt neðra í höllunni; hann hèlt á glófanum í hendi sèr, skjótt fèll svefn á hann, en vaknaði við þat, at ljósin voru slokin, en Grímr hinn minni vatt upp ljós fyrir augu honum svâ björtu, at hann þoldi eigi í móti at sjá, en greip af honum glófann, ok mælti síðan: eptir þessari hendi, gulli ok glófa skaltu leita ok þreyja, ok aldrei náðir fá, fyrr enn sá leggr jafnviljugr aptr í þinn lófa, sem nú tók á burtu, en síðan snarar hann ljósinu til þeirra dyranna, sem skemra var til, en hleypr til hinna sjálfr, sem lengra var til, ok þar út.

9. Hálfdán sprettr nú á fætr, ok hleypr til þeirra dyranna, sem ljósinu var til snarat, ok voru þær læstar, snýr hann þà til hinna dyranna, ok hèt á menn þá, sem inni voru, at þeir skuli vakna. Dyrnar voru læstar, ok varð at brjóta þær upp, áðr þeir komust út. Hálfdán vitjar þá skemmubúrsins, ok var konúngr þá dauðr ok laginn sverði í gegnum, ok þrír

smásveinar, en sá fjórði komst á þvertrèð, ok sagði at Grímr hinn meiri hefði þar komit ok drepit konúnginn, ok þá alla sem dauðir voru, ok kallaði síðan: segið Hálfdáni svâ, at Vigfús ok Ófeigr hafi hefnt Hergeirs konúngs, ok gekk út síðan. Í þessu kom drottníng í skemmuna, ok fengu henni þessi tíðindi svâ mikils, at hún fèll í ómegin, ok þótti við dauða búit; var nú ys mikill í höllinni ok borginni, ok fóru menn at leita Grímanna á sjó ok landi, ok fundust þeir hvergi, ok stóð þessi leit mánuð, ok var víða getfè tildreift; þó dyrglaðist yfir þetta um síðir, var þat þá flestra manna vili, at Hálfdán væri til konúngs tekinn.

10. Litlu síðar lætr Hálfdán kveðja þíngs, en er höfðíngjarnir voru samankomnir, lögðu menn bænarstað til, at Hálfdán væri konúngr þeirra, en hann svaraði svâ; þau tíðindi hafa hèr gjörzt fyrir stuttu, at mèr sómir eigi konúngsnafn at bera, meðan svâ stendr, þvíat ek er ekki óðalborinn til þessa ríkis, mun mörgum þikkja mèr betr sóma at hefna föður míns, ok leita at þeim, sem hann hafa drepit; þiki mèr ráð, at drottníng sendi eptir Sigmundi, bróður sínum, at hann komi híngat, ok stýri þau landi, þángat til ek kem aptr, hvernin sem þá breitum vèr; en ek mun burt fara, ok eigi aptrkoma, fyrr enn ek hefi fundit minn föðurbana, hversu sem mèr verðr um hefndina auðit. Drottníng sagði, at henni þætti sitt ríki hvergi

betr komit, enn hjá honum; en hvat þar er umtalat, þá er þat af. Hálfdán býst úr landi með 5 skip, ok valdi með sèr góða drengi, sigldi hann fyrst í Austrveginn, ok varð honum bæði gott til fjár ok mannorðs, en aldrei lá hann svâ vakandi, at væri eigi[1] honum fyrir augum sú fagra hönd ok þat væna gull, sem hann misti í Aldejuborg; látum hann nú sigla alla 5 vetr, sem hann vill.

11. Þar tökum vèr nú til, sem Úlfkell sitr norðr í Álaborg, ok kona Íngigerðr; þau frèttu nú lát Eysteins konúngs, ok svâ með hverjum hætti þat hafði orðit, talar Íngigerðr þá við Úlfkel, hvort hann vill ekki kalla til ríkis eptir Hergeir konúng, föður hennar. Hann kveðst þess albúinn. Síðan bjuggu þau ferð sína, ok lèttu eigi, fyrr enn þau kvomu til Aldeigjuborgar. Sigmundr var þar fyrir með drottníngu. Úlfkell kallar til ríkis í hönd þeim drottníngu, en hún segir at þau hefði nóg ríki, þó þau ágirntust eigi meira enn þau hefði áðr, ok láta þó vel yfir, ef þau hèldi því, sló þá í heitíngar með þeim. Fór Úlfkell þá heim ok safnar liði. Sigmundr fór þegar norðr eptir honum, ok fundust þeir þar sem heitir Krákunes, ok sló þegar í bardaga með þeim, ok lauk svâ at Úlfkell flýði einskipa með konu sína, sigldi hann þá fyrst norðr í Norig, ok fann þar Úlfar, bróður sinn, ok segir honum, hversu þeir Sigmundr höfðu

[1]) *hèr byrjar aptr A.*

skilit, ok öll þau tíðindi sem gjörzt höfðu í Austrveginum, ok bað nú at hann skyldi gefa upp ríkit í hans vald, ok sagði at hann hafi þó meira hans ríki í Austrveginum. Úlfar bað hann (eigi) tala svâ mikinn ódrengskap við sik, at hann muni gjörast drottinssviki, ok bað hann heldr eflast at liði ok sækja með stríði þat ríki, sem hann þættist eiga í Austrveginum, ok kveðst vildu styrkja hann til þess. Úlfkell lèt sèr þat ekki nægja, ok sló þá í kappmæli með þeim, ok lauk svâ deilu þeirra, at Úlfkell drap Úlfar, bróður sinn, en lagði landit allt undir sik, ok gjörðist hann þar höfðíngi ufir[1], ok þótti öllum þetta hitt mesta illvirki, ok varð hann af þessu óþokkasæll öllu saman.

12. Ok sem Úlfkell hefir at sèr tekit ríkit, safnar hann at sèr liði ok skipum, ok hèlt hann þeim í Austrveginn. Hann hafði 30 lángskipa, ok dreka einn sjötugan at rúmatali; hann hafði með sèr víkínga ok útilegumenn ok hvert illmenni sem hann kunni at fá. Ívar böggull hèt sá, er stýrði drekanum, hann var berserkr ok hitt mesta illmenni. Bróðir hans hèt Hrafnkell, hann var merkismaðr Úlfkels, ok var manna sterkastr. Marga hafði hann aðra stóra menn ok sterka með sèr. Þeir fóru óspakliga, ok herjuðu á hvert land, þar sem þeir komu, ok tóku ósparliga strandhögg. Þeir voru nú komnir austr fyrir Hlynskóga, þar sem heitir Klyf–

[1]) *þannig.*

andanes; þaðan er ekki lángt til Bjarmalands. Þar sigldu á móti þeim 10 skip, þau voru öll skipuð hraustum drengjum; ok var þar kominn Hálfdán, sonr Eysteins konúngs, ok hafði hann frètt allt um ferðir þeirra Úlfkels; en þegar þeir þektust, spurði (hann), því Úlfkell hefði níðzt á bróður sínum, eðr tekit ríki sitt. Úlfkell segir, at þeir hefði meira sitt ríki í Austrveginum, þat sem hann ætti. Hálfdán sagðist aunga von vita þess, at hann stæði til nokkurs góðs ríkis. Síðan brutu þeir upp vopn sín, ok sló þar þegar í bardaga; en með því at liðsmunr var mikill, þá varð skjótt mannfall mikit í liði Hálfdánar. Sviði hèt sá maðr, er mest ráð hafði með Hálfdáni; hann var sterkr maðr; hann sagði fyrir, hversu tengja skyldi skipin, ok lagði hann þeim svâ kænliga saman, at Úlfkell kom ekki öllum sínum skipum við, ok lágu sum í skotmáli; tókst nú harðr bardagi, ryðst Hálfdán um fast; sèr hann at þeim mun eigi duga at berjast til mæði; því ræðr hann til uppgaungu á drekann til Úlfkels, ok þeir Sviði báðir. Þá kom fyrstr á moti þeim Ívar böggull, ok áttust þeir við hart vopnaskipti. Ívar hjó til Hálfdánar, ok kom á hjálminn utanverðan, ok tók af þat er nam, en þat var kopprinn fyrir ofan höfuðit, ok rakaði um höfuðit á Hálfdáni. Hann hjó á móti til Ívars, ok af honum höndina við öxl uppi ok sundr merkisstaungina. Sviði drap stafnbúa Úlfkels, er Egill hèt. Þá lagði Úlfkell

til Hálfdánar, ok kom á hann óvaran í gegnum skjöldinn ok brynjuna, ok rendi út undir höndina; fèkk hann sár á síðunni, ok brotnuðu í honum 3 rifin. Sviði lagði til Ívars bögguls, ok kom í augat, ok var þat hans bani. Hálfdán hjó til Úlfkels, en hann snèrist undan á hæli, en sverðit kom í þiljurnar, ok tók af Úlfkeli hina stærstu tána á hinum hægra fæti. Úlfkell lagði þá með kesju til Hálfdánar; hann stökk upp yfir vindásinn. Kesjan kom í lokugatit. Hálfdán hljóp á skaptit, ok braut í sundr. Sviði hjó þá til Úlfkels um þverar herðarnar, ok var þat högg svâ mikit, at Úlfkell fèll á bæði knè. Þá kom steinshögg fyrir brjóst Sviða, svâ hann hraut útaf drekanum, ok kom í bát, er flaut með skipinu. Í þessu sló Hrafnkell til Hálfdánar með kylfu svâ mikit högg, at hann fauk útbyrðis. Sviði var þar nær staddr, ok greip bátshakann, ok krækir Hálfdán upp úr kafinu, hafði Hálfdán þá fengit sex sár, ok var þá óvígr ok í óviti.

13. Nu urðu mörg tíðindi senn. Þá sáu menn, at rendu fram fyrir nesit hálfr þriði tugr skipa; þau voru öll stór, ok herklæddir menn á öllum. Maðr stóð við siglu, mikill vexti, á einu skipinu, ok silkitreyju ermalausri vel brynjaðr. Hann spurði, hverir hèr ætti svâ ójafnan leik. Sviði sagði til hitt sanna, ok svâ hvar þá var komit. Mun Hálfdán vilja þiggja lið (af) oss? Sviði spyrr, hvat manna hann væri.

Hinn kvað hann þat aungu varða. Sviði kveðst gjarna lið vilja þiggja af þeim; tókst þá bardagi í annat sinn, ok er nú ákafari enn fyrr. Menn Úlfkels voru mjök sárir. Hinn mikli maðr á drekanum lagði at drekanum Úlfkels, en Sviði lagði at hinum smærrum skipunum, ok hruðust þau snart; snèri nú mannfallinu í lið Úlfkels. Hinn mikli maðr rèð til uppgaungu á drekann. Úlfkell kom fyrst á móti honum, ok voru þeirra viðskipti hörð ok laung. Hinn mikli maðr hjó mikit högg til hans, ok klauf fyrir honum allan skjöldinn, ok kom sverðit á fótinn, ok tók af 3 tærnar utanfótar. Úlfkell hjó á móti, ok kom í hjálminn, ok stökk sverðit í sundr undir hjöltunum, sá Úlfkell þá aungvan sinn kost annan, enn forða lífinu, stökk hann þá í þat skip, sem næst honum var, ok flýði. Hrafnkell skaut tveimr kesjum senn at hinum mikla manni, en hann tók báðar á lopti, ok skaut aptr, ok hafði mann fyrir hvorri. Síðan lagði hann með atgeir til Hrafnkels í gegnum skjöldinn ok báða handleggina, ok vo hann upp, ok kastaði honum út á sjóinn. Síðan gánga þeir (svâ) hart at mönnum Úlfkels, at þeir urðu því fegnastir, at biðja griða. Þeim var þat veitt, sem báðu, en eigi vildi hinn mikli maðr hafa þeirra þjónustu, ok var þeim slept fatlausum á land upp. Úlfkell flýði undan einskipa, ok kona hans með honum, en hinir tóku skip öll ok herfáng, en þeir, sem

eptir lifðu af mönnum Hálfdánar, gengu á vald hins mikla manns.

14. Hinn mikli maðr kom þar at, sem Hálfdán lá, ok flakti í sundr af sárum. Hann mælti til Sviða: svâ lízt mèr á sár Hálfdánar, at þau mætti græða, ef þau tekr góðr læknir, en eigi ætla ek honum henta hræríngar eða sjóferðir, ok því mun ek senda hann á land upp til vinar míns, er Hriflíngr heitir; kona hans heitir Arghyrna, þau eru læknar góðir, en eiga ómegð mikla, ok lifa við handbjörg sína, ok er slíkt kölluð hriflínga björg, sem þau hafa; nú mun Hálfdáni ekki lífs auðit, ef þau geta ekki algjört, ok mun hann þá koma til okkar. Hann fèkk nú til trúnaðarmenn sína, at flytja Hálfdán á land upp, ok fèkk þeim hundrat merkr silfrs, ok bað segja þeim karli, at þau legði slíkan hug á at græða hann sem sjálfan sik, ef hann kæmi til þeirra, ok þau skulu segja honum fulla vissu, hvert hann ætti þess at vitja, sem hann hafði látit græða. Fara þeir nú, ok finna karl ok kerlíngu, ok segja þeim þat, þeim var boðit, ok færðu þeim fèit, en þau sögðu bæði at þetta væri þeim full skylda; fóru sendimenn í burtu, en þau hjón tóku til at græða Hálfdán, ok var þat torsótt, þvíat sár hans voru mjök sollin, ok lá hann átján vikur í sárum, ok varð þó græddr at heilu, en 12 mánaði varð hann þar at vera, áðr enn hann fèkk aptr sinn styrk, ok þótti honum sá tími lángr,

þvíat honum kom jafnan í hug sú hin fagra hönd, ok þat gull ok glófi sem hann hafði mist.

15. Tökum vèr nú þar til, sem Úlfkell snillíngr flýði úr bardaganum; hann komst til lands við fimtánda mann, en misti allt sitt lið annat; hann hèlt nú spurnir til, hvar Úlfr, bróðir hans, mundi vera, ok spyrst honum svâ til, at hann sè á Bjarmalandi; fór hann nú á hans fund. Hárekr hèt sá konúngr, er þar rèð fyrir; dóttir hans hèt Eðný. Úlfr hafði beðit hennar, en konúngr vildi eigi gipta hana. Þá herjaði Úlfr á land hans. Sem at þeir bræðr fundust, bera þeir ráð sín saman, at þeir skuli fara á fund Háreks konúngs; þeir höfðu 60 skipa. En er þeir kvomu í hafnir þær, er lágu fyrir konúngs hallinni, þá fór Úlfkell snillíngr á fund konúngs, ok kveðr hann sæmiliga. Konúngr spyrr, hvat manna hann væri. Hann sagði til hitt sanna. Konúngr spyrr, hverr stýrði þeim hinum mikla her, sem þar var kominn; en Úlfkell sagði, at honum stýrði Úlfr hinn illi: en við erum bræðr, fór ek því á yðvarn fund, at við viljum bjóðast til at vera yðrir menn; ef þú vilt gipta Úlfi dóttur þína, þá vil ek leggja til með Álaborg ok Aldeigjuborg, ok öll þau ríki sem þar fylgja, því þat er mín eign; væntir mik at yðr verði mikill styrkr at okkr bræðrum, en mörgum mun þikja þraungt fyrir dyrum, ef vèr skulum íllt þreyta. Konúngr bað hann fresta til umráða

við menn sína. Úlfkell veitti þat. Konúngr spyrr dóttur sína, hvat hún leggr til, en hún sagði, at henni þætti mikill vandi um hernað þeirra bræðra: en ef víst væri ríkit, þá þætti mèr ásjá vert, en kveðst einskis íllz synja fyrir þá, ef þeim væri synjat; ok urðu þær endalyktir at Úlfr fèkk Eðnýjar, ok tóku þeir bræðr landvörn fyrir Bjarmalandi. Úlfkell hèlt spurníngum til, hverr sá mundi vera, at barizt hefði við hann, þá þeir Hálfdán áttust við, en Hárekr konúngr sagði honum, at sá hèt Grímr, ok ræðr fyrir austr í Kirjálabotnum, ok hefir brotizt þar til ríkis, ok vita menn eigi, hvaðan hann er ættaðr. Honum fylgir fóstrdóttir hans, svâ fögur mey, at menn hafa eigi spurn af annarri jafnvænni. Þar er sá maðr, sagði Úlfkell, at ek vildi á hefnileið róa, ef kostr væri, ok vilda ek þar til hafa hjálp ok styrk af yðr. Konúngr mælti: Þat má oss vel samankoma, því þar er sú mær, at ek ætla mèr at biðja. Þeir sögðu báðir, at þeir vildu honum þar til standa, ok sögðu at þeim þótti þat vel stofnat, ok saðfesta með sèr, at þeir skulu þángat fara, þegar sumar kemr, ok eigi fyrr í burtu, enn Grímr væri í helju, en konúngr hefði fengit júngfrúna; sátu þeir nú um kyrt. En er voraði, bjuggu þeir skip sín. Þeir höfðu ógrynni hers; með þeim voru 2 konúngar finskir, hèt annar Fiðr, en annar Flóki; þeir voru galdramenn. Fara

þeir nú þángat til, at þeir koma austr í Kirjálabotna, ok fundu Grím; þurfti þar eigi at sökum at spyrja; buðu þeir Grími þegar bardaga, eðr hitt at hann gæfist upp í þeirra vald, ok gæfi konúngi ríkit allt ok fóstrdóttur sína. Grímr sagði, at þeim skyldi meira fyrir verða: á konúngr þessi aungvar sakir við oss, en þú, Úlfkell! munt fara verri för enn fyrr. Sofa þeir í náðum um nóttina, en um morguninn gekk Grímr út af kastalanum með öllu sínu liði, ok tókst þar en snarpasta orrosta, ok hèlzt sá bardagi til kvelds, hafði Grímr mist þá margan mann, fór hann þá aptr í kastalann; en at morni dags tóku þeir til bardaga, ok var þá engi vopnfær maðr í kastalanum.

16. Nú er þar til máls at taka, sem Hálfdán konúngsson er, at hann er nú gróinn sára sinna, ok hefir fengit allan sinn styrk; kemr hann nú at máli við þau karl ok kerlíngu, ok sagði, at sik lysti í burtu þaðan, ok spurr eptir, hvat manna þat mundi vera, er hann hafði þángat sendt til lækníngar, eðr hverjum hann mundi lífgjöf eiga at launa. Hriflíngr svarar: með því at ek treysti þèr til drengskapar, þá má ek gjöra þèr avísun um, hvar hann er; Grímr heitir maðr, er ræðr fyrir austr í Kirjálabotnum; hann er kappi mikill, hann sendi þik híngat til mín, mættir þú nú launa honum lífgjöfina, því honum er nú þörf góðra drengja; þar er nú kominn Hárekr konúngr af Bjarma-

landi, Úlfr hinn illi ok Úlfkell snillíngr, ok vill hefna þeirrar svívirðíngar, er hann fèkk í yðrum viðskiptum; eru þeir nú á veg komnir með hèr sinn, ok er mèr sagt, at Hárekr konúngr vill fá fóstrdóttur Gríms, er Íngigerðr heitir, ok er allra meyja fríðust. Vel segir þú, fóstri minn! sagði Hálfdán, en þó er þat annat at mèr þikir eigi minna áliggja, at þú segðir mèr, hverr drepit hefir föður minn. Glögt má ek þèr þat segja, sagði karl, sá maðr hèt Skúli, ok ef ek skal þèr satt segja, ok eigi ljúga at þèr, þá er þetta sá hinn sami Grímr, sem þèr hefir líf gefit, ok er nú mikit undir drengskap þínum, er þið finnizt; en svâ mikill kappi er Skúli, at fullskipat er hverjum manni, sem einvígi á við hann. Kanntu nokkut at segja mèr veg þann skemstr er, sagði Hálfdán, því þángat vildik koma sem skjótast. Torsóttir eru hèr flestir vegir, sagði Hriflíngr, en á skipum má ekki fara skemr enn 5 vikur, ok er þat hin mesta mannhætta fyrir sakir víkínga ok hermanna. Annar vegr liggr hitt eystra, ok er þar þó at fara fjöll ok eyðimerkr, ok er þat lángr vegr, ok torsóttr, ok óvíst at framkomist. Hin þriðja leið er skemst, ef hún tækist vel, því hana má fara á 3 vikum, en margt er þar til tálmanar; fyrst er skógr 20 rasta lángr, er heitir Kolskógr; þar liggr spillvirki sá, er Kolr heitir, ok dóttir hans er Gullkúla heitir; aungum er þeim lífs at vænta, er þau finnr. Annar skógr er

þaðan skamt, er heitir Klifskógr fjögra rasta ok 20; þar er spèllvirki sá, er Hallgeir heitir; með honum er einn villigöltr, verri viðreignar enn 12 karlar. Þarnæst kemr á þann skóg, er kallaðr er Kálfárskógr sextán rastir ok 20; þar fæst eigi til matar utan ber ok safi, er þar sá spillvirki, er Selr heitir, ok með honum einn hundr stór sem naut; hann hefir manns vit, ok er betri til vígs enn 12 karlar; en er þú kemr af skóginum, fellr lögr austan af kjölnum; engi veit hvar hann sprettr upp, þat er þeirra einna manna sund, sem bezt eru syndir, at leggjast yfir löginn, en þaðan er eigi lángt til kastala þess, sem Skúli ræðr fyrir; bæri þèr ekki til döla, þá væri þat nær hæfi, at þú kæmir þar, þá bardaginn ætti at vera. Hálfdán bað hann búa ferð sína. At morni dags býr Hálfdán ferð sína, gekk hann til kerlíngar, ok bað hana vel lifa. Kerlíng mælti mörgum fögrum orðum yfir honum, tók hún þá undan höfðalagi sínu tötrabagga; þar tók hún úr sax, þat var fínt sem spegill, ok sýndist honum eitr drjúpa úr eggjum þess. Hún sagði honum, at sá mundi jafnan sigr hafa, sem þat bæri, ok þat mundi eigi í höggi staðar nema, ef vel er til höggit; hún tók eitt steinasverfi, ok batt um háls honum, ok bað hann þess, at þat skyldi eigi úr stað hrærast. Síðan kysti hann kerlíngu. Karl gekk á veg með honum, ok segir honum, hvat hann skyldi stefna;

hann gaf honum skikkjurakka sinn, ok bað hann þar eptir fara, sem hann færi undan, ok fara aldri þá götu, sem hann vildi eigi fara, ok kvað hann kunna at forðast bygðir þeirra illvirkjanna. Hálfdán kvað ekki spillvirkja verða sèr at bana: en ef þèr verðr fèfátt, þá vitja þú til skálanna, því ek mun ekki með mèr bera, þó ek gæta kleimt einnhvern þeirra. Síðan skildu þeir karl, ok bað hvorr vel fyrir öðrum.

17. Hálfdán snýr nú á skóginn, ok er hann hafði gengit tvo daga, þá sá hann einn leynistig. Hundrinn vildi stiginn, en Hálfdán gekk fram brautina, þángat til at hann fann skála. Þar var hnigin hurð á klofa; Hálfdán hratt henni upp, en í því hann gekk inn, þá var Gullkúla þar fyrir, dóttir Kols, ok hjó á háls honum með bitrligri skálm, en þar var undir steinasverfi kerlíngar, ok brast við hátt, en skálmin stökk í sundr. Hálfdán greip hana upp, ok rak hana niðr fall mikit, ok greip síðan í annan fótinn á henni, ok reif hana sundr at endilaungu, ok kastar henni síðan út fyrir dyr. Kolr kom heim á móti dagsetri, ok er hann laut í dyrnar, þá setti Hálfdán saxit á hálsinn, ok var þat hans bani. En um nóttina, þá er Hálfdán var í svefni, kvomu þau inn bæði Kolr ok dóttir hans, ok sóttu þau bæði at Hálfdáni. Hundrinn hljóp upp, ok reif Gullkúlu á náranum, ok rakti úr henni þarmana. Hálfdán hljóp undir skálabúann, ok glímdu þeir

lengi, en svâ lauk, at Hálfdán feldi hann, ok braut hann á háls; síðan tók hann eld, ok brendi þau upp bæði. Þar var hann tvær nætr. Síðan fór hann á burtu, ok lètti eigi fyrr enn hann kom á Klifskóg; þar fann hann skála stóran, ok var hurðin svâ þúng, at hann varð alls máttar at kosta, áðr hún gekk upp. Hann sá þar rúm eitt, þat hafði 2 álnir yfir hans lengð. Ból sá hann þar svâ mikit, sem bás væri. Þá var sýnt húmat. Hann heyrði út gný mikinn, ok heyrði hann at göltrinn grenjaði, ok lèt ófrýnliga, gekk Hálfdán þá út úr skálanum. Hundrinn hljóp gvöllrandi at geltinum, ok göltrinn snèrist undan. Hálfdán hjó eptir honum, ok úr honum rófuna. Göltrinn snèrist aptr, ok stakk trýninu á millum fóta Hálfdáni, ok vatt honum á lopt, svâ at honum varð laust saxit, en þó kom hann standandi niðr. Skálabúi kom þá at, ok sló til Hálfdánar með gaddakylfu, en hann snèrist undan högginu, ok gat eigi náð saxinu. Hann greip í fótinn á geltinum, ok kipti honum at sèr; höggit kom á millum hlusta geltinum, ok brotnaði hausinn í honum. Hálfdán reif fótinn undan geltinum, ok rak hann við eyra spellvirkjanum, svâ hann fèll á knè. Hálfdán hljóp þá at honum, ok hratt honum um koll. Hann greip þá til Hálfdánar, ok sviptust þeir fast, ok urðu ýmsir undir. Þá hljóp

at rakkinn karlsnautr, ok beit í nefit á skálabúa, ok reif af honum nasirnar. Þá gat Hálfdán náð saxinu, ok hjó af skálabúa höfuðit, ok brendi hann síðan upp at báli; var hann þá stirðr ok móðr. Þar dvelst hann um nóttina. Síðan kom hann á Klifskóg, ok kemr at skála Sels; hurð var hnigin á miðjan klofa; hann hljóp á hurðina þrisvar, áðr enn uppgekk. Hann settist í rúm skálabúa; hann hafði eikarkefli í hendi, ok tálgaði hvast í báða endana, ok sveið í eldinum, hann sá út um dyrnar, hvar skálabúi ferr, ok hljóp hundrinn fram undan. Hundr Hálfdánar brá við þegar, ok hljóp uppá þvertrèð, Hálfdán gekk út á móti bóndanum; en þegar hundrinn sá hann, hljóp hann á mót honum með gapanda ginit, ok lætr allólmliga. Hálfdán rak höndina inn í kjaptinn á honum, ok snýr keflinu, svâ at annar endirinn horfir upp í góminn, en annar niðr, ok kom hann ekki saman kjaptinum. Selr kom at í þessu, ok hafði bjarndýr á herðunum, en hvalkálf í fyrir.

18. Selr kastar niðr byrðinni, en lagði bjarnsviðu til Hálfdánar. Hann hjó á móti með saxinu, ok sundr sviðuskaptit, ok af honum alla fíngrna á annarri hendinni. Selr greip upp stein, ok snarar at Hálfdáni; hann skauzt undan, ok varð svâ nær Sel, at hann greip í tönnina, er fram stóð úr múlastykkinu á honum. Hann brá svâ hart við, at úr honum gekk

tönnin. Hálfdán laust henni á nasir Sel, ok braut í honum nefit, ok allan tanngarðinn, ok var þussinn þá aungum líkr nema sjálfum sèr; greip hann þá til Hálfdánar, ok kreisti svâ fast at síðum hans, at blóð fèll út um eyru hans ok nasir. Hálfdán lèk þá Sel hælkrók, ok fèll hann á bak aptr; tönn hans kom á steinasverfit, ok brotnaði einn steinninn. Hálfdán gat nú hvergi hrært sik. Rakkinn karlsnautr hljóp þá framan í nasirnar á Sel, ok klóraði úr honum bæði augun. Þá varð Hálfdán laus, ok hjó hann höfuð af Sel, ok kastar honum svâ útá móðuna, er þar fèll nær. Hann gekk nú at hundinum, ok mælti til hans: aldri skal þetta kefli úr þínum kjapti gánga, nema þú sèrt mèr jafn hollr, sem þú vart áðr Sel. Hundrinn skreið at honum, ok snèri upp á sèr maganum. Hálfdán tók þá keflit úr kjapti honum, en hundrinn varð svâ feginn, at vatn rann ofan eptir trýninu á honum. Hálfdán fèkk sèr mat, ok fór síðan at sofa; en um morguninn bjóst hann í burtu, ok fór þángat til, at hann kom at leginum. Hundrinn Selsnautr rann fram með vatninu, þar til at hann fann eina mosahrúgu; hann krafsar sundr hrúguna, ok var þar í bátr; Hálfdán tók hann, ok fór yfir lauginn, ok gekk eptir þat þann dag til kvelds.

19. At morni dags sá Hálfdán kastalann, þann sem honum var tilvísat. Þenna morgun var

Skúli jarl farinn til bardaga á móti Háreki konúngi ok þeim bræðrum, ok var þat lángt í burt frá kastalanum. Hann hafði lið miklu minna. Kastalinn var eyddr af úngum mönnum, en konur stóðu í vígskörðum, þá Hálfdán kom þar. Hann sá þar eina júngfrú, þá sem honum fannst mikit um. Hún gekk ofan at portinu, ok heilsaði Hálfdáni með nafni. Hann tók vel kveðju hennar. Hún mælti þá til hans: mál mun þèr þikja at sjá glófann, ok gullit þat sem þú mistir í Aldeigjuborg. Muntu mega því valda, sagði Hálfdán. Miklu muntu mega um þat ráða, (sagði) hún; fóstri minn er nú í bardaga, ok væri honum nú liðs þörf ok góðrar hjástöðu, ok mundi ek flest til þess vinna, at hann fengi sigr. Ekki á ek gott at launa fóstra þínum, sagði Hálfdán, en ef þú vilt handsala mèr trú þína, þá mun ek fara til bardagans með fóstra þínum. Hún kastar þá út til hans glófanum, ok bað hann hafa þat í festapeníngin: en gullit mun bíða hjá mèr, þángat til við finnumst næst, en aldri verðr kastalinn af mönnum unninn, þóat ekki sè til varnar í honum nema konur.

20. Hálfdán fór nú til bardagans, ok var þá mikit mannfall. Sviði bar merki Skúla jarls, ok gekk fram svâ hraustliga, at hann drap merkismann Háreks konúngs, er Krabbi hèt. Hálfdán var eigi ístöðulaus; hann rèð þar fyrst at, sem fyrir var Flóki Finnakonúngr. Kon-

úngrinn skaut af boga þrim örum senn, ok var maðr fyrir hverri. Hálfdán rèðst á móti honum, ok hjó með saxinu á bogann, svâ hann brotnaði ok tók höndina af Flóka, ok flaug hún í lopt upp. Konúngr rètti stúfinn upp á móti, ok kom höndin þar niðr á, ok var þá heil. Þetta sá Fiðr[1] Finnakonúngr, ok varð hann at hrosshval, ok hljóp uppá þá, sem börðust á móti honum, ok urðu undir honum fimtán menn, ok fengu allir bana. Hundrinn Selsnautr hljóp at honum, ok reif hann í sundr með tönnunum, en hvalrinn sló í sundr kjaptinum. Hundrinn karlsnautr hljóp inní kjaptinn, ok alla götu niðr í kviðinn ok reif hann innan, ok sleit úr honum hjartat, hljóp út síðan, ok fèll þegar dauðr niðr. Hálfdán reiðir nú saxit, ok hjó til Flóka í öðru sinni, en hann blès á móti, svâ at saxit (hraut) úr hendi Hálfdáni, ok kom fjarri niðr. Flóki hjó til Hálfdánar, ok kom í steinasverfit, ok brotnaði skálmin, en Hálfdán fèkk sár á hálsinum, þar sem steinninn var úr brotnaðr, en mist hefði hann höfuðit, ef eigi hefði steinasverfit borgit honum. Hálfdán greip til Flóka, ok rak hann niðr fall mikit. Í því kom at Úlfkell snillíngr, ok átti Hálfdán þá við mörgu at sjá. Hundrinn kom þá at, ok reif allt andlitit af Flóka, en Flóki hryggspenti hundinn, ok braut í honum hvert bein, ok lágu þeir þá báðir dauðir. Hálfdán sá þá ekki sitt

[1]) *þannig leiðrètt*; Falr, *A.*

færi annat, enn hljóp á Úlfkel, ok greip af honum sverðit, ok sló því flötu um nasir honum, ok bað hann verja sik, ok þá gat Halfdán náð saxinu, gengu þeir þá saman, ok börðust, ok lauk svâ með þeim, at Úlfkell snillíngr fèkk bana. Skúli jarl hafði þá drepit Úlf hinn illa. Þá kom at Hárekr Bjarmakonúngr, ok sótti at honum, ok áttust þeir við hart vopnaskipti. Hárekr hjó til Skúla, ok af honum allan skjöldinn, ok fèkk hann sár á fíngrna, ok ekki mikit. Skúli hjó í móti, ok af konúngi eyrat ok vángafylluna, svâ at berir skinu við því jaxlarnir. Þá varð Hárekr at flugdreka, ok sló Skúla með sporðinum, svâ hann lá í óviti. Þá kom at sá kappi, er Grubs hèt, ok hjó fótinn undan drekanum, en drekinn krækir annarri klónni til Grubs, ok reif hann á hol á náranum. Þá kom at Hálfdán, ok hjó til drekans á hálsinn, ok var þat hans bani; brast þá flótti í liðinu, ok flýðu víkíngar til skipa, ok komust undan á þremr skipum. Þat skip, sem Íngigerðr Kolsdóttir var á, hljóp á sker, ok druknaði hvert mannsbarn sem á var. Hálfdán snýr nú þángat, sem bardaginn hafði verit, ok var þar miklu herfángi at skipta. Ekki fundu þeir Skúla jarl, ok fara svâ heim til kastalans. Voru nú bundin sár manna, ok fluttr heim fjáraflinn. Íngigerðr fagnar þeim vel, ok er 3 nætr voru liðnar, kvaddi hún þíngs, ok komu þar allir þeir, sem í kastalanum voru. Íngigerðr kom ok á þíngit.

Hún settist á knè Hálfdánar, ok gaf sik ok alla sína eigu honum í vald, ok fèkk honum gullit, þat sem fyrr var frásagt. Sátt eru við nú, Íngigerðr! sagði Hálfdán, ef þú segir mèr, hvat þú mæltir við móður þína, áðr enn faðir minn var drepinn. Ek bað at hún skyldi láta opna skemmuna um nóttina, ok vil ek þat nú allt bæta, sem þèr þikkir at um þetta ok allt annat, en þó munu hèr í heldrum lögum hvorir tveggju hafa nokkut til síns máls.

21. Þessu næst sáu þeir, hvar maðr gekk, ok kendu menn þar Skúla jarl; hann var herklæddr vel. Hann gekk fyrir Hálfdán, ok tók af sèr hjálminn, ok mælti: nú er svâ komit, Hálfdán! at ek bjóða þèr sættir ok sjálfdæmi fyrir þá hluti, sem ek hefi afbrotit við þik; hèrmeð vil ek bjóða þèr fóstbræðralag ok gefa þèr þarmeð Íngigerði, fóstru mína; en ef þú vilt ekki þenna kost, þá mun ek ekki hætta til fleiri funda við þik, ok mun þá hvorr fara með sínu máli sem kann. Ekki mun þat duga, sagði Hálfdán, renna ok aptr at sjá, mund ek ekki frá mörgum tíðindum sagt hafa, þá vèr Úlfkell snillíngr áttumst við, ef þú hefðir þá eigi sýnt mèr drengskap. Aptr hefir þú nú hann launat, sagði Skúli. Þá lagði Íngigerðr til, at þeir væri sáttir, ok var þat þá auðsótt, ok þótti flestum mönnum þar hvorumtveggja fara drengiliga, ok urðu menn fegnir sætt þeirra. Var nú síðan skipt herfángi, ok var þat svâ mikit fè, at nú

var sá margr fullríkr, sem fyrr hafði verit fátækr. Hálfdán lèt þá búast við brullaupi sínu, ok á meðan þat var gjört, lèt Hálfdán sækja fè sitt, þat sem spèllvirkjarnir höfðu átt, ok var þat svâ mikit fè, at 15 stórskip voru hlaðin af allra handa gersemum. Hann lèt ok sækja Hriflíng karl ok allt hans hyski, ok gjörði hann fullríkan. Hálfdán hèlt nú brullaupit sitt, ok bauð til öllum höfðíngjum; hafði Skúli jarl forsögn hèr fyrir, ok fór veizlan sæmiliga fram; voru allir menn með sæmiligum gjöfum útleystir, ok varð Hálfdán af þessu vinsæll, svâ at allir vildu honum þjóna.

22. Þessu næst hafði Hálfdán þíng við landsmenn, ok lýsti því, at herför skyldi vera til Bjarmalands innan mánaðar. Menn tóku vel undir þat, ok bjuggust allir af skyndíngi, ok komu til Bjarmalands, ok var Skúli jarl þar í ferð. Var þar ekki mikil móttaka, lögðu þeir land alt undir sik. Hildigunni, dóttur Háreks konúngs, tók Hálfdán á sitt vald. Grundi hèt son Háreks konúngs, hann var þá þrèvetr, hann var á fóstri með Bjarkmari jarli, syni Raknars konúngs, er gjöra lèt Raknarsslóðann. Hann gjörðist Hálfdáni handgenginn. Eptir þetta bjóst Hálfdán á burt þaðan, ok heim til Aldeigjuborgar, hafði hann þa í burt verit 5 vetr; urðu menn honum þar fegnir. Drottníng tók vel við dóttur sinni,

ok þakkadi bæði Hálfdáni ok Skúla jarli, hversu vel þeir höfðu til hennar gjört.

23. Sigmundr Hlöðversson hafði þá landvörn fyrir Garðaríki, bróðir Ísgerðar drottníngar; hann kom til móts við Hálfdán með miklu fjölmenni, ok var honum vel fagnat. Þá lèt Hálfdán þíngs kveðja, hann tók svâ til máls: nú hefi ek hèr verit í Austrveginum 16 vetr, ok var þat hvorttveggja, at vèr komum hèr harðliga inn, enda fengum vèr hèr mikinn mannskaða, ok hafa hèr ýmsir aðra af baki riðit, ok munu vèr þat nú at lèttu leggja, ef vèr skulum vinskap saman eiga. Nu viti þèr, at sá orðrómr hefir hèr áleikit, at Úlfkell snillíngr hafi átt Íngigerði, dóttur Hergeirs konúngs, en þau eru nú dauð, Úlfkell ok hans kona, því vil ek nu vita sannindi þessa máls af Ísgerði drottníngu ok Sigmundi, bróður hennar, ok Skúla jarli, fóstbróður mínum, hvort þat sè Íngigerðr, er ek hefi híngat flutt, eðr dóttir Kols eðr Hergeirs konúngs, því ek hefða ætlat mèr betra kvonfáng, ef kostr hefði verit, enn eiga dóttur Kols. Þá svarar Ísgerðr drottníng: þóat vèr höfum lengi harðliga saman keypt, þá vil ek þik í aungu pretta, Hálfdán! því at þú hefir valit þèr hinn bezta hlut af vorum viðskiptum, því segi ek þèr, at þessi Íngigerðr er mín dóttir ok Hergeirs konúngs, sem þú hefir híngat fært, ok hún ein er erfíngi rèttr til þessa lands, ok því lýsi ek

hèr, at ek gef mik ok mína dóttur ok þetta ríki Hálfdáni til fullrar eignar, ok bæti svâ hvorir sinn skaða, en gjarna vilda ek vita, at Skúli jarl hefði sæmiliga kosti, þá sem honnum vel líkaði.

24. Skúli jarl hefr nú upp sína sögu, ok sagði frá því, at hann setti Kol höfðíngja fyrir liðit, ok hvernig þær nöfnur breittu, ok at þau Íngigerðr höfðu verit sá karl ok kerlíng, sem flýðu undan Hálfdáni við Álaborg, ok hann vildi náð hafa; segir nú sik ok sitt ríki í valdi Hálfdánar. Hálfdán mælti þá: nú er svâ komit, at lönd þessi öll lúta undir mik, því vil ek nú birta yðr, hversu ek vil vera láta; ek vil gefa Skúla jarli Ísgerði drottníng, ok þat ríki sem hún á hèr í Garðaríki. Ek hefi nú í mínu valdi Bjarmaland ok Hildigunni, dóttur Háreks konúngs; þat ríki vil ek gefa Sigmundi ok megna þar með, ef þat er þeim báðum viljugt. Sigmundr lèt sèr þetta vel líka, ef meyjan vill því samþykjast, en Hildigunn lèzt eigi framar bónorðs sèr vænta: ok mun mèr þetta vel líka. Hálfdán sagðist mundu vitja þess ríkis, sem (hann) átti í Norigi: ok mun þat hverjum hepnast, sem hann tilborinn er. Fór þetta nú fram, at þessi brulllaup voru drukkin með mjök miklum prís, ok at þeim enduðum fóru höfðíngjarnir hverr til síns heima; en Hálfdán sat þar um vetrinn, ok voru góðar ástir með þeim Íngigerði. Sviða

hinn sókndjarfa sendu þeir austr í Kirjálabotna, ok skyldi hann vera þar höfðíngi yfir, ok hafa þat ríki af Skúla jarli. En um vorit, þegar ísa leysti, safnar Hálfdán at sèr bæði skipum ok mönnnm, ok bjuggust þeir Sigmundr til Bjarmalands ok Skúli jarl, ok tókst þeim sú ferð vel, ok lá landit laust í þeirra valdi, ok gjörðist Sigmundr þar höfðíngi yfir, en var þó með Hálfdáni. Skúli jarl fór heim í Álaborg, ok unnust þau Ísgerðr drottníng mikit. Þeirra son var Hreggviðr, faðir Íngigerðar, er Gaungu-Hrólfr átti.

25. Þat er nú at segja af Hálfdani, at hann býst til Noregs, ok fór Sigmundr með honum ok Oddr skrauti, bróðir hans. Þeir höfðu frítt lið, ok er Hálfdán kom í Norig, fögnuðu frændr hans honum vel, ok var hann til konúngs tekinn yfir Þrándheim, ok öll þau ríki er Eysteinn konúngr, faðir hans hafði átt, ok var hann mikill vinsældamaðr af sínum undirmönnum. Þau Íngigerðr áttu 2 sonu, hèt annar Þórir hjörtr[1], en annar Eysteinn glumra[2]. Oddr skrauti gjörðist landvarnarmaðr Hálfdánar, ok var hinn mesti hreystimaðr; hann fór til Íslands í elli sinni, ok er þar mikil ætt frá honum komin. Þessu næst kvomu aust-

[1]) hann stýrði Hálogalandi, *b. v B.*

[2]) *B endar hèr þannig:* hann tók ríki ok konúngdóm eptir föður sinn Hálfdán. En dóttir Hálfdánar hèt Ingibjörg, hverja síðan átti Agrippa konúngr, sem var faðir Fertrams ok Plato.

an af Bjarmalandi menn Sigmundar, ok sögðu at víkíngar herjuðu á Bjarmaland ok Nógarða; þeir höfðu drepit Sviða hinn sókndjarfa, ok lagt undir sik Kirjálabotna ok mikit af Rússalandi; en er þeir frèttu þetta, Hálfdán ok Skúli, söfnuðu þeir liði, ok fóru austr til Bjarmalands.

26. Í þenna tíma rèð sá konúngr fyrir Gestrekalandi ok öllum ríkjum fyrir austan Kjöl, er Agnar hèt. Hann átti Eðnýju, systur Háreks heitins Bjarmakonúngs. Þau áttu tvo sonu, hèt annar Raknar, en annar Valr; þeir voru víkíngar, ok lágu úti í Dumbshafi, ok herjuðu á jötna. Raknar átti skip þat, sem Raknarsslóði var kallaðr, þat var tírætt at rúma tali; þat hefir verit mest lángskip gjört í Noregi annat enn Ormr hinn lángi; þat var skipat allra handa illmönnum; þar voru 15 skækjusynir í hverju hálfrúmi. Raknar lagði undir sik Hellulands óbygðir, ok eyddi þar öllum jötnum. Valr, bróðir hans, lá í Dumbshafi, ok er mikil saga af honum. Þeir bræðr þóttust rètt komnir til Bjarmalands eptir Hárek, afa sinn. Valr atti 2 sonu, hèt annar Köttr, en annar Kisi; þeir voru stórir menn ok sterkir. Valr hafði drepit Sviða, ok lagt undir sik Kirjálabotna. Hann hafði fengit svâ mikit gull, at þess kunni engi markatal, ok tók hann þat af Svaða jötni, er bjó í fjalli því, sem Blesanergr heitir; þat er fyrir norðan Dumbshaf. Svaði var son Ása-Þórs. Valr átti sverð þat, sem Hornhjalti hèt,

þat var mjök gulli búit, ok nam aldri í höggi stað. þeir Hálfdán ok Sigmundr koma nú austr til Bjarmalands, ok halda fréttum til, hvar Valr er, ok fundu hann fyrir norðan Gandvík, ok sló þar þegar í bardaga. Tveir menn eru nefndir með Sigmundi, hèt annar Haukr, en annar Gaukr; þeir voru stafnbúar á skipi hans. Agnar, son Raknars, lagði skipi sínu á mót Hálfdáni, ok voru þeirra viðskipti allhraustlig. þeir Haukr ok Gaukr lèku lausir við, ok lögðu at þeim skipum, sem yzt voru, ok hruðu þau öll. Valr hljóp upp á skip til Sigmundar, ok þeir Köttr ok Kisi með honum, ok ruddust um fast. Valr hjó til Sigmundar, ok klauf fyrir honum allan skjöldinn; sverðit kom á fótinn utarliga, ok tók af 2 tærnar. Sigmundr hjó á móti; Valr hafði guldan hjálm, ok kom sverðit í hann, ok stökk í sundr undir hjöltunum. Valr var þá búinn til höggs, ok stóð keikr. Sigmundr hljóp á hann, ok hratt honum á bak aptr út yfir borðit, ok fór hann niðr til grunna. En er hann kom upp úr kafinu, drógu menn hans hann uppí eitt skip. þeir hrukku nú ofan af skipinu, Köttr ok Kisi; en er þeir kvomu í sitt skip, þá lagði at þeim Oddr skrauti, ok Gaukr ok Haukr, ok varð þar hörð sókn með þeim; en með því at Valr var uppgefinn, þá flúðu þeir einskipa, en Oddr lagði eptir þeim, ok elti þá til lands, þar sem á mikil fèll af björg um ofan, ok fram í sjó. Valr var í ferð með

þeim; hann greip upp gullkistur tvær; þær voru svâ þúngar, at tveir menn höfðu nóg at bera þær. Oddr hljóp eptir honum, en er þeir kvomu at fossinum, steypti Valr sèr ofan í hann, ok skildi svâ með þeim; þá kvomu þeir at, Köttr ok Kisi, Gaukr ok Haukr, ok sem þeir komu at fossinum, þá greip Köttr Hauk, en Kisi Gauk, ok steyptust með þá ofan í fossinn, ok drápu þá báða. Hellir stór var undir fossinum, ok köfuðu þeir fegðar þángat, ok lögðust á gullit, ok urðu at flugdrekum; ok höfðu hjálma á höfðum, en sverð undir bæxlum, ok lágu þeir þar, til þess at Gullþórir vann fossinn. Snèri Oddr þá aptr einnsaman. Þeir Hálfdán ok Sigmundr höfðu þá drepit alla víkíngana, en Agnar flýði einskipa; hann kom til Hálogalands, ok var hinn mesti spèllvirki; hann dró saman fè mikit, ok at síðustu gjörði hann sèr haug mikinn, ok gekk þar í kvikr, sem faðir hans hafði gjört, með alla skipshöfn sína, ok tryldist á fènu.

27. Þeir Hálfdán ok Sigmundr fóru nú heim til Bjarmalands, ok settist Sigmundr þar at ríki sínu, en Hálfdán fór til Noregs, ok er mikil saga frá honum. Hann varð ellidauðr, ok svâ Íngigerðr drottníng, ok er margt stórmenni frá þeim komit í Noregi ok Orkneyjum; ok lúkum vèr þar þessi frásögu, ok sitið í frið!

---

# Hálfdánar saga Brönufóstra.

1. Hríngr er konúngr nefndr, er rèð fyrir Danmörku, hann var vitr ok vinsæll; hann átti drottníngu, er Signý hèt, hún var dóttir Úlfhèðins[1] konúngs af Reiðgotalandi; hún var allra kvenna vænst ok vitrust. Hríngr konúngr ól bráðliga við henni þrjú börn, sonu tvo, ok eina dóttur, er Íngibjörg hèt, hún var prýdd öllum kvennligum listum; svâ var ok skær hennar ásjóna sem skínanda gull, ok at öllu var hún svâ sköpuð, sem hverr mundi sik kiósa vilja. Synir Hríngs konúngs hèt Hálfdán ok Ásmundr; þeir voru fríðir sýnum, þó var Hálfdán fyrir þeim um alla hluti. Ásmundr var þá tíu vetra, en Hálfdán níu[2], er hèr var komit sögunni. [Konúngr lèt dóttur sinni skemmu reisa, þat hús var gjört með miklum hagleik; konúngsdóttur þjónuðu tólf skemmumeyjar, ok voru þær jarla dætr ok hertuga; konúngr unni harla mikit dóttur sinni, stendr nu hennar líf með þvílíkum

[1]) Vilhjálms, *B*, *D*; Ulfhams, *C*. [2]) 11, *B*, *D*.

blóma, sem fyrr var sagt[1], var konúngr mjök gamlaðr[2]. Jarl er nefndr Þorviðr, hann var í ríki konúngs, ok einn hans mesti vin, ok honum hollr ok trúr í öllum ráðum; jarl var manna vitrastr, ok því lèt konúngr hann jafnan með hirðinni vera; hann fóstraði konúngs börnin, ok unni þeim harðla mikit. Jarl var einn með konúngi, er Þórir hèt, hann var kallaðr hinn sterki, hann var svâ sterkr, at enginn var sterkari í ríkinu, jarl var landvarnarmaðr konúngs. Þat hafði ein flagðkona lagt á Þóri jarl, at hann mátti eigi mannsblóð sjá; [þó var hann mikils metinn af konúngi[3]; hann sat þar optast, er [á Fjóni[4] hèt. Eina nótt bar svâ til, þá er Íngibjörg lá í sæng í skemmu sinni, ok svaf, at hún lèt illa í svefni, ok eptir lángan tíma liðinn vaknaði hún; skemmumeyjar hennar spurðu, hvat hana hafði dreymt, en hún vildi eigi segja þeim. Annan dag eptir kom Þórviðr jarl í skemmuna, ok settist niðr hjá konúngsdóttur, þau taka tal sín á milli; Íngibjörg mælti: ek vil segja þèr draum minn, fóstri! hversu er hann? segir jarl! hún svarar: þat er upphaf í draumi mínum, at ek þóttumst úti stödd, ok varð mèr litit til hafs; þar sá ek dökkva nokkurn, ok var fyrst fjarri mèr, en þó færðist mèr hann nærr ok nærr; um síðir sá ek at þetta voru skip mörg, ok

[1]) *v. í B, D.* [2]) hnígandi af æsku skeiði, *C*, aldraðr, *B, D.* [3]) *v. í B, D.* [4]) Fjóra, *D.*

urðu hèr landföst, ok af þeim runnu ótal varga, ok stefndu híngat til borgarinnar; tveir melrakkar runnu fyrir vörgunum, ok voru báðir óþokkaligir, öll voru þessi kvikindi grimmlig, þau lètu ekki ógjört, ok rifu bæði menn ok hesta, ok allt þat er þeir náðu; ok þar kom at síðustu, at þeir sóttu at þèr, fóstri minn! ok at föður mínum, ok í því vaknaði ek, ok ráð nú drauminn, fóstri minn! segir Íngibjörg. Jarl tók til máls: þessi draumr er auðráðinn, segir hann: oss mun skjótt koma hersaga, en þá vil ek eigi ráða hann lengr; fèll þar niðr tal þeirra; gekk jarl í burt. Eitt kveld bar svâ til, at konúngr sat yfir drykkjuborðum, at upplukust hallar dyr, gengu þar inn tíu menn, kendi konúngr þar Þóri jarl ok hans kumpána; konúngr spurði tíðinda; jarl segir, at víkíngar voru við land komnir, þeir er ekki lètu ógjört. Konúngr spurði, hvat þeir hètu; jarl segir, at annar þeirra hèt Sóti, en annar Snækollr. Sóti ferr þess erindis, at hann vill biðja dóttur þinnar[1]. Konúngr spurði, hversu Sóti væri at sjá. Jarl svarar: Sóti er bölvaðr berserkr, hann er hálflitr, er hann öðrumegin blár, en öðrumegin rauðr; hann hefir [ekki klæði[2] á búknum, hann er sköllóttr um allt höfuðit, nema eitt hár stendr uppúr miðjum hausi hans.

[1]) eða ella mun hann hóta (muntu þola, *D*) honum her, *b. v. C, D.* [2]) kláða, *C.*

Konúngr mælti: heldr munu vèr þá berjast, enn gipta þeim manni dóttur vora. Allir fýstu þess heldr, [þó at konúngr hefði eigi lið við[1]. Þeir víkíngarnir höfðu fengit konúngi tveggja daga frest, at safna liði, ok fèkk konúngr lítit lið, af því at tíminn var stuttr, ok fèkk hann alls þrjú hundruð manna. Þat sama kveld at bardaginn skyldi vera eptir um morguninn, mælti Hálfdán við Ásmund, bróður sinn: þat vilda ek, bróðir! at við færum ofan til strandar, ok fyndu við víkíngana, því mèr er allmikil forvitni á at finna þá ok sjá Sóta. Ásmundr mælti: þángat skal ek aldrei koma, þvíat ek veit, at skjótt verð ek drepinn, ef ek kem þar. Hálfdán mælti: þat vissa ek, at þú mundir ragr vera, [því þú þorir hvergi þik at hræra[2]. Ásmundr mælti þá: fylgja mun ek þèr, ef þú ert einráðinn í at fara. Hálfdán mælti: nú gjörir þú vel, ok förum við í stað!

2. Eptir þetta fóru þeir bræðr, ok lèttu eigi fyrr enn þeir kvomu til landtjalda Sóta. Hálfdán gekk fyrir Sóta, ok kvaddi hann virðuliga. Sóti tók honum vel, Hálfdán mælti: þat er þó satt at segja, at þú ert tíguligr maðr, Sóti! ok slíka vilda ek marga mína mága, ok þú ert. (Þú ert) vel viti borinn sveinn, segir Sóti, ok kant glöggt at sjá mann á velli, ok mundir þú eigi auðnulaus, ef þú

[1]) *v. í B, D.* [2]) ok skal ek fara sem áðr, *B, D.*

kæmir þèr í sveit með mèr. Hálfdán svarar: gæfuskort mun ek til þess hafa, at vera hjá svâ góðum höfðíngja, sem þú ert, Sóti minn! Sóti mælti: þat vilda ek, at þú færir eigi gjafarlaus[1] í burtu; eðr hvar er Hundi, fèhirðir minn? Hèr em ek, segir Hundi, fá þú þessum sveini þrjár merkr silfrs. Hundi gjörir svâ. Hálfdán þakkar Sóta, ok ferr síðan útúr tjaldinu. Ásmundr, bróðir hans, hafði staðit úti fyrir tialdinu, á meðan Hálfdán hafði inni verit; gengu þeir nú heim til hallar. Segir Hálfdán Þorfinni[2] jarli allt af ferðum sínum, ok fær honum í hönd fèð; jarl lèt vel yfir þessi ferð. Um morguninn eptir bjóst konúngr til bardaga; þrjú voru hlið á borginni, ok ætlaði konúngr at verja borgina, skipaði hann Þorfiði jarli at verja eitt borgarhliðit, en annat varði Þórir jarl hinn sterki, en konúngr sjálfr hitt þriðja; ok hafði hverr þeirra hundrað manna; konúngssynir voru báðir hjá Þorfiði jarli í bardaganum. Nú skal segja frá þeim Sóta ok Snækolli, at þeir skipta svâ liði, at Sóti skal stríða í móti konúngi, Snækollr (í móti Þóri jarli, en þriðjúngr liðs) móti Þorfiði jarli. [Gánga víkíngar nú frá skipum, ok bíta í skjaldarrendr; tekst þar bardagi ákafr[3]. Sóti gekk hart fram, þar er (konúngr) er fyrir. Snækollr sótti fast at Þóri jarli, svâ at hann hjó á báðar hendr; Þórir jarl gekk hart

[1]) gæfulaus, *D.* [2]) þorviði, *alstaðar hin.* [3]) *v. í B, D.*

fram í fyrstu, því næst hjó Snækollr til fylgðarmanns Þóris jarls, hann fèkk þegar bana; en þegar jarl sá blóðit, hljóp jarl úr borgarhliðinu ok inní borgina. Snækollr gekk þegar inní hliðit með sína menn, ok svâ í borgina, ok drepr þar Þóri jarl. Þetta sèr Þorfiðr jarl, ok snýr þegar ímóti Snækolli [með nökkra menn[1], en Hálfdán varði ámeðan þat hlið, er jarl hafði áðr varit. Nú var bardagi hinn harðasti; jarl sèr þá, at Sóti sótti fast at konúngi, ok víkr þángat til, ok í því hjó Sóti til konúngs, jarl brá við skildi, ok klauf Sóti hann allan at endilaungu, ok kom sverðit á fót[2] konúngi, svâ at aftók. Þá fèll konúngr; jarl var bæði sár ok móðr, ok fellr í valnum um síðir; þá var svâ myrkt af nótt, at hvergi sá frá sèr; enginn stóð uppi af konúngsmönnum. Víkíngar gengu til skipa, bæði móðir ok sárir; [drekka þeir lengi á fram um kveldit[3], en fóru síðan at sofa, ok tóku á sik náðir.

3. Nú er at segja frá Þorfiði jarli, at hann rís upp í valnum, hann tók fyrir brjóst konúngi, ok fann at hann var dauðr, hann gekk þá þángat, er þeir Hálfdán ok Ásmundr lágu; hann sèr, at Ásmundr var dauðr, hann spyrr, hvort Hálfdán mætti nökkut mæla[4]; hann kvað [eigi trauða til þess[5]. Jarl spyrr, hvort hann væri eigi sár; Hálfdán kveðst eigi sár vera: en

[1]) ok rekr hann tvöfaldan (þrefaldan, *B*) *B*, *D*. [2]) *þannig hin*; hönd *A*; fyrir ofan knè, *b. v. B*, *D*. [3]) *v. í B*, *D*. [4]) uppstanda, *D*. [5]) þat væri, *D*.

fèll ek af mæði, sagði hann, eðr hvat kantu at segja mèr til Ásmundar, bróður míns. Jarl svarar: hann er nú dauðr. Vissa ek þat, segir Hálfdán, at hann var ekki at manni. Jarl bar Hálfdán úr valnum, þvíat hann var mjök stirðr, svâ hann mátti eigi gánga. Jarl gekk til skemmu Íngibjargar, en er hún sá jarl, fagnaði hún honum vel, ok spurði tíðinda. Jarl segir konúng ok Ásmund, bróður hennar, dauðan, ok allir borgarmenn. Íngibjörg varð mjök hrygg við, ok grèt. Jarl segir annat betra enn at gráta; jarl kvað nú skemmumeyjar hennar verða at skilja við hana. Jarl tók þá Íngibjörgu, ok berr hana á hendi sèr, ok Hálfdán öðrumegin; gengu síðan til skógar, ok finnr fyrir sèr lítinn bæ, ok klappar á dyrum; kona gekk þar út, ok heilsar jarli; hann tekr vel kveðju hennar; sjá kona hèt Gríma. Jarl mælti þá: þat vilda ek, Gríma! segir hann, at þú takir við börnum þessum, ok geymir, þar til er ek kem eptir þeim; því ek veit, at þau eru hèr geymd fyrir víkíngunum; eru hèr þrjár merkr silfrs, er ek vil gefa þèr; hún tók við hvorttveggja, fènu ok börnunum; en Jarl fór heim til borgar, ok lagðist niðr í valinn; engi maðr varð var við hans ferð. Sóti ok hans menn vakna snemma um morguninn, ok hugðu gott til konúngsdóttur, gengr hann þegar frá skipunum ok hans menn, allir til borgarinnar; ok er þeir koma þar, ransaka þeir valinn, ok finna

hvergi annan konúngsson; þeir sjá Þórfið jarl, ok spurðu, hvort hann vissi ekki til annars konúngssonar, en hann kveðst ekki til hans vita. Sóti hafði farit til skemmu Íngibjargar, ok kom aptr, ok sagði hana á burtu, ok kvað jarl til barnanna vita; jarl kveðst eigi til þeirra vita; en Sóti lèzt mundu aflima hann, ef hann vildi eigi segja til barnanna; jarl kveðst eigi segja mundu. Sóti vildi eigi at heldr drepa jarl. Sóti tók þá undir sik bæði ríkit ok þegna, gjörðist hann þá konúngr í Danmörku, þótt þat væri illa fengit; þjónuðu honum ok menn heldr af hræðslu enn góðvilja. Jarl var hljóðr þann vetr. Lèt Sóti leita þeirra syskyna, ok fundust þau ekki, en þegar farit var í nánd bæ Grímu, þá laust ávalt á hríð, ok urðu menn Sóta aptr at snúa. Einn morgun snemma gengr jarl[1], svâ enginn vissi, til bæjar Grímu; en er hann kom, stóð hún úti, ok hjá henni bæði börnin; hún heilsaði jarli glaðliga, hann tók því vel, þau syskyn urðu þá harðla fegin fóstra sínum, ok kystu hann. Jarl kvað nú börnin mundu verða at skilja við Grímu, ok kvaddi hana; gekk hann nú burt með börnin, þar til er hann kom til sjófarstrandar, þar sá Hálfdán [skipaflota, jarl átti þar eitt skip, ok kvað[2] Hálfdán skyldu þat eiga ok fjárhlut[3]: ok skaltu fara til Bjarmalands, til Óttars jarls,

---

1) *þannig hin*; menn til með jarli, *A.* 2) skip fljóta; jarl mælti, *D*, skip á floti; j. m., *B.* 3) *hèr sleppr D um sinn.*

bróður míns, ok segja, at hann taki við þèr fyrir mín orð, en ef hann er tregr til, þá fá honum gull þetta til jarteigna, ok mun hann þá við þèr taka. Hálfdán mælti: þat vil ek nú, fóstri minn! at þú færir með mèr. Jarl neitti því. Mynntist hann þá við þau syskyn, ok gekk heim síðan, en Hálfdán fór á skip með Íngibjörgu, ok hèlt í haf, ok byrjaði þeim vel, tók Bjarmaland, hann gekk frá skipi með öllum mönnum sínum ok til hallar jarls. Hálfdán gekk fyrir jarl, ok kveðr hann. Jarl tók honum (vel), ok spurði tíðinda. Hálfdán segir þá, sem var, at Hríngr konúngr var andaðr, ok þat með at Þorfiðr jarl hafði sent hann þángat til halls ok trausts. Jarl lèt seinliga við því; þá fèkk Hálfdán jarli gullit, jarl mælti þá: mikit þikir bróður mínum undir, at ek taki við þèr, enda skal ek ok svâ gjarna gjöra; setti jarl þá Hálfdán hitt næsta sèr; en Íngibjörgu var fylgt til skemmu dóttur jarls, er Þóra hèt; hún var bæði væn ok vitr.

4. Einn dag gekk Hálfdán fyrir jarl, ok kveðr hann; jarl tók því vel, ok spyrr, hvat undir kveðju sè. Hálfdán segist vilja halda fyrir land fram. Jarl fèkk honum þrjú skip ok dreka mikinn hinn fjórða; skip þessi voru vel skipuð at mönnum ok vopnum[1]. Hálfdán þakkaði jarli þessa gjörð[2], ok tók orlof af hon-

[1]) fè, *B.* [2]) velgjörð, *C.*

um; fór hann síðan til skipa, ok[1] Íngibjörg, systir hans, með honum. Þá var Hálfdán tólf vetra, er hann lèt frá landi, ok í haf; hèlt hann víða um sumarit; en er haustaði, vildi hann halda aptr til Bjarmalands, kvomu þá á fyrir honum þokur ok hafvillur, ok rakst hann um haf innan[2], þá gjörði at þeim stórviðri svå mikit, at skipin öll týndust, nema dreki Hálfdánar[3], ok [lèt hann reka at honum marga snarvölu; ok er þetta var gjört[4], rekr drekann at björgum stórum, ok upp á sand slèttan. Hálfdán segir, at þeir munu þar umbúast, en þeir báðu hann fyrir sjá; þeir setja þá upp drekann. Viðr var þar rekinn mikill á sandinn, ok taka þeir þar til skálasmíðar, ok var skjótt algjör. Hálfdán gengr á jökla jafnan, ok nökkrir menn með honum, en sumir voru eptir hjá Íngibjörgu við skála. Menn Hálfdánar spurðu, hvat land þetta væri. Hálfdán kvað þá mundu vera komna at Hellulands óbygðum. Einn dag gekk Hálfdán einn á jökla, at afla fánga; hann fór þann dag allan; um síðir kom hann at einstigi nökkru, hann hafði öxi eina í hendi, er Óttar jarl hafði gefit

[1]) en áðr hann fór, spurði jarl, hvort Ingibjörg, systir hans, skyldi fara með honum eðr vera eptir. Hálfdán kvað þat undir henni vera skyldi. Þetta var þegar sagt Ingibjörgu, en hún vildi ekki annat, enn at fara með bróður sínum. Hálfdán kvað hana ráða skyldu, ok fór, *C.* [2]) víða, *B.* [3]) á honum voru hundrað manna mjök valdir, *b. v. B. C.* [4]) dreif nú at drekanum marga ísmola, *B.*

honum. Hálfdán gekk í einstigit, spor voru klöppuð í berginu, en í milli sporanna var eigi skemra enn fjögra[1] álna. Hálfdán krækti axarhyrnunni upp í sporin, ok las sik svâ upp eptir skaptinu, þar til er hann komst uppá bjargit; þar sá hann helli stóran, ok í bjartan eld, hann gengr at hellisdyrum, ok sèr at tvö tröll sátu við eldinn, annat kvennsvipt, en annat karlsvipt; ok höfðu soðketil í milli sín, þar var í bæði hrossaslátr ok manna, karl hafði krók í nefinu, en kerlíng hríng, þat var gaman þeirra, at hann krækti króknum í hrínginn, ok var þá upp á þeim ýmsir endarnir; en þá krókrinn slapp úr hríngnum, fèkk kerlíng bakfall; hún mælti þá: eigi vil ek þetta gaman hafa, Járnnefr minn sæll! svâ skal vera, Sleggja *mín*! segir hann, ok höfðu þá lokit úr katlinum. Járnnefr tekr þá til orða: er nökkut eptir, Sleggja! segir hann, af þeim hálfum þriðja tigi manna, er ek seidda híngat í fyrra vetr[2]; hún segir alllítit um þat; hún gekk þá innar eptir hellinum, ok kom svâ aptr, at hún hafði sinn mann undir hvorri hendi sèr, ok leggr niðr hjá eldinum, ok segir at eigi voru fleiri eptir. Hálfdán sèr nú, at þetta voru röskligir menn, ok svâ líkir, at hvorigan mátti þekkja frá öðrum, ok ætlaði Hálfdán at þeir væri tvíburar. Hálfdán snarar þá inní hellinn, ok at tröllkarlinum, ok

[1]) sjö, *B.* [2]) sumar, *B.*

hjó á háls honum með öxinni, svâ at aftók höfuðit, en hann sitr sem áðr. Kerlíng sprettr þá upp, ok mælti: þat er vel, Hálfdán! segir hún, at við höfum fundizt; hann hefir sik nú undan, en hún sækir eptir, þartil er hún náði saxi einu; hún sókti at honum fast, en hann varðist vel. Sleggja kastar saxinu, ok hleypr undir Hálfdán; þeirra glíma var hörð ok laung, ok rak Sleggja hann um allan hellinn; en svâ var hann mjúkr, at hún kom honum aldrei af fótunum; þartil rekst hann, at þau kvomu at gjá einni; hún var bæði djúp ok breið, þá varð Sleggja framar á gjábakkanum, í því var kipt undan henni fótunum, ok datt hún ofaní gjána. Hálfdán hèlt þá í hárit á henni, hann sá eitt sax gulli búit liggja hjá sèr, hann brá því skjótt, ok hjó af Sleggju höfuðit. Hálfdán spurði, hverr honum hefði dugnað veitt, eðr saxit gefit, en enginn svaraði honum þá um sinn.

5. Þá er Hálfdán hafði þetta unnit, gekk hann innar eptir hellinum, þar til er hann kom at afhelli einum, þar sá hann konu sitja á stóli; hár hennar var bundit við stólbrúðirnar, fætr hennar voru í köldu jöklavatni; hún mælti, er hún sèr manninn: skjótt drepr Járnnefr þik, maðr! ef hann veit, at þú ert hèr. Hálfdán mælti: ek hefi drepit hann ok svâ Sleggju, eðr hvat heitir þú? Hún kveðst Hildr heita, ok vera dóttir Ángantýrs jarls

af Skotlandi: bræðr mínir hètu Sigmundr ok Sigurðr, þeir voru tvíburar; vèr hèldum fyrir land fram í fyrra sumar, seiddi Jarnnefr mik híngat, ok öll oss; ok ætlaði hann sèr at eiga mik, en drepa kerlíngu sína, en ek vilda þat eigi[1]. Hálfdán leysti hana þá, ok gengu þau fram í hellinn, ok voru þeir bræðr mjök at komnir; þeir voru svâ magrir, at skinn var skorpit niðr við beinin. Hún settist undir herðar Sigurði, en Hálfdán undir herðar Sigmundi, ok dreypir víni á varir þeim, ok nærðust þeir skjótt, svâ at þeir máttu mæla. Þeir spurðu, hverr þeim höfðu líf gefit? Hildr segir, at hann hèti Hálfdán, ok væri sonr Hríngs konúngs úr Danmörku; þeir urðu því harðla fegnir, er þeir sáu systr sína heila, ok þakka þau öll Hálfdáni, ok voru þau þar fimm nætr. En í annan stað er at segja frá mönnum Hálfdánar, at þeir voru mjök hugsjúkir um hann; en Íngibjörg, systir hans, vakti bæði nótt ok dag, ok neytti hvorki svefns nè matar. At fimm nóttum liðnum bjuggust þáu öll í burt úr hellinum, ok hafði Hálfdán þaðan gull ok silfr ok margar gersimar, ok kom heill til sinna manna; urðu þeir honum fegnir, ok þó mest systir hans; segir hann þeim allt um ferðir sínar. Kærleikar miklir

[1]) ok því píndi hann mik svâ, en ek trúi bræðr mína báða dauða vera, *b. u. C.*

voru með þeim Hildi ok Íngibjörgu; þar sat Hálfdán þann vetr, ok var nú allt kyrt.

6. At vordögum lèt Hálfdán búa dreka sinn ok framsetja, ok hèlt hann á burt at áliðnu sumri, þá kom stórviðri á mikit fyrir Hálfdáni, ok varð hann at halda at þeim björgunum, er öðrumegin voru fjarðarins. Hálfdán segir, at þeir muni þar umbúast, ok voru þeir þar vetr annan; fóru þeir á jökla hvern dag, Hálfdán, Sigmundr ok Sigurðr, at afla matfánga; skorti þá ekki vætta í skálanum. Einn dag, þá er þeir fóstbræðr fóru á jökla, heyrðu þeir skellihlátra mikla um kveldit, þvínæst sjá þeir þrjár flagðkonur, ok var sú í rauðum kyrtli, er fyrst gekk, þat sá Hálfdán, at hún var með mensku móti, en eigi hinar; en þegar er þau fundust; mælti Rauðkyrtla: hèr er vel til yndis skipat, ok ætla ek mèr við konúngsson. Hálfdán spyrr þær at nafni: ek heitir Brana, segir Rauðkyrtla, en systr mínar Molda ok Mána. Skamm hafi þínar systr! segir Hálfdán. Brana ræðr þegar á Hálfdán, ok glíma þau lengi. Mána hleypr á Sigurð, en Molda á Sigmund, þær vefja[1] þeim utan um sik, en gátu eigi felt þá, þau Hálfdán ok Brana áttu lángan atgáng. Brana mælti: ertu gamall maðr, Hálfdán? Sextán vetra, segir hann, ok ertu þó enn eigi kvennstyrkr, segir hún. Því skal þat eigi prófa nú?

[1]) veifa, *C.*

segir Hálfdan; hann bregðr henni þá á mjöðm, svâ hún fellr. Hálfdán spyrr, hvern hún mundi hans gjöra, ef hann væri svâ kominn sem hún? Brana svarar: hvorki er ek blóðdrekkr, nè mannæta, ok eigi munda ek drepa þik, er ek gaf þèr líf í hellinum Sleggju, ok kipta ek undan henni fótunum, ok gaf ek þèr sax þat, er þú hjótt hana með. Því sagðir þú mèr þetta svâ seint? segir Hálfdán, ok skaltu at vísu upp standa; tóku þau þá tal sín á milli. Brana mælti: þat skaltu vita, Hálfdán, at mensk er ek í aðra ætt, þvíat móðir mín var dóttir Vilhjálms konúngs[1] úr Vallandi. Járnhaus, faðir minn, nam hana í burt[2], átti hann mik við henni, ok bregðr mèr meir til hennar, en þó nokkut til hans; átta ek at þjóna hundrað flagða. Hálfdán mælti: illa þiki mèr þú stödd vera, en nú skaltu horfa á grúfu, meðan ek leik við systr þínar; hún kvað svâ vera skyldu. Hálfdán ferr þángat, er þau Sigurðr ok Mána glímdu, hann hrindir henni fyrir björg ofan heldr hraparliga, ok svâ gjörir hann við Moldu, [ok sá heiðarliga í gafhlaðit á henni[3]. Brana lítr þá upp, ok spyrr, hvar systr sínar sè. Ek hratt þeim ofan fyrir björg, segir Hálfdán; þat var þèr lítil fremd, segir hún, þvíat önnur þeirra var fimm vetra, en önnur sex, ok mun ek gott af þèr hljóta, ok svâ þú af

[1]) jarls, *B.* [2]) þvíat hann fór jafnan yfir haf (hamförum, *C*) *b. v. B, C.* [3]) *v. í B, C.*

mèr, en at sex nóttum liðnum vil ek þèr fèlagar komið til hellis míns, er hann hèðan skamt í burt. Hálfdán mælti, at svâ skyldi vera; fór Brana þá til hellis síns, en þeir fèlagar heim til skála síns.

7. Þá er liðnir voru sex[1] dagar, bjuggust þeir fóstbræðr heiman frá skálanum, ok voru vel vopnaðir, ok lètta eigi fyrr enn þeir koma til Brönu. Þá kom Brana í móti þeim, ok kvaddi þá glaðliga; hún mælti: nú vil ek, Hálfdán! at þú veitir mèr lið, ok drepum við flögðin öll, þvíat ek hefi nú drepit nökkur með því móti, at ek hefi gjört þau drukkin öll, svâ þau drápust niðr sjálf, en faðir minn liggr í einni kerru, hann hefir þrjú höfuð, ok öll ósýnilig. Hún stendr á miðju hellisgólfinu, hún er stór, en honum kemr ekki á óvart; en þó attu getir drepit hann, þá vil ek ekki sjá þat, en ek mun verða at fara til með þèr, ef vel skal fara, ok þiki mèr þat erfitt, en ekki vopn má hann bíta, nema sax þitt, ok vil ek þat hafa. Hálfdán kvað svâ vera skyldu, ok fèkk henni saxit; en hún fèkk hverjum þeirra bræðra kylfur stórar, þær voru allar með jarni slegnar; þau gengu innar í hellinn. Brana fór fyrst, hún slökkvir ljósit; þeir fèlagar slá þá flögðin bæði hart ok tíðum; þar fèll margr tvíhöfðaðr jötun. Hálfdán sèr þá, hvar Járnhaus lá í kerrunni, hann hörglaðist[2] þegar á fætr; Hálfdán sló, sem honum var

[1]) átta *B.* [2]) örglast, *B, C.*

hægast, við vángann á honum með kylfunni, en hann brá sèr hvergi við, ok mælti: svikit hefir þú mik nú, Brana dóttir! veit ek, at hèr er kominn Hálfdán Hríngsson, Sigmundr ok Sigurðr. Þeir bræðr slógu þá báðir senn til hans með kylfunum, en hann stóð sem áðr, þá voru drepin öll önnur flögðin. Járnhaus tók til Sigurðar, ok brá honum á lopt; í því slær Hálfdán í knèsbætr honum, svâ hann fellr, ok verðr Sigurðr undir honum. Hálfdán veit þá eigi, hvat hann skal til gjöra. Þá kom Brana at, ok mælti: ek mun sjálf verða at drepa föður minn, þvíat ek sè, at þèr getið eigi banat honum, ok mun þat illa fyrir mælast, ef ek verð honum at bana; en þó skal þat nú vera. Brana hleypr nú at, ok höggr á háls honum með saxinu, ok lèt hann svâ sitt líf; Hálfdán velti honum þá ofan af Sigurði; [í því kom dagr yfir hellisgluggann; ekki brá Brana sèr við þat[1]; hún kippir upp einum hlemm úr hellisgólfinu; þar var undir sjávardjúp, þar riðr hún niðr í flögðunum. Þá er þau höfðu þetta gjört, þakkar hún þeim þetta verk, ok bað þá vera hjá sèr um vetrinn. Hálfdán segir svâ vera skyldu; Brana var þá allkát; þær Hilldr ok Íngibjörg fóru ok í hellinn. Hálfdán lá hjá Brönu hverja nótt, en þeir fóstbræðr tefldu um daga.

8. Brana hvarf í burtu hvern morgun, en

[1]) ι. ί Β.

kom ekki fyrr heim enn at dagsetri. [Einn tíma[1] spyrr Brana Hálfdán, hversu lángt væri til sumars; sex vikur, segir hann. Þá er vel, segir hún, at þèr hefir eigi lengra þótt í hellinum, enn er, því nú er sumardagr hinn fyrsti á morgun, ok muntu hèðan vilja burt halda, ok skal þat vera, þótt mèr þiki annat betra; en ek fer eigi kona einsaman, ok er ek með barni, ok ertu faðir at því. Hálfdán kveðst þess eigi þræta: ok vil ek, at þú sendir mèr, segir hann, ef þat er sveinn, en gjör sem þèr líkar, ef þat er mey. Hún kvað svâ vera skyldu: ok muntu sigla hèðan til Englands, þar ræðr fyrir sá konúngr, er Ólafr heitir, hann á sèr dóttur, er Massibil[2] heitir, hún er nú vænust kölluð allra meyja í heiminum, hún kann allar kvennligar íþróttir, ok þat vilda ek, at þú fengir hennar, þú skalt þar nefnast einn kaupmaðr, ok hèr eru grös þau, er ek vil gefa þèr, þau skaltu gefa konúngs dóttur, ok muntu þá fá hennar ást, þau hafa þá náttúru, ef hún leggr þau undir höfuð sèr, ok sefr á þeim, þá ann hún þèr sem lífi sínu; ok hèr eru klæði, er ek vil gefa þèr; á þau bíta engi járn, nema sax þitt; aldri muntu á sundi mæðast, ef þú ert í þeim, ok eigi eldr granda; hríngr er hinn þriðî gripr, er þú skalt eiga, hann heitir Hnituðr, hann er sundr tekinn í þrem hlutum; ef óvin þinn er hjá þèr, ok hafir þú hríng-

[1]) eina nótt, er þau voru í rekkju, *B.* [2]) Marsibil, *B.*

inn, þá máttu vita, hvern dauðdaga hann ætlar þèr; ef hann vill þik með vopnum vega, þá er hríngrinn rauðr sem blóð; en ef hann vill þik í eitri svíkja, þá er hann svartr sem bik. Gengu þau nú til sjóvar, þar stóð skip á sandi; Brana mælti: hèr er skip, er ek vil gefa þèr, Hálfdán! þat hefi ek smíðat í vetr, hefir þat byr, hvert sem þú vilt sigla, drekinn heitir Skrauti; Hálfdán þakkar Brönu gjafirnar; hún mælti: hèðan af muntu kallaðr Hálfdán Brönufóstri; Áki heitir landvarnarmaðr Ólafs kongúngs, hann er illr maðr ok ótrúr; hann er kallaðr Áki hinn illi, íþróttamaðr mikill; láttu hann ekki svíkja þik. Hálfdán hèt góðu um þat, þau gengu þá heim til hellis, ok sofa af þá nótt.

9. Um morguninn stendr Hálfdán upp snemma, ok klæðist. Þá hafði Brana búit skip hans at öllu, ok tilkomnir menn hans; hann bauð Brönu at fara með sèr, en hún [kvaðst þar vera verða[1], en bað þá fóstbræðr at bera byrðar sínar af gulli til skips; ok svâ gera þeir. Brana tók sèr byrði, ok var sú meiri enn þeirra allar, ok fara þau nú með þat ofan til skips. Hálfdán stígr nú á skip, ok [varð skilnaðr þeirra Brönu bæði harðr ok lángr[2], ok Brana ýtti drekanum frá landi. Hálfdán sigldi

[1]) kvað þat forlög banna, *B.* [2]) skilst Brana þar við Hálfdán mjök harmþrúngin, *B.*

í haf, ok rann þegar á byr. Brana hafði eptir hjá sèr dreka Hálfdánar; hann sigldi, þar til hann kom at eyjum þeim, er Hlaðeyjar heita; þar rèð fyrir sú kona, er Hlaðgerðr heitir; þar dvaldist Hálfdán um hríð, ok gaf henni mikit fè; en hún bað hann sín vitja, ef hann þyrfti lítils við. Hann játar því, ok heldr síðan burt frá eyjunum, ok lèttir eigi fyrr, enn hann kemr í England fyrir borg Ólafs konúngs. Hálfdán gengr fyrir konúnginn, ok kveðr hann, konúngr tekr honum vel, ok spyrr, hverr hann sè. Hann kveðst Hálfdán heita, ok vera einn kaupmaðr: ok vil ek biðja yðr vetrvistar. Konúngr veitti honum þat. Hálfdán fèkk eina skemmu at láta í fè sitt, ok skipaði þar mönnum sínum at geyma; þeir Sigurðr ok Sigmundr gengu með honum, hvert er hann fór. Einn dag gengu þeir allir saman, ok kvomu at skíðgarði einum, í garðinum sáu þeir skemmu eina mjök ágæta, garðrinn var svâ hár, at öngvir þarlenzkir menn kvomust inn yfir; í garðinum var einn lundr mjök fagur; Hálfdán spurði þá bræðr, hvert þeir mundu upp geta runnit garðinn. Sigurðr bar sik at, ok rann upp til þriðjúngs, en Sigmundr til miðs; en Hálfdán (rann upp á garðinn, ok) gengr til lundarins; þar sèr hann eina júngfrú, hún lèk sèr at gulli, ok kastaði hún því upp, ok henti síðan, eitt sinn misti hún þat, þá er hún vildi henda, ok fèll þat niðr í garðinn; hún leit-

ar at gullinu, Hálfdán gengr at henni, ok gefr henni annat gull, ok var þat stærra; hún þakkar honum vel, ok mælti: öngan mann hefi ek sèð vænna enn þik, ok þat vilda ek, at þið Massibil, frændkona mín, ættizt, þvíat þið eruð alllík.

10. Eptir þetta gengr hún inn í skemmuna, en Hálfdán ferr aptr til þeirra bræðra; sjá mey hèt Alfífa, er Hálfdán gaf gullit, hún var dóttir Sigurðar konúngs af Skörðuborg, þat var föðurbróðir Ólafs konúngs. Alfífa afhendir Massibil gullit; hún segir þetta eigi þat gull, er hún hefði fengit henni: en þó er þetta betra, eðr hverr hefir gefit þèr? hún kvaðst fundit hafa einn mann úti í garðinum, ok hann gaf mèr gullit, ok engan hefi ek sèð vænna mann ok kurteisara utan þik eina, ok þætti mèr þið mega vera hjón. Massibil varð svâ reið við hana, at hún sló hana pústr, svâ hún grèt, ok fèll svâ þeirra tal. Einn dag gekk Hálfdán til skemmu konúngsdóttur einsaman, þá var opinn skíðgarðrinn; hann gekk inn í garðinn, ok at þeim lundi, er fyrr sá hann; þar sat Massibil konúngsdóttir, enga mey þóttist hann hafa sèð vænni, hún kembdi sèr með gullkambi; en er hún sá Hálfdán, mælti hún: far brutt, maðr! ef þú vilt ekki verða drepinn, ok ertu furðu djarfr, er þú gengr inn orlofslaus. Hálfdán lèt eigi sem hann heyrði, ok settist niðr

hjá henni, ok leysti til hnýtilsskauta eins; þar voru í grös þau, er Brana hafði fengit honum, ok bað konúngsdóttur eiga, en hún vill eigi; hann leggr á knè henni, ok gengr í burt síðan; en hún tekr upp grösin, ok gengr í skemmu sína, ok leggr knýtit undir höfuð sèr, ok sefr af þá nótt. Um morguninn kallar hún Alfífu til máls við sik, ok segir: þú, frændkona! skalt gánga til þess kaupmanns, er þú fannt í garðinum, ok seg, at hann komi sem snarast á minn fund, ok gjör þetta leyniliga! Alfífa mælti: mun nú svâ, at þèr hafi ekki verr á hann litizt enn mèr; en nú skal ek fara. Hún skundar nú mjök sinni ferð, ok finnr Hálfdán, ok sagði honum, ok biðr hann flýta sèr; hann gerir svâ, ferr með henni, ok finnr Massibil konúngsdóttur. Hún mælti: mikil náttúra fylgir grösum þeim, er þú lagðir í knè mèr ígær, þvíat ek ann þèr svâ mikit, at ek má eigi af þèr sjá; ok í stað vil ek, at hvort okkar játi öðru (sína trú). Hálfdán kvað svâ vera skyldu, ok fór þat fram; konúngsdóttir bað hann opt þar koma, ok eiga tal við sik; hann játar því, ok gekk í burt síðan. Liðu nú svâ tímar, þartil sem Áki, landvarnarmaðr konúngs, kom heim. Hálfdán var svâ mikils metinn af konúngi, at hann sat honum it næsta. Áki færði konúngi margar gersemar, ok var hann vanr at sitja honum it næsta, ok öfundaði hann mjök Hálfdán, ok vildi hann gjarna feigan, ok setr

menn til höfuðs honum, ok varð þat þó aldrei fram gengt; opt rægði Áki hann við konúng, ok vildi hann þat eigi heyra.

11. Á einu kveldi var þat, er þeir Áki ok Hálfdán drukku í höllinni, en konúngr var farinn at sofa; Áki mælti: ertu mikill íþróttamaðr, Hálfdán! eigi er þat, sagði hann, viltu reyna sund við mik? sagði Áki; má þat, sagði hann. Áki varð glaðr við þetta, því hann var sundmaðr mikill; síðan fóru menn at sofa. Um morguninn stendr Áki snemma upp, ok hyggr gott til at reyna sundit við Hálfdán, gengr fyrir konúng, ok sagði honum viðtal þeirra Hálfdánar, ok biðr hann til fara, ok sjá þenna leik með alla hirð sína, konúngr játar því, ok er nú útblásit allri hirðinni, ok ferr nú konúngr sjálfr at sjá þenna leik. Vatn eitt var skamt frá borginni, þar ætla þeir at reyna sundit, ok svâ gera þeir, ok kasta sèr til sunds. Hálfdán var í brynjunni Brönunaut; leggst Áki nú at honum, ok færir (Hálfdán) hann í kaf, ok hèlt honum niðri meir en eykt dags; síðan kom Áki upp, ok marði (þar á vatni) at kalla; fylgðarmenn hans færðu hann at landi, ok fylgðu honum í sitt herbergi, ok var honum svá kalt, at hann gat eigi mælt. Hálfdán lèk þá enn marga leika á sundi, ok fór síðan at landi, ok gekk heim með konúngi til hallar, ok virti hann Hálfdán meir enn áðr. Um morguninn eptir ferr Hálfdán til skemmu kon-

úngsdóttur, ok segir henni frá sundinu; en hún lèt vel yfir, ok bað hann þó varast Áka, segir at hann muni svíkja hann; en Hálfdán sagði svâ vera skyldu, ok gengr í brutt síðan. Áki þóttist nú verr enn skemdr, ok vildi nú gjarna svíkja Hálfdán með einhverju móti; ok einu sinni býðr Áki honum burtreið, en Hálfdán játar því skjótt, Áki varð nú harðla glaðr, ok segir konúngi svâ búit. Áki átti ess svâ gott, at ekki var betra í Englandi, nema ess konúngsdóttur; ess Áka hèt Lóngant[1], en ess konúngsdóttur hèt Spóliant[2]. Hálfdán gengr nú (til) skemmu konúngsdóttur, ok segir henni frá viðtali þeirra Áka, hún lætr lítt yfir þessu, hann bað hana at ljá sèr ess sitt, hún kveðst þat gera vilja, ok bað hann [hylja þat, svâ þat væri hvergi bert, hann játar því, ok gekk í burt síðan. En konúngsdóttir kom at máli við Alfífu, ok mælti: ek vil senda þik til karls þess, er hèðan er skamt í burt, hann heitir Úlfr, en geymir ess mitt, þat skaltu sækja leyniliga, ok fá í hendr Hálfdáni. Alfífa flýtti ferðinni, ok kom til Úlfs, ok bar honum erindi sinnar frúr; hann fèkk henni essit, en hún færði Hálfdáni[3].

12. Nú kemr sá dagr, er þeir Áki ok Hálfdán skulu á burt ríða; tók Áki ess sitt, ok ríðr [á skóg[4], en Hálfdán á móti. Þeir

[1]) *hèr byrjar D aptr.* [2]) Spolent, *C.* [3]) *í stað þess frá [ hefir B, D:* sjá við svikum Aka. [4]) út af borginni, *B, D.*

riðu at einu díki; Hálfdán leggr til Áka burstöng sinni, ok hefir hann burt úr söðlinum, ok kastar honum niðr í díkit, svâ hann stendr fastr í leirnum, [ok kemst hvergi í brutt; fylgðarmenn hans hlupu at, ok drógu hann upp[1], ok undi hann nú verr sínum hlut enn áðr, en Hálfdán fèkk af þessu frama mikinn. Áki hugsar um þat nótt ok dag, at svíkja Hálfdán. Áki hafði frètt at Hálfdán átti systur eina, ok ætlaði hann hennar vilja at fá til óvirðíngar við Hálfdán, ok stendr upp eina nótt úr sæng sinni, ok gengr til skemmu þeirrar, er Íngibjörg ok Hildr lágu í; hann var í skyrtu ok línbrókum, eigi voru fleiri menn í skemmunni; en er Áki klappaði lófa sínum á hurðina, ok mælti hljótt, at þær skyldi upp lúka, ok kvað Hálfdán þar vera; bað hún Hildi at fara til dyranna, Hildr fór til dyranna, ok lýkr upp hurðunni, ok sèr at þetta er Áki, verða þær nú svâ hræddar, at þær vita eigi, hvat þær skulu hafa sik, en Áka varð bilt inn at gánga, ok studdust fram á dyrastafinn. Íngibjörg mælti: þat vilda ek, at Brana, fóstra Hálfdánar, hjálpaði mèr; en er hún hafði þetta mælt, var Áki fastr við hurðina[2], svâ hann mátti hvergi þaðan fara, en veðrit tók at hvessa ok frysta, ok tók Áka at kólna, svâ hann

[1]) ok allr varð hann þrekkugr (þrekkr, *D*), ok var hann dreginn úr díkinu ódauðr at eins, *B*, *D*. [2]) hjörurnar, *B*; jörðina, *C*, *D*.

skalf af kulda; þar varð hann at standa alla nóttina; ok um morguninn, er menn Hálfdánar kvomu til skemmunnar, sáu þeir Áka, þar er hann stóð, ok sögðu Hálfdáni; en þegar hann kom til, varð Áki þegar laus, ok mátti hann eigi mæla. Hálfdán lèt flytja hann til herbergis sjálfs hans; en þegar er Áki mátti mæla, ásakaði hann sik mjök, ok þóttist mikla sneipu fengit hafa, hann hugsaði nú at svíkja Hálfdán sem mest.

13. Einn tíma býðr Áki konúngi til veizlu, konúngr fór við margan mann, ok var þar Hálfdán í ferð, Sigurðr ok Sigmundr, ok veitti Áki vel, ok var kátr við Hálfdán; einn dag veizlunnar var þat, er þeir Hálfdán ok hans fèlagar drukku í einum kastala, ok Áki hjá þeim, en konúngr ok hans menn voru í öðrum stað, Áki var allkátr, ok bar þeim ákaft drykkinn; ok með því at drykkrinn var áfengr, duttu þeir skjótt niðr sofandi. Áki kallar þá at sèr sína menn, ok lætr bera eld at kastalanum, ok ætlar at brenna þá inni; eigi vissi konúngr þetta; kastalinn tekr nú at loga, ok svâ klaði þeirra fóstbræðra; í því bili kom kona ein fram úr skóginum, hún var stór vexti, ok veðr þegar eldinn, ok tekr þá fóstbræðr alla í fáng sèr, ok berr þá útúr eldinum fram á skóginn. Þar vaknar Hálfdán, ok sèr at Brana er þar kominn; hún mælti: þat er forn orðskviðr, ok er sannr,

seint er [afglapa at snotra[1], þar sem þú átt hlut at; ek varaða þik, at þú skyldir eigi láta Áka svíkja þik; hefir ek nú gengit frá meyjunni viku gamalli, ok trúi ek at hún sè orðin fífl, ok má ek eigi hèr vera lengr; skildu þau þá at sýn, en eigi at vináttu. Þá vakna þeir bræðr, ok fara heim með Hálfdáni, ok sögðu konúngi, hvat Áki hafði gjört, en konúngr gaf sèr fátt at, því hann var vin Áka. Nú skal segja frá Áka ok hans mönnum, at þegar þeir sjá konuna, hlaupa þeir í skóginn mjök hræddir, ok er Áki nú fyrst úr sögunni; konúngr kom heim eptir tíðindin.

14. Þat er nú því næst at segja, at konúngr efnar jólaveizlu mikla, þar kom Sigurðr konúngr af Skörðuborg, ok mart annat stórmenni; ok et fyrsta kveld, er menn voru komnir í sæti, gengr innar Marsibil konúngsdóttir með sinn skara, þær Hildr ok Íngibjörg voru þar í för með henni, ok sat á sína hönd henni hvor þeirra; en þar útífrá sátu skemmumeyjar hennar. Alfífa lèk sèr á gólfinu. Sigurðr konúngr, faðir hennar, kallar hana til sín, ok setr hana í knè sèr, ok mælti: seg mèr, hvat konu þat er sem sitr á hægri hönd frændkonu þinni?" Hún heitir Íngibjörg, segir Alfífa, ok er systir kaupmanns þess, er hèr kom í sumar. Konúngr mælti: þú skalt fara til Marsibil konúngsdótt-

[1]) hafglapa at snytra, C.

ur, ok seg at hún láti þat fram gengt verða, at ek eiga þá konu. Alfífa ferr, ok fram kemr til sinnar frúr, ok berr henni boðskap síns föður. Konúngsdóttir [bað hana[1] við Hálfdán þetta ræða. Líðr nú af nóttin, ok at morni dags gánga þau á málstefnu, konúngsdóttir ok Hálfdán, ok Sigurðr konúngr; hann biðr þá systur Hálfdánar; konúngsdóttir flytr þetta mál með honum; Hálfdán mælti: fullkosta þiki mèr konúngi, þó hann eigi Hildi. Konúngr byrjaði þá at nýju bónorðit[2]; Hálfdán tók því vel; ok með samþykki bræðra hennar var þessu ráðit, ok var þá jólaveizlunni snúit uppí brullaup, ok var at setit hálfan mánuð. Ok eptir veizluna gaf Sigurðr konúngr mörgum góðar gjafir, ok fóru heim til Skörðuborgar með drottníngu sína. Sigurðr for með þeim, en Sigmundr var eptir hjá Hálfdáni[3].

15. At sumri komnu býst Hálfdán í burt af Englandi, ok einhvern dag gengr hann til skemmu konúngsdóttur, ok segir henni at hann ætlar í burt, ok hefna föður síns. Konúngsdóttir mælti: tuttugu skip eru hèr í höfninni, er ek vil gefa þèr. Hálfdán þakkar henni, ok kvað systur sína[4] skyldu hjá henni eptir vera; hún játar því, tekr hann þá orlof af henni ok systur sinni, ok gengr burt síð-

[1]) sagðist, C. [2]) boðorð, C. [3]) *þenna Kap. v. í B, D.*
[4]) ok Hildi, *b. v. B, D.*

an, ok fyrir konúng, ok þakkar honum vetrvistina, ok tekr af honum orlof, ok gánga þeir Sigmundr síðan til skipa[1]. En er Hálfdán var í burt farinn, kemr Áki at máli við konúng, ok mælti: vitið þèr, herra! at Hálfdán hefir barnat dóttur yðra; eigi veit ek þat, segir konúngr, ok bað Áka í stað fara eptir honum við marga menn[2]. Hann var þessarar ferðar fús, ok fór eptir Hálfdáni með tíu[3] menn. Nú er frá þeim Hálfdáni at segja, at þeir gánga eptir einni skógarbraut; Hálfdán gat þá at líta ferð Áka, hann var þá í herklæðunum Brönunaut. Áka berr bráðan at, ok stíga þegar af baki, ok sækja þegar at Hálfdáni; en þeir Hálfdán ok Sigmundr snúast at bökum, ok verjast allkarlmannliga; ok þó kemr þar, at Áki drap Sigmund með þeim hætti, at hann höggr undan honum báða fætr, ok eptir fall Sigmundar reiðist Hálfdán ákafliga, svâ hann drepr alla menn af Áka, en handtekr hann sjálfan, ok sker af honum nefit, ok (stakk) bæði augun úr honum, ok sker af honum bæði eyrun, ok geldir hann; síðan brýtr hann í honum báða fótleggina, ok snýr aptr tánum, en fram hælunum, ok setr hann síðan á bak, ok snýr essi hans heimleiðis til konúngshallar. Hálfdán var [hvorki móðr nè[4] sár, hann heygir þá

[1]) en Sigurðr var eptir hjá Ingibjörgu (júngfrúnum, *D*), *b. v. B, D.* [2]) ok drepa hann, *b. v. D.* [3]) 30, *B, D.* [4]) móðr en ekki, *B, D.*

Sigmund, ok ferr síðan til skipa, ok segir mönnum, hvat í hafi gjörzt með þeim Áka, en þeir lètu vel yfir. Hálfdán siglir nú með tuttugu skip af Englandi, ok dreka sinn um fram, hann kemr til Hlaðeyja; ok fagnar Hlaðgerðr honum vel, ok gaf honum tuttugu skip með mönnum ok fè. Hálfdán þakkar henni þessa gjöf. Nú skal segja frá Áka, at hann kemr heim, [ok rembist ekki alllítit[1], ok sjá konúngsmenn hann, ok segja konúngi, at hann er heim kominn; konúngr sèr nú Áka, hversu hann er útleikinn; rekr konúngr hann í burt, ok kemr Áki ekki síðan við þessa sögu.

16. Nú skal víkja aptr til Hálfdánar, at hann siglir í burt frá Hlaðeyjum með fjóra tigi skipa, ok heim til Danmerkr; ok er víkíngar vita, at úfriðr er kominn, skunda þeir til bardaga; aungvir landsmenn vildu berjast með þeim; fóru þeir til Hálfdánar, [ok finnast þeir á slèttum völlum[2], ok tókst þar bardagi harðr; gengu víkíngar[3] hart fram, verðr skjótt mikit mannfall í her Hálfdánar; hann mælti þá við menn sína, at þeir skyldu hlífa sèr, en sæta eigi mjök áverkum við víkínga; liðit Hálfdánar gengr þá hart fram, ok finnast þeir Snækollr ok Hálfdán í bardaganum, ok lýkr svâ þeirra viðskiptum, at Snækollr fellr dauðr til jarðar; en er Sóti sèr fall bróður

---

1) *v. í hin.* 2) Þorviðr jarl kom til hans með miklu liði, *B, D.* 3) *hèr sleppr D at fullu.*

síns, veðr hann fram at Hálfðáni, ok höggr til hans, Hálfdán hlióp í lopt upp, ok misti Sóti hans, en mækir Sóta hljóp niðr í völlinn, ok laut hann eptir högginu; í því slæmir Hálfdán undan honum báða fæturna í knjáliðunum, hann fèll þá, ok var [þegar litlu[1] dauðr, ok mælti: mikinn sigr hefir þú nú unnit, Hálfdán! segir hann, er þú hefir mik at velli lagt, þat mæli ek um, at þú munir ekki til Massibil konúngsdóttur, heitkonu þinnar. Eptir þetta dó Sóti, en Hálfdán drap hvert mannsbarn, er Sóta hafði fylgt; en Hálfdán gerðist konúngr yfir Danmörku, ok mundi ekki til Massibil konúngsdóttur.

17. Eina nátt, þá er Hálfdán lá í sæng sinni, vaknaði hann við þat, at þar var komin Brana, fóstra hans, at honum, svâ mælandi: stattu upp, Hálfdán! segir hún, ef þú vilt eiga Massibil konúngsdóttur, þvíat Eirekr konúngr úr Miklagarði er kominn í England, ok biðr hennar, en hún læsir sik í skemmu sinni, ok nær konúngr hennar máli aldrei, ok far þú á Skrauta, dreka þínum! Hálfdán stendr þá upp, ok man allt, sem hann vakni af svefni; hann ferr til skips einnsaman, ok hrindir fram drekanum, kemr þegar á blásandi byr, lèttir Hálfdán eigi ferð sinni, fyrr enn hann kemr til Englands í þá höfn, er fyrr hafði hann útlagt, ok var þá komit at kveldi! Hann

[1]) þó eigi, *B, C.*

gengr upp frá skipi, ok kemr at skíðgarði konúngsdóttur, hann rennr þegar upp garðinu, ok klappar á hurðina, þær Massibil ok Íngibjörg heyra höggit. Íngibjörg mælti: við þetta högg varð mèr gott, ok vilda ek uppláta; Massibil bað hana ráða; hún lýkr nú upp hurðunni, ok sá þar kominn Hálfdán, bróðir sinn. Verða þær honum harðla fegnar. Þegar um morguninn gengr Hálfdán fyrir Ólaf konúng, ok biðr Massibil sèr til handa, en konúngi brá svâ við þessi orð, at hann gipti honum dóttur sína, en hafði áðr ætlat at drepa hann. Eirekr konúngr bað nú Íngibjargar. Hálfdán gipti honum hana. Þá var þar kominn Sigurðr konúngr af Skörðuborg, [ok með honum Sigurðr, fóstbróðir Hálfdánar, hann bað Alfífu til handa honum, ok var hún honum gefin, ok voru þessi brullaup öll í einu[1], stóðu þau hálfan mánuð með mikinn prís. En eptir veizluna afliðna gaf hvorr konúngr öðrum gjafir góðar, fór Eirekr konúngr ok hans drottníng heim í sitt ríki[2], ok ríktu þau þar til elli, ok er mart manna frá þeim komit. Þau Sigurðr ok Alfífa fóru heim til Skotlands, [ok stýrði

[1]) ok bað Hildar; Hálfdán sagði þat skyldi vera, ef hann vildi gipta Alfífu, dóttur sína, Sigurði, fóstbróður sínum, en konúngr játar því. Var nú búit við brúðkaupum, ok skyldu þau vera öll í einum stað; kom til þessarar veizlu fjölmenni mikit. Þar kom Þorviðr jarl, fóstri Hálfdánar, þar kom ok Brana með dóttur sína; þótti hún vera hin vænsta kona, þó henni væri ei fisat saman. Þorviðr bað hennar sèr til handa, ok veitti Hálfdán honum þat, *B.* [2]) Grikkland, *B.*

því ríki til dauðadags[1]. Var þá andaðr Ángantýr, faðir hans. Hann átti sèr þann son, er Ángantýr hèt, sá tók ríki eptir hann, ok varð frægr maðr[2]. Þau Hálfdán ok Massibil[3] fóru til Danmerkr[4], ok riktu þar, til er Ólafr konúngr andaðist, en þá fóru þau til Englands, ok ríktu þar til elli. Þau áttu þann son, er Rikarðr hèt; hann varð konúngr í Englandi eptir föður sinn; þat segja sumir menn, at sá Rikarðr væri faðir Álaflekks[5], ok lýkst hèr nú saga Hálfdánar Brönufóstra.

---

[1]) ok var hann þar til konúngs tekinn, því, *B.* [2]) Þau Sigurðr konúngr ok Hildr dróttníng fóru heim til Skörðuborgar en, *b. v. B.* [3]) *hèr sleppr C.* [4]) Þorviðr jarl ok Brana fóru með þeim, fèkk Hálfdán þeim bezta jarlsdæmi í Danmörk, ok voru þau hans ráðaneyti, meðan þau lifðu, *B.* [5]) en sá sem fèkk dóttur Brönu varð konúngr Danmörk *b. v. B.*

# Sagan af Sturlaugi starfsama Ingólfssyni.

Allir menn, þeir sem sannfróðir eru [at um[1] tíðindi, vita, at Tyrkir[2] ok Asíamenn bygðu Norðrlönd[3]; hófst þá túnga sú, er síðan dreifðist um öll lönd. Formaðr þess fólks hèt Óðinn, er menn reka ætt til. Í þann tíma rèði sá konúngr fyrir Þrándheimi í Noregi, er Haraldr gullmuðr[4] hèt; hann átti drottníngu; ekki er getit barna þeirra. Jarl einn var í ríki hans, er Hríngr hèt, hann sat [fram við sjó í Kaupángi[5]; hann átti dóttur eina, er kölluð var Ása en fagra, því hún bar af öllum jómfrúm henni samtíða sem rauða gull af eyri blökku, eðr sem sól af himintúnglum öðrum. Íngólfr hèt ríkr maðr[6], er rèð fyrir Naumudælafylki; hann átti þann son, er Sturlaugr hèt, hann var snimma mjök mikill á vöxt[7], ljós á hár ok hörund, kurteisligr í öll-

[1]) *þannig B, G*; ok þau, *A.* [2]) Grikkir, *B;* Grikklands, *G.* [3]) í fyrstu Norðrálfuna, *G.* [4]) gullmunnr, *G*; gullkambr 337 *í* 4 *blf.* [5]) inn í héraði Kaupánga, *B;* á Hamri í Kaupángi, *G.* [6]) hann var hersir ágætr, *b. v. G.* [7]) sterkr at afli *b. v. B, G.*

um háttum, ok allr var hans líkami vel skapaðr, blíðr í máli við sína menn, hægr í skapi, ok ör af peníngum; því var hann stórum vinsæll. Hann vandi sik við skot ok sund ok allskyns íþróttir. Íngólfr, faðir hans, hafði atsetr á þeim bæ, er heita Skartastaðir[1]; hann var hinn mesti rausnarmaðr, ok hafði fjölda fólks með sèr. Annat bú átti hann sèr í ey þeirri, er Njarðey[2] heitir, var þar ok fjölmenni mikit, ok enn átti hann önnur fjögur[3] bú. Maðr hèt Ásgauti[4], hann bjó á bæ þeim, er Túnglaheimr heitir, hann var mikilsháttar maðr, hann átti þá konu, er Gríma hèt; þau áttu tvo sonu, hèt annar Jökull, en annar Guttormr, þeir voru gildir menn ok vel mentir sem faðir þeirra. Maðr hèt Þórgautr, hann bjó á eyju þeirri, er Loka heitir; kona hans hèt Helga; þau áttu tvo sonu; hèt annar son þeirra Sóti, en annar Hrólfr nefja; þeir voru miklir menn ok sterkir. Hrafn[5] hèt maðr, hann var bóndi, hann bjó í eyju þeirri, er Urga[6] heitir; kona hans hèt Helga, þau áttu einn son, er Sigvatr hèt; hann var sterkr at afli ok menntr vel. Járngerðr hèt kona; hún bjó á þeim bæ, er á Bergi[7] heitir, skamt frá Íngólfi; hún[8] átti sèr þann son, er Áki hèt, hann var mikill maðr at afli, hann gekk næst

1) Skælastaðir, *G.* 2) Marðey, *D*; Mærsey, *G.* 3) hitt þriðja, *G.* 4) Asgautr, *B.* 5) Hemíngr, *B.* 6) Varga, *G.* 7) Mói, *B*; Bjargi, *G.* 8) var ekkja, ok, *b. v. B.*

Sturlaugi um allar íþróttir af þeim mönnum, sem honum voru samtíða; þeir lèkust við barnleikum, Áki ok Sturlaugr, þessir menn lèkust allir barnleikum, er nú voru taldir, ok námu allskyns íþróttir, þær sem mönnum voru þá tíðar at kenna sonum sínum, ok sórust þeir í fóstbræðralag, voru þó allir saman með feðrum sínum í góðu meðlæti.

2. Vèfreyja hèt kona [mikilhæf ok auðig, ok hafði búit á þeim bæ Vè[1]; sonu átti hún tvo, hèt annar Rauðr, en annar Hrafn[2]; báðir voru þeir miklir ok sterkir menn ok vel búnir at [vopnum ok klæðum[3]. Fóstri Vèfreyju hèt Svipuðr; þau voru bæði margvís ok fróð í flestu; hún átti bæ góðan, ok voru tvennar dyr á, [sat hún þar hvern dag[4], ok horfði sinn dag í hverjar dyr, kom henni fátt óvart; jafnan spann hún lín; hún sat á stóli, hún gerðist mjök rauðeygð af elli, en þó sá hún, er nokkut fór at garði, hvat sem atfór, því fátt kom henni óvart. Ása hin fagra var þar á fóstri, meðan hún var úng, ok nam þar kunnáttu. Vèfreyja unni henni mikit, ok hvor annarri þeirra.

3. Einn tíma talar Íngólfr við þá Sturlaug ok fóstbræðr: hversu lengi skal svâ framfara, (sagði hann), at þið fóstbræðr leikizt barnleikum við, sem meyjar til manna? væri þat

[1]) Vie, *A*; hún bjó við fjöll uppi á þeim bæ, er í Dal heitir, *B*, *G*. [2]) Hrani, *B*. [3]) íþróttum, *B*, *G*. [4]) *b. v. B*.

heldr röskra drengja siðr, at fremja[1] nokkut til frama, eðr biðja sèr kvenna at minnsta kosti, ok setjast í bú ok stýra ríki ok fè með föður sínum. Sturlaugr sagði: hvert skal ek mèr konu biðja, er þú eggjar þess svå mjök. Íngólfr mælti: Hríngr jarl á sèr dóttur, er heitir Ása hin fagra, hún er væn kona ok vel viti borin. Sturlaugr segir: ek em enn eigi mjök gamall til konbæna, ok lítt ráðinn í skapi, en þó mun ek þessa leita, ok ætla ek þó til lítils koma muni. Nú búa þeir ferð sína, ok eru saman 60 manna velbúnir at våpnum ok klæðum ok hestum; ríða nú leið sína, ok koma at kveldi dags til Hríngs jarls, ok fá þar viðtökur góðar; gerði jarl veizlu góða ok merkiliga í móti þeim, sátu þeir þar 3 nætr. Ok einn dag gengu þeir með jarli til skemmu Ásu, ok hefir Sturlaugr frammi erindi sín, ok biðr Ásu sèr til handa. Jarl víkr til sjálfrar hennar. Nú segir jarl dóttur sinni til þeirra, ok mælti svå: biðli áttu hèr at svara, dóttir! Ása mælti: hvat heitir sá? hann heitir Sturlaugr, segir jarl. Ása segir: fyrir hví munda ek eiga þann mann, er jafnan vinnr heima búverk með móður sinni, ok gerir ekkert til frama? Við þessi orð varð Sturlaugr reiðr mjök, ok ríðr í brott ok heim.

4. Um vorit búa þeir fóstbræðr 10 skip

[1]) vinna, *B.*

or landi, ok herja um Austrlönd, ok hafa jafnan sigr, hvar et þeir koma; þeir lètu fara í friði kaupmenn, en brutu undir sik spellvirkja[1], ok voru úti á sumrum í víkíng, en heima um vetrum með feðrum sínum. Nú fýsir þá[2] frá þessari iðju, ok skipta nú öllum herföngum; taka þeir fóstbræðr lausafè[3], ok fara með til feðra sinna, en þeir láta liðit[4] liggja í hernaði með skip sín, sitja þeir Sturlaugr ok fóstbræðr nú um kyrt.

5. Þat er nú hèr næst at segja, at drottníng Haralds konúngs tók sótt ok andaðist; þat þótti konúngi mikill skaði, því hann gerðist nú svâ mjök gamall, ok varð hann hryggr við líflát hennar. Ráðaneyti ok hirðmenn konúngs segja honum ráð, at biðja sèr kvennu til drottníngar: ok megi þèr þá afhyggja afgángi frúinnar, en þrá hana eigi lengr. Konúngr segir: hvar skal ek mèr konu biðja? Þeir segja: Hríngr jarl á sèr dóttur, er Ása heitir, hana máttu fá, ef þú vilt, þegar þèr lízt. Konúngr segir svâ vera skyldi; búa nú ferð sína, ok hafa hundrað manna. Nú ríða þeir þar til er þeir koma á fund Hríngs jarls; hann var úti, ok voru menn á leiki fyrir honum. Konúngr reið at svâ snart, at menn stukku frá tveggja vegna. Konúngr gerði tvo kosti, at festa honum dóttur sína, elligar

[1]) ránsmenn ok illvirkja, *G.* [2]) Sturlaug, at hætta, *B*, *G.*
[3]) hverr sinn hlut af fènu, *G.* [4]) *hèr byrjar C.*

mundi hann þar drepinn í stað. Jarl segir: förum vèr til skemmu Ásu, ok tölum við hana, svâ vèr vitum, hver svör hennar eru. Nei! segir konúngr, eigi vil ek vera vonbiðill dóttur þinnar, ok kjós skjótt annathvort! Jarl íhugar nú, ok þikkist vita, at hann muni ofrliði borinn, rètti fram höndina, ok festi konúngi dóttur sína; skyldi hún sitja í festum 3 vetr; snýr konúngr þegar í brott, ok ríðr heim, unandi vel við sína ferð. Jarl er eptir, ok unir heldr lítt við sinn hlut, stendr upp, ok gengr til skemmu Ásu, settist niðr, ok blès mæðiliga. Ása mælti þá: hvat er þèr at meini, faðir minn! er þú ert svâ fálátr[1], eða hefir þú nokkur nýtíðindi oss at segja. Tíðindi þikkja mèr, segir jarl, at ek hefi þik nauðigr manni festa. Hverr er sá? segir hún: Haraldr konúngr, segir hann, hefir fest þik, ok skaltu sitja í festum 3 vetr. Hún svarar þá: eigi valdist sá hinn minnsti[2] til, en eigi má vita, hvat þá er tíðinda, kann vera öðrum sè ætlat, ok skipast[3] má á skemmri stundu, ok ver kátr, faðir! Jarl mælti: betr þætti mèr þú gefin Sturlaugi. Hún svarar: eigi veit ek, hvat fyrir beztu má verða; nú líða stundir, ok er nú kyrt um hríð.

6. Einn dag er þess getit, at Hríngr jarl var úti á leikvelli, ok hirðmenn hans með honum; þeir sáu koma ríðandi mann af mörk-

[1]) fákátr, *B*, *C*, *G*, [2]) skemtiligasti, *C*, *G*. [3]) breytast, *C*.

inni fram, mikinn vexti, hestr hans var allr brynjaðr, ok svâ sjálfr hann, svartr skjöldr á hlið, höggspjót í hendi; hann reið svâ snart, at menn stukku undan tveggja vegna; hann reið svâ fram, ok sat á hesti sínum, ok lagði spjótit fram á milli eyrna á hestinum, ok mælti: heill herra! Jarl tók kveðju hans, ok spyrr, hverr hann væri. Hann segir: ek heiti Kolr krappi, en þat er erindi mitt híngat, at biðja Ásu, dóttur þinnar, mèr til handa. Jarl mælti: veiztu þat eigi, at hún er festarkona Haralds konúngs. Kolr segir: eigi þikki mèr verr at eiga hana, ok gjör nú annathvort, at þú gef fram festarnar, elligar rek ek spjótit í gegnum þik. Jarl íhugar nú þetta, ok þikkist nú vita, at eigi muni kostrinn góðr[1], kýs þat af at lifa, þótti [einskis utan ílls þaðan af von[2], þótti honum eigi undir, hversu íllt þeir ætti til samans Haraldr konúngr ok Kolr, ok selr nú fram festarnar. Kolr mælti: seg Haraldi konúngi, at ek skora honum hólmgöngu austr við Gautelfi, þá er líðr hávetrinn; hafi sá meyna, er sigr fær, [en komi hann eigi, nè vogi at berjast, þá[3] beri hann níðíngsorð fyrir hverjum (manni), svâ lengi sem hann lifir; sitið heilir, herra! Síðan snýr Kolr hesti sínum, ok reið brott, ok þóttist vel hafa fram-

---

1) at leggja hana á vald hans, *b. v. G.* 2) einskis ílls örvænt fyrir þenna óvin, er hvervetna (allt) íllt gjörði, *B, C*; *v. í G.* 3) ella, *B, C, G.*

gengit. Jarl unir illa við sinn lut, ok sitr eptir nokkura stund, stendr síðan upp, ok gengr til skemmu dóttur sinnar, ok settist niðr hjá henni, ok má valla mæla. Ása mælti: ertu sjúkr, faðir minn? Jarl mælti: betr væri sótt ok bráðr dauði, enn fá slíka skömm, at gefa nauðigr dóttur sína. Ása mælti: hverjum er ek nú gipt? Jarl mælti: hann heitir Kolr krappi. Hún segir: bregðast má til betra, enn eiga hinn versta mann, ok verða mun betri vor hagr, enn svâ sem nú er ætlat; ok einn mun hljóta þenna kost, en eigi tveir, má ok svâ verða, at hvergi þeirra hljóti, ef vel vill, ok ver kátr, faðir! segir hún. Jarl mælti: væri vel ef enn[1] væri, sem þú mælir, en þat uggir mik, at eigi [hljótist þat af[2], ef þeir drepast sjálfir, en þá yrði, sem ek vildi. Nú skilja þau at sinni.

7. Haraldr konúngr fregnar nú þessi tíðindi, ok þótti eigi betr enn áðr fyrri, leitaði nú ráðs hèr um við sína vini. Þat kemr upp, at konúngr sendi menn sína á fund Hemíngs, at bjóða honum til jólaveizlu, ok þat með at hann mundi eigi gjafalaus[3] í brott fara. Hann fèkk þann mann, er Kolli[4] hèt, at fara þessa sendiför. Nú fara þeir norðr í Naumudal[5] á fund Hemíngs, ok kvöddu hann, ok bera fram eyrindi

[1]) einn, *G*; svâ, *B*, *C*. [2]) *þannig hin*; hljóti þeir, *A*. [3]) *þannig hin*; gæfalaus, *A*. [4]) Kolr, *C*; Kollr, *G*. [5]) Raumsdal, *B*.

konúngs. Hemíngr hafði verit hinn mesti hólmgaungumaðr, en gerist nú hniginn við aldr, ok hafði verit í missætti nokkura stund við Harald[1] konúng. Nú segir sendimaðrinn fram eyrindi sín. Þá svarar Hemíngr: eigi man ek at konúngr hafi mèr fyrr heimboðit; nú eru tveir kostir fyrir hendi, at sitja heima ok vanrækja konúngs boð, eða hætta á, hvat undir býr, ok því at nú er eigi í hættu um gamlan mann, þá fari sem má; er eigi enginn eptir, meðan Sigvatr sonr minn lifir. Nú býr Hemíngr ferð sína á hans fund við 12ta mann, ok koma þeir jóla aptan hinn fyrsta, ok gengu í höll fyrir konúng, ok kvöddu hann vel. Konúngr tók vel kveðju þeirra, ok ruddi[2] öndvegi, ok setti Hemíng hitt næsta sèr, ok drukku glaðliga af jólin í góðu yfirlæti. En afgöngudag[3] jólanna gekk konúngr á málstefnu, ok Hemíngr. Konúngr mælti: hólmstefna er á hendi mèr, ok sè ek þar til at þú munir leysa mik undan við Kol krappa. Hemíngr segir: eigi veit ek þat, at þú hafir veitt mèr svâ mikit, at ek muni leggja líf mitt í hættu fyrir þik, þikki mèr eigi [örvænt (sè) við hraustan mann[4], at eiga heldr við tröll. Konúngr mælti; því leitaði ek þess við þik, at mèr þikkir þú mesta kempa verit hafa nær allra hèr í landi; þikki mèr þess von, at engi verði til, ef þik brestr, sem þú ert;

[1]) Olaf, *C.* [2]) rýmdi, *B*; *v.* *í C, G.* [3]) affaradag, *B*, *C*, *G.* [4]) sem við h. m. se, *B*, *C*, *G.*

en ef þú kemr aptr or þessari ferð, þá skal ek þèr vel launa með gulli eðr silfri. Hemíngr segir: þat er sannast, at hèr er lítit í hættu um gamlan mann, er falls von at fornu trè, ok mun ek fara sendiför þessa. Konúngr segir: (mæl) allra drengja hraustastr á sjó ok landi! var þess von, at þèr mundi vel fara. Nú býr Hemíngr ferð sína, ok ríðr í burtu leiðar sinnar, ok lèttir eigi fyrr, enn hann kemr til Gautelfar austr; var þar Kolr fyrir. En er þeir fundust, spurði Kolr, hvat Hemíngr skyldi. Hemíngr segir: ek ætla at gánga á hólm við þik. Kolr mælti: lítit leggst þá fyrir mik, ef þú leggr mik at velli, felda hefi ek þá, sem sterkari eru, ok hafa verit líkari til frama, enn þú ert, ok far heim aptr, en fá mèr vápn þín, ok segst yfirstiginn, ok þat at þú þorir eigi at berjast við mik. Hemíngr segir: heldr vil ek deyja, enn bera níðíngsorð fyrir hverjum[1] manni. Kolr mælti: eigi skal ek þinn hund spara at drepa, er þú vilt þat eina. Um kveldit tjölduðu þeir sèr búðir, ok sofa af um nóttina. Um morgininn stendr Hemíngr upp, ok sèr at Kolr er kominn til hólmsins, ferr hann nú til hólmsins með sína menn; nú kasta þeir feldi undir fætr sèr, ok segir Kolr upp hólmgöngulög; síðan gánga þeir saman, ok börðust, en svå lauk, at þar fèll Hemíngr fyrir Koli. Kolr mælti við menn Hemíngs: nú skulu þèr

[1]) hinum versta, *B*, *C*.

aptr fara á konúngs fund, ok segja honum, at hann geri annathvort, komi sjálfr til bardaga við mik, eða fái þann mann fyrir sik, at nokkur þróttr sè í, ef hann ætlar sèr konuna, eða mun hann af henni sitja. Menn[1] þeir, sem höfðu heiman farit, snèru aptr hvatliga, ok fóru norðr í Naumudal á fund Haralds konúngs, ok segja honum þessi tíðindi öll, ok ummæli Kols krappa.

8. Þótti konúngi þetta ill tíðindi, ok leitar sèr enn ráðs, ok þat tekr hann enn til ráðs, hann sendir Kolla sendimann til Sturlaugs ok föður hans, ok bjóða þeim til hálfsmánaðar veizlu til sín, með svâ margan mann sem þeir vildu með sèr hafa. Þessi orð [fara á millum[2] þeirra feðga. Þá spyrr Sturlaugr feðr sinn, hvert þeir skulu þiggja veizluna. Faðir hans segir: þat vilda ek at við sætim heima ok færim hvergi. Sturlaugr segir: eigi nenni ek at vanrækja konúngsboðit, en veit ek at nokkut muni undirbúa, en þó vil ek fara; mun lítil saga frá oss verða, ef vèr skulum eigi koma til annarra manna, þá við erum boðnir, má þat eigi vita, [hvat verðr í vorri ferð, þat at oss verði til sæmdar[3]. Íngólfr segir: þèr munuð ráða vilja ferðum yðrum, hvert sem ferst vel eðr illa. Eptir þat búa þeir ferð sína, ok eru saman 60 manna vel búnir allir at vopnum ok klæðum.

---

[1]) *þannig ágizkað;* Svâ ok f'stir, *A.* [2]) koma til, *B*, *C.*
[3]) *þannig B;* hver verðr vor ferð, þó sá sè eigi sæmdarmaðr, *A.*

Þeir ríða nú á fund Haralds konúngs, ok koma þar jólaaptan hinn fyrsta. Konúngr tók blíðliga við þeim, ok setti þá í hásæti hjá sèr, ok var þá búin hin fegrsta veizla. En at liðnum jólum gekk konúngr á málstefnu, ok þeir feðgar Íngólfr ok Sturlaugr. Sturlaugr mælti við menn sína: búi þèr hesta vora, meðan við tölum; þeir gerðu svâ. Konúngr mælti: hólmstefna er á hendi mèr, ok sè (ek) þar til, Sturlaugr! sem þú ert, at þú munir leysa mik undan, þvíat ek em gamall maðr at gánga á hólm við Kol hinn krappa. Sturlaugr mælti: sel mèr í hendr festar þær, er þú tókst af Hríngi jarli, því þat mun eigi kauplaust, segir Sturlaugr. Mikit þikki mèr til kaups mælt, segir konúngr. Þá mun ek tilhætta, segir Sturlaugr, hversu sem ferr með okkr Kol. Konúngr segir: eigi varði mik, at þú mundir þetta tilmæla, er mèr er mesta svívirðíng í at játa[1]. Sturlaugr segir: hèr er um at kjósa, hvert yðr þikkir betra. Konúngr mælti: þat mun ek þó kjósa, at þú gángir á hólm við Kol, þat ferr með okkr sem auðnar. Sturlaugr svarar: sel fram festarnar áðr; konúngr gerði nú svâ, þó nauðigr væri, því honum sýndist óauðligr[2] flokkr þeirra fóstbræðra. Ríða þeir á burt, ok á fund Hríngs jarls; hann tekr vel við þeim, ok býðr þeim þiggja þar veizlu; þeir segja, hvar nú var

[1]) láta, *B*, *C*. [2]) ekki eyðiligr, *B*, *C*; allóblíðr, *G*.

komit þeirra máli, ok hversu farit hafði með þeim Haraldi konúngi. Jarl varð nú glaðr við þetta, biðr þá gánga til skemmu Ásu, ok svâ gera þeir; en er þeir koma þar, þá fagnar Ása þeim vel. Hríngr mælti: biðli áttu hèr at fagna ok svara, dóttir! Hverr er sá maðr? segir hún. Hann heitir Sturlaugr. Ása mælti: eigi mun mèr nú manna skortr, segir hún. Sturlaugr mælti: svâ hefir nú verit tilætlat, at ek mundi eigi vera vonbiðill þinn lengr. Ása segir svâ vera skyldi, sem þeir vildu. Nú er búizt við ágætri veizlu, ok eigi tilsparat þat hafa þurfti; gengr Sturlaugr at eiga Ásu hina fögru, ok er þegar leidd í sömu sæng; veizlan fór vel fram, ok voru menn með góðum gjöfum útleystir[1]; ríða þeir Íngólfr heim, en þau Ása ok Sturlaugr eru eptir, ok undu allvel sínu ráði.

9. Einn morgin, er þau Ása lágu í sæng sinni, mælti Ása við Sturlaug: er hólmstefna á hendi þèr, Sturlaugr? Satt er þat, segir hann; við hvern? segir hún; við Kol krappa, segir hann, eða hvat kantu þar til leggja? Hún svarar: far þú, ok finn Vèfreyju, fóstru mína, haf hennar ráð, ok mun þèr vel duga; hèr er fíngrgull, er þú skalt henni færa til jarteikna, ok seg at mèr þikkir mikit undir, at hún taki vel við þèr. Sturlaugr ferr nú, ok þeir 12 saman fóstbræðr, ríða nú til þess, er þeir koma at bæ kerlíngar. Sturlaugr hleypr

[1]) útleiddir, *C*, *G*.

af baki, ok inní dyrnar at kellu, ok leggr hendrnar um háls henni, ok kysti hana, svâ mælandi: heil ok sæl, kerlíng mín! hún snarast við honum fast[1], ok rekr upp á hann augun; hverr er þessi hundsins[2] sonrinn, er mik leikr svâ háðugliga, ok engi hefir slíkt þorat at gera fyrri, ok skal ek þetta grimmliga gjalda. Sturlaugr mælti: vertu eigi svâ reið, kerlíng mín! þvíat Ása sendi mik híngat til þín. Hvat er þèr at Ásu? segir kerlíng; hún er kona mín, segir hann. Hún mælti: er lokit boðinu? svâ er þat, segir hann; nú eru brögð í, segir kerlíng, er mèr var eigi boðit til boðsins; þó skal gera sem Ása biðr; far þú af klæðum, ok vil ek sjá bolvöxt þinn; hann gerir svâ; hún strýkr hann allan, ok þikkist hann mikit styrkna við; síðan gefr hún honum ker at drekka or, gánga síðan til stofu. Kerlíng var hin bezta til beina um kveldit; hún spyrr, hvert Sturlaugr vill liggja einn um náttina, eða hjá sèr: en eigi skal ek at heldr svíkja Ásu mína. Sturlaugr segir: þess betr þikki mèr, kerlíng! sem ek er nær þèr. Þá lèt kerlíng einn stokk á milli þeirra, en þau lágu á einu hægindi bæði saman, ok áttu tal saman um nóttina. Sturlaugr mælti: hvat leggr þú mèr til ráðs, því hólmstefna er á hendi mèr við Kol hinn krappa. Óvænliga

---

1) því hún horfði áðr baki við honum, *b. v. B, C.* 2) hundsemis, *B, C*; hundíngja, *G.*

þikki mèr þat horfa, segir kerlíng, því á hann bíta engi járn, ok kann ek hèr varla ráð til at leggja. Um morginin bjöggust þeir fóstbræðr til ferðar, ok er þeir voru búnir, þá mælti kerlíng við Sturlaug: tak hèr við loðkápu[1] einni, er lángfeðgar mínir hafa átt, [ok saxi[2], ok hefir jafnan gæfa fylgt, ok reyn, hvert nokkur þróttr er í þèr[3]. Sturlaugr tók við, ok hjó í einn stein, er stóð í hlaðinu, ok tók af steininum hyrnuna; rið fèll af sverðinu, ok var bjart eptir sem silfr. Þá mælti kerlíng: þetta sverð skaltu bera á hólm við Kol krappa, [en eigi máttu sýna honum þetta sverð[4], ef hann biðst at sjá þat, er þú átt at höggva með. Þá mælti kerlíng: far þú nú vel, Sturlaugr minn, ok gángi þèr allt til sigrs ok tíma, á meðan þú lifir, ok alla gæfu þá er vorir frændr hafa haft, þá legg ek til þín, sem ek má framast; þó er ek hrædd, hvernin ferr með ykkr Kol krappa; en tvo sonu á ek, er ek vildi, þú tækir í fóstbræðralag. Svâ skal vera, segir Sturlaugr. Nú sverjast þeir í fóstbræðralag. Síðan snúa þeir í brott; en er þeir voru skamt farnir, kallar kerlíng eptir þeim, ok mælti: viltu, Sturlaugr minn, at Svipuðr, fóstri minn, fari með þèr, hann er frár á fæti. Þat vil ek, segir Sturlaugr.

1) ryðskálm, *B*, *C*. 2) *v. í B*, *C*. 3) *v. í B*, *C*, *G*. 4) en ek vil sjá þat sverð, er þú berr áðr; hann sýnir henni, en hún mælti: eigi skaltu þetta sverð bera á hólm við Kol krappa, en þó máttu sýna honum þat, *b. v. B*, *C*.

Kerlíng seldi Svipuði í hendr púng lítinn, hann stakk honum næst sèr, ok síðan ljóp hann fyrir hestum þeirra; ríða nú leiðar sinnar, ok lètta eigi fyrr, enn þeir koma austr til Gautelfar, ok er Kolr eigi kominn. Sturlaugr tjaldar búð, þá er Kolr var vanr at tjalda.

10. Litlu síðar kom Kolr. Sturlaugr gekk í móti honum, ok heilsar á hann. Kolr mælti: hverr er þessi hinn vondi bykkjusonrinn, er þorir at tjalda búð þá, er ek er vanr at tjalda, ok hann er svâ djarfr. Sturlaugr mælti: þú munt vita glöggvast, hverr bykkjusonrinn er, því hann var hèr engi, áðr þú komt hèr, en ef þú spyrr at nafni mínu, þá heiti ek Sturlaugr. Kolr mælti: hvat ætlar þú þèr, er þú ert hèr kominn. Sturlaugr mælti: ek ætla at berjast við þik. Kolr mælti: nú eru brögð í tafli, ok ofdjarfr ertu, at þú ætlar þèr þann mikla dul, þar sem ek hefi svâ margan dreng feldan, er við mik hefir barizt, eðr hvat dregr þik til þess? Sturlaugr segir: þat helzt, at Ása hin fagra er eiginkona mín, skaltu þar eigi við meyju taka, þóat ek falli fyrir þèr. Kolr mælti: heyr hèr á fádæmi, hvat þínum herjans syni hefir í hug komit at gera, ok fyrir þetta hitt sama, skal ek þèr eigi þyrma, ok skjótt skaltu þitt líf láta, ok er þó ofseint; en þó er þat skaði um slíkan mann sem þú ert. Sturlaugr segir: hvergi skal ek á hæl fyrir þèr hopa. Nú tjaldar Kolr sèr aðra búð um kveldit, en er

Kolr var kominn til matar, kemr Svipuðr í búð hans, ok tekr púnginn kerlíngar or skikkju sèr, ok skekr í búðinni, ok varð af þessu reykr mikill. Kolr rekr upp augun, ok mælti: far í burt, hinn vondi hundr! ok kom hèr eigi síðan, því þú munt nokkut íllt gera. Svipuðr snýr í burt, svâ at engi vissi, hvat af honum varð, sofa þeir af um nóttina. Um morgininn stendr Sturlaugr upp snimma, ok þeir fóstbræðr, fara til eyjarinnar, setjast niðr, ok bíða Kols. Hrólfr nefja stendr upp, ok gengr í skóginn, ok höggr sèr kylfu eina stóra ok mikla, ok hefir í hendi sèr, ok gengr til fèlaga sinna aptr. Kolr stendr upp um morgininn, ok skein þá sól um alla völlu. Hann mælti þá: þat ætla ek sá hinn vondi þræll, er hèr kom í gær kveld, hafi nokkura töfra haft, þá er oss hafa lítill fögnuðr at verit, ok þetta má sannliga heita dauðasvefn, er vèr höfum sofit, ok förum til hólmsins! þeir fara til hólmsins, ok kasta feldi undir fætr sèr. Kolr segir upp hólmgöngulög í millum þeirra, ok skyldi hverr við leggja 20 merkr silfrs, skyldi þetta hverr eiga, sem sigr fengi. En er þeir voru búnir, tekr Kolr til orða: Sturlaugr sveinn! sýn mèr sverð þitt, þat er þú hefir; hann gerir svâ. Kolr lítr í eggina, ok rak við augun, ok mælti: eigi muntu mik með þessu sverði sigra, far þú heldr heim, segst yfirkominn, en fá mèr vopn þín, ok send mèr Ásu hina fögru, ok seg henni, at

þú þorir eigi at berjast við mik, eðr halda henni fyrir mèr. Sturlaugr segir: [eigi sigrar þú mik með[1] orðum einum, þvíat þú ert yfirkominn af hræðslu, ok mun þèr skamt til ílls dauða. Kolr varð reiðr við orð hans, ok mælti: þat skaltu finna, hinn vondi hundr! at ek skal þèr eigi þyrma; þá kastar Sturlaugr því sverði, er hann hafði Kol sýnt, en tók Vèfreyjunaut undan feldi sínum, ok brá. Kolr mælti: hvaðan kom þèr Vèfreyjunautr, ok eigi munda ek á hólm við þik hafa gengit, hefða ek þat vitat. Sturlaugr svarar, þat skiptir þik engu, ok er þèr illa farit, at þú hræðist fyrr enn þörf gerist. Þá hjó Sturlaugr til Kols, ok klauf skjöldinn allan. Kolr hjó í mót, ok klauf hans skjöld í sama máta; þá hjó Sturlaugr í annat sinn til Kols utan á hjálminn, klauf hann allan, ok af vángafylluna, ok svâ á öxlina, at í herðarblaðinu nam staðar. Kolr stóð rèttr, ok gaf sik eigi at, þá ljóp at Hrólfr nefja með kylfuna, ok rak á blóðrefilinn, svâ at sverðit gekk niðr í búkinn, ok fèll þar Kolr, en Sturlaugr fèkk sigr, ok varð frægr af þessu verki. Reið Sturlaugr til Vèfreyju, ok var kerlíng úti, ok fagnaði vel Sturlaugi. Þar var þá fyrir Svipuðr; þar voru þeir um nóttina, ok lèt kerlíng vel yfir þessu verki: ok er þat satt, segir kerlíng,

[1]) feigum munni fleiprar þú nú, er þú þikiat nú hafa sigrat mik í, *B*, *C*.

at sæl er Ása mín, at hún á slíkan mann, sem þú ert, ok mun þèr hèðan af hefjast allhyggiligt ráð, ef þú kant til at gæta, en þar er ek hrædd um, hversu ferr, en vilda ek at þèr gengi vel, en eigi skal þèr kerlíng þessi verri enn engin. Nú ríðr Sturlaugr burt til móts við Hríng jarl; tók hann blíðliga við þeim öllum, ok varð Ása fegin bónda sínum. Þessi tíðindi koma fyrir Harald konúng. Konúngr varð svipligr við þenna atburð, sem síðar berr raunir á, en allir frændr Sturlaugs þóttust hann or helju heimtan hafa.

11. Einn dag sem Hríngr jarl var á leiki með menn sína, er lèku fyrir þeim Hríng ok Sturlaugi, þá sáu þeir ríða mann af mörkinni á rauðum hesti at þeim, brynjaðr allr, hann var mikill vexti, hjálm á höfði, en girðr sverði, gullsmeltan skjöld á hlið, ok spjót[1] í hendi. Hann reið fyrir jarl, ok kvaddi hann vel; hann tók ok honum í sama máta, spurði, hverr hann væri; hann segir: óvant er nafn mitt, ek heiti Framar[2], en við erum hálfbræðr[3], Kolr enn krappi ok ek, en þat er mitt eyrindi híngat, at ek vil bjóða þèr hólmgöngu, Sturlaugr! því ek vil eigi bera bróður minn í sjóði. Sturlaugr segir: til hólmgöngu em ek albúinn, þegar þú vilt, ok eptir illan áttu at mæla, þar sem Kolr var. Svâ var þat, segir Framar, en þó var

[1]) höggspjót, *B*, *C*, *G*. [2]) Fraðmar, *B*, *C*, *G*. [3]) bræðr, *B*, *C*.

hann mèr skyldr, ok vil ek því berjast við þik, þar et Kolr fèll austr við Gautelfi, þegar líðr hávetrinn. Svâ skal vera, segir Sturlaugr. Nú ferr Framar leiðar sinnar, en þeir eru eptir, ok leið af sumarit. Eina nótt, er þau lágu bæði í hvílu sinni, Sturlaugr ok Ása, mælti Ása: er hólmgánga á hendi þèr, Sturlaugr? segir hún; svâ er víst, segir hann: eðr hvert ráð leggr þú á með mèr um þetta? Ása segir: far þú ok finn Vèfreju, fóstru mína, ok haf hennar ráð um þetta! Svâ skal vera, segir Sturlaugr. Hann ferr nú á fund Vèfreyju, var kerlíng úti, ok fagnaði þeim vel, ok eru þeir þar um nóttina. Um morgininn spyrr Sturlaugr kerlíngu ráðs um þetta. Kerlíng mælti: við hvern skaltu nú á hólm gánga? Framar heitir hann, segir Sturlaugr, bróðir Kols krappa. Kerlíng segir: ólíkir menn, sagði hún, ok er þat íllt, at þið skuluð bera banaspjót, hvorr á móti öðrum, þvíat Framar er hinn vaskasti maðr, ok af hinum beztu ættum, en Kolr var hinn versti maðr, ok þræla ættar, ok sæll væri sá, er því kæmi til leiðar, at þið væruð heldr vinir enn fjandmenn, ok kann ek eigi til at leggja, ok mun fara at auðnu með ykkr, en fara skal Svipuðr, fóstri minn, með þèr. Nú fara þeir leiðar sinnar, ok lètta eigi fyrr, enn þeir koma austr til Elfar, ok reið Framar þá at öðrum megin, hittast þeir, ok frèttast almæltra tíðinda,

stíga af baki, tjalda hvorir búð með öðrum, ok sofa af nóttina.

12. En um morgininn standa þeir upp snimma, ok fara til hólmsins, ok setjast niðr á lág eina. Framar mælti; hvert viltu at við reynum með okkru fyrr enn menn okkar? Sturlaugr mælti: gott þikki mèr at hafa gaman af mönnum mínum. Hrólfr nefja stóð upp[1], ok mælti: ek skal þèr í mót, Blámaðr! Hrolfr bjó sik til glímu alllèttliga[2]; síðan ráðast þeir á, ok takast fángbrögðum allsterkliga, ok var þeirra atgánga bæði hörð ok löng; mikill var aflsmunr með þeim, þvíat Blámaðrinn málti bera Hrólf í fángi sèr, hvert er hann vildi. Berserkrinn vildi færa Hrólf þá niðr, hann kom þó jafnan fótum undir sik; þessi Blámaðr var mikill sem risi, en digr sem naut, blár sem hel; klær hafði hann svâ miklar, at þær voru líkari gammsklóm[3] enn manna nöglum; nú bar hann Hrólf at láginni, ok vildi Blámaðrinn færa hann niðr á kylfuna, en Hrólfr stakk fótum við svâ fast, at þeir hrukku frá í burt báðir, ok fèll Blámaðrinn á bak aptr, ok varð undir honum steinn, ok brotnaði hryggr hans, en Hrólfr ljóp skjótt á fætr, ok þreif kylfuna, ok lamdi Blámanninn skjótt til heljar, en Hrólfr var allr blár ok blóðugr, ok rifit hold af beinum

1) ok mælti: hverr skal mèr ímóti? Blámaðr einn stóð upp, *b. v. B, C.* 2) hann lagði niðr kylfuna á eina lág, *b. v. B, C.* 3) járnkömbum, *B, C*; arnarklóm, *G.*

hans. Sturlaugr þakkaði honum vel sína framgöngu. Síðan var sá maðr með Framari austan af Svíþjóð, er Þórðr hèt, mikill maðr ok sterkr; honum í mót gekk Hrafn hinn hái, ok hófu þeir sitt einvígi með stórum höggum, en svâ lauk, at Hrafn fèll fyrir Þórði. Nú gekk fram Jökull, ok mælti: hverr skal mèr í móti? Maðr stóð upp, er Frosti hèt, ok mælti: mun eigi þat makligast, at ek gángi þèr í móti, þvíat frostit herðir jökulinn. Þeir berjast lengi, þar til at Jökull fèll fyrir Frosta, ok þótti Sturlaugi mikill skaði at um fóstbræðr sína; en þat var tilskilit, at engi skyldi öðrum lið veita. Finnr einn var með Framari, ok var honum skipat í mót Svipuð; þeir gángast nú á móti, ok berjast hart ok títt, svâ at eigi fèkk auga áfest, ok hvergi kom sári á annan; en er þeir litu þar til í annat sinn, þá voru þeir þegar horfnir; en þar voru komnir hundar tveir, ok bitust ákafliga; ok er minnst varði, voru hundarnir horfnir, en menn heyrðu í loptit upp ólæti nokkur, ok líta monn við, ok sáu at ernir tveir flugust á í loptinu; ok [rifu af hvorr annars fjaðrir með klóm ok[1] nefjum, svâ at blóðit fèll á jörð; en svâ lauk með þeim, at annar fèll dauðr niðr á jörð, en annar fló í braut; ok vissu menn eigi, hvorr sá var.

13. Framar mælti: nú er ráð, at við reynim með okkur; búinn em ek þess, segir

[1]) rifust af hamina með, *B*, *C*.

Sturlaugr. Nú kasta þeir feldi undir fætr sèr. Sturlaugr bregðr þá Vèfreyjunaut, en er Framar sá þetta, mælti hann: hvaðan kom þèr Vèfreyjunautr? Sturlaugr segir: hirðtu aldri, hvaðan hann kom. Framar mælti: eigi munda ek hafa gengit á hólm við þik, ef ek hefði þetta vitat, en þó fèkk (ek) eigi fyrr æðru í mitt brjóst. Framar segir upp holmgöngulög, ok á Sturlaugr at höggva fyrri; hann hjó til Framars, ok í hjálm hans, ok af hjálminum, þat er nam, ok svâ í skjöldinn, ok klauf hann allan niðr í sporð, svâ at í jörðu nam staðar, en blóðrefillinn nam bringuna í gegnum brynjuna, ok í brúnina, ok hljóp í beinit, ok rann þegar blóð í augun, svâ at hann sá eigi, ok þarmeð blástr mikill. Framar hjó þá til Sturlaugs, ok klauf skjöld hans allan. Sturlaugr hjó þá til Framars í annat sinn, ok fór á sömu leið, ok var Framar þá óvígr. Hann setr sik þá niðr, ok mælti: þú hefir í helzta lægi óvin í hendi þèr, þvíat sverð þitt er fullt af eitri ok illsku, ok högg af mèr höfuðit sem fyrst, þvíat ek vil eigi lifa við harmkvæli. Sturlaugr mælti: viltu þiggja líf af mèr? Framar segir: gott þikki mèr at þiggja líf af þèr, en fyrirkomit gerist nú líf mitt. Þeir flytja hann utan or eyjunni, ok inn í búð sína, ok er þá minni von manns; ok er svâ var komit, þá heyrir út dunr miklar, en er út var komit, þá var þar komin Vèfreyja í

vagni, ok spurði, hversu þeim færi at; þeir svara, at Framar var kominn at dauða. Kerlíng segir: berið hann út híngat! eigi er undir því, hvar hann deyr; svå var gert, sem hún bað. Sturlaugr mælti: viltu láta fara með þèr fleiri menn. Eigi vil ek þat, segir kerlíng, ek er vel fær ein, segir hún; ekr kerlíng Framari af stað, en þeir sitja eptir, líðr nóttin; en um morgininn býr Sturlaugr ferð sína. Frosti gengr at Sturlaugi, ok mælti: gjarna vilda ek vera í ferð með þèr ok þínum fóstbræðrum. Sturlaugr mælti: ek ætla vel goldit fyrir Jökul, þar þú kemr í staðinn. Nú gjörist hann fóstbróðir Sturlaugs; ríða síðan í burtu, ok lèttu eigi fyrr, enn þeir komu til Vèfreyju; ok er þeir koma þar, eru þeir Svipuðr ok Framar alheilir báðir, voru þeir þar um nóttina í góðu yfirlæti. Um morgininn tók Vèfreyja til orða: þat vilda ek, Sturlaugr minn! at þið Framar sværust í fóstbræðralag, því hann er hinn fræknasti maðr fyrir allra luta sakir. Sturlaugr svarar: þú skalt ráða, kerlíng! þat mun mèr beztu gegna. Nú sverjast þeir í fóstbræðralag, Sturlaugr ok Framar, ok skal hvorr hefna annars, sem þeir sèu skilbornir bræðr.

14. Eptir þat ríða þeir í burt, til þess er þeir koma nær bygðum Hríngs jarls; þikkir þeim kynliga viðvinda; höllin er öll þakin mönnum; þar var þá kominn Haraldr konúngr

við 4 hundruð manna, ok ætlaði at brenna inni Hríng jarl, ok Ásu hina fögru, dóttur hans; sjá nú at logi leikr um allt, ok brennir Haraldr konúngr bæinn allan. Þá sáu þeir Sturlaugr, hvar menn gánga neðan or jörðu í rjóðri einu, ok þángat snúa þeir, kenna at þar er kominn Hríngr jarl með alla sína hirð, ok þar var Ása hin fagra með honum; varð þar fagnaðarfundr með þeim öllum; ok eptir þetta ríða þeir allir á fund konúngs, þar er hann var at brennunni; þeir voru alvopnaðir, ok hestar þeirra brynjaðir. Sturlaugr segir þá: heldr finnumst við nú hèr, konúngr! enn í hafinu! en illa ferr þèr, þvíat þú ert bæði huglaus ok lymskr[1]. Konúngr svarar: eigi hirði ek um illmæli þín, en þat er þèr at segja, Sturlaugr! at þú skalt aldri óhræddr vera hèr í landi, nema þú færir mèr Úrarhorn þat, er ek týnda forðum, en nafn mun ek gefa þèr með sendiförinni, skaltu heita Sturlaugr hinn starfsami, þat mun við þik festast, því [hèr ofaná[2] mun yðr [starfs auðit[3] fóstbræðrum verða, á meðan þèr lifið, ef þèr komið aptr or þessari för, sem eigi skyldi vera. Sturlaugr segir: hvert skal ek eptir því leita? Konúngr segir: hygg þú sjálfr fyrir því! Sturlaugr segir: ófallit er, at ek fari sendiför þína, segir hann, en allt hvat þú þikkist þúngt[4] fyrir mik leggja, þá skal ek lífinu voga.

[1]) svikull ok hugblauðr, *B*, *C*; heimskr, *G*. [2]) jafnan, *B*, *C*, *G*. [3]) starfsamt, *B*, *C* *G*. [4]) þraut, *B*, *C*, *G*.

Rèð konúngr eigi því til bardaga við þá, at honum þótti flokkr þeirra fóstbræðra harðsnúinn bæði í afli ok herklæðum; báðu hvorigir aðra vel lifa, ok skildu við svâ búit. Sturlaugr ok þau öll saman riðu norðr til Naumudala, ok sátu þar um vetrinn.

15. Ok einn dag kom Ása at máli við Sturlaug, ok mælti: er sendiför á hendi þèr? satt er þat, segir hann, eðr hvert ráð leggr þú á með mèr, hvert ek skal leita at þessu horni. Ása segir: finn Vèfreyju, fóstru mína, ok haf hennar ráð! Ok þegar eptir annan dag bjöggust þeir heiman, ok riðu til Vèfreyju, ok er hún úti, ok fagnar þeim vel, ok eru þeir þar um nóttina, en um morgininn mælti Sturlaugr til Vèfreyju: hvat kantu at segja mèr af horni því, er Úrarhorn heitir. Kerlíng mælti: þat er bæði ek kann þar eigi frá segja, enda vil ek eigi. Sturlaugr mælti: veiztu nokkurn þann, er þar kunni frá at segja, þvíat ek vildi þat gjarnan vita. Vèfreyja segir: Járngerðr heitir kona, ok er systir mín, far til hennar, ok vit, hvat hún hefir at segja! þeir ríða nú á brott, ok lètta eigi fyrr sinni ferð, enn þeir koma þar sem Járngerðr á fyrir at ráða, eru þar um nóttina. Sturlaugr spurði Járngerði, hvert hún kynni at segja frá Úrarhorni. Hún segir: þar kann ek eigi frá at segja, en veit ek konu þá, er vita mun. Sturlaugr spurði, hver sú væri. Snælaug heitir systir mín, hana á Hrólfr

konúngr á Hundíngjalandi, en yðr er eigi fært at fara þángat, því til mikils mun verða sú ferð um þat er þèr komið aptr; ríða þeir fóstbræðr heim at svâ fregnuðu.

16. Þat er þessu næst at segja, at Sturlaugr býr ferð sína litlu síðar, ok þeir allir fóstbræðr, ok hafa hundrað manna, ok eitt skip. Sturlaugr mælti við Hríng jarl, ok svâ föður sinn, biðr þá sjá fyrir ráði Ásu, meðan hann er burt, ok gózi[1] hans öllu því sem eptir var. Nú sigla þeir norðr fyrir Hálogaland ok Finnmörk ok Vaznes, ok inn á Austrvík[2], ok kasta atkerum, ok liggja þar um nóttina, ok bjöggust um; eptir þat hluta þeir um vöku, ok hlaut Áki at vaka hinn fyrsta þriðjúng nætr, en Framar annan, en Sturlaugr hinn síðsta. Ok er menn voru sofnaðir á skipinu allir, nema Áki, tók hann bát, ok rær með landi fram út með nesinu; hann heyrir at gengit er uppi í grjótinu; Áki tók þá til orða ok mælti: hvert skal ek hèr heilsa karlmanni eðr konu? þá var honum svarat: víst er þetta kona. Hvat heitir þú, drós? segir Áki. Ek heiti Torfa[3], segir hún, eða hverr er á bátnum? segir hún. Áki heitir sá, segir hann. Eigi mun Áki Járngerðarson hèr kominn, segir hún? sá er maðrinn sami, segir hann. Viltu eiga kaup við mik, Áki minn? segir hún? hvert er kaup þat? segir hann. Þat at þú flytir mik til eyjar

1) liði, *B*, *C*. 2) víkina Vastuvík, *B*; Vazvík, *C*; Olslavík, *G*. 3) *þannig B*, *C*; Torfija, *A*, *G*.

þeirrar, er hèr er skamt frá landi; þar hefir látizt faðir minn frá miklu fè, en vèr erum 3 systr, ok eigum arfi at skipta með oss; vildi ek fyrri koma enn þær, mun ek gefa þèr tveggja dægra byr, þá er bezt kemr við. Svâ skal vera, segir Áki. Nú stígr hún útá bátinn, en hann rèri út á sundit, ok er hann hefir skamt róit, tók hún til orða: nú má ek vel vaða til lands, en þú far heill ok happadrjúgr[1], ok skal ek vel efna við þik. Nú styttir hún upp skinnkyrtilinn, ok stígr fyrir borð. Áki rèri eptir þat til skips, ok vekr upp Framar, en leggst niðr sjálfr, ok sofnar skjott. Framar stígr í bátinn, ok rær út með nesinu. Hann heyrir í grjótinu, at gengit er í fjörunni. Framar mælti: hvert er karlmaðr eðr kona á landi? þá var svarat: eflaust er þetta kona. Hvat heitir þú hin fagra ok fèsæla? segir hann! Hildr heiti ek, segir hún, ok hvat heitir þú, piltr minn? kvað hún. Framar heiti ek, segir hann. Eigi mun hèr kominn Framar, bróðir Kols ens krappa, segir hún. Sá er maðrinn, segir hann. Ólíkir tveir, segir hún; ek vilda eiga kaup við þik, segir hún. Hvernin er kaupi því háttat? segir Framar. Hún segir: þú skalt flytja mik til eyjarinnar hèr er næst landi, þar hefir andazt faðir minn frá miklu fè, en vèr erum systr 3 at taka arf, en ek mun afskipt, ef ek kem síðar, segir hún. Framar segir: viltu þá gefa

[1]) happauðigr, *B*, *C*.

mèr tveggja dægra byr? þat skal vera, segir hún. Nú ferr hún í bátinn, ok þótti honum ærit mjök síga bátrinn, er hún kom útá. Hún mælti: viltu at ek rói með þèr? Eigi eru þau efni í, segir Framar; en er eptir var þriðjúngr sunds, þá tók hún til orða: eigi þarftu nú lengra út at flytja mik, eru nú þeir einir álar til lands, at ek get vel vaðit; hún stè þá fyrir borð, ok óð svâ til eyjarinnar. En Framar fór aptr til skips, ok vekr upp Sturlaug. Hann sprettr skjótt á fætr, en Framar leggst til svefns. Sturlaugr stígr á bátinn, ok rær fram með nesinu; ok er hann kemr norðr um nesit, heyrir hann, at gengit er uppi í grjótinu, ok sèr at eldr hrýtr or grjótinu undan þessu kvikindi; þat hefir í hendi atgeir[1] einn; þat þótti honum sem þat mundi eigi alþýðu[2] vopn vera, er þetta skrípi berr. Sturlaugr spyrr: hvert á ek hèr at heilsa, konu eða karlmanni? Hún segir: [veiztu eigi, hvat þú sèr; kona er þetta, segir hún, eða hvat heitir þú? Sturlaugr heiti ek, segir hann. Hvaðan ertu kominn, eðr hvert ætlar þú, Sturlaugr hinn starfsami? segir hún, en[3] Hornnefja[4] heiti ek, segir hún. Hvat er manna með þèr? kvað hún, eðr er Hrólfr nefja nokkut með þèr? svâ er mèr sagt,

1) addgeir, *B*; arngeir, *G.* 2) alþýðligt, *B*, *C*, *G.* 3) allheimskr glópr (óglöggþekkinn, *G*) er þú, segir hún, er þú veizt eigi, hvort þú sèr úngar meyjar eða karlmenn. Sturlaugr mælti: hvat heitir þú ljúfan? *B*, *C.* 4) Hrónefja, (Hrútnefja), *G.*

sagði hún, at hann sè [mikit mannval, ok hverju kvikindi fljótari[1]. Mikit er til þess hæft, segir hann. Þá eru brögð í, segir hún; viltu eiga kaup við mik? hverju viltu kaupa? segir hann. Ek vil at þú komir Hrólfi nefju til mín, svâ at ek megi sjá bolvöxt hans ok yfirliti, þvíat mèr er mikit sagt af hans andlits fegurð, mun ek gefa þèr til grip þenna, er ek hefi í hendi mèr, en þat er einn atgeir. Sturlaugr segir: hvat prýðir grip þenna, er þú býðr mèr? Hún mælti: hann bítr allt þat honum er högg-vit til, hann má vera svâ lítill, at þú mátt nista honum í klæði þínu sem dragnál[2], þar muntu hvergi komu, at þèr mun eigi hægt veita at vinna með honum, hvat þik girnir, ok þörf gerist. Sturlaugr segir: þá munum við kaupast við. Sturlaugr fór nú til fóstbræðra sinna, ok vekr upp Hrólf nefju, ok biðr hann fara með sèr. Þeir fara nú burt á bergit, þar sem kella var undir niðri. Hrólfr sezt á fram-anvert bergit, ok lætr síga fætr fram. Hann var svâ búinn, at hann var í geitbjálfa loðnum, ok digr kálfsbelgr á höfði honum, ok stóð upp rófann or miðju höfði, en ketil hrím var núit[3] um andlit hans allt[4], ok skotit kefli í munninn, svâ at stórar kúlur voru útaf kinn-unum; uxahorn eitt hafði hann í [hendi sinni[5],

---

[1]) hverjum manni nefljótari (nefstærri, G), *B*, *C*, *G*. [2]) *þannig hin*; digrum al, *A*. [3]) *þannig B*, *C*; mikit, *A*, *G*. [4]) en smúit um hvörmunum, *b. v. B*, *C*. [5]) í enni sitt, *B*, *C*.

svínsbelg[1] hafði hann á hvorum fæti, ok er hann var svâ búinn, þá þótti hann eigi at öllu sjáligr, þar er hann sat á berginu, ok gapti við túnglinu, þvíat þat skein glatt. Eptir þetta fór Sturlaugr til fundar við Hornnefju, hún fagnar honum vel, ok mælti: hvar er Hrólfr nefja? Sturlaugr mælti: líttu hèr uppá bergit, ok sjá, hvar hann sitr! hún snarast við fast, ok sèr, hvar hann er kominn. Hún heldr þá hendi fyrir augat, ok hyggr at vandliga, ok mælti: þat er þó satt at segja, segir hún, at allgerfiligr er maðrinn, ok hefir eigi ofsögum verit frásagt þessum manni, er svâ er tíguligr[2]. [Nú þrútnar hún í vexti mjök[3]. Síðan teigir kella sik upp í bergit, ok þóttist aldri geta hann fullkomliga sèð, þar er hann var. Eigi kann ek hèr önnur ummæli at hafa, enn mèr þætti sú kona sæl, er þenna mann hlyti. Þá sèr Sturlaugr, at hún muni fá þrifit í fætr honum, ok vill eigi þess bíða, ok hleypr or bátinum utan, ok á einn stein, ok leggr at henni með atgeirnum, svâ stóð í gegnum hana. Hún lèt þá fallast á hann ofan, ok fór hann þegar í kaf, ok kafaði út undan henni, en bátnum hvolfði. Hún lèt þar líf sitt, en hann rèttir bátinn; fara þeir aptr við svâ búit til fèlaga sinna, ok segja þeim, hversu farit hefir. Þeir láta vel yfir.

---

1) sinn kálfbelg, (belg, *B*), *B*, *C*. 2) ítarligr, *B*, *C*. 3) *þannig B*, *C*; mèr er hann við vöxt mjök til, *A*.

17. Eptir þetta rennr á blásandi byr fyrir þeim, ok sigla þá þar til er þeir sjá land. Þat var mjök skógi vaxit; þar var einn leynifjörðr, er þeir komu at, ok sigldu þeir inn eptir firðinum, ok lögðu í einn leynivog, ok kasta atkerum. Þá var sól í suðri, ok gengu þeir á land. Sturlaugr spurði: hvert land ætli þèr þetta, er vèr erum við komnir? Framar segir: Hundíngjaland at frásögn Kols, bróður míns, ok munum vèr á land gánga þrír, Sturlaugr, Áki, ok ek, en þèr skuluð bíða vor hèr, þar til er þriðja sól er af himni; en ef vèr komum þá eigi aptr, þá hljóti þèr at sjá ráð fyrir yðr. Þeir gánga nú á land, ok í einn skóg þykkvan, ok merkja á eikum, hvar þeir fara, ok um síðir koma þeir fram or skóginum, ok sjá mörg ok stór hèruð, borgir ok kastala. Þeir sjá eina borg ok höll miklu meiri enn aðra; þángat fóru þeir, ok stóðu menn í dyrum, ok var haka þeirra gróin í brínguna. Þeir gjölltu sem hundar, þóttust þeir nú vita, hvar þeir voru komnir. Þeir bönnuðu þeim inngöngu. Sturlaugr brá Hornefjunaut, ok höggr duravörðinn í tvent, en fóstbræðr hans drepa annan. Eptir þat gengu þeir í höllina, ok standa á utanverðu hallargólfi. Áki sèr, hvar konur sitja á palli; ein af þeim var auðkend, því hún var miklu fegri enn aðrar. Áki kennir þessa konu, at frásögn móður sinnar, gengr at pallinum, ok uppá skörina, ok leggr báðar hendr um háls

henni, ok mælti: sæl, frændkona! segir hann. Hún tók kveðju hans, ok hvarf til hans. Hundólfr konúngr sèr þetta, ok bregðr eigi vel við, þvíat hann mátti eigi sjá, at menn horfðu[1] á drottníngu hans; nú má ætla, hversu grimt honum mundií hug, er einn útlendr maðr hljóp á háls henni, ok kysti hana fyrir augum honum, ok gjörði slíkt ódæmi, hratt hann nú fram borðum, ok kallar út hirðsveina, ok kvâðu við lúðrar um öll stræti. Áki mælti: hèr er ek kominn á þinn fund, frændkona! vilda ek at þú segðir mèr af Úrarhorni, eðr hvert þat er at sækja. Hún mælti: hverir eru þessir menn, þeir sögðu nöfn sín. Hún mælti: illa er þat, at þèr eruð hèr komnir, þvíat öllum yðr er ætlaðr dauði, ok þarf því eigi at segja yðr frá Úrarhorni. Áki mælti: þó at vèr sèim þegar drepnir, þá þikkir oss betr at vita it sanna, hvat þú kant at segja oss frá horninu. Hún segir: þat er til máls at taka, at hof eitt stendr á Bjarmalandi, þat er helgat Þór ok Óðni, Frigg ok Freyju, gert með hagleik af dýrstum viði; dyr eru aðrar á hofinu or útnorðri, en aðrar or útsuðri, þar inni er [Þór einn[2], þar er Úrarhorn á borði fyrir honum[3] fagurt at sjá sem gull; en Sturlaugr einn skal í hofit gánga, þvíat honum einum mun gæfa tilendast, ok skal hann þó eigi berum höndum á horninu taka, þvíat

[1]) hyrfði, *B*, *C*, *G*. [2]) Oðinn, *G*, Þór ok Oðinn, *B*, *C*.
[3]) þeim, *B*, *C*.

þat er fullt af eitri ok fjölkýngi; en til lítils mun yðr koma, af því þèr eruð allir ráðnir til dauða, ok er mikill skaði at um slíka menn, svâ vaskir sem þèr eruð, fóstbræðr! Sturlaugr mælti: þat skulu þeir finna Hundíngjar, um þat er vèr erum allir fallnir, þótt vèr sèum fáir, at þeir skulu nokkurir rauðu snýta. Ok í því drífa þeir inn í höllina Hundíngjar allir alvopnaðir, ok sækja at þeim karskliga, en þeir verjast vel ok drengiliga, ok drepa 30 manna, áðr þeir voru handteknir, ok voru þeir flettir klæðum öllum nema línbrókum einum, ok reknir út af höllinni með svipum, ok stángaðir með spjótsoddum, ok keyrðir út til skógar. Þeir komu í rjóðr eitt, þar voru tveir steinar holir innan; þeir voru látnir í hinn minna steininn, en hvelft yfir enum meira, ok var þeim ætlat at svelta þar til bana. Steinar þeir, er þar voru, stóðu á hól[1] einum. Nú gánga Hundíngjar í burtu, ok þóttust vel hafa hefnt sinnar svívirðíngar. Nú er þar til máls at taka, at þeir Sturlaugr voru í steininum. Sturlaugr mælti: hversu þikkir yðr nú komit vera. Þeir lètu vel yfir, á meðan þeir væri allir heilir vel. Sturlaugr mælti: á hverju stakst ek áðan þar aptan í kálfann, þá vèr vorum flettir klæðum. Hann tók til hendi sinni, ok finnr þar járn lítit, sem dragnál væri,

[1]) holkni, *B*; haulkni, *C*.

ok var þetta atgeir hans. Hann mælti þá, at hann skyldi verða svâ mikill, at honum væri hægt at vinna með, þat er hann þurfti, ok brátt varð hann svâ mikill, at hann höggr steininn, þar til er hann komst út, ok þeir allir, ok hlupu nú til fèlaga sinna, ok varð þá fagnaðarfundr með þeim.

18. Búast þeir nú í burt, ok flytjast út eptir firðinum. Áki mælti: þat ætla ek at mèr væri eigi meiri þörf byrjar enn nú. Þá rennr þegar á blásandi byr, ok sigla þeir þar til er þeir koma við Bjarmaland, ok framan at ánni Vínu. Þeir sjá á landit upp fyrir vestan ána, at þar voru slèttir vellir, ok þar var hof allglæsiligt, svâ at ljóma þótti um alla völluna, því at þat var með gulli búit ok steinum. Sturlaugr mælti: nú skulum vèr snúa skipinu, ok skal skutstafn horfa at landi, ok einn strengr á landi, ef vèr þurfum skjótt til at taka, ok hafa forka úti, ok verum búnir at öllu; en vèr skulum gánga á land, Framar ok ek. Nú gánga þeir á land upp, ok Hrólfr nefja, ok fóru til hofsins; ok er þeir komu at hofinu, var þar svâ háttat dyrum, sem þeim var sagt; gánga þeir at dyrum þeim, sem or útnorðri á hofinu voru, því þær einar voru opnar; þá sáu þeir, at fyrir innan þröskuldinn var gröf full af eitri, ok þarnæst ein slá stór, ok feld [ofan fyrir inngánginn[1], en í dyrunum var

[1]) í ofan sverðsegg, *B*, *C*; í hana sniðilegg at ofan, *G*.

múrat umhverfis gröfina, svâ eigi skyldi spillast umbúnaðr af ofgángi eitrsins; ok svâ sem þeir voru komnir at dyrum hofsins, þá kemr Hrólfr nefja þar. Sturlaugr spurði, því hann væri þar kominn; (hann sagði): ek vilda eigi fyrirmuna mèr frægð, at gánga í hofit með þèr. Þess er eigi von, segir Sturlaugr, einn skal ek í hofit gánga. Fyrirmuna viltu mèr frægðina, segir Hrólfr. Eigi gengr mèr þat til, segir Sturlaugr. Hann lítr nú inn í hofit, ok sèr, hvar Þór sitr allvöxtuligr[1] í öndvegi; frammi fyrir honum var eitt frábært borð með silfri laugat, þar sèr hann at stendr Úrarhornit frammi fyrir Þór á borðinu, þat var svâ fagurt, sem á gull sæi, ok fullt at eitri. Taflborð ok tafl[2] sá hann þar standa[3] hvorttveggja af lýsi gulli gert, skínandi klæði ok gullhríngar voru festir uppá steingr. 60[4] kvenna voru inn í hofinu, ok var sú ein, er afbar öllum, hún var svâ stór sem risi, ok blá sem Hel, en digr sem meri[5], svarteygð[6] ok svipuð illa, þó var sú kona vel búin; hún þjónaði fyrir borði. Þá kvoðu þær kveðlíng þenna, er þær sáu Sturlaug:

Kominn er hèr Sturlaugr
hinn starfsami,
horn at sækja

---

[1]) allvegligr, *B*, *C*. [2]) *b. v. B*, *C*. [3]) hánga, *B*, *C*, *G*. [4]) 30, *B*, *C*, *G*. [5]) naut, *B*, *C*, *G*; viðrlita mikil, *b. v. B*, *C*. [6]) svört til sýndar, *G*; munnvíð, *b. v. B*, *C*.

ok hrínga fjölda;
hèr er í [horni
ok at hofblóti[1]
gull ok gersimar,
grimt er oss í hug.

Þá svaraði hofgyðjan, ok sagði: hann skal aldri með lífi á brott komast, ef ek má [ráða, eðr minni trú eðr fyrirbónum fyrir koma[2], (ok kvað):

Hann skal í helju[3]
hvíldar njóta
ok [margskonar
meina bíða[4];
þá mun Sturlaugr
hinn starfsami
með góma knífum[5]
[grafinn í stykki[6].

Eptir þetta býr Sturlaugr sik til inngöngu, fyrirbjóðandi sínum fóstbræðrum sèr at fylgja; en í hofinu stóðu hellur þrjár, svâ háfar at tóku undir bríngspalir, ok djúpar grafir fyrir innan í milli, fullar af eitri, ok þar var at hlaupa inn yfir, áðr enn hann komst þángat,

1) húsi at höfðblóti (höfuðblót mikit, *C*), *B*, *C*, *G*. 2) minni áru fyrir borð koma, *B*, *C*. 3) hömlu, *G*. 4) m. m. kenna, *B*, *C*; með konuarmi knýttr um verða, *G*. 5) kvern, *B*, *C*, *G*. 6) gripinn í stokk, *G*. Ok ætlar hann sèr ofdul, vesæll karl, ok nógu hátt taka slíkir at geysast, ef hann hyggr brúði baugum ræna, eða hann krepi (krefi) vængrinn, Hrólfs nefja, er þar hænist hjá honum, ok er eigi þýngri enn hálmvisk, ok hann ætla ek í dag fyrir víst at snæða, *b. v. B*, *C*.

sem Úrarhorn stóð. Nú hefr Sturlaugr sik upp, ok stökkr innyfir allar hellurnar vel ok frækiliga, grípandi hornit af borðinu með skyndi, án nokkurs tálma, hafði sik í burt aptr í veginn; hofgyðjan stendr hjá[1] bólgin, ok heldr á saxi tvíeggjuðu, honum þikkir eldr brenna úr eggjum þess; hún grenjar illa á hann, ok *nystir tennum á* hann allgrimmliga, en verðr þó bilt til hans at ráða; ok er Sturlaugr kemr at hellunum, sèr hann at Hrólfr nefja hleypr inn yfir hellurnar, snýr hann þá þángat at, er þeir Þór ok Óðinn voru fyrir, greip taflit ok steypir í kjöltu sèr, ok hleypr fram eptir hofinu; ok sèr hann nú, hvar hofgyðjan hleypr eptir sèr gnístandi; hann hleypr nú á hellurnar, ok ætlar út yfir, en hofgyðjan þrífr í kyrtil hans, ok bregðr honum á lopt, ok rekr niðr við hellurnar, svâ at þegar brotnar í honum hryggrinn, lèt Hrólfr nefja þar líf sitt með mikilli hreysti. Eptir þetta hleypr hofgyðjan út, ok æpir með svâ miklum órum ok æslum ok ógn, at dvergmála kvað í hverjum hamri ok þúfu[2] er í nánd var. Hún sèr nú, hvar Sturlaugr ferr, ok sækir eptir honum, ok leggr at honum; hann verst vel með [stórri hreysti[3] ok kænsku; ok þarnæst sèr Sturlaugr, hvar maðr ferr or skóginum, annar ok hinn þriði, ok þvínæst

[1]) blá ok. *B*, *C*. [2]) holtum ok hæðum, *C*; holtum ok hèruðum, *B*, *G*. [3]) kurteisi, *B*, *C*, *G*.

koma menn or öllum áttum. Sturlaugr hopar undan, en hún sækir at með því meiri íllsku, sem hún sèr mennina fleiri atdrífa. Hann hleypr nú at henni með Hornnefjunaut, ok rekr á hana miðja, svâ at oddrinn stóð út um herðarnar; hún bregðr við svâ fast, at hann lætr lausan atgeirinn, ok dvelst hann þar eptir, en hún fær þegar bana; Sturlaugr hleypr nú á skip út, ok höggr þegar strengin[1], en Bjarmar leggja at með magni á skipum at skipi Sturlaugs. Framar mælti þá: þat mæli ek um, at nú komi byr sá, er Grímhildr[2] hèt mèr; ok þegar rann á blásandi byr, svâ at stóð á hverjum streng, ok sigla á burt, en Bjarmar hèldu eptir, á meðan þeir máttu, svâ at suma rak undan fyrir ofveðri, en sumir lètust fyrir vopnum, þóttust þeir góðu bættir, er aptr komust.

19. En þeir Sturlaugr sigla nú í haf. Ekki er nú getit um ferðir þeirra, fyrr enn þeir koma við Vermaland, lögðu at landi, ok spurðu tíðinda. Þeim var sagt at Hríngr jarl var farinn or landi til Svíþjóðar. Síðan fara þeir á fund Haralds konúngs, komu í höll, ok gengu fyrir konúng, ok kvöddu hann. Sturlaugr stóð fyrir konúngi, ok hèlt á Úrarhorni. Konúngr sat í hásæti sínu, bólginn af reiði, svâ hann mátti eigi orð mæla. Sturlaugr segir: nú em ek aptr kominn, konúngr!

[1]) en aðrir forka út, *B*, C. [2]) Hrímhildr, *B*, C, Hildr, *G*.

or þessari sendiför[1], þó þú ætlaðir eigi, ok skaltu þat sanna, ok tak hèr við horni því, er ek fer með. Konúngr svarar engu, ok hèlt at sèr höndum. Sturlaugr kastar þá horninu á nasir konúngi, svâ at þegar stökk blóð or nösum hans, ok brotnuðu fjórar tennr or höfði honum. Eptir þetta fór Sturlaugr austr til Svíþjóðar, ok fann þar Hríng, mág sinn, ok Ásu, konu sína, ok föður sinn. Í þann tíð var sá konúngr í Svíaríki, er Íngifreyr[2] hèt. Sturlaugr tók landvörn fyrir ríki hans, ok þeir fóstbræðr allir, ok herjuðu víða um lönd, ok fengu jafnan sigr, hvar þeir komu, ok gekk þetta 12 vetr. Þá gaf Íngifreyr konúngr Sturlaugi konúngs nafn ok mikit ríki þar með sèr, en þeir fóstbræðr höfðu landvörn.

20. Á einu sinni lýsir Sturlaugr því yfir, at hann vill til Bjarmalands, ok safnar hann at sèr liði miklu, ok komu þá til hans fóstbræðr hans. Ok frá þeirra ferð er eigi sagt, fyrr enn þeir koma til Bjarmalands, ok brenna þar allt ok bræla[3], sem þeir mega; þeir gerðu hvert illvirki at öðru. Röndólfr[4], konúngr Bjarmalands, varð varr við þetta, ok safnar þegar liði, ok verðr heldr liðfár; ok þegar þeir fundust, slær þar þegar í harðasta bardaga; þar mátti sjá marga þykkva skildi klofna, en

---

1) forsending, *B*, *C*. 2) Yngvifreyr, *G*; Ingifer, *C*. 3) bæla, *B*, *C*. 4) *þannig hin*; Roðólfr, *A*.

brynjur höggnar, höggspjót af sköptum brotin, ok sundr sverðin, en margan höfuðlausan til jarðar hníga; en svâ lauk þessari orrostu, at þar fèll Röndólfr konúngr, ok mart lið með honum. En eptir þetta verk it mikla leggr Sturlaugr undir sik allt Bjarmaland, fèkk hann ok náð aptr atgeirnum Hornnefjunaut ok mörgum öðrum góðum gripum; ok er þessum hinum miklu stórvirkjum var lokit, þá ætlaði hann at hafa her sinn til Hundíngjalands á hendr Hundíngja[1] konúngi. Eptir þetta býr Sturlaugr ferð sína at nýju með her sinn, ok er eigi afsagt, fyrr enn hann kom á Hundíngjaland. Þeir drepa menn, en taka fè, (brenna) bæi ok bygð alla, þar sem þeir koma. Þetta spyrr Hundólfr konúngr, ok safnar liði, ok ferr þegar í móti Sturlaugi; en þegar þeir finnast, slær þegar í bardaga með þeim meðhörðum atgángi ok stórum höggum. Sturlaugr gengr opt í gegnum fylkíngar þeirra, hann hefir báðar hendr blóðugar til axla, greiðandi þeim stórlig högg, svipandi[2] mörgum höfuðlausum til jarðar; ok (tóku) fjandr við þeim. Þat er sagt, at Hundólfr konúngr gengi vel fram. Sturlaugr sèr at konúngr höggr merki hans niðr, þetta eyrir honum illa, ok veðr fram með brugðit saxit Vèfreyjunaut ok at Hundólfi konúngi, ok höggr til hans með sverðinu í hjálminn, ok klauf hann all-

[1]) Hundólfi, *B*, *C*, *G*. [2]) steypandi, *B*, *C*, *G*.

an ok hausinn ok búkinn ok brynjuna ok hestinn sundr í miðjunni, sverðit nam á jörðu staðar; ok feldi Sturlaugr ok hans fóstbræðr ótal Hundíngja, ok fèkk Sturlaugr konúngr fagran sigr; snèru þeir síðan aptr, ok fór Snælaug þá með þeim, er nú eigi sagt frá ferð þeirra, fyrr enn þeir komu heim í Svíþjóð.

21. En um vetrinn eptir hafði Sturlaugr jólaveizlu, ok bauð til mörgu stórmenni; ok er menn voru komn'r í sæti hinn fyrsta jóla aptan, stóð Sturlaugr upp, ok mælti: þat er vani allra manna, at efla nýja gleði nokkurum þeim til skemtunar, sem komnir eru; nú skal hefja heitstrengíng, ok er hún með því móti, at ek skal vís verða, af hverjum rökum Úrarhorn er upprunnit fyrir hin þriðju jól, eðr deyja ella. Þá stendr Framar upp, ok segist því heita, at hann skal kominn í rekkju Íngibjargar, dóttur Íngvars konúngs í Görðum austr, ok hana kyst hafa fyrir hin þriðju jól, eðr deyja ella. Sigvatr hinn mikli strengir þess heit, at fylgja þeim fóstbræðrum, hvert er þeir vilja fara, eðr hefja farir. Nú er eigi getit fleiri manna heitstrengínga; líða nú jólin, ok berr eigi til tíðinda, en eptir veizluna fór hverr heim með góðum gjöfum. Þess er getit at Sturlaugr fór til Vèfreyju, ok tók hún vel við honum. Hann segir henni heitstrengíng sína; hún lagði þá holl ráð til, þau sem síðar munu birtast; ferr Sturlaugr heim

þaðan, ok undi vel við sína ferð; líða nú stundir, ok er allt kyrt.

22. Þat var sagt, at einhvern dag kallar Sturlaugr til sín Frosta, ok talar við hann: sendiför hefi ek þèr ætlat. Hann spurði at, hver sú væri. Þú skalt fara norðr á Finnmörk, ok koma kefli þessu í knè [dóttur Snæs konúngs[1]. Hann játar ferðinni. Eptir þetta býst Frosti á burt, ok [ferr nú í haf[2]. Hann kemr á Finnmörk, ok fyrir Snæ konúng, ok heilsar á hann. Konúngr tók vel kveðju hans, ok spyrr hann at nafni. Hann kveðst Gestr heita: ok biðja verð ek yðr, at þèr takið við mèr. Konúngr kveðst svâ gera skyldi, hann var fáskiptinn ok óhlutsamr um þat sem viðbar; var hann þar um vetrinn, ok var konúngi vel til hans. Skamt frá höllinni var skemma ein, ok 2 skíðgarðar svâ háfir, at eigi komst yfir utan fugl fljúgandi; jafnan sitr Frosti um skíðgarðinn, ok vildi sjá Mjöll konúngsdóttur, ok gat þat aldri leikit; líðr vetrinn, ok gerist eigi til tíðinda. Ok einn dag, er menn voru á leiki með konúngi, gengr Frosti til skíðgarðsins, ok sèr at opinn er skíðgarðrinn, ok svâ skemman. Hann gengr inn, ok sèr at þar sitr kona á stóli, ok kembir sèr með gullkambi, hárit lá á dýnunni hjá henni fagurt sem silki[3].

[1]) Mjallar, dóttur Finnakonúngs, *C;* dóttur konúngsins, er Snækollr heitir, *G.* [2]) tekr sèr kaupmanns gerfi, *C.* [3]) eðr hjálmr nýkarinn, *b. v. C.*

Hann sèr nú yfirlit hennar, ok þóttist hann eigi hafa sèð fegri konu enn þessa. Hann mátti eigi kyrr vera, er hann mátti eigi fram koma því er hann vildi, tekr nú keflit, ok kastar í knè hennar. Hún sópar frá sèr hárinu, ok tekr keflit, ok lítr á; ok er hún hafði álitit ok lesit, lítr hún út til skíðgarðsins, ok brosti, ok þótti allvænliga um þat, sem á var ristit keflinu; komu nú þjónustumeyjar hennar í skemmuna, en Gestr gekk í burt, ok heim til hallar, ok mátti hverki njóta svefns nè matar fyrir áhyggju þeirri, er hann hafði á ferð sinni. Ok er allir menn voru í svefni, var tekit á brjósti Frosta; hann fylgir upp hendinni. Gullhríngr fèll fram af handleggnum, hann stendr upp, ok gengr út. Þar er þá Mjöll konúngsdóttir, ok mælti: er þat satt, er ritat er á keflit? segir hún; satt er þat, segir hann. Hún mælti: saman kemr þat með okkr Sturlaugi, þvíat sá er engi maðr undir heims sólunni, at mèr finnist meira til, vilda ek gjarnan vera hans friðla, ef hann vildi svâ, munda ek eigi spara alla blíðu honum at veita með faðmlögum ok hæverskligum blíðubrögðum, kossum ok kærleikum. Þetta vill hann allt blíðliga þiggja, segir hann, ef þú kemr til hans. Ertu þá búinn, Frosti! segir hún. Fyrir löngu em ek albúinn, segir hann. Hún gengr þá at hallardyrum, ok hefir þar nokkurn formála, áðr hún fari í burt. Eptir þat fara þau, ok

gat Frosti valla fylgt henni. Hún mælti: harðla seinfær ertu, Frosti minn! ok taktu undir belti mèr; hann þóttist vindfullr verða, svâ fór hún hart; ok er eigi sagt frá ferð þeirra, fyrr enn þau komu í Svíþjóð; tóku konur þá Mjöll konúngsdóttur til sín í skemmu, en Frosti fann Sturlaug, ok segir honum frá ferðum sínum, ok svâ sem þá er komit. Sturlaugr mælti: nú er genginn refr [or skorum[1], skaltu nú drekka brullaup til hennar, ok fara í skrúða minn hinn bezta; mun hún hyggja ek sè, því við erum menn mjök líkir at öllu áliti. Frosti mælti: þínum ráðum öllum vil ek fram fara. Þá segir Sturlaugr: þat vil ek, Frosti! þá þú kemr í sæng hjá Mjöll konúngsdóttur, at þú spyrìr hana at, af hverjum rökum Úrarhorn sè komit, þvíat hún ein veit þat, en ek mun standa undir tjaldinu, meðan þið talið þetta. Hann kveðst svâ gera skyldi. Nú gengr hann inn í höllina með fjölda manns í fögrum skrúða, ok sezt í hásæti, ok ætla allir Sturlaug. Mjöll lítr allhýrliga til brúðgumans, ok hyggr allgott til ráðanna; líðr á kveldit, þar til er þau koma í eina sæng. Þá snýst brúðrin at bónda sínum, ok talar allblíðliga við hann. Frosti segir til hennar: hversu þikkir þèr snúit ráði þínu? Nú þikki mèr at óskum gánga, Sturlaugr minn! segir hún, eða þikki þèr eigi svâ. Svâ er mèr ok einninn umgefit, segir hann, en einn er sá

[1]) í skor, B, C; í kró, G.

lutr, er ek vilda at þú segðir mèr; hverr er sá? segir hún; þat er með því móti, segir hann, at heitstrengíng er á hendi mèr, at ek skylda vita, af hverjum rökum Úrarhorn er komit. Þat kann ek at segja þèr, segir hún; er þar þá fyrst frá at segja, at Haraldr konúngr herjaði víða um lönd, ok fèkk jafnan sigr, þar sem hann kom, en jafnan kom hallæri mikit víða um lönd, ok mest á Bjarmaland, svâ at bæði eyddi fè ok mönnum. Þá tóku þeir dýr eitt, ok blótuðu, ok kölluðu þat Úr, þat gapti á þá kjaptinum, ok köstuðu þeir ofan í þat gulli ok silfri, ok svâ mögnuðu þeir þat, at þat varð hverju dýri meinna ok verra, þat tók þá bæði at eta menn ok fènað, ok allt braut þat undir sik, ok eyddi allt fyrir vestan ána Vínu, svâ at ekkert kvikindi komst undan. Engi var sá kappi, at þyrði at gánga á móti þessu dýri, þar til at Haraldr konúngr frètti þessi tíðindi, ok þat at þar var fèvon mikil, ok heldr þángat með 3 hundruð skipa, ok komu at Bjarmalandi. Þar bar svâ til, at Haraldr konúngr sofnaði, kom at honum kona, ok lèt heldr ríkuliga; hún mælti við konúnginn: hèr liggr þú, ok ætlar at sigra dýr vort, er Úr heitir. Konúngr mælti: hvert er heiti þitt? Goðríðr, segir hún, ok er ek skamt á land upp, en ef þú vilt mín ráð hafa, þá skaltu fara á land upp á morgin með helmíng liðs þíns, þá muntu sjá dýrit; þat mun óttast mann-

fjöldann, ok taka undan til sjófar, þá skaltu athleypa öllum hinum hernum, ok bera at stórtrè, ok lemja þat með; dýrit mun hlaupa undan útá sjóinn, þá mun Goðríðr[1] renna sèr fyrir þat, en þat mun hneppa mik á kaf undir sik, ok halda niðri; þat mun eptir þat (dautt) uppkoma, þá skaltu taka þat, en ek skal eiga kjörgrip af dýrinu, en þat er horn er stendr fram or höfðinu. Svâ skal vera, segir konúngr; leið af nóttin, ok allt fór á sömu leið, sem hún sagði, at þeir gátu unnit dýrit; þá kom þar þessi kona, ok tók horn þetta, þat hitt sama sóttir þú, Sturlaugr minn! til Bjarmalands í hofit. Nú hef ek sagt þèr, af hverjum rökum Úrarhorn er upprunnit. Hann segir: vel hefir þú nú gert, segir hann, ok eptir þat gengr Sturlaugr í burt, ok er nú eldr lagðr í skemmuna, ok brend at köldum kolum Frosti ok Mjöll; lètu þau þar svâ líf sitt; voru þetta allt ráð Vèfreyju, þvíat Mjöll var svâ fjölkunnig, at hún mundi þegar kastat hafa fjölkýngi einhverju á þau Sturlaug ok Vèfreyju, ef hún hefði þetta fyrir vitat.

23. Þat er þessu næst at segja, at Sturlaugr konúngr ok Áki senda Sigvat hinn mikla [austr til Garðaríkis[2], at biðja Íngibjargar kon-

---

[1]) Geirreiðr, *B*, *C*, *G*. [2]) vestr til Garðaríkis, *B*; vestr til Gautlands, *C*; vestr til Gautlands á fund Dags Gautakonúngs, *G*.

úngsdóttur[1]. Hann hefir 10 skip, [ok eptir þat siglir hann til Gautlands[2]. Honum ferr vel ok drengiliga, unst hann kemr til Garðaríkis[3], ok ferr á konúngs fund, ok kveðr hann vel ok virðuliga. Konúngr tók vel kveðju hans, ok spyrr hverr hann væri. Hann svarar: ek heiti Sigvatr, ok er þat eyrindi mitt, at biðja Íngibjargar, dóttur yðar, til handa Áka, fóstbróður mínum. Bæði er þat, segir konúngr, at þèr eruð miklir fyrir yðr, fóstbræðr, enda þikkizt þèr konúngum meiri, ok þèr ætlið at ek muni kasta svâ út fè ok konunni, löndum ok þegnum, at gefa þrælum Sturlaugs konúngs dóttur mína, ok takið þá höndum, ok skulu þeir spenna[4] hinn hæsta gálga. Sigvatr snaraðist út or höllinni, komst undan til skips, biðr sína menn ferðast skjótt, unst þeir koma heim, ok segja Sturlaugi, hvat tilbar á reisunni; býst Sturlaugr nú skjótt, ok þeir fóstbræðr fylgja honum, ok fara vestr til Gautlands. Sturlaugr konúngr tók Dag konúng höndum, því hann hafði eigi liðsafla á móti þeim, ok gerði honum 2 kosti, at hann skyldi gipta Áka dóttur sína, eða deyja ella; en með því at konúngr sèr sik yfirkominn, þá kaus hann at gipta Áka dóttur sína. Áki festir sèr Íngibjörgu, ok því næst var búit til veizlu, ok gekk Áki at eigi Íngibjörgu konúngsdóttur, ok dvelst hann þar

[1]) til handa Aka, *b. v. G.* [2]) *v. í B.* [3]) Gautlands *C.* [4]) prófa, *B, C*; gista, *G.*

eptir, ok er hann or þessari sögu. Síðan fór Sturlaugr heim í ríki sitt, ok sat um kyrt.

24. Nú er þar til máls at taka, at Framar vill efna heitstrengíng sína, býr hann nú ferð sína or landi, ok hefir 60 skipa, ok halda í Austrveg, ok herjuðu um sumarit, ok hèldu herliði sínu til Aldeigjuborgar. Þar rèði fyrir Íngvar konúngr; hann var vitr maðr, ok höfðíngi mikill. Íngigerðr[1] hèt dóttir hans, hún var hverri konu fríðari at sjá, en spök at viti, læknir góðr, sóktu ok margir menn til hennar, þegar þeir þurftu við græðslu. Svâ er frásagt, at hún sjálf skyldi kjósa sèr mann til eignar. Margir höfðíngjar höfðu beðit hennar, ok hafði hún þeim öllum með hæverskligum svörum frávísat. Framar sendi menn sína til Aldeigjuborgar á fund Íngvars konúngs, at biðja dóttur hans honum til handa. Konúngr segir þeim orðum í móti, at hann mun þíng stefna, ok biðr hann þar koma: ok skal hún sèr sjálf mann kjósa. Framar dvelst nú þar, til at kemr sá dagr, er þíngit skyldi vera, býr Framar sik með öllum konúngsskrúða, ok sækir á þíngit með mörgu liði. Hann lèt setja stól undir sik. Íngvar konúngr kemr þar með mörgu stórmenni. Konúngr spyrr: hver er sá maðr, er svâ lætr ríkugliga? ek heiti Snækollr, segir hann, kominn þess eyrindis híngat til yðar, at biðja dóttur yðar. Konungr segir: hvar eru

[1]) Ingibjörg, *B*, *C*, *G*.

lönd þín ok þegnar, miklir fjárhlutir ok fremdir. Ek ætla bæði frama ok fjárhluti til þín sækja, ef ek mægjumst við þik, segir Framar. Konúngr segir: hefir þú eigi þat spurt, at hún skal sjálf kjósa sèr mann? Heyrt hef ek þat, segir hann. Þá er sendt eptir Íngigerði, ok er hún kom á þíngit, kvaddi hún föður sinn; hann tók henni vel ok virðuliga; biðli áttu hèr at heilsa, dóttir, segir hann; hverr er sá? segir hún. Snækollr heitir hann, segir konúngr. Svâ má jafnt vera, segir hún, ok gengr fyrir þenna mann hinn mikla, ok horfir á hann um hríð, ok mælti síðan brosandi: alldrengiligr maðr ertu, segir hún, enda þikkir yðr þat fóstbræðrum, at þèr þikkizt konúngum meiri at metorðum; kenni ek þik gjörla, Framar! segir hún, ok þarftu eigi at dyljast fyrir mèr. Eptir þat var slitit þínginu.

25. Fór Framar til skips, ok halda út undir eyjar, þær er lágu næst landi. Þar lèt Framar tjalda yfir skipum sínum. Síðan tók Framar sèr kaupmanna gjörð[1], ok gengr til hallar, ok biðr sèr vetrvistar. Konúngr veitir honum þat, ok er hann nefndr Gestr. Opt sat hann um at komast í skemmu konúngsdóttur, en þat gat hann aldri leikit. Svâ bar til einn dag, at hann gekk í burt frá höllinni, ok eptir braut einni; hann heyrði manna

[1]) gerfi, *B*, *C*; skrúða, *G*.

mál niðri í jörðinni hjá sèr; hann sèr jarðhúss munna, ok gengr niðr, ok sèr at þar eru seiðmenn þrír. Hann mælti: þat er vel, at vèr höfum hèr fundizt, ek skal segja eptir yðr. Þeir segja: gjör eigi þat, Framar! ok munum við tilvinna, þat er þú vilt, ok með hverju móti sem þat er. Þá svarar Framar: þú skalt kasta manna líkþrá á mik, en ek skal þó þegar heill, er ek vil. Svâ skal vera, segja þeir, ok er oss eigi fyrir því at vinna þetta til. Þá snèru þeir um holdi hans öllu, svâ hann var eigi nema hrufur ok þrymlar einar á millum hæls ok hnakka, ok hverfr hann í burt, ok til skemmu konúngsdóttur, ok settist undir skíðgarðinn. Íngigerðr konúngsdóttir sendir skemmumey sína eina til hallar, ok er hún sèr þenna hinn auma mann, snèri hún aptr, segjandi konúngsdóttur þetta um þenna mann: ok mun hann þurfa þinnar miskunnar. Þær gánga til garðsins, ok horfði konúngsdóttir á hann lengi, þenna mann hinn vesæla, er þær höfðu engan hans líka sèð, sökum síns kránkdæmis. Konúngsdóttir sagði: aumligr er sá maðr, ok sóttligr mjök, en þó muntu meira þurfa við at hafa at vinna mik, áðr enn þú fær mik svikit, þvíat kenna mun ek þik, Framar! meðan heil eru í þèr augun bæði, hverjum fyrnum sem þú slær á þik; gengr hún til skemmu sinnar aptr, en Framar ferr á burt til seiðmanna, ok taka þeir

af honum mein þat it illa, ferr hann í burt, ok hirðir aldri hvat umlíðr.

26. Hann gengr til skógar, ok fram á brautina; hann sèr hvar maðr gengr á moti sèr, mikill vexti, ok heldr báðum höndum at kviðnum, hann var í brynju, ok hjálm á höfði, en sverðfetillinn hekk við brjóstit framan. Þar var kominn Guttormr, fóstbróðir hans; varð þar fagnafundr með þeim. Framar spyrr, hvaðan hann var atkominn; hann lèzt hafa barizt við Snækoll víking, kveðst hafa látit þar bæði menn ok fè, en komizt sjálfr með sundi í burt, ok spyrr hversu lángt nú er til skemmu konúngsdóttur. Framar segir: þángat er nú daggánga[1]. Þat er harðla lángt, segir Guttormr. Framar segir: hversu lengi hefir þú svâ gengit. Guttormr segir: tvo daga, áðr við fundumst. Framar mælti: mikill er munr hreysti okkar, ek syrgi eina jómfrú, ok fæ hana eigi, ok hef ek ekki í nokkurn bardaga ratat, en þú gengr, sem sjá má, at úti eru í þèr iðrin, en ek vilda, at þú kæmir mèr í skemmu hennar, ef hún taki við þèr. Svâ skal vera, ef ek má, segir Guttormr. Fara þeir nú þann sama veg, sem Framar hafði áðr farit, unst þeir koma til skógarðsins, ok er þá minni von manns, þar et Guttormr var; ok sem þeir eru þar komnir, ferr Framar í burt. Í þenna

[1]) dægrgánga, *B*, *C*.

tíma var einni skemmumeyjunni gengit út í garðinn sinna eyrinda, ok leit þenna mann, er úti lágu iðrin, ok gengr inn aptr í skemmuna, ok segir konúngsdóttur, hversu sá maðr var kominn. Konúngsdóttir bregðr við skjótt, ok þær 12 saman, koma at hurðinni, sèr nú konúngsdóttir þenna mann hinn aumliga, ok hversu sárliga hann var útleikinn, at iðrin lágu úti. Hún spyrr hann at nafni. Hann kveðst Guttormr heita. Ertu fóstbróðir Sturlaugs konúngs? segir hún. Sá er maðr hinn sami, segir hann, ok vilda ek vera biðjandi, at þú veittir mèr nokkura hjálp: Hún segir: hvat mun ek nær mega komast Sturlaugi, enn græða fóstbróður hans, en svík þú mik eigi! Eptir þat bera þær hann inn í skemmuna. Konúngsdóttir átti sèr lækníshús lítit, ok var þar harðla ununarsamt inni fyrir sjúkar mannskepnur, at vera hjá mjúktæku kvennfólki ok meðaumkunarsömu at lifa. Guttormr var í lækníshúsi konúngsdóttur nokkura hríð, harðla vel haldinn, var konúngsdóttir þar sjálf löngum með sínum skemmumeyjum, ok læknaði Guttorm með þeirri list ok kænsku, sem hún nógliga tilhafði, ok hafði margan ríkan ok fátækan, konur sem karla læknat ok heilbrygða gert. Þat var einn dag, at konúngr sendi boð dóttur sinni, fór hún þegar með skemmumeyjar sínar heim til hallarinnar, ok verðr opin skemman eptirlátin, en aptr skíðgarðrinn, en hliðit var eigi

læst. Framar sætir þessu, ok kemr þar Guttormr, ok leiðir hann inn í skemmuna, ok í læknishúsit, ok stendr þar undir tjaldinu; líðr á daginn, þar til konúngsdóttir kemr í skemmuna, ok þegar gengr hún til Guttorms, ok leysir til sáranna, ok voru þá mjök gróin: úti hefir þú verit í dag, segir konúngsdóttir, ok muntu nú hafa svikit mik; en er þau talast svâ við, hleypr Framar fram undan tjaldinu, ok tekr annarri hendi undir höku henni, ok annarri undir hnakka, ok kysti hana einn koss. Hún varð við illa, ok biðr þá í burtu vera skjótt: vil ek eigi at þið sèuð hèr drepnir fyrir augum mèr, sem makligt væri; Guttormr hefir hèr verit um hríð, ok nýtr hann Sturlaugs at því, en ærit hafi þèr unnit til líftjóns með þessu ykkar tiltæki, en mèr er vel í þokka við Sturlaug sökum hans atgerfis. Þeir gánga nú svâ sem hún mælti; fór Framar þegar í burtu, ok út til skipa sinna, ok halda nú til Svíþjóðar, ok segja Sturlaugi konúngi svâbúit sitt mál, biðja hann nú liðsemdar.

27. Hann verðr vel við, ok lèt safna liði um allt sitt ríki, ok búa skipaflota mikinn, svâ hann fær 3 hundruð skipa vel búin at öllum kostum; halda síðan til Garðaríkis með mikilli gleði ok prýði; ok er þeir koma við land, hlaupa þeir upp með herinn, drepa ok deyða, brenna ok bræla menn ok fènað. En

er svâ hafði framfarit um hríð, verða þeir varir við liðsamnað, ok er þeir Snækollr ok [Íngvar konúngr[1] verða varir við þetta, þá búast hvorir á móts við aðra; ok sem þeir fundust, varð þar hinn harðasti bardagi ok snörp atgánga, at hvorir veittu öðrum. Sturlaugr gekk fram hlífarlaus, sem hann var vanr. Þeir fóstbræðr börðust af mikilli dáð ok drengskap; orrosta sú stóð yfir 3 daga með miklu mannfalli; þarmeð fèll í þessi orrostu fyrir Sturlaugi Íngvar konúngr ok Snækollr; Hvítserkr komst undan á flótta, ok mart manna með honum. Sturlaugr lèt þá bregða upp friðskildi, ok fór til Aldeigjuborgar með allan sinn her, var þar mikill glaumr ok gleði ok sigróps háreysti í liði þeirra Sturlaugs, ok borgin öll var í þeirra valdi; gekk fólk allt til griða ok handa Sturlaugi, þat er í var borginni.

28. Síðan gipti Sturlaugr Framari Íngigerði konúngsdóttur, var sú veizla virðulig fyrir allra luta sakir, er til þurfti at hafa, en eptir veizluna voru þeir fyrirmennirnir burtleystir með góðum gjöfum, skildust svâ, ok fór hverr heim til síns heimilis. Sturlaugr gaf þá borgina Aldeigju með öllu fè á vald Framars, er Íngvar konúngr hafði átt, ok þarmeð konúngs nafn; sezt Framar nú at löndum ok lausum aurum, ok stýrir ríki sínu með beztu manna ráði í því landi, ok er frá þeim Framari ok Íngi-

[1]) Hvítserkr, *B*, *C*, *G*.

gerði komin mikil ætt ok mart stórmenni, þó þat greinist eigi í þessari sögu. Eptir þetta fór Sturlaugr aptr til Svíþjóðar, ok settist at sínu ríki, ok [var margfróðr ok fjáðr[1], ok alla stund var Sturlaugr í sætt við stólkonúnginn í Svíþjóð, ok þótti konúngi hann vera harðfengr í öllum raunum, þvíat fóstbræðr hans hèldu vináttu ok trygð, á meðan þeir lifðu allir. Þau Sturlaugr ok Ása áttu tvo[2] sonu, hèt annar[3] Heinrekr, en annar Íngólfr[4]; þeir voru báðir[5] mikl-ir menn ok vænligir, [ok koma við margar sögur[6], námu allskonar íþróttir þegar á únga aldri. [Þeir voru báðir konúngar eptir Sturlaug, föður sinn, ok eru margar stórar ættir frá þeim komnar. Sturlaugr varð ellidauðr eptir[7] Friðfróða konúng; [endast hèrmeð sagan[8].

---

[1]) vann mörg frægðarverk, *B, C, G.* [2]) sex, *C, G.* [3]) einn Hemíngr, *C, G.* [4]) þriði Rögnvaldr, fjórði Fraðmar, fimti Eirekr, sètti Hrólfr, *C, G.* [5]) allir, *C, G.* [6]) *v. í B, C, G.* [7]) á dögum, *B, C, G.* [8]) ok lýkr hèr sögu Sturlaugs starfsama eptir Kolbeins Reykjabók skrifaðri, *G.*

# Sagan af Illuga Gríðarfóstra.

SA konúngr hefir ráðið fyrir Danmörku, er Hríngr hèt, hann var Skjaldar son, Dags sonar. Þessi Skjöldr barðist við Hermann, sem segir í sögu þeirra. Hríngr konúngr var vitr maðr ok vinsæll, ok mildr af fè, ok hinn mesti bardagamaðr. Hann átti drottníngu, er Sigríðr hèt, hún var dóttir Vilhjálms konúngs úr Vallandi. Við henni átti hann þann son, er Sigurðr hèt; hann var allra manna fríðastr, ok at íþróttum bezt búinn; hann var blíðr við vini sína, [ör af fè, en grimmr[1] sínum óvinum. Sviði hefir karl nefndr verit, hann átti eitt garðshorn harla skamt frá konúngshöllunni[2]; hann átti kerlíngu, er hèt Hildr, við henni átti hann einn son, er Illugi hèt, hann var mikill vexti, ok sterkr at afli, fimr var hann á alla leika. Faðir hans var kallaðr Sviði enn sókndjarfi[3]. Sigurðr konúngsson ok Illugi lögðu leika með sèr, átti Sigurðr marga leiksveina, ok bar hann lángt af þeim,

[1]) striðr, *B, G.* [2]) ríki, *B, G.* [3]) sóknandi, *B, G.*

hvat sem þeir skyldu reyna, en Illugi vann hann í öllu; ok svâ kom at þeir sórust í stallbræðralag[1], ok skyldi hvorr annars hefna, ef þeir væri með vopnum vegnir[2], var nú allkært[3] þeirra á milli.

2. Björn hèt maðr, hann var ráðgjafi konúngs; honum var allt illa gefit, er honum var sjálfrátt, hann var lýginn ok lymskr at öllu, en þó eigi at síðr var hann hinn mesti[4] kappi[5], ok varði land konúngs fyrir víkíngum, ok því mat konúngr hann mikils. Björn öfundaði þat mjök, at Illugi var svâ kær Sigurði konúngssyni; ok svà kom at hann rægði hann við þá feðga, ok sagði Illuga vera ótrúan konúngssyni. Konúngr hlýddi á þetta, en Sigurðr trúði því ekki. Ferr nú svâ fram um nokkra tíma, at Sigurðr konúngsson er heima hjá föður sínum í mikilli sæmd ok virðíngu. Einn tíma bað Sigurðr föður sinn at fá sèr skip ok menn, ok segist vilja úr landi, at afla sèr fjár ok frægðar. Konúngr sagði, at þat skyldi á mánaðar fresti búit vera: ok Björn skal fara með þèr, segir konúngr, en Illugi vil ek heima sè. Sigurðr svarar: at vísu vil ek at Illugi fari, en konúngr sagði, Björn skyldi fylgja honum: því hann er hverjum kappa meiri, ok bilar aldri í stríði; hann

[1]) fóstbræðralag, *B*, *G*. [2]) vökvuðu þeir sèr síðan blóð, *b. v. G.* [3]) kyrt, *B*, *C.* [4]) *hèr v. blað í A; það sem vantar, er tekið úr B.* [5]) bardagamaðr, *G.*

mun þèr vera hollr ok trúr, sem hann hefir mèr verit, sagði konúngr, ok skilja þeir nú tal sitt. Eptir þetta gengr konúngsson til Sviða, ok segir Hildi tal þeirra feðga. Hún segir son sinn úngan vera, ok eigi í hernað fara mega: er hann ok ekki reyndr, segir hún, vilda ek ok ekki heldr, at Björn brygði honum því, at hann þyrði ekki at berjast með þèr í orrostu; lýkr Hildr svâ máli, en konúngsson ferr heim til hallar, ok er mjök óglaðr. Ambátt sú var hjá Hildi, er Sunnlöð[1] hèt, hún var fjölkunnug, ok en mesta öldriða[2]. Hún hafði margan mann illa leikit. Hildr kemr at máli við Illuga, ok biðr hann sækja pál í sel, er Sviði lèt eptir. Hann játar því. Þat var síð dags, er Illugi gekk heiman. Hann fór hart, ok kom til seljanna, ok fann þar pálinn; þá var myrkt af nótt, ok ferr þó frá selinu; ok er hann var skamt kominn, var hlaupit á bak honum svâ hart, at hælarnir komu framan á brínguna. Þetta kvikindi hafði vönd í hendi, ok barði Illuga með. Hèr var komin Sunnlöð[3]. Illugi gengr ekki at síðr, ok bar flagð þetta lánga leið, þar til hann kemr at einum stórum steini. Hann keyrir flagðit niðr við steininn, svâ hart at hryggrinn brotnar, ok lèt hún svâ líf sitt. Lètti hann eigi sinni ferð, fyrr enn hann kemr

[1]) Saumlöð, 193*d í athugas.*; Simloð, *G.* [2]) kvoldriða, 591 á 4; galdraskessa, 193*d.* [3]) *eða* Svinloð *eða* Samlöð, *hèr B.*

heim. Hildr, móðir hans, var úti, er hann kom heim. Illugi var þá ófrýnn, Hildr var þá blíð. Hafa nokkur nýtíðindi gjörzt í þinni ferð, son minn! sagði hún, fannstu pálinn, sem ek vísaði þèr á? Já! segir Illugi. Hún mælti: fannstu nokkuð stúlku mína, er ek sendi at afla mèr eldiviðar. Illugi sagði: valla ætla ek verri stúlka finnist, þvíat hún reið mèr, en ek banaði henni með þeim hætti, at ek braut í henni hrygginn við stein. Hildr kvað hann mega vera í sendiferðum; ok vil ek, segir hún, at þú þjónir Sigurði konúngssyni, ok fylgir honum í víkíngu. Illugi játar[1] því blíðliga, ok gladdist við þetta, ok gengr inn með móður sinni, ok sefr af nótt. At morgni býst Illugi at fara til konúngshallar, kveðr áðr föður sinn ok móður, gengr síðan til hallarinnar, ok kemr þar, þá konúngr er yfir dagdrykkju; hann gengr fyrir konúng, ok kveðr hann vel. Konúngr tekr honum vel. En er Sigurðr konúngsson sèr Illuga, fagnar hann honum forkunnar vel, ok biðr hann sitja hjá sèr. Illugi gjörir nú svâ. Ferr svâ fram nokkra daga, at Sigurðr er heima með föður sínum, ok Illugi.

3. Nú kemr sá tími, er skip Sigurðar voru búin; halda þeir frá landi; var þat þá ráðit, at Björn ok Illugi skyldi báðir fara. [Tekr konúngsson nú orlof af feðr sínum[2];

[1]) *hèr byrjar A aptr.* [2]) *v. í B, C.*

sigla nú fyrst til Orkneyja ok Skotlands, ok gjöra hvorttveggja margar upprásir, ok vinna mikinn sigr á Skottum, fá nú of fjár, leggja þeir hvergi þar til, at eigi hafi þeir sigr; var allt fólk við þá hrætt. At hausti vill Sigurðr heim halda, ok þá rekr á storm mikinn; tók þá skipit at gánga of mikit, rekr þá norðr í haf; herti seglit, svâ hèlt við rif, tekr nú hvert band at slitna; þeir sjá hvergi landa til; sjórinn tekr nú at ókyrrast, ok gjörði svâ stóran storm, at inn rann á bæði borð, en svâ voru þeir allir hraustir, sem á þessu skipi voru, at engi talaði æðruorð. Skipit tekr nú mjök at leka, ok standa allir í austri 8 dægr; skip rekr lángt norðr í haf í vík þá, er Gandvík hèt. Þeir herða þá seglit með sterku bandi, ok fá nú stór áföll, svá búit var við at brjóta skipit; flestir voru þá móðir. Þvínæst sjá þeir land, þat var björgum lukit; síðan rekr upp skipit í eina vík, hèldu þeir heilu skipi ok mönnum. Konúngsson segir, at þeir skuli þar bíða byrjar. Flestir hans menn voru at þrotum komnir af erfiði; þeim var ok svâ kalt, at þeim þótti dauðinn sýnn ok vera fyrir hendi, þvíat þeir höfðu aungvan eld. Sigurðr konúngsson bar sik furðu vel, en allir vildu gjarna ná eldi, ok fengu þó eigi. Björn tók þá mjök at kala, ok mælti svâ: þú, Illugi! segir hann, skalt róa yfir fjörð þenna, ok leita at eldi, ok, ef þú finnr hann eigi, þá skal ek ráða fyrir höfði þínu, en ef þú náir eld-

inum, þá skaltu eiga hríng þenna, er ek held á. Illugi svarar: víst eigi vil ek veðja höfði mínu við þik, Björn! en gjarna skal ek at eldi leita, ef vorum mönnum má gagn at verða; rær hann nú einnsaman burt frá sínum mönnum.

4. Hellir nokkur stóð öðrumegin fjarðar þessa, er rèð fyrir tröllkona sú, er Gríðr hèt; hún var hin mesta tröllkona. Illugi kemr nú at landi, ok festir bát sinn, ok gengr á land upp, ok kemr í hellirinn, þá var komit kveld. Hann heyrir þá, at hart er stigit til jarðar, ok kemr Gríðr heim. Hún frètti hann at heiti; hann segist Illugi heita, en honum þótti sem hríð eða hregg[1] stæði úr nösum hennar; horinn hèkk ofan fyrir munninn, hún hafði skegg, ok sköllótt um höfuðit[2], hendr hennar voru sem arnarklær, en ermar[3] báðar brendar, en sá stakkr, er hún var í, tók henni eigi lengra enn á lendar á bakit, en allt á tær í fyrir; augu hennar voru græn, en ennit bratt[4], eyrun fèllu [víða; engin mátti[5] hana kalla fríða. Illugi segist vilja eld sækja til hennar. Gríðr svarar: aungan eld fær þú af mèr, nema þú mælir þrjú sannyrði, ok ef þú gjörir þetta skjótt, þá skaltu liggja hjá dóttur minni; en ef þú vilt eigi þennan kost, þá hirði ek eigi,

---

1) hagl, *B*, *G*. 2) með skríngiligum búnaði, *B*, *G*. 3) *v.* *í* *B*, *G*. 4) helblátt, *B*, *G*. 5) um vángana hvar vill, *B*, *G*.

þó Björn kali til dauðs. Illugi segist þetta vilja. Eptir þetta gengr fram ein kona, hún er svâ fríð, at Illugi þóttist aungva fríðari sèð hafa; ok þegar er hann sa hana, feldi hann mikla ást til hennar; hún var hljóð ok fáræðin. Illugi tók þá til máls: mèr mun mál, segir hann, at fá[1] sannyrðin: hellir þinn er hár ok breiðr, at ek hefi eigi sèð hús meira nè sterkara; svá er ok nefit á þèr mikit, at ek hefi eigi sèð meira skrípi[2], enn þú ert, ok svâ svört, at fagurt er gólfit hjá þèr, ok aungva hef ek ámáttligri sèð enn þik, ok víst er dóttir þín fegri, ok ykkar hefi ek sèð mestan mun, ok svâ munu allir segja, er ykkr sjá. Gríðr mælti þá: víst er þat, segir hún, at hvorki viltu lofa mik, nè hæla mèr, ok ekki lízt þèr svâ illa á mik, sem þú lætr, en þat þiki mèr nú ráð, at þú farir í hvílu (með dóttur minni), ok leik allt þat, er þik lystir, þvíat þèr lízt betr á dóttur mína enn á mik. Nú mun skjótt at öllu farit, segir Gríðr, ok þarf ekki lengi lýsíngar. Illugi segir svâ vera skyldu, gengr hann at hvílunni, ok kastar klæðum, en kerlíng þjónar dóttur sinni, ok komu þau í eina hvílu bæði. Illugi snýst at henni, ok gjörir sik blíðan, en hún gerir aungva gleði[3] af sèr; þrífr Gríðr þá í hár Illuga, ok kippir honum fram á stokkinn, en

1) mæla, *B*, *G*. 2) ferlíki, *B*; ferlíkan, *G*. 3) blíðuleik, *B*.

annarri hendi brá hún björtu saxi ok mjök bitrligu, ok reiddi at höfði honum, en Illugi lá kyrr, ok hrærði hvergi á sèr. Gríðr mælti þá mjök reiðugliga: heyr þú, vondr herjansson! hví hugðir þú ek munda þola, at þú bligðaðir dóttur mína; nei! segir hún, þú skalt fá dauðann í stað. Illugi mælti þá: mitt hjarta hefir aldri hrætt orðit, ok því kom ek í helli þinn, at örlögin hafa svâ fyrir ætlat, þó deyr engi optar enn um sinn, ok því hræðumst ek ekki þínar ógnir. Við þessi hans orð kastar Gríðr honum aptr. Hann snèrist þá at brúði sinni, ok var þá allglaðr; ok er hann var sem blíðastr við hana, vefr Gríðr hár hans um hönd sèr, ok kippir honum á stokkinn fram, ok reiðir saxit allt at höfði honum; djarfr ertu, ok nú í stað skaltu dauðann fá, en Illugi sagðist eigi hræðast dauða sinn. Hún mælti þá hlæandi[1]: aungvan hefi ek slíkan hitt, at eigi hafi hræzt dauða sinn, nema þik, far þú nú til svefns, ok sof vel! Ferr Illugi nú, ok snýst at konu sinni, ok er nú allra blíðastr við hana. Gríðr hleypr þá enn at sænginni, ok kippir honum fram á stokkinn; hún reiðir nú saxit, ok mjök er hún ófrýnlig at sjá, en allt fór sem fyrr, at Illugi kvaðst eigi hræðast. Gríðr mælti þá: eigi ertu sem aðrir menn, þínar æðar skelfast hvergi, ok þú hræðist ekki; nú skaltu þiggja líf af mèr, ok þarmeð gef ek

[1]) með miklum ógángi, *b. v B, G.*

þèr dóttur mína, er Hildr heitir, ok fæ ek þó aldri launat þèr þinn velgjörníng, þvíat þú hefir komit mèr úr miklum álögum, þvíat með slíkum hætti hefi ek margan myrt ok drepit, ok hafa allir hræðzt mitt hitt ógrliga sax, 16 vaska menn hefi ek drepit með þessu saxi, ok væri slíkt þó eigi kvenna verk; nú mun ek segja þèr æfisögu mína, en þú hlýða.

5. Konúngr sá rèð fyrir Álfheimum, er Áli hèt; hann átti sèr drottníngu, er Álfrún hèt, þau áttu dóttur eina, sú hèt Signý, hún var at öllu vel at sèr[1]. Þegar Signý hafði aldr til, var hún gipt þeim konúngi, er Eirekr hèt, hann fèll í vestrvíkíng[2]. Dóttur áttu þau saman, þá er Hildr hèt, ok var hún meyja fríðust, fór Signý þá til föður síns, ok var með honum. Drottníng fèkk sótt, þá hana leiddi til bana, en konúngi barst lítt af, en Signý var í skemmu, ok hafði sorg mikla eptir konúng sinn ok móður. Konúngr fèkk þá drottníngu, er Grímildr hèt, hún var fögur at sjá, en innan[3] var hún et mesta flagð. Konúngr unni henni mikit; þau gátu at eiga 7 dætr, ok brá þeim öllum til móður sinnar, ok urðu enu mestu flagðkonur. Þat bar til í ríkinu við kvomu Grímhildar, at maðr hvarf[4] hverja nótt, ok ætluðu allir, at Grímildr mundi því valda. Konúngr tók nú at eldast, ok þótti drottníngu minna verða af

[1]) ok nám, *b. v. B, G.* [2]) orrostu í Austrriki, *B, G.* [3]) raunar, *B, G.* [4]) fimtu, *b. v. B, G.*

hjáhvílum, enn hún vildi; hugsar hún nú at svíkja konúng, ok fá sèr annan úngan, gefr hún honum nú eitr at drekka, ok fær hann þegar bana af, ok var hann heygðr hjá drottníngu sinni. Grímhildr ilskaðist nú svâ, at hún eyddi allt ríkit bæði af fè ok mönnum. Eptir þessi verk Grímhildar gekk hún til skemmu þeirrar, er Signý sat ok dóttir hennar, en er hún kemr þar, mælti hún svâ: þú, Signý! segir hún, hefir lengi í sæmd mikilli ok sælu setit, en ek skal þat allt af þèr taka, ok þat legg ek á þik, at þú hverfir í burt, ok byggir í helli, ok verðir hin mesta tröllkona, þú skalt Gríðr nefnast; dóttir þín skal fara með þèr, ok hverr maðr, sem hana lítr, skal fella til hennar mikla ást, þú skalt hvern myrða, er þú sèr í hennar sæng; þú hefir átt þèr 7 systr, þær skulu hverja nótt eiga við þik bardaga, þær skulu allavega þik sundra, höggva ok meiða, en aldri at heldr skaltu deyja, ok aldri skaltu fyrr frelsast af þessum álögum, enn þú hittir þann mann, er eigi hræðist þitt hitt ógrliga sax, þá er þú reiðir þat; en með því at þeim mun þat ógrligt sýnast, mun sá ekki finnast. Signý mátti ekki mæla fyrir harmi ok gráti. Hildr mælti þá: vilda ek, Grímhildr! at ek launaði þèr þín álög, ok þat mæli ek um, at öðrum fæti standir þú á skemmu þessari, en öðrum heima á konúngshöll, þrælar skulu

þar kynda bál midt[1] í milli fóta þèr; þat bál skal standa bæði nætr ok daga, ok öll skaltu neðan af eldi brenna, en ofan frjósa, at aldri fáir þú þína ró; en ef við mæðgur komumst úr þessum álögum, þá skaltu deyja, ok detta ofan í bálit. Grímhildr tók þá til máls: mjök heimskligt er okkart tal, ok vil ek at þetta haldist hvorki. Hildr sagði, at þat yrði at standa. Hurfu þær mæðgur þá burt í helli þenna, ok (er ek sú hin sama Signý), ok er hèr Hildr, dóttir mín, ok vil ek nú gipta þèr hana, ok launa þèr svâ, at þú hefir mèr úr álögum komit. Ok at endaðri þesari sögu koma í hellinn 7 skessur með bitrligum skálmum, ok hlaupa at Gríði, ok höggva til hennar bæði hart ok tíðum. Hildr var nú ákafliga hrædd. Illugi veitir Gríði dugnað, ok höggr til þeirra bæði ótt ok tíðum, ok eigi lèttir hann fyrr, enn þau hafa drepit þær allar, ok brennr þær allar á báli. Gríðr mælti þá: nú hefir þú, Illugi! frelst okkr bæði af þessum skessum, ok hefi ek við þær átt 11 vetr. Illugi segir þat nógu lengi verit hafa.

6. Eptir þetta fylgir Gríðr þeim til báts Illuga, ok gaf hún þeim gull ok marga dýra gripi, ok hafði hann nú með sèr eldinn, ok skildist hún þar við þau. Illugi rær aptr til sinna manna; þeir urðu við þat glaðir, ok lètu sèr hitna. Mánuð lá konúngsson þar, ok gaf

[1]) mikit, *B*, *G*.

honum aldri byr. Björn kendi þat Hildi, ok kvað Illuga hana hafa sótta í hella, ok segir Björn, at hún sè hin mesta tröllkona. Sigurðr bað Björn þegja, ok ekki vildi hann því trúa, er Björn sagði. Eina nótt var þat, er menn konúngssonar sváfu á skipi; en er þeir vakna, sjá þeir at Björn er horfinn, ok leituðu, ok sjá um síðir, at hann hángir upp við siglurá. Þeir vissu ekki, hverju þetta gegndi um líflát Bjarnar, en Gríðr hafði hengt Björn á þeirri nótt, fyrir þat hann kallaði Hildi tröllkonu. Eptir þat siglir Sigurðr frá Finnmörk, ok gaf honum þá vel byr, ok kom heim til Danmerkr, ok hafði fengit of fjár, ok gaf gull á tvær hendr. Er hann nú heima með föður sínum. Illugi var laungum með Sigurði, en þó átti hann stóran búgarð nærri konúngs höllinni. Litlu síðar tók Hríngr konúngr sótt, þá er hann leiddi til bana. Sigurðr lætr þegar erfi drekka eptir föður sinn, ok lætr tilbjóða öllum beztu mönnum í landinu, ok var Sigurðr þá til konúngs tekinn yfir þat ríki, er faðir hans hafði átt. Hríngr konúngr hafði verit fylkiskonúngr í Danmörku, ok hafði hann ráðit fyrir Skaun[1]. Signý kemr nú til Danmerkr, ok tók Illugi vel við henni, ok þau Hildr. Illugi segir þá öll deili á henni. Sigurðr konúngr bað hennar sèr til handa. Signý segir, at Illugi skuli vera

[1]) Skáuey, B, G.

hennar giptíngarmaðr. Sigurðr talar þá þetta mál við hann, ok með samþykki hennar giptir Illugi honum Signýju. Voru þeirra samfarir góðar, ok áttu þau mörg börn, ok urðu öll mikilsháttar menn. Sigurðr konúngr ok Signý drottníng [lifðu mjök lengi, en[1] Illugi lifði lengr; en ekki hefir verit getit barna þeirra Hildar. Þessi Illugi varð síðan fóstbróðir Gnoðar-Ásmundar; ok lúkum vèr þessi sögu.

1) *b. v. B, G; v. í A.*

# Hèr hefr sögu Ereks víðförla.

KONUNGR hèt Þrándr, er[1] rèð fyrir Þrándheim í Noregi; hans son hèt Erekr[2], vænn maðr ok göfugligr, ok úngr at vetratölu. Ok einn jóla aptan strengði hann heit at fara suðr í heim, unst hann fyndi Ódáinsakur [á heiðinna manna tíðsku[3]; ok þetta frèttist um Noreg víða. Ok á næsta sumri fór hann suðr til Danmerkr, ok valdi sèr únga menn ok væna til farar ok tolka; þeir voru 12 saman. Danakonúngr tók vel við Ereki ok hans mönnum, ok var hann með honum um vetrinn í góðri sæmd. Sonr Danakonúngs hèt ok Erekr, ok lögðu þeir saman lag sitt nafnar, ok voru at mörgu skaplíkir menn. Erekr danski fór með honum at vori, ok sigla til Garðaríkis, ok þvínæst til Miklagarðs, ok voru nú 24[4] saman, ok allir afbragðsmenn at atgjörfi ok vígkæni. Ok í þann tíma hafði Girkjakonúngr[5] boðit út her sínum í móti óvinum, ok bað þá nafna herferðar, ok þeir fóru með hon-

---

[1]) fyrstr, *b. v. F.* [2]) Ereker, *A.* [3]) er heiðnir menn kalla, en kristnir menn jorð lifandi manna eðr Paradísum, *F.* [4]) *þannig F, M*; 15, *A.* [5]) Girkkjakonúngr. *F, M.*

um, ok var hann við þá allvirðuliga, ok frètti fyrr túlkinn, hverìr þeir væri, eða hvaðan þeir kæmi, eða hvert þeir vildi fara. Ok er hann varð þess viss, at þeir voru Norðmenn, ok ætluðu víða at kanna heiminn, þá hèlt hann þá vel í öllum hlutum; en þeir veittu honum mikit lið í sinni framgaungu. Ok er Girkjakonúngr sá, at styrkri var einn af þeim, enn tveir eða þrír[1] Girkir í orrostu, ok voru í öllu trúlyndir, þá gerði hann þá sína þjónustumenn kærasta, ok [gaf þeim mestan mála[2] allra sinna manna, ok þá hófst fyrst Norðmanna sómi [í Girkjakonúngs ríki[3].

2. Einn dag spurði Erekr þrænzki[4] konúng: [hefir nokkur gjört[5] himin eða jörð? Konúngr segir: einn gjörði hvorttveggja. Erekr mælti: hverr er sá einn? Konúngr segir: guð almáttigr, er einn er í guðdómi, [en þrennr í grein[6]. Erekr segir: hverjar eru þær greinir? Konúngr segir: hann er faðir ok sonr ok heilagr andi. Erekr segir: með hverjum hætti eru þrjár greinir eins guðs? Konúngr segir: líttu sólina á himni, hún er þrír hlutir, eldr ok birti[7], ok vermi, ok er hún þó ein[8] sól í sínu eðli, svâ er ok, at sama hafi einn guð, faðir ok sonr ok heilagr andi í sínu almætti. Erekr mælti: þó er mikill guð,

[1]) 5 eða 7, *M.* [2]) mat þá mest, *M.* [3]) út í Miklagarði, *F.* [4]) norræni, *optast F*; þrándarson, *M.* [5]) hverr gjört hefði, *F.* [6]) e. þ. í greiningu *F*, ; með 3 skilníngum, *M.* [7]) *þannig F*; hiti, *A*, *M.* [8]) *hèr v. blað í M.*

sá er gjörði himin ok jörð, seg mèr nokkut af mikilleik hans. Konúngr mælti: guð er óumræðiligr ok [óætlanligr, ok óskiptiligr, ok[1] er hann yfir öllum hlutum, ok alla veröld hefir hann sèr í gaupnum. Erekr mælti: veit guð alla hluti? Konúngr segir: guð veit allt þat er nú er orðit, ok verða mun. Ok þá er konúngr hefir þetta mælt, þá undraðist Erekr mjök almátt guðs, ok mælti síðan: hvar byggir Kristr? Á himnum er hans veldi, þar kemr eigi sótt[2], nè dauði, nè hrygð, ok er þar eilíf sæla ok fögnuðr án enda. Erekr segir: hverjar eru þar ágæztar sveitir hans. Konúngr segir: helga engla skapaði hann til þjónustu við sik, ok í fyrstu setti guð sèr albjarta höll, sem máttugr konúngr, þat kallaði hann himnaríki. Síðan gjörði hann myrkvastofu, þat er heimr þessi, ok í honum setti hann hemdargröf, þat köllu vèr helvíti, en til himins hallar skóp hann fyrst skíra tölu valdra riddara, er eigi er lofat af at sníða, en nauðsyn at fylla, en í þeirri tölu vildi hann samansetja af mönnum ok englum níu fylkíngar engla, setti hann ok ena tíundu manna, at þrenníng í einíngu, ok einíng í þrenníngu lofaðist ok dýrkaðist af englum ok mönnum of aldr. Erekr mælti: hvat er helvíti? Konúngr segir: þat er dauðajörð, en oss tvíföld kvöl, þar er óslökviligr eldr, er djöflar kveljast í ok íllir menn. Erekr segir:

[1]) *óyfirstíganligr, F.* [2]) *nè þytr, b. v. F.*

hverja kallar þú illa? Konúngr segir: heiðíngja ok rækiliga kristna menn. Erekr mælti: er eigi þat guð, er vèr göfgum, eða hví eru allir heiðnir menn illir? Konúngr segir: þvíat þeir vilja eigi göfga Jesum Krist, ok illa er frá þeim sagt, er goð yður eru eptir gjör, hve glæpiliga þeir lifðu, eða hve fúlliga þeir dóu, ok eru nú í eilífum eldi. Erekr mælti: ekki hefi ek slíkt heyrt fyrr sagt. Konúngr segir: því vartu viltr, attu heyrðir eigi fyrr et sanna, ok ef þú vill trúa á einn guð í þrenníngu, þá muntu með honum eptir dauðann fara í eilífa fullsælu. Erekr segir: þat æski ek mèr, at ek eignumst eilíft líf. Konúngr segir: þessi ósk gefst þèr, ef þú trúir á einn guð, föður almátkan, ok á Jesum Kristum, drottinn vorn, ok á helgan anda, ok tekr þú helga skírn; ok verðr þú lífgaðr af hans holdi ok blóði, ok gjörist algjörr kristinn maðr í öllum hlutum. Erekr segir: svâ hæfir mèr at gjöra, sem þú eggjar, en segðu mèr, hvar er helvíti? Konúngr sagði: þat er í miðri jörðu eða undir. Erekr segir: hvat er yfir jörðunni. Loptit, sagði konúngr. Erekr segir: hvat er yfir loptinu? Konúngr segir: festníng himinsins, í þeim himni eru öll himintúngl svâ sem eldr brennandi. Erekr segir: hvat er yfir festníngarhimni. Konúngr segir: vötn eru þar yfir uppfest sem ský. Erekr segir: hvat er yfir þeim vötnum? Konúngr segir:

andligr heimr, á þeim trúa menn, at búi andar, þeir er vèr köllum engla guðs. Erekr segir: hvat er yfir þeim himni uppi? Konúngr segir: skilníngarhimin, á þeim himni má líta guð sjálfan í sínu veldi. Þá undraðist Erekr mjök speki konúngs, ok mælti: harðla mikil ok háleit ok óyfirstíglig er speki yður; seg nú, konúng! ef þú veizt, hversu mikil er breidd jarðar? Konúngr segir: forvitinn ertu í mart! viltu vita þat, er eigi er nauðsýnligt, ok flestum mönnum eru þetta fáheyrðir hlutir ok ókunnir, en at ek gjöra gnótt spurníng þinni, þá heyr þat, er ek segi þèr: umhverfis jörð mæla menn at sè hundrað þúsunda rasta, ok stígir þúsunda, ok halda öngir stólpar henni upp, heldr guðligr almáttr. Erekr mælti: hversu lángt er millum himins ok jarðar? Konúngr segir: en af jörðu er talit til[1] himins hundrað þúsunda mílna, [ok hálfr níundi tugr mílna[2]. Erekr mælti: hvat er um jarðirnar[3] utan. Konúngr segir: mikill sjór, er kallaðr er Osianum. Erekr segir: hvert er land yzt í Suðrhálfu heimsins? Konúngr segir: Indíaland segju vèr enda á löndum í þann hluta heims. Erekr segir: hvar er Ódáinsakur, frá honum heyrðu vèr sagt á voru landi. Konúngr segir:

[1]) allt til hins efsta, *M.* [2]) ok 3 hundruð ok hálfr níundi tugr mílna, *F*; ok 9 þúsundir mílna ok CCC mílna ok 80 ok 2, Nr. 179 í arkarf. [3]) jörðina, *F.*

þat ætla ek yðr kalla Ódáinsakur, er vèr köllum Paradís, ok Norðmenn kalla jörð lifandi manna. Erekr segir: hvar er sá staðr? Hann er í austr eigi lángt frá Indíalandi. Erekr segir: má nokkut komast þángat? Konúngr segir: víst eigi, þvíat eldligr veggr stendr fyrir, sá er tekr af jörðu til himins. Síðan þetta ok mart annat hafði konúngr sagt Ereki, þá lèt Erekr fallast til fóta honum, ok mælti: bið ek þik, inn bezti konúngr ok inn spakasti! at fyrir fulltíng yðvarar sæmdar, greiði þèr mína ferð, þvíat mèr er nauðsýn at enda heitstrengíng mína, ok leita Ódáinsakurs, en ek má at öngum kosti komast, nema ek njóta yðvars fulltíngs. Konúngr segir: vertu hèr með mèr þrjá vetr ena næstu, ok far þá síðan, ok er nauðsýn at þèr verði nýtt at mínum fundi, ok báðum ykkr nöfnum, ok má ek þá nökkut yðr fulltíngja. Ok þeir hètu því, ok þeir voru þar. Þá spurði Erekr þrænzki túlkinn[1] vanliga at um dýrð guðs ok at ömbön rèttlátra manna ok píslum vondra; hann spyrr ok frá greinum landa ok yfirbragði þjóða úr útlöndum, ok stöðum þeim er þeir áttu farveg hjá, um sjó eða ár, ok of alla Austrálfu heimsins, ok Suðrálfu heimsins, frá skógum stórum eðr eyjum eða auðna stöðum, frá yfirsýndum manna ok búníngi ok sið margra þjóða ok frá höggormum marghátuðum ok frá dýrum

[1]) konúnginn, F.

ok fuglum ok gnótt gulls ok gessima ok gimsteina. Allar spurníngar Ereks leysti konúngr vel ok fróðliga.

3. Ok at liðnum 3 vetrum þá er Erekr hafði numit slíkan fróðleik, ok margan annan, þá ferr hann með sínu föruneyti til Sýrlands, ok hafði með sèr brèf Girkjakonúngs ok innsigli, en af Sýrlandi gekk hann á skip með ókunnum Austrvegsmönnum. Síðan fór hann stundum á hestum, ok miklu optar gengu þeir, ok fóru svâ[1], unst þeir kvomu loks út til Indíalands; en hvarvetna þar er þeir kvomu á ókunn lönd, ok fyrir ina æztu höfðíngja, þá var vel við þeim tekit, ok lýðir greiddu ferð þeirra, þvíat brèf Garðskonúngs[2] ok patríarcha or Miklagarði, (á) mörgum túngum rituð, færðu þeir öllum enum ríkustum mönnum, þau er voru um ferð þeirra, ok buðu allir at veita þeim, þegar er menn sá brèfin; ok af þessum sökum gerðu öngvir þeim grand, ok í öngvum kaupum voru þeir vèltir, en guðs miskun hlífði þeim Ereki ok hans förunautum miklu framast, þóat gæfa ok röksemd Garðskonúngs hlífði þeim mjök af spakligum hans ráðum við erbiði ok háska, er varð á þessi inni löngu leið. Ok þá er þeir höfðu lengi farit of hjöröð Indíalands, [fjóra daga[3] ins fimta tigar, kvomu þeir um síðir til myrkra hèraða; þar sá þeir stjörnur of alla daga, ok

[1]) nokkura vetr, *b. v. F.* [2]) *þannig A*; Grikkjakonúngs, *F.*
[3]) fjórar milur, *F.*

þar sá þeir gullstein[1] mikinn, ok undr önnur. Ok þá er þeir höfðu marga daga villzt á skógum ok undarliga háfum fjöllum, ok þá hafði skilit helzt á um leiðina, þá kvomu þeir um síðir at á [þeirri, er fellr or Paradís, ok Phíson heitir[2], yfir þá á var steinbogi, ok á steinboganum stóð dreki undarliga mikill, sá er með gapanda munni ógnaði þeim, ok vildi bíta þá, en öðrumegin árinnar sá þeir land með öllum blóma grasa ok gnótt hunángs, ok kendu þeir þaðan sætan ilm, ok ætluðu þeir þá at skilja mundu hjöröðin. Erekr þrænzki snöri þá til brúar, ok ætlaði yfir ána, en er þat sá Erekr danski, þá bannaði hann honum, ok mælti: sè við þú, ok far eigi, þvíat þú mátt sjá, at drekinn mun svelgja þik! Þá svarar Erekr þrænzki: ekki óttumst ek drekann, ok eigi skal hann hefta för mína. Erekr danski segir: bið ek þik, inn bezti vin! at eigi sellr þú þik til bana, heldr hverf þú aptr, með því at, ef þú kemr nokkut framar, þá muntu þegar deyja. En er Erekr danski hafði þetta mælt, þá vildi Erekr þrænzki víst eigi aptr hverfa, ok mælir síðan hvârr þeirra vel fyrir öðrum, ok skildust þar, ok þvínæst brá Erekr þrænzki sverði, ok hafði fyrir sèr í hægri hendi; en vinstri tók hann í hönd einum förunaut sínum, ok runnu þeir síðan í munn drekanum, ok þegar svalg drekinn þá, at því er Ereki danska sýndist;

[1]) gullstaup, F. [2]) v. í F.

en þat gjörðist annan veg, enn þeim sýndist, þvíat þá er[1] Erekr ok hans förunautr höfðu hlopit í munn drekans, þá þóttust þeir fara í gegnum myrkva mikinn. Erekr danski hvarf þar aptr, ok snöri leið sinni, ok eptir nokkura[2] vetr kom hann til sinna áttjarða, ok sagði þenna atburð, líflát Ereks þrænzka, öllum þeim er vita vildu, at drekinn hafði þá sólgit, ok þrýtr þar frá Ereki danska at segja.

4. En er Erekr þrænzki leið or myrkvanum, þá sá hann þar land með allri fegurð, ok grösin voru svâ fögur sem purpuri, ok gróin með öllum blóma, ok flutu hunángs lækir um alla teigu. Landit var lágt, ok slètt mjök, svâ at ekki mátti fjöll sjá þar nè hóla; ok var jafnan sólskin án skýi ok nótt, ok án myrkrum, ok löngum logn it mesta í lopti, ok er á vindsgol lítit, þat er þeir kendu þá meir enn áðr af jarðar blómanum. Ok er þeir gengu með völlum þeim mjök lengi, ok hugðust ef þeir sæi nokkur hús eða bæi, eða þeir mætti vita, hversu vítt þat land væri; þá sá þeir um síðir þvílíkast, sem hjálmr[3] hèngi or lopti, ok snèru þeir til þagat, ok vildu sjá. Ok er þeir nálguðust, þá sá þeir at þat var turn einn, ok stóðu öngvir stólpar undir, ok er þeir gengu nærr, þá sá þeir stiga háfan, settan sunnan við turninn; ok er þeir kvomu til þess staðar, þá undruðust þeir

1) *hèr byrjar M aptr.* 2) marga, *M.* 3) stöpull, *F.*

mjök þvílíkan krapt, er svâ mátti verða at turninn hèngi í lopti, ok gengu síðan til stigans, ok upp eptir honum, þá sá þeir hús eitt með inum dýrligstum tjöldum innan búit; þar stóð silfrborð, ok áskipat brauði harðla björtu með sætum ilm; þar stóð diskr af gulli gjörr, á honum var allskyns slátr með inum bezta aldini, þar var kanna sett, með gimsteinum búin, ok kalekr, af gulli gjörr, stóð þar ok hjá, með drykk einkar góðum hvârttveggja, ok rjokkjur voru þar breiðar með inum dýrligustum pellum. Þeir undrast nú mjök, er þeir sá þessa hluti; (þá mælti Erekr): sè hèr Ódáinsakr, er ek leitaða með miklu erbiði ok torveldi marga vetr. Síðan lofuðu þeir guð, ok mæltu: mikill er almáttigr guð, ok dýrligr í öllum hlutum, sá er oss lèt finna þetta land. Eptir þat neyttu þeir þar fæzlu ok drykks, ok fóru síðan at sofa, ok í svefni vitrast Ereki úngr maðr ok allbjartr, ok mælti við hann þessum orðum: mikil er trúa þín, Erekr! í staðfesti leitanar þinnar; nú seg mèr, hversu líkar þèr þetta land. Hann svaraði: óska vel, hverju landi sýnist mèr þetta betra; en hverr ertu, er við mik mælir, ok skilr mikit okkra vizku, er þú kveðr mik með nafni, en ek kennig þik eigi. Þá leit inn úngi maðr við honum blíðliga, ok mælti: ek em engill, einn af þeim er varðveita Paradís, ok var ek nær staddr, er þú

strengðir heit at fara suðr í heim, ok ek eggjaða þik at sigla til Miklagarðs at guðs boði, ok með minni forsjá tóktu skírn ok trú rètta, ok fyrir því tel ek þik sælan, attu hlýðir þrifsamligum ráðum Garðskonúngs[1], ok tókt brèf ok innsigli af honum, ok síðan þóttu þik í Jorðan, en drottinn setti mik varðhaldsengil þinn, ok hefi ek hlíft þèr á landi ok sjó ok í hverjum háska ferðar þinnar, ok ek varðveitta þik við öllum illum hlutum. Nú vill guð marga vega verða láta ok atberast um náttúrur manna, ok skal því eigi undrast, þótt margar sýnir beri fyrir menn; en vèr erum eigi menn, heldr eru vèr andar himneskjar fóstrjarðar, en sjá staðr er þèr sýnist inn fegursti, er at virða við Paradís sem eyðimörk þá er bygðu inir fyrstu menn, ok nú byggja andar yfirfeðra ok spámanna, en sá staðr er skamt hèðan, ok þaðan fellr á sú, er þèr fóruð yfir; en áðr þèr komuð hegat, þá bauð guð oss at vökva ok blómga þenna stað, til at sýna þèr jörð lifandi manna með nokkurri mind ok líkíng, at gjöra þèr veizlu ok launa þèr svâ erbiði þitt. Þá mælti Erekr: hvar búi þèr? Hann segir: vèr byggjum á himnum, þar sem vèr sjáum andligan guð, en fyrir nauðsynja sakir eru vèr opt sendir í heiminn, at vèr veitim þeim fulltíng eða þjónustu við menn, sem nú við þik. Erekr mælti: hvat heldr upp húsi þessu, er mèr sýnist hánga í loptinu?

[1]) Garðakonúngs, *M*; Grikkjakonúngs, *F*.

Engillinn segir: einsaman kraptr guðs, en at sènu þvílíku tákni máttu at staðfastligar trúa, at almáttr guðs muni alla hluti skapat hafa af öngu efni, eða viltu vera hèr eptir, eða hverfa aptr til ættjarða þinna? Erekr segir: aptr vil ek hverfa. Engillinn segir: fyrir hví girnistu nú aptr til ættjarða þinna vesaligra? Erekr segir: at ek megi segja kunníngjum mínum frá ferð minni ok frá stórmerkjum þeim, er ek hefi sèð eða heyrt, en ef ek fer eigi aptr, þá munu allir því trúa, at ek hafa illum dauða dáit. Þá segir engillinn: þótt skúrgoðablót sè á [þínu landi[1], ok eigi sè enn sú tíð komin, er þeir menn snúast til rèttrar trúar, þá mun þó sú tíð koma, er guð mun þá leysa frá sinni villu, ok kalla þá til sinnar miskunar, en gefit er þèr leyfi til aptrfarar, at þú segir frá göfgan guðs þeirri, er þú hefir sèð í Austrlöndum, þvíat berast má svâ at, at þeir trúi skjótara [guðs dýrð[2], þá er þeir minnast þeirra hluta, er þèr segið[3]. En 10[4] vetrum síðar enn þú komir aptr, þá mun ek vitja þín [sem Abbakuggs ok Daníels spámanns, er ek færða hann yfir mörg lönd[5]; þá mun ek koma ok færa þik aptr til þessa staðar, þvíat þenna stað valdi guð til þess, at bein þín skulu hèr hirð vera framan til dóms. Nú skaltu hèr vera sjö[6] daga, síðan

[1]) Norðrlöndum, *F.* [2]) guðspjalla orðum, *M.* [3]) varðveit þik vel frá öllum löstum, þeim er kristin lög banna þèr; gef fè þitt ok fæzlu fátækum mönnum, ok ver opt á bænum, *b. v. M.* [4]) nokkrum, *F.* [5]) *v. í F*; ok, *v. í M.* [6]) 6, *F.*

takið ið leiðarnest, ok farið aptr norðr! Síðan vaknar Erekr at morni, ok þakkaði guði háleitum[1], ok gerði hann alla hluti, sem engillinn bauð honum. Nú er ekki sagt frá norðrferð hans, fyrr enn fjórum vetrum síðar kom hann til Miklagarðs, ok sagði Girkjakonúngi frá ferð sinni. Konúngr segir: mikit hefir guð veitt þèr, er hann hefir sýnt þèr leynda hluti, ok er þèr þat vanlaunat. Erekr var þar tvo vetr, en á inu 7da ári aptrferðar sinnar kom hann til Þrándheims, ok var þar (10) vetr. En á inu 10da ári[2] ok at morni dags, er Erekr var til bænar búinn, þá greip hann guðs andi[3], ok er

[1]) engilliga vitrun, *M.* [2]) ellipta vetri, *F.* [3]) *F endar hèr þannig*: ok var hans leitat, ok fannst hann eigi. Eyrekr hafði sagt förunaut sínum draum sinu, þann er hann hafði dreymt í turninum, ok þetta sagði sá maðr, ok trúði sá maðr, at engill guðs mundi tekit hafa Eyrek, ok varðveitt hann; þessi Eyrekr var kallaðr Eyrekr hinn víðförli; þessa sögu hafa margir sannfróðliga eptir orðum hans sjálfs; nú lúkum vèr þar sögu þessi. En því setti sá þetta æviutír fyrst (*Col.* 11-15) í þessa bók, er hana skrifaði, at hann vill, at hverr maðr viti þat, at ekki er traust trútt nema af guði, þvíat þó at heiðnir menn fái frægð mikla af sínum afreksverkum, þá er þat mikill munr, þá er þeir enda þetta hitt stundliga líf, at þeir hafa þá tekit sitt verðkaup af orðlofi manna fyrir sinn frama, en eigu þá von hegníngar fyrir sín brot ok trúleysi, er þeir kunnu eigi skapara sinn; en hinir, sem guði hafa unnat, ok þar allt traust haft, ok barizt fyrir frelsi heilagrar kristni, hafa þó af hinum vitrastum mönnum fengit meira lof, en þat at auk at mest er, at þá er þeir hafa framgengit um almenniligar dyr dauðans, sem akki hold má forðast, hafa þeir takit sitt verðkaup, þat er at skilja, eylíft ríki með allsvaldanda guði utan enda, sem þessi Eyrekr, sem nú var frásagt.

hann aldri sèn hèr í heimi síðan, ok lýkr þar nú frá honum at segja. En drottinn Jesús Kristr efli þessa ritníng með sinni röksemd, at hún verði sannheilög í hans augliti, ok [svâ ok heilagr andi gleðí hann er skrifar, ok svâ þann er segir ok alla þá er tilhlýða þessari sögu, (at þeir[1] hafni þeim hlutum, er lognir eru, en elski þá, er sannir eru, ok vegsami guð almátka æ ok æ at eilífu amen.

[1]) ok sè andi heilagr í hjarta lesandans ok heyrandans, at hann, *M.*

# REGISTR

YFIR

ÖLL MANNANÖFN, SEM FINNAST I

## FORNALDAR SÖGUM NORÐRLANDA.

Merki þetta * stendr við nöfn goða, jötna, trölla, dverga, valna o. s. fr.

---

# REGISTR

YFIR

## LANDA-, STAÐA- ÞJÓÐA- OG FLJÓTA-NÖFN.

# REGISTR

YFIR

# HLUTI OG EFNI.

LEIDRETTINGAR. *Bls.* 13, *lin.* 3: nú; horfa *l.* nú horfa. 256, 18: nóttinn *l.* nóttin. 260, 26; 261, 1: söxinn *l.* söxin. 375, 15: megun *l.* megum. *I nokkrum exemplörum* 4, 13 líta. 14, 25 ráðit. 33, 23 blótsins. 40, 4 áðr. 45, 25 miðli. 70, 14 hvert áðr. 102, 5 flötu, 17: forráði. 105, 18 bróður. 118, 28 gjörði. 127, 23 ófriði. 145, 2 fóstbróðir. 131, 20 liðu. 151, 12 misboðit, 23, hefði. 186, 16 þá. 254, 17 sár. 269, 25 þér. 281, 5 lík. 285, 25 þriðja. 343, 1 nánd, 503, 4 átök. 583, 27 hvessa. 667, 5 hafði; 19 þegar.

---

# NAFNALISTI

ÞEIRRA MANNA, ER HAFA TEIKNAD SIK FYRIR

# FORNALDAR SÖGUM NORÐRLANDA.

## I DANMÖRK.

Hans Hatign Konungrinn.

Hennar Hatign Drottningin.

Hans Konungl. Haheit Prinds Frederik Carl Christjan.

Hans Konungl. Haheit Prinds Friderik Ferdinand.

Hans Durchl. Prinds Wilhjalmr af Hessen Philipsthal.

Hans Durchl. Prinds Fridrik, Landgreifi af Hessen.

### I Kaupmannahöfn.

Hra. *v. Abrahamson*, P.D., Oberstlöitenant og Divisiónsadjútant, C.D., D.M. C. af St Önnu-Orðunni, R. af Sverðs-, Heiðrsfylkingar- og Bath-Orðunum &c.
- *Bilsted*, Etatsráð, R.D.

Hs. Excell. Hra. *v. Bornemann*, Jústitíaríus í hæsta rètti, SK.D., D.M. &c.

Hs. Excell. Hra. *v. Bülow*, Generallöitenant, SK.D., D.M. SK. af hins rauða Arnar Orðunni &c.

Hra. *Devegge*, Bókavörðr.
- *Engelstoft*, P.D., Etatsráð, R.D., D.M. &c.
- *Grúndtvig*, *N. F. S.*, Prestr.
- *Höegh-Gúldberg*, Hæstarèttar-Advokat.
- *Kolderúp-Rosenvinge*, J.U.D., Prófessor, R.D.
- *Krieger*, *M.*, Stúdent.
- *Larsen*, Pólitísekretèri.
- *Magnússon*, Prófessor, Leyndarskjalavörðr, R.D. &c.
- *Moldenhawer*, Kancelliráð.
- *Münter*, T.D., Biskup, SK.D., D.M. &c.
- *v. Raben*, Greifi.
- *Rask*, Prófessor Bókaverðr Háskolans &c.
- *Sivertsen*, Kaupmaðr, R.D.
- *Schúbóthes* Bókahöndlun.
- *Treschow*, Etatsráð &c.
- *Velschow*, Cand. Theol.

Ccc 2

Hra. *Werlauff*, P.D., Etatsráð, R.D. &c.
- *Örsted*, P.D., Etatsráð, R.D., D.M. &c.
Hið Konúngl. Rentukammer.
Classens Bókasafn.
Metrópólítanskólans Bókasafn.
Stúdentafèlagsins Bókasafn.
Landkadettaliðsins Bókasafn.

I Sjalandi
(fyrir utan Kaupmannahöfn).

Hra. *Basthólm*, Prestr í Slagelse, R.D.
- *Christensen*, Stúdent, í Sóreyju.
- *Lýngbye*, Prestr til Sæborgar.
- *Wegener*, Adjúnkt, í Sóreyju.
Sjálands Stiptsbókasafn í Hróarskeldu.
Sóreyjar Akademíu Bókasafn.
Herlúfshólms Skólabókasafn.

A Fjoni.

Hra. *Höegh - Gúldberg*, Ofursti, C.D., D.M., í Oðinseyju.
- *Mülertz*, P.D., Yfirkennari, í Nýborg.
Fjóns Striðsmanna Bókasafn.

A Lalandi.

Hra. *Berg*, Adjúnkt, í Nakskóv.

I Jotlandi.

Hra. *Adler*, Adjúnkt, í Rípum.
- *Búll*, Etatsráð, í Arósi.
- *Finsen*, Kancellísekretèri, í Kolding.
- *Júel Wind-Frýs*, Lènsgreifi af, til Frýsenborgar.
- *Hansen*, Yfirkennari, í Rípum.
- *Lilljenskjold, C. G. v.*, Kammerjúnkr, í Hrossanesi.
- *Mönster*, T.D., Biskup, R.D., D.M.
- *Randrup*, Stiptsphýsicus, í Rípum.
- *Storm*, Adjúnkt, í Hrossanesi.
- *Thorup*, Rektor, í Rípum.
Skólabókasafnið í Alaborg.
Skólabókasafnið í Randarósi.

I Slesvik og Holsetulandi.

Hs. Dúrchl. Hra. *Lúðvig*, Prinds af Witgenstein, í Rendsborg.
Hra. *Flór*, P.D., Prófessor, í Kíel.
- *Schleep*, Kammerráð, í Gautaþorpi.
Háskolans Bókasafn í Kíel.

I Færeyjum.

Hra. *Davidson*, Amtsskrifari, í þórshöfn.
- *Effersöe*, Kennari, í þórshöfn.
- *Jacobsen*, Kennari, í þórshöfn.

Á Íslandi.

*Andres Brandsson*, Bóndi, á Fjósum.
Hra. *Ari Arason*, Handlæknir, á Flugumýri.
*Ari Gudmunsson*, Bóndi, á Eyrardal.
Síra *Ari Jónsson Skordal*, á Stað í Aðalvík.
Hra. *Arni Helgason*, Stiptsprófastr, R.D., á Breiðholti.
Hra. *Arnór Gunnarsson*, Faktor, á Keblavík.
*Asgeir Asgeirsson*, Bóndi, á Rauðamýri.
*Ásmundr Jónsson*, Bóndi, á Ytrikleif.
Síra *Benedikt Sveinsson*, á Hraungerði.
Síra *Benedikt þórarinsson*, á Kirkjubæ.
*Bergr Gudmundsson Strandalín*, Lærdómsyðkari.
*Bjarni Andresson*, Bóndi, á Melgraseyri.
Hra. *Bjarni Bjarnason*, Faktor, á Isafirði.
*Bjarni Björnsson*, Bóndi, á Miðhúsum.
*Bjarni Jónsson*, Forlíkunarmaðr, á Skaptafelli.
Síra *Bjarni Pálsson*, á Felli.
Hra. *Bjarni þorsteinsson*, Amtmaðr, á Stapa, R.D.
Hra. *Björn Auðunsson Blöndahl*, Sýslumaðr, á Hvammi.
Síra *Björn Hjálmarsson*, á Tröllatúngu.
Hra. *Björn Olsen*, Administrator, á þíngeyrum.
*Björn Skúlason*, Bóndi, á Parti.
*Brynjúlfr Evertsen Wium*, Bóndi, á Ketilsstöðum.
Síra *Brynjúlfr Sivertsen*, at Utskálum.
Síra *Daði Jónsson*, Kapellan, á Dýrafirði.
Hra. *Ebenezer þorsteinsson*, Sýslumaðr, á Hjarðardal.
*Einar Einarsson*, Bóndi, á Presthúsum.
*Einar Einarsson*, Bóndi, á Skarðsbæ.
*Einar Eiríksson*, Bóndi, á Reinishjáleigu.
Síra *Einar Pálsson*, á Meðalfelli.
*Einar Pálsson*, Vinnupiltr, á Holtum.
*Einar Snorrason*, Bóndi, á Vestmannaeyjum.
Síra *Einar Sæmundsson Einarsen*, á þíngvöllum.
*Eiríkr Arnason*, Vinnupiltr, á Holtum.
*Eiríkr Eiríksson*, Bóndi, á Draumbæ.
*Eiríkr Jónsson*, Bóndi, á Flatey.
Hra. *Eiríkr Sverrisson*, Sýslumaðr í Mýra Sýslu.
*Erlendr Pètrsson*, Bóndi, á Hvoli.

*Erlendr Þorsteinsson*, Jarðegandi, á Þorvaldstöðum.
*Eyólfr Eyólfsson*, Vinnumaðr, á Vatnskarðshol.
*Eyólfr Haldórsson*, Bóndi, á Melrakkanesi.
Hra. *Frederik Svendsen*, Kaupmaðr, á Önundarfirði.
*Geirmundr Olafsson*, Vinnumaðr, à Oddsstöðum.
Síra *Gísli Auðunsson*, á Húsavíg.
*Gísli Gíslason*, Bókbindari, á Skörðum.
*Gísli Guðmundsson*, Bóndi, á Ingunnarstöðum í Kjós.
Síra *Gísli Jónsson*, á Stærra Arskógi.
Síra *Grímr Pálsson*, Prófastr.
*Guðmundr Arason*, Yngismaðr, á Uppsölum.
*Guðmundr Benediktsson*, Bóndi, á Rángá.
*Guðmundr Jónsson*, Hreppstjóri.
*Guðmundr Kristjánsson*, Vinnumaðr, á Keblavík.
*Guðmundr Magnússon*, Bóndi, á Skuggahlið.
*Guðmundr Schagfjorð*, Prentari, á Viðey.
*Guðmundr Stephánsson*, Bóndi, á Hnaukum.
Hra. *Gunnlaugr Oddsson*, Konsistóiral-Assessor, Dómkirkjuprestr, í Reykjavík.
Síra *Guttormr Pálsson*, Prófastr, á Vallanesi.
*Haldór Hallgrímsson*, Bóndi, á Bakka.
*Hallgrímr Hallgrímsson*, Bóndi, á Heiði.
*Hallgrímr Jónsson*, Djákn, á Sveinsstöðum.
*Hallr Jónsson*, Bóndi, á Túngu.
*Hallr Kristjánsson*, Vinnumaðr, á Geithellum.
Síra *Hjalti Thorberg*, á Kirkjubóli.
*Hjörtr Loptsson*, Bóndi, á Hvoli.
Síra *Jakob Arnason*, Prófastr, á Gaulverjabæ.
*Jóhannes Haldórsson*, Hreppstjóri, á Heidal.
*Jón Arnason*, Hreppstjóri, á Fagrhólsmýri.
Síra *Jón Austmann*, á Ofanleiti.
Síra *Jón Bergsson*, á Hofi.
*Jón Bjarnason*, Hreppstjóri, á Seljalandi.
Síra *Jón Einarsson*, á Holtum.
*Jón Eiríksson*, Silfrsmiðr, að Mýrartúngu.
Síra *Jón Gíslason*, Prófastr, í Hvammi.
*Jón Gíslason*, Fyrirvinna, á Stokkagerði.
*Jón Guðmundsson*, Bóndi, á Hofi.
Síra *Jón Haldórsson*, á Barkastöðum.
*Jón Hannesson*, Bóndi, á Núpsstað.
*Jón Jakobsson*, Bóndi, á Brekku.
Síra *Jón Jónsson*, á Kálfafelli.
*Jón Jónsson*, Vinnumaðr, á Randeyjarstöðum.

Síra *Jón Jónsson Reykjalín*, á Fagranesi.
*Jón Jónsson*, Húsmaðr, á Dalshöfða.
*Jón Jónsson*, Stúdent, á Leysíngjastöðum.
*Jón Klemensson*, Hreppstjóri, á Höfnum.
Hra. *Jón Kolbeinsson*, Kaupmaðr, á Stikkishólmi.
*Jón Magnússon*, Bóndi, á Höllustöðum.
Síra *Jón Mathíasson*, á Arnarbæli.
*Jón Pálsson*, Bóndi, á Asgeirsbrekku.
Hra. *Jón Salamonsson*, Faktor, á Reykjafirði.
*Jón Þorsteinsson*, Unglíngr, á Ketilsstöðum.
*Juchum Magnússon*, Bóndason, á Skógum.
*Ketill Jónsson*, Bóndi, á Svalbarða.
*Kolbeinn Magnússon*, Hreppstjóri, á Skógarkoti.
*Kristen Arnason*, Yngismaðr, á Saltvík.
*Loptr Guðmundsson*, Hreppstjóri, á Neðrahálsi í Kjós.
*Loptr Jónsson*, Bóndi, á Svínadal.
Síra *Magnús Arnason*, á Steinnesi.
*Magnús Guðmundsson*, Bóndi, á Saltvík.
*Magnús Guðmundsson*, Hreppstjóri, á Bæ.
*Magnús Jónsson*, Bóndi, að Kambi.
Síra *Magnús Magnússon*, á Glaumbæ.
Hra. *Magnús Stephensen*, J.U.D., Konferentsráð, á Viðey.
*Markús Rúnólfsson*, Bóndi, á Melrakkanesi.
*Nielsen*, Faktor, á Vopnafirði.
*Oddr Magnússon*, Ráðsmaðr, að Gröf.
*Oddr Sigurðsson*, Bóndi, á Breiðuvík.
Hra. *Oddr Thorarensen*, Apothekari, á Nesi.
*Oddr Ögmundsson*, Bóndi, á Kirkjubæ.
*Olafr Guðmundsson*, Stúdent, á Sveinsstöðum.
Síra *Páll Hjálmarsson*, á Stað.
*Páll Hjaltalín*, Verslunarmaðr, á Stikkishólmi.
*Páll Jónsson*, Bóndi, á Blómstrvöllum.
Hra. *Páll Melsted*, Sýslumaðr, á Ketilsstöðum.
Hra. *Páll Pálsson*, Amtsskrifari, á Stapa.
*Runólfr Sverrisson*, Vinnumaðr, á Maríubakka.
Síra *Salomon Björnsson*, á Krossi.
Hra. *Schram*, Factor, á Skagaströnd.
Síra *Sigfús Finnsson*, á Hofteigi.
*Sigfús Helgason*, Stefnuvottr, á Tröllakoti.
*Sigurðr Brynjúlfsson*, Jarðegandi, á Múla.
*Sigurðr Eiríksson*, Beikirsveinn, á Breiðfirði.
Síra *Sigurðr Gíslason*, á Breiðabólstað.
*Sigurðr Magnússon*, Bóndi, á Háagarði.

*Sigurðr Sigmundsson*, Bóndi, á Ormsstöðum.
Hra. *Sigurðr Sigurðsson*, Stúdent, á Eyrarbakka.
*Símon Sivertsen*, á Dynjandi.
Síra *Snorri Brynjúlfsson*, á Eydölum.
Hra. *Snorri Sæmundsson*, Stúdent, á Keblavík.
Hra. *Steenbach, C. M.*, Kaupmaðr, á Patrixfirði.
Hra. *Steenbach, Ole*, Kaupmaðr, á Stikkishólmi.
Síra *Stephán Arnason*, Vice-Prófastr, Kapellan til Valþjófsstaðar.
Hra. *Steingrímr Jónsson*, Biskup, R.D.
*Sveinn Arnason*, Hreppstjóri, á Eyjum í Breiddal.
Hra. *Sveinn Pálsson*, Handlæknir, á Vík.
Hra. *Sveinnbjörn Egilsson*, Adjúnkt, á Bessastöðum.
*Sölvi Sveinsson*, Bóndi, á Kirkjubóli.
Hra. *Thaae, C.*, Faktor, á Berufirði.
Síra *Thomas Sigurðsson*, á Garpsdal.
Hra. *Thorlacius, A. O.*, Kaupmaðr, á Stikkishólmi.
Hra. *Thorlacius, O.*, Kaupmaðr, á Bíldal.
Síra *Vigfús E. Reykdahl*, á Hofi.
*Þórarinn Einarsson*, Yngismaðr, á Selárdal.
Síra *Þórðr Haldórsson*, á Torfastöðum.
Hra. *Þórðr Bjarnason*, Stúdent, á Sviðholti.
Hra. *Þórðr Sveinbjörnsson*, Sýslumaðr, á Hjálmholti.
*Þórðr Þórðarson*, Jarðegandi, á Ytrikleif.
*Þórðr Þóroddsson*, Beikir, á Reykhólum.
Síra *Þorkell Arnason*, á Stöð.
*Þorlákr Jónsson*, Skólapiltr, á Laxamýri.
*Þorsteinn Gíslason*, Hreppstjóri, á Stokkahlöðum.
*Þorsteinn Þorsteinsson*, Bóndi, á Ketilstöðum.
*Þorsteinn Þorsteinsson*, Bóndi, á Heiði.
*Þorvarðr Gíslason*, Jarðegandi, á Höskuldsstöðum.

## I NORVEGI.

### I Aggershuss Stipti.

Hra. *Aall, N.*, Statsráð, R.D., R.N.O., í Skíðu.
- *Bang, A.*, Kadet.
- *Daae, L. C.*, Stúdent.
- *Debes*, Hæstaréttar Assessor, R.N.O.
- *Flintöe*, Landskapsmálari.
- *Galskjött*, Prestr til Vestraþóttns.
- *Hersleb*, Prófessor, R.W.O.
- *Lange, C.*, Stúd. Theól.
- *Munch, P.*, Stúdent.
- *Munthe, G.*, Kaptein.

Hra. *Mörch*, *A.*, Prestr.
- *Petersen*, Bergráð.
- *Robert*, *C.*, Apóthekari.
- *Wedel-Jarlsberg*, Statsráð.
- *Wessel-Berg*, *F. A.*, Stúdent.
Háskólans Bókasafn í Kristjaníu.
Hið Deichmanska Bókasafn í Kristjaníu.
Meðalskólans Bókasafn í Lárvíg.

I Kristjanssands Stipti.

Hra. *Aall*, *J.*, R.D., R.N.O., á Nesi.
- *Múnch*, *J. St.*, Biskup, R.N.O.
Stríðsmannanna Bókasafn í Kristjánssandi.

I Björgvinar Stipti.

Hra. *Christie*, Stiptamtmaðr, C.N.O.
- *Fritzner*, *E. C.*, Adjúnkt.
- *Grieg*, *J.*, Kaptein.
- *Konow*, *W.*, Konsúl.
- *Konow*, *A.*
- *Nagell*, *H.*
- *Nielsen*, *N.*, Prófastr í Norðrfirði.
- *Pavels*, *P.*, Prófastr.
Stólskólans Bókasafn í Björgvín.

I Þrandheims Stipti.

Hra. *Knudtzon*, *Bróðir*, Stórkaupmaðr.
- *Trampe*, Greifi af, Stiptamtmaðr, C.N.O.
Hið Konúngl. Norska Vísinda-Fèlag.

I Norðrlanda og Finnmarkar Biskupsdæmi.

Hra. *Kildal*, *S. N.*, Prófastr.

I SVIARIKI.

Hra. *Afzelius*, *A. A.*, Hofprèdikari, í Enkaupángi.
- *Atterbom*, Prófessor, að Uppsölum.
- *Collin*, *H. S.*, J.U.Dr., í Stokkhólmi.
Hs. Excell. Hra. Greifi *Claes Fleming*, Einn af Ríkisins Herrum, Ríkis Marskálk, R. og C. af K. H. Orðunum &c.
Hs. Excell. Hra. *J. de la Gardie*, Einn af Ríkisins Herrum, General-Löitenant, R. og C. af K. H. Orðunum &c.
Hra. *Kroningsvärd*, Hèraðshöfðíngi, í Falún.
- *Richert*, *J. G.*, Expeditiónssekretèri, í Stokkhólmi.
- *Schlyter*, *C. J.*, J. U. D., í Stokkhólmi.
- *Wallmark*, Kancellíráð, í Stokkhólmi.

